Um

# sannrar Guðhræðslu

## uppbyrjun og framgáng

í

## manneskjunnar sálu.

---

Samanskrifað í fyrstu á Engelsku, síðan, vegna síns ágæta innihalds, útlagt á ýms Norður-álfunnar túngumál; og nú síðast á Íslenzku,

af

Jóni Jónssyni,
Presti Grundar- og Möðruvallna-safnaða.



---

Kaupmannahöfn.
Prentað í S. L. Möllers prentsmiðju.
1839.

# Formáli.

## Öllum gudliga eptirþánkasømum lesurum, heilsa og fridur!

Hérmed frambýdst ydur, **kærir vinir!** bók til lesturs, og gudrækiligs eptirþánka; því sé eptirþánkinn ecki þesshàttar, dugir hann eckí til ad ná augnamidi bókarinnar. Eptirþánki án Gudrækni, er sem nyt fyrir utan kjarna; en Gudrækni án eptirþánka, sem fræ án frjófgnnar. En hvad er þá Gudrækni? Eg svara: þvílíkt hjartalag, sem stødugliga leitar Guds dýrdar, med ad stunda réttiliga sína og annara sálarheill. Guds dýrd og vor heill hánga svo fast saman, ad enginn fær adra rækt, nema bádar ræki. Upplýsing skynseminnar, (sem er eptirþánkans ávøxtur), án Gudsótta, vinnur manni líkan ard, sem nautn þess forbodna eplis vorum fyrstu foreldrum; en Gudsótti, ef sannur er, er upphaf vísdómsins (Ordskv. 9, 10). Heimur þessi hefir lengi haft lángtum meira af mannligum vísdómi, enn af Gudsótta; því fyrír óregluliga eptirsókn hinns fyrra, tapadi manneskjan þeim sídara í ondverdu. Þessvegna hlýtur hún nú, ef hún vill aptur sinni topudu lucku ná, ad keppast meir eptir sønnum Gudsótta, (edur Gudrækni), enn eptir mannligum vísdómi. Allar þær bækur sem frambjóda ad eins þad sídara, (eg vil ecki tala um, ef annad lakara á bodstólum hafa), eru mest fyrir heilann,

en ecki fyrir hjartad; en þær sem Gudræknína kénna, framar fyrir hjartad, enn heilann. En án þess betrunar, er upplýsíng hans littnýt. Þessvegna ætti madur, framar ollu, ad sorga fyrir betrun hjartans, og þá verdur vísdómurinn manni fyrst ad sonnum notum. En — sú betran þess verdur þó ad vera rétt evangelisk; sé hún annarar artar, dugir hún vart fyrir Gudi. Eru því allar þær bækur, sem hana kénna, og til hennar uppvekja, nytsamligastar allra bóka. Er sú heil. Ritníng sannarliga hin ypparsta allra þvilíkra, og allar þær bækur, til þessa augnamids litandi, sem ecki eru eptir hennar anda lagadar, eru ecki ad eins ónýtar, heldur í rann og vern skadligar. Nú kynni einhvorr spyria: þyrftu menn þá, í sogdu tilliti, annara bóka vid enn Ritníngarinnar? Eg svara: ad vísu ecki! væri hún réttiliga brúkud. En, nú er ecki því máli ad gégna. Því þar sem heil. Ritníng er lík þeirri blómstur mork, sem ad sonnu algróin er med allslags nytsamlignstu jurtategnudum, en þær sem þó eiginligast til lækníngar héna, eru sem á víd og dreif, innan um hinar, og þarf þessvegna ædi fyrirhofn til ad lesa þær saman, og til ad færa sér þær sídan réttiliga í nyt; þá láta helst ofmargir, sem hana lesa, þad ógjort; og lesa hana, þegar best gjorir, med sama hugarfari, sem sá, er geingur útum algróin grashaga, til ad skémta augum sínum, án þess ad leita sér annara gagnsmuna. En þar eru og margir, sem hana sjaldan edur aldrei lesa, þó hún í húsum þeirra sé; þar sumir þeirra þykjast efni hennar svo kunnugir, ad þeir þurfi þess ecki; en adrir, sem leita sér helst holdligrar ánægju, af flestu því þeir heyra og sjá, þykjast eckért, (sem von er), þad í henni

finna, sem þénað géti til að seðja hana; og hafa þessvegna undir niðri framar leiða á Ritníngunni, enn öðrum bókum. Til þess nú, ef auðið væri, að koma í veg fyrir þá hræðilign ólucku, sem af þessu ris, hafa ýdngliga samdar verið aðrar bækur, út af heil. Ritníngu, bæði til þess að hvetja fólk til að lesa hana og lesa réttiliga, og líka til að greiða götu þeim, sem í hennar lærdómum leita vilja sálum sínum heilsubótar; þar í slíkum bókum, eru samanlesin, og sem í vissa flocka niðurraðað, þeim lífgrösum, sem í þessum Guðs andliga aldingarði, líka sem á víð og dreif spretta, svo þeir sem vilja géti geingið að þeim vísum í einu lagi, sem móti þeim eður þeim sálarsjúkdómi til lækníngar þéna; (en er þó undireins bendt til þeirra staða, í Ritníngarinnar heil. sáðreit, hvar þessar heilsubótar jurtir eru að finna, til þess að leitendur og brúkendur, géti sjálfir líka svo fundið þær, og sannfærst um, að þær séu úr þeim heil. aldingarði teknar, en ecki annarstaðar frá); svo eru, til dæmis, samansafnaðar í einn flock jurtir þær, sem trúarlærdóminum og hans atriðum tilheyra, og sömuleiðis þær sem siðalærdóminum viðvíkja. Þannig eru, í tilliti hins fyrra, atriðin um þann eina Guðdóm að verunni til, auglýstan undir þremur svokölluðum persónum; um manneskjunnar spillíngu af syndinni; um Guðs Sonar holdtekju og híngaðkomu augnamið; um mátann til að öðlast Guðs náð fyrir Sonarins meðalgaungu; um undirstöðu, náttúru og afleiðingar sannrar umvendunar fyrir verkun heilags Anda og fl. Allir þessir lærdómar, bygðir á Ritníngarinnar samantekunm vitnisburðum, verða nú framsettir í bókum þeim, sem eg áminntist, að viðbættum kroptugum sannfæríngum,

til ad sýna ofan á þeirra nandsýn og nytsemi eptir því sem sérhvørs ritþofunds gáfa gétur best í té látid. Einganvegin eiga menn þó, fyrir þetta, ad vanrækja sjálfa Ritnínguna; nei, lángt frá! miklu heldur á hinna bóka lestur, ad upporfa þá því heldur til ad lesa hana sjálfa; svo trú þeirra ecki bygd sé einúngis á mannlígum, heldur á guddómligum vitnisburdi; en þær þéna adeins til ad sannfæraſt því betur um þann sama vitnisburd. Nú svo sem þad ecki er nóg einum sjúklíngi, ad vita, ad í líkama sínum búi banvænt sjúkdóms tilefni; ecki nóg ad vita af læknismedali, sem, réttiliga brúkad, géti þad sama upprætt; ja, ecki nóg, ad vita nockurnvegin mátann á hvilíks medals brúkun; svo sem þetta eckért er nóg, segi eg, nema madur taki þá af alvoru til ad brúka þad sama medal, eptir fyrirsettri reglu; allt hid sama er um voru synda-sjúkdóm ad segja. Flestir kristnir vita líkliga, ad syndin er banvæn sálunni; vita, ad fridþæging Jesú er þad einasta og algilda læknismedal vid syndinni; vita, ad ydran, trú og lífernisbetran er sú rétta adferd ad nota sér medal þetta; en bædi sökum þess, ad menn sjaldan finna til mikilla þjáninga af þessum sjúkdómi sínum, en mátinn, sem brúkun læknismedalsins fylgir, er náttúru manns yfrid ógédfeldur, þá innbirla menn sér, ad sjúkdómur sinn sé ecki svo banvænn, sem af sé látid, ad tilfinningarleysi hans sé batamerki, (sem þó er þvert á móti), og ad medalid hrífi eins vel móti honum, þó ecki sé svo strángt fylgt þeim fyrirsettu reglum, vid brúkun þess. Þessi er einhvørr hinn allraskædasti villudómur, midt á medal sjálfra þeirra kristnu; og þó svo djúpt innrættur, ad þad er þad af öllu torveldasta — en þó stórnaudsýnlig-

asta, — verk, ad burturýma honum; og søkum þess þad tekst svo bágliga, verda, æ því midur! margar sálir ógæfuligar; og þad af þeirra hóp, sem heita þó ad hafa bókstafliga rétta, bædi þeckingu og játníngu Kristindómsins sonnu atrida; því um hina er ecki ad tala, sem bædi reingia medalid og mátann; þeir eru sjálfdæmdir; (af hvorjum þó sýnist allt of mikid til vera, á þessum vantrúar tímum). Eingu ad sídur hafa þó margir Guds menn, fyrri og sídar gjort bestu tilraun til ad burturýma slíkum villudómi; sem þeim hefir mikid misjafnt luckast; en tilraunir allra þeirra, sem jafna alúd sýnt hafa, þó misjafn hafi ávorturinn ordid, munu þó jafndýrmætur fyrir Gudi vera; því þad er mannanna ad planta og vokva, en Guds ad géfa ávortinn. Ad vísu hefir sú andvaralausa verold mest horn í sídu þessara, þar þeir koma sárast vid kaun samvizkunnar. Vandláta útvortis sídferdis kénnendur gétur hún lángt heldur lidid, enda þá trúarlærendur, sem helst leitast vid ad upplýsa skilníngium, eda umvendunar- og ydrunar-prédikara, — og þær bækur sem mest þar um hondla, — sær hún síst umborid; þeir eru henni þyrnir í auga; og þó rídur henni á eingum kénníngum edur kénnurum meira. Medal hvílikra bóka er nú ein sú, er eg hér med frambýd minum landsmonnum; þar eg veit fyrir víst, ad þeir hafa þorf á slíkum kénníngum og ritgjordum ollu framar, ef vel skal fyrir þeim fara. Sjálfur vil eg ecki bók þessari hrósa, (jafnvel þó eg mætti þad, þar hún ecki er mitt verk), heldur ad eins framfæra ord annara hálærdra Gudsmanna; til dæmis: þess nafnfræga Mosheims, í formála hans fyrir útleggíngu hennar á þýdska túngu, þar hann kémst svo ad ordi: "ad því optar madur lesi hana,

"(nefnilíga med andagtugu hjarta), því meiri smeck finni "hann í lestri hennar, og honum géti því aldrei leidst ad "lesa hana." Í formála sínum fyrir útleggíngu hennar á dönsku, skrifar Mag. M. Hviid á þennan hátt: "hafi "nockurntíma á Englandi komid fyrir sjónir ypparlig "ritgjörd, sem maklig sé þess, ad verda med stakligri "laungun og eptirþánka af öllum lesin, þá má bók þessi "í sannleika segjast ad vera þvílik; hún er ad sönnu ecki "allstór ad verti, en sannarliga yfrid stór ad vigtugleika". Og aptur segir hann svoleidis: "Eg hefi med allrastærstu "gledi lesid bók þessa; lesid hana aptur og aptur med "stóru, og í hvort sinn, med stærra húngri." Og hann vonar med vissu, ad margir adrir, ef þeir med gaumgæfni lesa hana frá upphafi til enda, muni verda hér um á sinn og Mosheims máli. Hann álítur hana jafnþénanliga fyrir lærda sem ólærda; þar öllum ridi eins mikid á ad þeckja sálar ástand sitt, og komast í sátt vid Gud, fyrir sanna umvendun.

Nú er ad minnast fátt eitt á sjálfan adalhöfund
+1750 bókar þessarar: hann hét Philipp Doddridge, opinber kénnifadir í gudfrædinni, og Rector vid háskólann í Nordur-Hamptúnum á Englandi. Hann lifdi á fyrra parti nærstlidinnar aldar, og var fyrir sinn lærdóm og frábæru kappsmuni, ad efla Guds dýrd, og Krists safnadar uppbyggíngu, nafnfrægur. Eptir hann liggja mörg ypparlig ritverk, öll í miklum metum; en þó, — ad sjálfs hans vidurkénníngu — eingu móti tekid, med jafn-stórri ánægju, sem þessu; þad hefir þessvegna verid margopt upplagt í þess upprunna túngumáli, Engelskunni, en þar fyrir utan hefir því snúid verid, á mörg önnur evrópisk túngumál, og ordid vissuliga mörgum

kraptur Guds til sáluhjálpar. Í bókmála þessum verdur manneskjunni kénnt greiniliga ad þeckja, hvort hún í nádarinnar standi sé, edur ecki; og hvílíkur skélfiligur háski yfir henni vofi, svo lengi hún þad ecki er; þarnæst verdur henni sýndur máti til þess, hvorsu hún, fyrir sanna umvendun til Guds, géti í þad blessada stand komist; í þridja lagi hvornig hún fái í þessu sama stödug stadid allt til enda, en þó undir eins fyrir sjónir settar þær margföldu hættuligu freistíngar, sem hún á veginum til himins sífeldliga vidbúast meigi og móti strída; loksins fylgir rithöfundurinn henni allt ad daudans portdyrum, og kénnir henni hvornig hún dáid géti ecki ad eins sáluhjálpliga, heldur og med hughreysti, jafnvel med sigurhrósi trúarinnar. Já, svo er bók þessi med kroptugum og sannfærandi ordum og roksemdum samanskrifud, ad hvörr sú manneskja, sem minsta neysta gudligrar eptirþánkasemi hefir í hjarta sínu, hlýtur, ef hún med gaumgæfni les hana, ad finna til þess í samvizku sinni, hvorsu ad sönn umvendan sé sér aldeilis ómissandi ef hún vill í Gudsríki innkomast; hvorsvegna ad lestur þessa rits er öllum yfirmáta naudsýnligur. En sá sem einga list hefir til, heldur jafnvel leida á lestri þesshattar bóka, — sem samvizkuna helst uppvekja, — um hans sálar velferd er einga góda von ad hafa, medan hann tekur ecki sinnaskipti. Þó samt er lesturinn einsamall einganveginn nógur, nema honum, — sem ádur er sagt, — fylgi eptirþánki; ecki eptirþánkinn, nema hann sé fullur af audmýkt; ecki audmýktin, nema hún verki sjálfsprófun; ecki sjálfsprófanin, nema heit ydrunarbæn uppvakni; ecki bænin, nema undir hennar æfingu kvikni trúin; og ecki trúin, nema hreinskilin innvortis og útvortis betran á

eptir fylgi. Þessvegna ályktar rithöfundurinn sérhvorn kapitula í bókinni med hjartnæmri bæn, fullri af andmýkt, sjálfsprófun, ydrun og betrunar ásetningi, eptir því sem best gétur efninu svarad. Jafnvel þó nú bók þessi géti ad sönnu til húslestrar þénad, er hún þó helst lögud til ad lesast í einrúmi, med gaumgæfni og andagt, fyrir Guds augliti; enda er það sama, ad allir opinberir húslestrar eiga ad verka hjá fólki og vekja girnd og ástundun heimugligs lesturs Guds orda, og bænarinnar í einrúmi; verki þeir þetta ecki, er hætt vid þeir séu ecki nema eintóm vana cerimonía, sem Gud hefir einga velþócknan á, af því hún framleidir einga sanna hjartans betrun, þó minnid og skilníngurinn máské dálitid upplýsist.

Er þá sú mín hjartans innilig bæn til lifanda Guds, ad bók þessi, nú loksins á vort módurmál útlögd, verki hjá mörgum sinna lesanda, það sem hennar augnamidi sambýdur; nefniliga: ad þeir andvaralausu, sem í syndinni sofa, uppvakni! ad þeir uppvöknu, en þó efasömu, til sannrar trúar á Jesúm Krist leiddir verdi; og ad þeir trúudu odlist djörfúngu, hugrecki og stödugljndi í því góda; svo þeir í tilkomu Drottins vors Jesú Krists, finni sig orsök hafa, ad þacka Gudi og vegsama hann fyrir það, ad hann gaf þeim tækifæri ad lesa, ásamt heil. ritníngu, og ödrum gódum bókum, líka svo ritgjörd þessa, er kénndi þeim og hvatti þá í tíma ad umflýa þá tilkomandi reidi!

Mödrufelli þann 5ta Aprilis 1837.

Jón Jónsson.

# 1ti Kapítuli.

## Höndlar um augnamið bókar þessarar og segir frá hennar innihaldi.

§. 1. Ef vér með athugasemi skygnumst umkríng oss, og virðum fyrir oss ástand mannanna, sjáum vér berliga, að jafnvel þó þeir séu þær einustu sképnur Guðs hér á jörðu, sem færar eru til að þeckja Skapara sinn og dýrka hann, vanrækja þó margir þeirra skammarliga þá skyldu sína, svo það er degí ljósara, að það er lángt frá því, að Guðhræðslan sé algengin, og finnist hjá öllum mönnum.

§. 2. En hvað er þá það, sem kallast Guðhræðsla? „Hún er, í fám orðum að segja, þvílík ímyndan um Guð, og sannfæríng um skyldur vorar við hann, samt um það, að vér í öllum hlutum séum uppá hann komnir, þvílík sannfæríng, segi eg, sem knýr oss til að leggja alla ástundun á, að hegða oss svo, að honum líkað géti vort framferði." Þegar vér nú álítum Guðhræðsluna í þessu falna, þurfum vér ecki að fara til villuþjóðanna í Afríku og Ameriku til að finna dæmi þeirra manna, sem hvorki þeckja né æfa sanna Guðhræðslu; því ef vér athugum hegðun fólks hér heima hjá oss, í því landi, sem þó kallast kristið, og hvors innbyggjendur hafa Guði fyrir svo mikið gott að þacka, þá má spyrja: hvort nockur vogast til segja, að sönn Guðhræðsla búi hér almennt ámeðal manna? Eða sýnir lifnaður fólks það, að hún drottni hér í hjörtum þeirra flestu? O! mun ecki Guðs nafns og hans hvíldardags óttaliga misbrúkan, dryckjuskapur, rángsleitni, lauslæti, undirferli, svall, sérplægni og fráleitt hirðuleysi um allt það, sem snertir eigin og annara and-

liga og eylífa velferd: mun ecki allt þetta sýna oss berstýnilig merki þess sinnislags, sem strídir þvert á móti sannri Gudhrædslu, svo madur mætti ímynda sér, ad flestir þenktu, ad hirdulevsi í sálarinnar efnum sé framar æra enn minkun; því hvar er ad finna sveit þá edur sókn, edur jafnvel heimili, hvar madur, ef hann rétt adgáir, géti sagt: ad sönn Gudhrædsla hafi sér þar bústad tekid? Ad visu eru þeir menn til, sem fríir eru frá útvortis stórklækjum, jafnvel lifa sómasamliga og rækja Guds-hús all-dyggiliga, en samt og ádur finnast þó midt í ollu þessu hjá þeim engin víss merki hinnar réttu Gudhrædslu, sem heil. Andi verkar; ei verda menn hjá þeim varir neinnar innilígrar audmýktar fyrir Gudi og elsku til hans; engrar sannarligrar girndar eptir hans nád og sameiníngu. Trúin á Krist er hjá þeim dádlaus, svo þeir bera enga umsorgun fyrir, ad sneida hjá eylífri fordæmíngu, er þeir med syndum sínum tilunnid hafa, og enga hjartanliga áhyggju fyrir ad odlast eylíft líf, sem Kristur sínum trúudu afrekad hefir. Já! hvorsu mjog sem kærleiki til vina vorra, til foreldra, egtamaka og barna, vill koma oss til ad vona hins besta um ástand þeirra, hljótum vér þó naudugir, af sogdum ástædum, — hvorsu vel sem oss vid þá er, og hvorsu stóra elsku sem þeir oss audsýna — ad álykta: ad sönn Gudhrædsla hafi ennú ecki fest rætur í þeirra sálunr.

§. 3. Þetta er þó einhver hin hormuligasta tilhugsan fyrir hvorn þann, sem Guds ordi trúir, og álítur hvad mikid sé hér í húfi, í tilliti mannanna ástands í eylífdinni; og í sannleika ad segja, eru allar adrar þjáníngar og bol, sem mannlig náttúra undirorpin er, sem ekkert ad reikna hjá skorti sannrar Gudhrædslu, og hjá þeirri mótstrídu gégn henni, er býr í þúsund manneskja hjortum. Yrdi adeins á þessu boli bót rádin, gæti engin onnur ólucka svo stór ordid, ad hana væri ecki audveldt ad umbera, já, hún mundi þá þéna oss til hins besta. En fái þetta ádursagda skadrædi rætur fest, mun þad, einsog Postulinn segir (Róm. 7, 5) bera daudanum — já, þeim eylífa dauda — ávöxt til fordæmíngar. Já, efalaust mun hér af fljóta,

ad margir þeirra, sem ásamt oss notid hafa Guds velgiørda í þessu lífi, verid oss tengdir og nákomnir og ysrid hjartkærir, munu innan fárra ára frá oss slítast og steypast í þá ýtrustu hormúngu, nefnilega til ad kveljast í þeim eldi, úr hvørjum engin endurlausn er ad eylífu.

§. 4. Ecki vil eg efast um, ad ýmsir þeirra, sem settir eru til ad vaka yfir annara sálum, og sjálfir hafa nockurn neista af Guds ótta í sér, svo vel foreldrar sem prestar, er setja sér þetta hormuliga ástand fyrir sjónir, munu ecki einúngis klaga yfir þessu ástundum opinberliga, heldur ogsvo heimugliga sárbarma sér út af því fyrir Gudi, já hjartanliga girnast, ad géta á því nockra bót rádid. Medal þessara reiknar sá sig, sem bók þessa í øndverdu samid hefir, og segir, ad sú einasta tilknýandi orsøk til ad semja hana hafi sú, og engin ønnur, verid, ad reyna þarmed til, ad uppvekja sanna Gudhrædslu í einhvørra þeirra hjørtum, sem hana lesa kynnu edur heyra lesna; þar alls eckért erfidi og enginn tilkostnadar sé neins verdur, ef madur frelsad gétur þarmed eina manneskju frá eylífum dauda, hvad þá ef fleiri yrdu; og allur ábati og æra, sem madur þar fyrir utan áunnid gétur, er fyrir þreck ad reikna, hjá þeirri luckn, ad ávinna eina sálu til eylífs lífs. Þarfyrir med því bók þessi á ecki ad þéna til ad útvega hennar høfundi hrós fyrir háan lærdóm og mælsku, heldur til þess hún þénad géti jafnvel þeim einføldustu til ad sannfæra þá og uppvekja, til ad sorga af alvøru fyrir sálu sinni, þá er hún samin med tilgiørdalausu ordalagi, rétt einsog madur brúka vildi vid barn sitt eda bródur, ef hann í einrúmi tæki hann afsídis dagliga dags, til ad setja honum, út af Guds ordi, fyrir sjónir ástand sálar hans, og til ad upphvetja hann til ad sneida hjá fordæmíngunni. Nú þó sumir kunni ad álíta þetta med forakti, og kalla þad grillur einar og sérlyndi, er þad einkis metandi, já glediligt ad lída, géti madur adeins fengid nockra til gudligs eptirþánka vakid.

Ó! ad þeir sem þá híngadtil lifad hafa án sannrar Gud-

hræðslu, yrðu við lestur rits þessa uppvaktir, til að yfirvega hennar rétta eðli og ómetanligu nauðsýn; já, og að jafnvel þeir, sem nockra reynslu hennar áður, fyrir Guðs náð, í hjarta sínu, fengið hafa, gætu upphvast til að taka enn meiri framforum og staðfestu í hennar æfingu! Þá væri ómakið fyrir þess útgáfu margfaldliga umbunað.

§. 5. En þess biður höfundur (svovel sem þýðandi) rits þessa, að þeir, sem það lesa eður heyra, hlýði á þess allramikilsvægasta innihald með stærstu alúð og athuga; hann biður að þeir lesi það opt yfir með sjálfum sér, og í einrúmi þeinki um það inniliga með sér; og að þeir haldi það fyrir satt, að þær áminníngar og aðvaranir, sem í því framkoma, spretti af kærleiksfullu og hreinskilnu hjartalagi, sem ecki vildi einni einustu manneskju olla minstu óþarfrar hugsýki og gremju; en af því höfundurinn ímyndar sér, að vanrækt sannrar Guðhræðslu og yfirtaks hirðuleysi um hagi sálarinnar, verði flestum mönnum til fortöpunar, og að flestir þeirra, sem bók þessi í hendur kémur, verði með því marki brendir, þá neyðist hann til að láta þær áminníngar sínar stundum vera í skarpara lagi.

§. 6. Sá mætti vera grimmúðugur heiðíngi, og ómakligur alls, kristinn að kallast, sem meðaumkunarlaus gæti séð uppá þjáníngu náúnga síns, og sem, að minsta kosti, ei skeytti um að æskja sér, að það stæði í valdi sínu að mýkja úr henni. Já, heimur þessi mundi vissuliga verða þeim manni að paradís, sem gengið gæti umkríng og útbýtt blessun og farsæld til allra, og þó það ecki væri nema í tilliti líkamans og lífs þessa; luckuligir voru því Jesú Postular, sem forðum voru af Guði útvalin verkfæri, til að géta, á yfirnáttúrligan hátt, læknað sársjúkar manneskjur, gjört blinda sjáandi, dausa heyrandi og dauða lifandi; en þetta var þvílík æra og lucka, sem Guði þóknast nú ecki framar að veita dauðligum manneskjum. En svo mikil æra og lucka, sem þetta var, þá er þó sú enn nú stærri, (hvor, lofaður sé Guð! enn þá er við líði og alltíð verður), að Guð af sinni náð brúkar vissa menn til verkfæra, að meðdeila sínum

medmanneskjum þúsund stærri farsæld, enn þá líkamligu. Nú eru þeir menn fyrir laungu andadir, sem Gud á fyrri tímum brúkadi til ad lækna líkami annara á yfirnáttúrligan hátt; og somuleidis eru þeir dánir fyrir laungu, sem Postularnir uppvoktu frá daudum; en þær sálir, sem fyrr edur seinna móttoku veitt hafa Guds nád í Evangelió, og urdu því edur verda á andligan hátt læknadar og lífgadar, þær halda fenginni heilsu og lífi eylífliga. Gud hefir á ollum tímum látid sinna þénara andligu lækníngar færa þessa blessudu ávexti; og jafnvel þó þúsundir af þeim dánir séu, þá talar hann samt enn nú fyrir þeirra eptirlátnu ritgjordir og ávoxtinn af athofnum þeirra.

O! hvorsu lukkuligan teldi eg mig þá, ef mér audnadist þessi æra, ad verda medal til ad lækna og lífga nockra andliga sjúklínga, þá mundi eg í lífi og dauda af hjarta gladur verda; já, gladur í Gudi, þeirra og mínum Heilsugjafara.

§. 7. Petta, sem sagt er, á nú ad vísu ad vera hofudinntakid þessarar minnar ritgjordar; en þar eg vil forga fyrir, ad hún, svo lítil sem hún er, géti þó, ef audid væri, ordid ollum til nota, sem hana lesa kunna, þá vil eg láta hana innihalda nockud þad, sem sérhvorjum gétur til gagns komid. Pessvegna vil eg fyrst athuga manneskjuna einsog hún er af náttúrunni, og þarnæst ad því leiti sem hún er og á ad vera sem kristin manneskja. Eg vil því fyrst snúa mér til eins, medal þeirra ótal uggalausu manneskia, sem allt ad þessu verid hafa rétt affkiptalausir um sanna Gudhrædslu, og reyna til ad snúa honum. Eg vil med allri alúd leitast vid ad uppvekja hann af sínum háskaliga synda svefni, sem hann liggur í (kap. 2); og knýa hann til tafarlausrar umsorgunar fyrir sálu sinni (kap. 3). Eg vil reyna til ad uppvekja í samvizku hans alvarliga, en þó naudsýnliga, hrædslu, med því ad sannfæra hann um, ad Guds straff yfir honum vofi (kap. 4), og undireins svipta hann ollum hans ógildu afbotunum og táldragandi von (kap. 5). Eg vil birta honum (og, ó! ad þad gæti gengid honum til hjarta), þann skélfiliga dóm, sem almáttugur og réttlátur Gud hefir

fellt yfir syndarann (kap. 6); eg vil sýna honum ofaná, í hvorsu hormuligu ástandi hann staddur sé undir slíkri fordæmíngu, og ad honum sjálfum sé aldeilis ómoguligt ad frelsa sig þar frá (kap. 7). Þó hugsa eg ecki ad skilja svoleidis vid hann og láta hann vera hjálparlausan í þvílíku skélfiligu ástandi; heldur vil eg boda honum þau gledi-tídindi, ad til sé fyrirgéfníng syndanna og óforþént nád og sáluhjálp í Jesú Kristó; uppá hvorn grundvöll einúngis eg sjálfur byggi alla mína sáluhjálpar von (kap. 8). Ad því búnu vil eg sýna þann rétta máta, hvornig þessi nád fengist gæti (kap. 9), og telja syndarann, med mestu ástsemi, til ad færa sér hann í nyt (kap. 10); jafnvel þó madur aldrei géti talad um efni þetta svo hjartanliga, sem þyrfti, þar þad snertir mannsins ódaudligu sálar frelsi edur fortopun, og þad eyliífliga.

§. 8. Nú er þad all-líkligt, ad sumir géfi þessu engann gaum ad heldur, og verdi eins andvaralausir eptir sem ádur; þá til þess ad þeirra hormuliga ástand gjori enga hindrun á framhaldi þessa allra naudsýnligasta efnis, vil eg skilja vid þá sömu (kap. 11), og snúa mér, med inniligustu medaumkun, til þeirra, sem als annars sinnis eru. Eg meina til þvílíkra sálna, hjá hvorjum uppvakid er lifandi ángur og hrygd, út af fjölda synda þeirra, og sem titra svoleidis undir þeirra byrdi, einsog öll þeirra von til Guds nádar sé gjörtöpud (kap. 12); og svo ad engu gleymt verdi, sem fridstillt géti slíkar óróligar sálir, þá vil eg leitast vid, ad leida fram þau ótvirædustu kénnimerki til hreinskilins ángurs fyrir syndirnar og sannrar lifandi trúar (kap. 13); sem eg vil enn framar sanna, med ad yfirvega þad ýmisliga sinnis ástand kristins manns, sem þénad géti lesaranum til ad dæma um, í hvorju standi hann sjálfur sé, og sýna honum hvílíkur hann skuli leitast vid ad verda (kap. 14); og þetta bendir oss þá undireins til þess, hvorsu mikiliga vér þurfum vid heil. Anda styrks og adstodar, til þessa allra naudsýnlegasta en þó torveldasta erfidis, nefnil. ad gjorast sannkristnir. En svo ómissanlig hans adstod er, svo fullvissir megum vér vera, ad Gud

muni veita oss hana, og svo stórra hlunninda megum vér oss af henni vænta (kap. 15). Hér eptir vil eg halda lengra áfram, og hugleiða þau ýmisligu tilfelli, sem opt mæta í lifnaði eins kristins manns; í hvorju tilliti að þörf er á, að tala til samvizknanna, á sjakligan hátt.

§. 9. Nú svosem þar eru ýmisligar hindranir og torfærur, sem mæta þeim, er fyrst tekur til að lifa heil. líferni, svo hlýtur það að vera vor fyrsta umsorgun, að upphvetja hann til að yfirvinna þær (kap. 16); og til þess þetta géti háft þess stærri verkun, vil eg áfýsa hann til þess, að hann ofurselji sig Guði af allri alvöru (kap. 17); og inngángi svo í kyrkjunnar samneyti, með því að halda sig kostgæfiliga til Guðs, hans orðs og hinnar heil. kvöldmáltíðar (kap. 18); og til þess, að allt þetta géti þess lukkuligar framkvæmst, þá vil eg leitast við að gefa nockra stakliga forskrift um það, hvorsu kristinn maður skuli regluliga og andagtugliga hegða líferni sínu dagliga dags (kap. 19); og jafnvel þó forskrift þessi nái nockru víðara til, enn menn almennt — jafnvel sannkristnar manneskjur — plaga að gánga, vil eg samt leitast við að telja lesarann á, að reyna til að laga sig eptir henni, hvorsu þúngt og torsókt sem hans holdi og blóði það í fyrstu finnast kann (kap. 20). Hér að auki finn eg mig skuldbundinn að vara hann við ýmisligum freistíngum og háskasemdum, sem hann annars kynni að falla í, og villast til uggaleysis og synda (kap. 21).

§. 10. O, hvorsu lukkuligur er nú lesarinn, svo framt hann gefur þessum áminníngum gaum, og metur þær sem vera ber. En — Guð náði! af því svo hætt er við því, að náttúrunnar breiskleiki — þrátt fyrir allt þetta — fái yfirhönd hjá oss, þá viljum vér hugleiða kaldlyndi það og dofinleika, sem tíðum ófyrirsynju þrengir sér inn hjá oss (kap. 22), og sem lagt gétur auðveldan, en óttaligan, veg til að falla á ný frá Guði í ásetníngs syndir (kap. 23); og þar sem þessi tilfelli — svo vel það eina sem annað — kunna merkiliga að olla því, að sá réttláti Guð hylji sitt náðar-auglit fyrir oss, og svipti oss

sínum heil. Anda, þegar vèr þannig mødgum hann, þá viljum vèr sèrílagi skoda þetta hryggiliga ástand eins kristins manns (kap. 24); og sídan, þar á. eptir, þær margføldu og þúngu hørmúngar, sem þessu lífi stundum fylgja (kap. 25), sem eru refsíngar Guds, er þeir bestu medal manna hafa þó orsök ad búast vid, já, eru þeim naudsýnligar, þegar þeir taka ad snúa bakinu vid Gudi, og láta sigrast af sínum andligu óvinum.

§. 11. Dæmi til þesshattar óttast eg ad séu alltof algengin; en engu ad sídur vona eg, ad þar séu líka margir adrir, hvorra stígir eru sem ljómanda ljós, sem framgengur og lýsir inn til hæsta dags, Okv. 4; og þessvegna vil eg á þann besta hátt, eg gét, hjálpa þeim kristna til ad dæma rétt um aukníngu nádarinnar í sinni sálu (kap. 26), einsog eg hefi ádur gjørt í tilliti þess, hvort hún sønn og einlæg sé. Og svosem enginn hlutur styrkir framar til, ad efla mann í Guds nád, enn lifandi æfíng kærleikans til Guds og heil. gledi í honum, svo vil eg minna þann sannkristna á þvílík merki Guds miskunar og nádar, sem uppvakid géti hjá honum kærleika þennan og gledi, (kap. 27); og midt í þessu ásýsa hann, ad kosta sem best kapps um, ad vera ødrum til gagns í lífinu, er sómir svo vel því nafni hann ber, og vissuliga auka mun sælu hans í eylífdinni (kap. 28).

Nú í von um, ad hann svoleidis breyti, vil eg leitast vid ad efla þá gledi og rósemd hjá honum, sem olli því, ad hann kvídalaust géti hugsad bædi til daudans og dómsins (kap. 29). Loksins vil eg enda allar þessar hugleidíngar, med því ad fylgja honum allt ad daudans porti, í gégnum hvort hann gánga skal inn til dýrdarinnar, og géfa honum þær ávísanir í tilliti hans hegdunar á daudans tíma, er sem best þéni, til ad frama Guds dýrd, hans eigin djørfúngu og sóma gudhrædslunnar (kap. 30).

Nú þó eg fundid hafi marga skjálfandi af ótta fyrir ókominni fordæmíngu, já, suma máske í lángt vodaligra ástandi, nefniliga þá, sem hreint gleymt hafa því eylífa, og þeim hlutum, sem manneskjan ætti mest um ad hirda, og hjá hverjum ad allt

annad, sem vér í þessu lífi giorum oss svo mikla mædu fyrir, er ei ad reikna nema sem fisvyrdi; þá vona eg samt engu ad sídur, ad eg fyrir Guds nád verdi svo luckuligur í tilliti margra, ad géta skilid vid þá í því sæla ástandi, ad þeir fái mætt fyrir dómi Guds í eylífdinni med sigurhrósi, og þannig vegsamad Gud med kristiligum lifnadi og sáluhjálpligum dauda.

§. 12. Þessi mørgu ýmisligu atridi verda ecki útskírd nema med fám ordum, þar eg hefi í sinni ad láta bók þessa ecki verda mjøg stóra. Eg ætla þessvegna ecki ad haga tali mínu, einsog prédikarar hljóta ad gjøra, þegar þeir med mørgum røksemdum vilja verja og útlista sannindi trúarinnar; heldur vil eg tala sem í trúnadi, einsog einn vinur plagar vid annan ad gjøra; og einsog eg sjálfur gjøra vildi, ef eg væri í einrúmi edur hjá fáeinum, hvørra ástand og lifnadur eg vissi ad svaradi því, sem eg í einum edur ødrum kapítula bókar þessarar hondla um. Og þegar eg hefdi þá stundarkorn átt tal vid þvílíkan einn — sjaldan lengur enn sem hálfa stund í einu — þá vildi eg gánga sem afsídis, og láta hann hugsa sig um þad, sem hann heyrt hefdi. Ad því búnu vil eg leitast vid ad hjálpa lesaranum svo í andagt sinni til Guds, ad hann ad lyktum blandad fái andvørpum sínum med þessum hugleidíngum. En ádurenn eg byrja til fulls, vil eg leyfa mér ad bidja fyrir lesaranum, og undireins ritkorni þessu, og fela þad med audmýkt í Guds hønd, svosem til eins merkis um þad, hvørsu eg er øldúngis sannfærdur um, ad ávøxturinn af því er einúngis kominn undir hans blessun; og eg er fullviss um, ad þvílíkt hjartalag og þánkar finnast hjá hvørjum einum trúlyndum Gudsords þénara, og hjá hvørjum einum sannkristnum manni.

### Bæn um þessa Skrifs luckuligu verkun til, ad efla uppbyrjun, aukníngu og framgáng hinnar sønnu Gudhrædslu.

Ó, þú mikla, eylífa og óendanliga uppspretta allra skapadra hluta og allrar sarsældar! eg tilbid þig, sem myndad hefir manneskjurnar og gjort þær hæfar til ad géta dýrkad þig, og

hefir meddeilt náttúru vorri verdugleika þann og lucku, ad hún gétur lært ad spyrja: hvor er sá Gud, sem mig myndad hefir? Æ! eg klaga yfir vanart þeirri, sem sig útbreidt hefir medal alls mannkynsins, og hefir ollad því, svo ónáttúrligt sem þad er — og sem þó ordinn er algengur sjúkdómur — ad gleyma þér, sem þó ert vor Gud og Skapari. Heilagi Fadir! vér vitum, ad þad er einúngis nád þín og þins ords uppfræding, sem snúid gétur þinum villtu bornum, og innþryckt hjortum þeirra réttri ímyndun, um himneska hluti, og gjort þá ímyndun stadfasta og fullkomna. Frá þér einum kémur sérhvor gódur ásetníngur, allar gódar hræringar og girndir; en einkum laungun sú, ad odlast visdóm og Gudsótta í þessum heimi; frá hvors innbyggjendum, jafnvel þó þeir flestir liggi í hinu vonda, þú samt, eptir þinni óendanligri miskun, hefir enn nú ecki hendinni snúid, né þeim frá þér skúfad. Þú þeckir, minn Gud! hjortu mannanna barna, og sérhvor hreinskilin sála — hvorsu forsmád og misgrunnd sem hún í heimsins augum er — gledur sig yfir því, ad allir hennar þánkar, ord og athafnir, eru þér einum best kunnar. Þú þeckir einlægni þá og laungun, sem þínir sonnu þénarar hafa til þess, ad útbreida þíns nafns og Evangelii þeckíngu, medal sinna medmanneskja. Þú veist, ad sumir þeirra eru svo sinnadir, ad ef þú hefdir géfid þeim gnægd af tímanligum munum, mundi þad verid hafa þeirra stærsta ánægja, ad géta útbýtt þínum gódu gáfum til fátækra og naudlídandi, til ad gledja þarmed þeirra sorgfullu hjortu. Þú veist, ad hefdir þú géfid þeim gáfu til ad géta — hvort heldur á náttúrligan edur yfirnáttúrligan hátt — læknad adra, mundi þad hafa ordid þeirra dagligt yndi, ad hjálpa manneskjanna líkomum frá sjúkdómi og veikleika, og ad sjá sorgandi andlit gladvær ordin, yfir væntanligri heilsubót; ad eg ecki tali um, ad géta hjálpad einni óróligri og rasandi manneskju aptur til gédstillíngar og værdar, til þess hún á ný brúkad fengi sansa sína skynsamliga. En þó mundu þvílíkir, medal hvorra sá telur sig einn, sem rit þetta í ondverdu samid hefir, reikna sig lángt, já, þúsund

farsælli — hvorsu sem hans útvortis ástand er eda verda kynni bágborid — ef þér, himneski Fadir! þóknadist ad láta þetta hans litla erfidi verda ad medali til ad betra nockurra manneskja hjörtu, med ad snúa þeim tilbaka frá þeirra rasandi syndastandi, til ad géta og vilja, sem þínar skynsemdarfullar sképnur, elskad þig og dýrkad, sem sinn Gud og skapara. O! ad þad hafa mætti þessa blessudu verkun hjá þeirri manneskju — hvor helst sem hún vera kann — er les línur þessar, já, hjá ollum og sérhvorjum, sem bók þessa les edur lesna heyrir. Já, minn Herra! reidstú ecki, þó eg tali enn meira! Æ! hvorsu lítilsverdt og forsmáandi sem skrif þetta sýnast kynni í heimsins augum, og hvorsu ófullkomid þad enda í sjálfu sér er, sem og hvorsu lítilsverdur sem þess hofundur er, þá láttu þad samt engu ad sídur gilda nockud í þínu augliti; já, láttu þad, fyrir þinn guddómliga mátt orka því, ad verka sannrar Gudhrædslu uppbyrjan, aukníngu og framgáng í ótal manneskja hjörtum, bædi í nálægum og fjarlægum stødum, á yfirstandandi og ókominni tíd. Reiknadu mér þad ecki, Gud minn! til straffsmakligrar ærugirni, þó eg beidist þess, ad hvorsu sem mitt eigid nafn fara kann (hvar um eg kæri mig alls eckért), ad þetta skrif, sem eg nú í þínum krapti tek mér fyrir hendur ad semja, géti ordid fullkomnad og breidst vída út, já, komist í þeirra hendur, sem enn nú ófæddir eru, til ad kénna þeim ad þeckja og prísa þitt heil. nafn, þegar þess hofundur lagstur er í jardarinnar moldu; svo ad, þegar hann leksins, á þeim stóra og sídasta reikníngskapardegi, skal fyrir þér birtast, ad hans føgnudur mætti þá aukast af því, ad fá ad sjá marga þá, sem ádur hér í heimi voru eins litt kunnugir hvor ødrum innbyrdis, einsog sjálfum honum, ad þeir, segi eg, hafi þó haft uppbyggíngu af þessu skrifi. En svo framt ad þad er ofmikid ad bidja þig um þetta, og ef ad sá gétur ecki óskad sliks, sem ei leitar síns eigin hróss, heldur alleina þinnar dýrdar, þá virdstú samt ad veita, ad þad verdi eitt blessad verkfæri í þinni hendi, til ad umvenda, ad minsta kosti, einni einustu sálu; og þó hún verdi einhvor hin vesælasta af ollum þeim, sem hæfir eru til ad

skilja rit þetta, þá vill höfundurinn taka á móti því með stærstu þakklátsemi, sem þeirri allrakostuligustu umbun, fyrir allt það erfiði og eptirþánka, sem hann það kostað hefir, jafnvel þó tilgángur hans misluckist hjá mörgum öðrum; já, hann vill með eylífum fagnaðarsaung vegsama þig, ó þú hábleßaði Guð! fyrir hvorja sem eina þá sálu — og ásamt með henni — sem þú með þíns Sonar Jesú blóði endurleyst hefir og síðan helgað með þínum náðar-Anda. Eylíf dýrð skal þér þá, þú Faðir, Sonur og heil. Andi! goldin verða, af þínum ótöluliga engla-skara og af gjörvöllum söfnuði þeirrar sigrihrósandi kyrkju á himnum! Amen!

---

## 2ar Kapítuli.

### Í hvörjum athuga- og andvara-lausir syndarar uppvaktir verða.

§. 1. Hvörsu skammarliga og skélfiliga sem hin sanna Guðhræðsla vanrækist í heiminum, eru þó, Guði sé lof! til nockrar hreinskilnar sálir, sem bæði taka málstað Guðhræðslunnar og æfa hana, og það miðt á þeßum ramspilltu tímum. Sálir, segi eg, sem fyrir Guðs náð komnar eru til þeckíngar Guðs í Kristó, og sem í raun og sannleika hafa selt hjartalag sitt og líferni til hans þjónustu. Væri eg fullviß um, að bók þeßi kæmi ecki í annara hendur enn þvílíkra, gæti þetta mitt skrif orðið styttra, auðveldara og ánægjusamara.

§. 2. En þeß er að vænta, að einn eður annar minna lesara kunni að vera af tölu þeirra mörgu þúsunda, sem vanrækja Guðs náð og skjóta umvendun sinni á frest. Ó! hvörsu þúngt fellur mér, að hugsa til þeirra ófarsæla ástands. En svovel áform mitt, sem efnisins náttúra, útkrefur að eg þó fyrst snúi mér til þvílíkra, og reyni til að hjálpa þeim. Eg sný mér þeßvegna, minn lesari! til þín, hvor sem þú ert, sem teljast hlýtur meðal þeirra manna, sem með réttu kallast mega andvaralausir syndarar.

§. 3. Eg bid þig ad þú steytir þig ecki yfir nafni þessu; því kénnendur, sem sálna læknarar, hljóta ad tala skýlaust, annars er hætt vid þeir drepi þann, þeir lækna skyldu. Naudigur vil eg þó gjøra mjøg stránga álygtun um þig, edur ásaka þig fyrir nockud annad meira, enn í verunni útkrefst til ad géta sannfært þig um, ad þú sért þvílíkur einn, sem eg tala til. Eg vil því ecki ímynda mér, ad þú sért opinberliga ógudligur og andvaralaus syndari; eg vil ecki leida mér i hug, ad þú spottir og vanhelgir Guds nafn med blóti og munneidum, edur med hvíldardagsins stakligri yfirtrodslu, né med vanrækt opinberrar Guds þjónustu; ei vil eg heldur gjøra mér í hugarlund, ad þú skadad hafir náúnga þíns æru, líf og góts, med ofríki edur undirferli; edur ad þú, sem bestía, lifir í ofdrycklju, lauslæti, edur ødrum svívirdiligum syndalifnadi, til ords edur ædis.

§. 4. Nei! eg vil þvert á móti ímynda mér um þig, ad þú ecki einúngis trúir Guds tilveru og forsjón, heldur ogsvo því, ad kristilig trúarbrogd séu af honum opinberud; því svo framt þú hefir minsta efa þarum, þá vil eg bidja þig, ad þú tafarlaust leitir þeir sannfæríngar þarum í ødrum bókum. Já, eg segi tafarlaust; því ad vera í efa um þvílíka hluti, er næsta spor til ad neita þeim; og þad fyrra gjørir þig eins fordæmíngar makligan sem hid sídara; því þad verdur reiknad þér til jafnstórrar syndar af Gudi, ad efast um slíkt og forsóma þó ad leita sannfærslu þarum, einsog þó þeim efa þínum og forsómun fylgdi opinbert forakt og mótstrída.

Nú þó eg ecki álíti þig einn af tølu þvílíkra, heldur jafnvel gjøri mér þá þánka um þig, ad þín hegdan medal manna sé ecki adeins óásakanlig, heldur jafnvel í vísßu tilliti elskuverdug, svo ad þeir, sem til þín þeckja, hljóti ad vidurkénna, ad þú sért rádvandur, hóffamur, hógvær, vingjarnligur, trúfastur, medaumkunarsamur og gjafmildur: engu ad sídur, þó þú sért allt þetta, gétur þig samt brostid eitt (Marc. 10, 21), og þad eina, á hvørju þín eylíf sáluhjálp og velferd mest rídur.

§. 5. Þessvegna bid eg þig þá, minn kæri lesari, hvør

helst sem þú ert, ad þú af alvoru gángir inní þitt eigid hjarta, og spyrjir siálfan þig þannig: er eg sanu-umvendt, gudliga-sinnud og gudhrædd manneskja, edur ecki? Er elskan til Guds, hjartalags míns og lifnadar einasta augnamid? hegda eg mér svosem sá er trúir Guds allstadar-nálægd? umgéngst eg med honum dagliga dags í bæn og lofgjørd? og er þad mín stærsta laungun og yndi ad dýrdka hann, sem minn Drottinn og Fodur?

§. 6. Svari nú samvizka þín nei til þessa, þá lofadu mér, hvor sem þú ert, hærri edur lægri stéttar, ríkur edur fátækur, ad tala vid þig djarfliga og skýlaust, og segja þér: ad þú ert ad líkindum einn þeirra, um hvorja Ritníngin hefir þessi óttaligu ord: ad þeir séu án Guds í heiminum (Ephes. 2, 12), og sem breyta (ad undanteknu í vissum útvortis Ceremoníum), einsog þeir væru vissir um: ad eng inn Gud sé til. O! þú vesæla manneskja — hvor sem þú ert — þitt eigid hjarta fordæmir þig; en hvorsu þá miklu framar Gud, sem meiri er hjarta þínu og þeckir allt (1 Jóh. 3, 20)? Hann þeckir svovel þad vonda sem góda, er í leyndum skédur (Math. 6, 6); og þessvegna hafa born hans svo hjartanliga ánægju og gledi af ad umgángast hann í leyndum, med andagtugum hugleidíngum og trúudum bænum.

En þessu góda firrir þú þig, þar þú hvorki tilbidur hann né vegsamar í leyndum. Opt gengur þú afsídis í hús þitt til þinna stúderínga, ef þú ert lærdur: til þinna reikníngsbóka, ef þú ert kaupmadur: til þinna sýslana, ef þú ert bóndi edur handverksmadur; en ad þú gángir afsídis til ad fremja andagt þína og tilbidja Gud af hjarta, mun mikid sjaldan og tregliga ad þér koma; þannig lídur einn dagur af odrum, ad þú hreint gleymir Gudi og sálu þinni, svo þú breytir, einsog þú vissir fyrir víst, ad umvendun og sonn Gudhrædsla sé ekért nema draumur einn og innbirlíng. Vera kann, ad þegar þú sjúkur ert, ad þú ákallir þá Gud, ad géfa þér heilbrygdi, ellegar hjálp, ef þú ert í odrum þúngum vandrædum staddur; en ad odlast

syndanna fyrirgéfníngu, og þá andligu blessun, sem Evangelíum frambýdur, um það ert þú eckért hugsjúkur; og það enda ecki, þó þú segist trúa Evangelíó, ad það sé guddómligur lærdómur. Allir þínir þánkar og áhyggja horfa til þinna líkamligu sýslana og ánægju í þessu lífi; og þó Guds Andi einhvorjusinni, þegar þú heyrir þá prédikun edur les þá bók, sem alvarliga brýnir fyrir þér sanna Gudhrædslu, uppvekji nockurn ótta í sinni þínu, þá varir það ecki nema stuttan tíma, svo þú verdur þá strags ad segja á eptir, eins andvaralaus, sem þú ádur varst. Í einu ordi, þú breytir, einsog þú hefdir tekid það fyrir þig, ad eiga undir skada og ábata, hvort það ad forsmá trúarbregdin og vanrækja Gudhrædsluna, muni vera svo skélfiliga hættuligt, einsog kénnendurnir segja. Þú gétur ad vísu ecki aldeilis hindrad það, ad áminníngar þeirra stundum taki á þig — því það er ómoguligt — en þú hefir máske lært þá list, sem fólkid, er Esajas (6, 9) umgétur, brúkadi: **ad þú heyrir og athugar ecki, sér og skilur ecki, og hjarta þitt er tilfinníngarlaust.** Þegar þú ert í kyrkjunni, leyfir þú þaunkum þínum ad sljúga, hvert þeir vilja. Sérhver hlutur sá og dægrastytting, sem ecki dregur hjarta þitt til ad þeinkja um daudann og Guds dóm, er þér velkominn; og máske þegar þú seinast varst í kyrkjunni, þú hafir svoleidis breytt, einsog þig einu gildti, hvort Gudi líkadi hegdan þín edur ecki.

§. 7. Ó! sé nú þannig ástadt um trú þína á Gud, ad allir Gudhrædslu þánkar og oll umhugsan um hann og sálu þína og eylífdina er þér leidinlig, hvad hefir þú þá gjort af skynsemi þinni? Til hvors er hún þér þá géfin, nema þér til stærsta skada og dóms-áfellis? En ad mýmargir menn breyti þó svoleidis, sem eg sagt hefi, er svo berslýniligt, ad það blasir hvorju heilvita barni fyrir augum; já, þeir menn breyta opt þannig, sem gæddir eru ypparligri skynsemi og háleitum lærdómi í odru tilliti, og sem mundu kalla sér stóran órétt sýndan, ef madur ecki áliti þá sem þvílíka.

§. 8. Athugid þó, kæru vinir! sem þetta lesid edur heyrid:

ad hvorsu mjøg sem þér forsmáid og vanrækid slíka hluti, tapa þeir alls eingu af sínu gildi fyrir þad; ydar sjálfra verdur allur skadinn, en þessir mikilvægu hlutir lída ekért afnám. Leyfid mér þessvegna, sem þeim ed sjálfur kominn er til eptirþánka, ad tala til ydar sømu ordum, sem skipherrann taladi fordum til Jónasar spámanns í sjáfarháskanum, sem þó hvorgi nærri var jafuvodaligur, sem háski sá yfir ydur vofir: **Hvarfyrir sefur þú, stattú upp og ákalladu þinn Gud!**

Eda gétur þú efast um, ad þad sé þér naudsýnligt? Þín samvizka hlýtur þó ad segja þér, hvort þú vilt edur ekki, ad þú innanskams hljótir, naudugur viljugur, ad standa þúsund strángari reikníng, enn þann, sem nú er af þér krafinn.

§. 9. Þú vidurkénnir þó ad Gud sé til, og þú hlýtur þad ad gjøra. Því þú gétur ecki án þess opnad augu þín, ad þú ecki sjáir berþýniliguſtu merki nálægdar hans og verkana. Þú sér hann fyrir augunum útvortis í øllum hlutum, og finnur til hans innvortis, svo ad segja, í hvørri taug og æd líkama þíns. Þú sér og finnur, ad hann ecki einúngis hefir básamliga skapad þig, heldur og líka ad hann er alltíd nálægur þér, hvar sem þú ert og hvad sem þú adhefst, á nóttu edur degi, **því í hønum lifum vér, erum vér og hrærumst vér** (Gb. 17).

Er þad þínum krapti og kunnáttu ad þacka, ad hjartad slær í þér, ad blódid hleypur umkríng í ædum þínum, ad þú dregur lífsandann ad þér og géfur hann frá þér aptur; og þetta skédur eins hvort þú vakir edur sefur, hvort þú hugsar um þad edur ecki? Seg mér nú, hvad er þetta annad enn Guds hønd, sem óaflátanliga vidheldur og stjórnar þeim verkfærum líkama þíns, sem þessu olla, af því þau eru hans elgid smídi og þér ómissandi.

§. 10. En þessi Guds umsorgun snertir ecki adeins þig einsamlan. Lít í kríngum þig, og muntu sjá ad hún útbreidir sig í allar áttir; já þúsund lengra og vídara, enn þú gétur ímyndad þér. Hugleid sólarinnar birtu og hita, sem hún frá sér géfur yfir allan heiminn. Skodadu loptid, sem breidir sig

allt í kríngum jordína, hvørsu það er temprað, hvørki ofheitt né ofkaldt; af hvørju svovel allt mannkynið sem hinar óæðri skèpnur lifa og andann draga. Þenktú um það, hvørsu jørdin auðug er af grasi og korni, og ollu því, sem menn og dýr þurfa á að lifa og endurnærast af; þetta allt rètt sem hrópar til vor og segir: að sá almáttugi Skapari sè oss nálægur og náðugur, og beri umsorgun fyrir oss; en þó undireins að hann sè alvitur og almáttugur. Því hvílík makt kann jafnast þeirri, sem útbýtir þvílíkum náðar- og gæzkugáfum svo óaflátanliga, ár eptir ár, stund eptir stund, til allra skèpna, allra manna, bæði vondra og góðra, um alla víða veröldu; já kannské í þúsund þúsund heimum, og það um tíma og eylífð?

§. 11. Svo er það þá berskýniligt, að Guð er þèr nálægur, á hvørju einasta augnabliki; og — nú á þessu sem yfirstendur; en ef hann er nærverandi, mun hann þá ecki grannt aðgæta, hvørnig þú og eg, og allir menn breyta? Sá sem augað skapaði, skyldi hann ecki sjá, og sá heyra, sem eyrað plantaði; og sá sem øðrum skynsemi gèfur, skyldi hann ecki skynja? (Ps. 94.) Hann sem sèr allt hvað nauðsýnligt er skèpnum sínum, og gètur svo vel hjálpað þeim á hentugum tíma, skyldi hann ecki líka svo aðgæta athæfi þeirra?

Fyrst hann hefir gèfið oss skynsemina til að gjøra mismun á góðu og vondu, á sannleika og lýgi, og þá tilfinníngu, að finna það ljótt sem ljótt er, og það fagurt sem fagurt er, hvørt heldur eptir þess eðli, eður í siðferði voru, svo vèr høfum ama á því fyrra, en ánægju af því síðara, skyldi hann þá sjálfur ecki vera í hæstu treppu svoleiðis sinnaður? Gjørum ecki leikspil úr samvizkunni, hún er Guðs túlkur í oss; hún segir oss skýlaust að hann oss dæma muni; já, fordæma eður fríkènna, eptir sem hann finnur hegðan vora til, vonda eður góða; en dómur sá sem Guð dæmir, hlýtur að vera ósegjanliga mikilvægur fyrir oss manneskjurnar.

§. 12. Leyf mèr nú, kæri að spyrja þig í fullri alvøru:

er þad tilhlýdiligt, ad þessi stóri og háleiti velgjordra Fadir skuli svoleidis forsmást og lítilsmetast af sképnum sínum? já, af þeim sképnum, sem af honum þegid hafa skynsemi og krapta til ad þeckja hann og heidra, og til ad hlýda honum? Er þad rétt fyrir þig, ad þú forsmáir hann og gleymir honum? Eda, seg mér, syndari! ert þú sá einasti af ollum, sem hann gleymt og forsmád hafi? Þad munt þú ecki þora ad segja, en sídur hugsa. Því til ad sannfærast um þad gagnstæda, þarftu ecki ad hugsa einasta til þinna barndómsára, þá hann bar þig sem á hondum sér; þú þarft ecki einasta ad láta þig reka minni til, hvorsu opt hann á þínum æfiárum hefir dásamliga frelsad þig úr ýmsum háska; nei, sú hvíld og rósemi, sem þú nauzt á næstlidinni nóttu; sú hressíng og ánægja, sem þú notid hefir í dag, og sú nád, sem þú nýtur rétt á þessu augnabliki, allt þetta ber ljósasta vitnisburd fyrir þér um Gud, og þó géturdu fengid af þér ad heidra hann ecki edur hlýda honum! Vildir þú láta þá breytni sannast á þig, vid þá manneskju, sem þér hefdi gott gjort? Vildir þú þannig forsmá foreldra þína, edur vin þinn, sem þér hefdi um hríd í foreldra stad gengid; mundir þú ecki hafa borid blygdun fyrir þvílíkum, og ecki viljad i nálægd þeirra adhafast neitt þeim andstyggiligt, heldur leitast vid ad votta þeim þacklátsemi, elsku og audsveipni, fyrir þeirra gódgjordir? jú, vissuliga! því svo spillt sem mannlig náttúra er, er hún þó ecki svo fráleit og ræktarlaus. Já, þvílík óþacklátsemi finnst ecki hjá skynlausum sképnum. Þó madur ecki nema fáeina daga túlki einn racka ad sér, med því ad kasta til hans molum þeim, sem detta af bordi manns, þá sýnir rackinn strax þacklátsemi sína í stadinn; hann vill þá vera hjá manni og fylgja honum hvort sem hann fer, og þegar hann er lítinn tíma burt frá heimili sínu, tekur rackinn á móti honum apturkomnum, med alslags fladri og blídulátum. Mállaus dýr, sem miklu minni skynsemi hafa enn madurinn, sýna þannig þacklátsemi sína fyrir þad, sem þeim er gott gjort; til hvors Drottinn sjálfur bendir, fyrir spámannsins Esajæ munn, segjandi: "Uxinn þeckir sinn

eignarherra, og asiuun jøtu húsbónda síns" (Ef. 1). Ó! hvorsu mikla mínkun gjørir þá manneskjan sér, sem þeckir ecki né þackar Guds ómetanligu nád, sér til handa, né reynir til ad uppfylla skylduverk sín honum til heidurs, og þad i þeim hlutum, sem henni sjálfri mega þéna til besta!

§. 13. Sannarliga, sé þar minnsta taug af hreinskilni til í þér, þá hlýtur þú bædi ad blygdast og ángrast yfir slíku ástandi. En skorti þig nú slíkt hugarfar, þá leyf mér ad setja þér efni þetta fyrir sjónir á annan hátt! Gétur þú verid óhræddur um sjáfan þig, medan svoleidis ástadt er fyrir þér? Er ecki samvizka þín sannfærd um, ad þú hljótir þó umsídir Gudi reikníng ad standa? Trúir þú ecki ad óśýnilig og eylíf veröld til sé? Vér, sem kristnir kollumst, játum þó allir, ad vér trúum því; og þad er svo óhrekjandi sannleikur, og sem Ritníngin svo opt og berliga umtalar, ad engvir, hvorsu skarpvitra sem þeir hafa sýnt sig, í ad verja adra sínu villudóma, hafa þessu þó aldrei af alvöru neitad gétad. En sé svo þú trúir því, sérdu þá ecki á hvorsu hrædiligum óluckuvegi þú reikar? Mun þitt uggalausa og dofna hjarta géta gjört þig óhultan fyrir dauda og dómi? Þad væri nærri eins fráleitt, einsog ef þú vildir verja þig fyrir einu ólarga dýri med því ad halda aptur augunum, edur fyrir bissukúlunni og lensunni, med því ad snúa þér undan og líta augunum í adra átt. Þegar Gud hjá Jerem. 23 talar um dármensku þeirra manna, er ecki vilja áminníngum taka, segir hann: "á þeim sídurstu døgum munud þér komast ad raun þarum." Ord þessi vil eg heimfæra til þín. Naudugur viljugur hlýtur þú umsídir ad reyna allt þetta satt ad vera; en viljir þú ecki med þínum eigin skada þad reyna hljóta, þá hlýtur þu undandráttarlaust af øllu hja ta, ad snúa þér til Guds; því þad er sá einasti vegur, en enginn annar, til ad umflýja eylífa fordæmíngu.

§. 14. Eg þarf ecki, ó þú syndari! ad eyda mørgum ordum hérum, því samvizka þín hlýtur um þetta sannfærd ad vera,

þó drambsemi þín vilji máské ecki játa það. En leyf mér að setja fram fyrir þig, áðurenn við skiljum, eitt einasta spursmál: Viltú þá vogast til að afneita hreint og kasta trú þinni og allri Guðs dýrkun upp frá þessum degi og stundu, og skeyta þar eckért um framar; heldur láta þér lynda, hvað af slíkri þinni breytni fljóta vill? Eg held fyrir víst, að engin nafnkristin mannéskja muni svo dárdjörf vera, að vogast til slíks; heldur muni flestum, sem þetta lesa, ofbjóða og ógna þar úti að þenkja. En sé nú svo fyrir þér, að þú ei til þessa vogist, þá er þér nauðsýnligt nú strax á samri stundu að taka fyrir þig aðra þánka. Þú veizt að líf þitt er bæði stutt og fallvalt, og þess-vegna er það allra mesta dármenska, að draga yðrun sína undan einu augnabliki lengur, um hvað eg vil aptur í annað sinn, þá við tölum saman, enn betur leitast við að sannfæra þig. Já, það er nærri því eins ofdyrfskufullt að ásetja sér að maður skuli yðrast síðar meir, en ecki strax, einsog að segjast aldrei ætla að gjöra það, og kasta frá sér allri Guðhræðslu. En inn til þess við finnumst aptur, vil eg biðja þig að yfirvega í Guðs nafni vel þessar mínar tilbendingar, svo þú verðir fyrir hans náð þess hæfari, að géfa mínum síðari áminningum rúm.

## Hugleiðingar þess syndara, sem lengi hefir andvaralaus verið, en tekinn er til að vakna og sansa sig.

Vakna, mín sála! vakna upp af þessum sætu en svikulu draumum; snú þér frá hégómanum, og láttu þessar hugleiðingar leiða þig til eptirþánka; opna augu þín að minsta kosti um litla stund; þú hefir nóga daga og stundir samt til þíns erfiðis og ánægju; sýnja þér ecki fáeinna minúta til að ransaka hjarta þitt, og hugsa um þá hluti, sem líta til þinnar eylífu velferðar: yfirvega því hver þú ert, og hvernig og til hvers þú ert híngað í heiminn kominn, og hvað innan skams skal um þína hagi verða! Það er aldeilis svo ástadt fyrir þér, einsog þér hér að framan hefir verið fyrir sjónir sett; þú ert sképna Guðs, sem hann myndað hefir, hverrar sála býr í líkama, er vera skal

búſtadur hennar ſkamma ſtund; ó! hugſa um þad, hvad bráð-
liga þetta þitt líkama hreyſi kann ad verda niðurbrotið, ſvo' andi
þinn hljóti ad vikja til Guds aptur! Skal þá Gud, ſem er ſú
einaſta, eylífa, bleſsaða og dýrðliga vera, ſkal hann af þér minſt
metinn verda? Viltú hvern dag med athæfi þínu rétt ſem ſegja
vid Gud: vik frá mér, eg hefi enga glrnd til ad þeckja þína
vegu? Viltú á hverjum degi, ad morgni, middegi og kvøldi,
afbata med nockru þeſsa þína ſkammarliga breytni fyrir Gudi
og vanrækt hans nádar? O, mín ſála! hvad heldur þú þeſsar
afbatanir muni duga þér, þegar hans alltſjáandi auga ranſakar
þig? þær géta dregið þig á tálar, en aldrei hann. O, þú ſtóri
velgjørari! hvørſu hrædiliga hefi eg forſmád þig, og uppegnt
þína reidi! Pegar eg adeins, eitt augnablik, þenkti til allra
þinn velgjørnínga og allra þinna fullkomligleika, má mér ógna
og ofbjóda tilfinningarleyſi þad, ſem ſvo lengi hefir haft makt
yfir hjarta minu og ennnú þar inni drottnar; eg ſkammaſt min
því ad lypta augum mínum upp til þín, minn Gud! því eg ſé,
ad eg hefi dárliga breytt og mjøg villt farid; og þó vill þetta
mitt athugalauſa hjarta gjøra forakt þad og hirduleyſi, er eg
ſvo lengi móti þér ſýnt hefi, ad orſøk til ad halda áfram í því
hinu ſama. Eg vidurkénni ad allar þínar ſkynjandi ſképnur eru
þér um ſtærſtu hlýdni og kærleika ſkyldugar, og ad ſérhvert
hjarta ætti ad vera aldeilis gagntekid af þinni allſtadar nálægd,
og bera umſorgun fyrir því, yfir allt fram ad þóknaſt þér. Engu
ad ſídur hafa allir mínir þánkar verid, einsog þar væri enginn
Gud til; og eg hefi ſvo ſkammarliga vanrækt ad læra ad þeckja
þann rétta og ſanna Gudsótta, ſem þad einaſta medal til
mannſins farſældar, ad eg valla nockurntíma hefi, af fullri al-
voru, ſpurt mitt eigid hjarta, hvørnig því háttad ſé? Eg veit,
ad ef eg umbreytiſt ecki, hlýt eg eylífliga ad glataſt; og þó finn
eg í minni þverúdarfullu náttúru heimugliga mótſtrídu gégn
þeſsum gódu þaunkum; eg finn, ad eg er hnelgdur til, ef ecki
aldeilis ad rýma þeſsum þaunkum út, þó ſamt til ad ſkjóta
þeim á freſt fyrſt um ſinn. Sinni mitt er mjøg tviſtrad og

sunburdreift; en eg veit þó fyrir víst, ad þú, sem mig skapad hefir, veizt best hvad mér þénar; og þessvegna bid eg þig, ad þú fyrir þíns nafns skuld viljir leida mig og stjórna mér. Láttú mig ecki draga þad undan, þar til þad verdur offseint ad eylífu. Frelsadú mig, sem brand út af eldinum; og sundurslíttú þad banvæna band, sem heldur hjarta mínu fostu vid þá hluti, sem eg ætti ad hafa andstygd á! og lát svo sinni mitt loksins komast í þvílíkt luckuligt ástand, ad eg ecki þurfi ad óttast ad þenkja til þín og sjálfs mín; og ei heldur freistast til ad óska, ad þú annadhvort aldrei hefdir skapad mig, ellegar og gætir gjort mig ad engu aptur; heldur ad eg þvert á móti géti á minni daudastundu haft ypparligri von enn þá, ad skiljast hér vid, sem skynlaus bestía!

Svo framt eg les nú meira um þetta efni, sem samhljódar skynsemi og sannleika, og sem skrifad er til ad efla mína velferd; já, sem af mér álítast kann, sem auglýsing vilja þíns um þad, hvad þú vilt ad eg skuli trúa og gjora, æ hjálpadu mér þá, minn Gud! ad eg géti bædi heyrt þad og hlýdt því! Láttú ord þíns þénara, medan hann talar þínu máli, vera sem brodd einn, er þrengir sér inn í hjarta mitt; og láttú þau heldur verda mér til kvalar og pínu í samvizkunni, enn ad eg fortapist eylífliga! Lát þau alvarliga rótfestast hjá mér, svo hvorsu stórir leyndardómar í því kunna ennnú fyrir mér huldir ad vera, eda hvorsu stór torveldni eg finn ad fylgi umvenduninni, ad eg samt enganveginn vanræki hana edur undandragi, einu augnabliki lengur! O, láttú þína nád kénna mér og hjálpa til ad yfirvinna þann stóra dofinleika og mótstrídu, sem eg finn í mínu hjarta, gégn þvílíkum alvarligum þaunkum! Æ! heyrdú nú mína bæn og láttú hróp míns ángurbitna hjarta uppstíga til þín, fyrir sakir þíns Sonar, sem sundurknosad hefir og sáluhólpinn gjort margan einn jafnhardsvíradan syndara sem eg er; já hvor ed uppvakid gétur Abraham born af steinunum. Amen!

---

## 3ji Kapítuli.

Hér verdur syndarinn, sem uppvakinn er, alvarliga áminntur til ad sansa sig strax, og skjóta ecki sinni umvendun á frest.

§. 1. Eg vona ad mitt sídarsta tal hafi ad svo miklu leiti leidt þig, minn Lesari! til eptirþánka, ad þú hafir ásett þér ad umvendast, en leyf mér þá ad spyrja þig med alvöru og hreinskilni: hvenær á þá af því ad verda? Þegar Felix fordum vard hræddur af prédikun Páls (Gb. 24), svo honum lá vid ad snúast, sagdi hann til hans: „fardú burt í þetta sinn, þegar eg fæ hentugri tíma, vil eg láta kalla á þig aptur til mín!" Þannig breytti sá ólukuligi Felix sér til fortöpunar. Satan treysti sér ecki í þad sinn ad ráda honum frá öllum eptirþánka um umvendunina sídar; heldur adeins í þad sama sinn, ad hann, vegna sinna mörgu og mikilvægu sýslana, skyldi slá henni á frest til þess í annad skipti. Þetta tókst og þessum sálnasvikara, af hvörju þó Felix beid þann allra stærsta skada.

§. 2. Æ, viltú þá, minn lesari! hafa mig svoleidis af þér, einsog Felix Pál í þad sinn? Nei, þinnar velferdar vegna og af medaumkun yfir þinni ódaudligu sálu, hvörri stærsti vodi búinn er, vil eg naudugur láta mér nægja slíka afsötun og undandrátt. Því þó þú viljir tiltaka adra vissa tíd, t. d. næsta ár, mánud, viku ellegar dag til þinnar umvendunar, gét eg ecki látid mér nægja þarmed; heldur alvarliga, sem þinn besti vinur, sárbæna þig, ad þú nú strax á þessu augnabliki setjir þetta efni í verk. Því ef þú segir: eg skal á morgun þenkja eptir því, þá hverfur öll mín von; og eg hlýt ad álykta, ad allt þad sem eg híngad til hefi áminnt þig um, og þér fyrir sjónir sett — já, allt þad sem þú sjálfur lesid hefir — verdi forgéfins hjá þér og ávaxtarlaust.

§. 3. Þad má annars furdanligt sýnast, ad eg skuli þurfa ad brúka svo mörg og hrærandi ord, til ad upphvetja þig ad vera áhyggjusamur um þína umvendun, og undandraga ecki, ad

gjøra hana af fullri alvøru; því efni þetta er í sjálfu sér svo edalligt, svo ypparligt og svo verdugt hverri skynsamri manns eskju; — eg vil ecki tala um hvad naudsýnligt — ad madur mætti íminda sér, ad hjarta manns færi rétt sem á flug, undir eins og hann heyrdi um þad talad; já, ad madur yrdi strax rétt sem reidur vid sjálfan sig, ad hann ei skyldi fyrr hafa tekid þad til eptirþánka. Spyrji madur sjálfan sig: hvort er mér betra nú strax ad hefja augu mín og hjarta til Guds? ad ofurgéfa mig honum ad øllu leiti, og tafarlaust ad komast í vináttu vid hann? þvílíka vináttu, sem verda skal minni sálu til sóma og sælu eylífliga? edur er mér betra, ad byrja ecki þennan vinskap svo fljótt, heldur lifa ennnú nockrar vikur edur daga, án Guds í heiminum? Svarid verdur ecki tvísýnt! Vissuliga er þúsund betra og forsjálligra, ad segja til sjálfs sín svoleidis: O, mín vesæla sála! med hvorju hefi eg leitast vid ad metta þig, sídan þú yfirgafst þinn himneska Fodur, og sleizt þig úr hans fadmi? Sannarliga med heimsins drafi og hégóma! Skyldi eg þá óska ennnú lengur, ad auka þína fátækt, þína skømm og fordæmingu? já, þó eckért annad meira væri í húsi, enn tøpun sannrar samvizku rósemdar í þessu lifi, væri full orsøk til ad þenkja, ad enginn mundi undandraga ydrun sína degi lengur, edur kjósa heldur ad vera í fjandskap vid skapara sinn enn vináttu; og þad þó hann vissi fyrir víst ad líf sitt hér á jørdunni mundi lengi vara, og þad stædi í sjálfs hans valdi, ad umvenda sér, hvenær sem hann vildi.

§. 4. En seg mér nú, minn vin! hvílíkur edur hvor þú ert þess, ad þú gjørir þér reikníng uppá, ad þú lifa munir nockur ár eda mánudi hér eptir? Veiztú ecki: ad líf þetta er sem gufa, sem sést um stundar sakir, en hverfur sídan, (Jak. 4). Og á hvorju byggir þú þá fullvissu þína og traust, um þad, ad þú ennnú munir lengi lifa? og þad med þvílíkri vissu, ad þú þorir ad setja sálu þína í ved fyrir þad? Kannské þú viljir svara: eg er ennnú hraustur, úngur og á blóma skeidi! eg sé marga í kríngum mig, sem eru tvøfaldt eldri enn eg, og

medal þeirra færsta, sem ecki þenkja, ad þad sé ennnú nógur tími fyrir sig, til ad skipta sér af Gudi og sálu sinni. Svoleidis talar þú, kæri! þegar þú einasta lítur á þá lifendu; en eg bid þig, hugsadú ogsvo til þeirra, sem daudir eru. Snúdu þaunkum þínum til grafanna; hvar nockrir kannské af vinum þínum og selskapsbrædrum liggja í forrotnun. Fyrir skömmu sástu þá máské friska og lístuga, sem höfdu margt fyrir stafni í heiminum; og eg held, ad sumir þeirra hefdu álítid þann vin sinn óvinnan, sem vogast hefdi til ad hindra þeirra þánka og ánægjusemi, med ad minna þá alvarliga á daudann og eylífdina; jafnvel þó þeir, sér óvitandi, stædu sem á barmi hvorutveggja. Nú hefir þú þó sídan séd þá sem andvana lík útborna, og máské sjálfur borid sorgarbúnad eptir suma þeirra. Þessir ádur svo frísku og fögru líkamir liggja nú eins visnadir og veslir í moldinni, sem líkamir þeirra háöldrudustu, sem ádur í lífinu rétt úttærdir voru; en þó er annad sem lángtum meira er ívarid, þad nefniliga: hvört sálir þeirra voru tilreiddar edur ecki, undir þessa stóru umbreitingu, og hvörsu málefni þeirra útfallid hefir fyrir Guds dómstóli; og hvört þeir nú á þessu augnabliki eru í himnaríki edur í helvíti. En leyf mér af alvöru ad spyrja þig: væri þad nockurt furduverk, þó þvílíkur einn brádur daudi og umbreiting félli yfir þig? Ertú viss um, ad engin banvæn sjúkdómsrót kunni, jafnvel á þessum degi, ad byrjast í líkama þínum? Ertú viss um, ad þú gétir sídar lesid þetta og yfirvegad, sem þú ecki skeytir nú um ad heyra; og viit ecki nota þér þær hræríngar, sem þú finnur nú til í hjarta þínu? Víst er þad ecki ómöguligt, ad þessi bráda umbreiting kunni ad hitta þig; og ef þad skédur, verdur hún ósegjanliga skélfilig, ef þér óforvarandis yrdi í burtu kyppt, og stefnt fyrir Guds dómstól, hvörjum þú ádur gleymt hefir. Ad verda slitinn frá þessum heimi, sem hjarta þitt hefir verid svo límt vid, og í hvörjum þú leitad hefir allrar þinnar æru og eptirlætis; en verda þar á móti settur í þad ástand, sem aldrei hefir fengist af þér ad hugsa til, edur búa þig undir af alvöru;

hvilik ógn og skélfing mun þá ecki yfirfalla þig, nær þú ert þángad kominn? Já, þad er furda, ad þú í þvílíkum kríngumstædum staddur — einkum þegar þú þenkir til líssins óvissu — skulir ecki rétt deya af hrædslu fyrir daudanum. Ad kasta nú lengur gudligum hlutum í vind, eptir slíkar alvarligar áminníngar, sem þessar eru, er ad reita Gud á tvöfaldan hátt til reidi, og sem yfir allt fram kann ad flýta þinni hastarligu fordjörfun; já, þú gétur ei heldur vid ödru búist, enn ad Gud kunni ad slíta þig strax í burtu, midt á þínum æfidögum, til þess ad hann, med þínum skada, kénni ödrum jafn andvaralausum, sem þú ert, hvörsu dárligt sé ad breyta, einsog þú híngad til breytt hefir.

§. 5. Æ, viltú nú, syndari! þrátt fyrir allt þetta, setja þig í þessa skélfiligu hættu? Hvorja orsök hefir þú til þess? hugsar þú, ad þú med seinlæti þínu munir gjöra umvendanina ónaudsýnliga eda audveldari? Nei! þad er aldeilis forgéfins! Pad sama sem almáttugur Gud heimtar af þér nú, heimtar hann sömuleidis ad 20 edur 30 árum lidnum, þó þú svo lengi lifdir. Gud hefir í sínu heil. ordi sett vissan máta og reglu, eptir hvörjum hann vill syndarana til nádar taka; meinar þú, ad hann nockurn tíma umbreiti þeirri sömu reglu? edur ef hann sjálfur ecki vill gjöra þad, mun þá manneskjan géta þad? Pú skeytir ecki um, ad hugsa um umvendun þína, edur ad audmýkja þig fyrir Gudi, til ad öðlast líf og réttlæti, af hans fríviljugu nád í Kristó; og þú hefir allra mesta ama á ad þenkja til ad umvenda þér réttiliga til Guds. En hugsar þú þá, ad hann þarfyrir muni umbreita nockru, edur slaka til í skilmálum vid þig; edur géfa út nýtt Evangelíum, sem lofi ad veita líf og sáluhjálp óumvendtum og vantrúudum syndurum, ef þeir ad eins láta kalla sig kristna, og gángast undir fáeinar útvortis ceremoníur?

Hvad lengi heldur þú, ad þú bída megir eptir þvílíkri umbreitingu á þeirri réttu, og af Gudi stadfestu, sáluhjálpar niduröðun eptir Evangelió? Nei! daudinn mun fyrr í hasti yfir-

falla þig; og samvizka þín má vera sannfærð um, að fyrr muni himin og jørð forgánga, enn Guð svoleiðis afneiti sjálfum sér, og gjøri það, sem stríðir þvert á móti hans fullkomlígleikum og opinberaða orði.

§. 6. En svo framt krøfur Guðs í hans orði, verða þær somu hér eptir sem híngaðtil (sem þær og vissuliga verða), hugsar þú þá, að hlutir þeir, sem þér nú ógéðfeldir eru, verði þér síðar meir géðfeldari? Heldur þú að elska þín til syndarinnar verði minni, þegar hún er orðin þér vanafost og inngróin, og samvizka þín fastsvæfð og steindofin? Sýnist þér ekki dárligt að hugsa það? Eða seg mér, ef banvænn sjúkdómur hefði gripið þig, mundir þú vilja þá segja: eg ætla að bíða við að leita mér lækníngar þartil mér er orðið enn verra; eg ætla að láta sjúkdóminn taka fyrst fulla yfirhönd í blóði mínu; þegar það er skéð, þá ætla eg fyrst að reyna til, hvørt eg gét ekki drifið hann úr mér. Nei! svo vitfirríngsliga breytir ekki manneskjan, nema, því miður! í þeim efnum, sem snerta skaða hennar ódauðligu sálar. Að leika svo með heilsu og viðmaktheldi líkamans, er álitið fíflska; en til þess að hjálpa heilsu sálarinnar, hugsa flestir lítið eður ekkért.

§. 7. Svo framt þú þá, eptir þvílíka dárliga breytni við sjálfan þig, skyldir þó loksins ná að umvendast, hlýtur það að ské fyrir stakliga Guðs náðar verkun í sálu þinni, sem þá hlýtur að vera því sterkari og furðanligri, sem sjúkdómur sálar þinnar hefir tekið meiri yfirhönd. En gétur þú vænt þess, að heilagur Andi verði fúsari og viljugri til að hjálpa þér, eptir það þú hefir svo lengi forsmáð hann? Nú hrærir hann hjarta þitt, svo framt þú finnur til ángurs nockurs út af því sem þú les, eður heyrir; og er það merki þess, að Guð hefir ennnú ekki slegið hendi sinni aldeilis af þér.

En hvað veiztú líka nema þetta kunni að verða þær seinustu hræríngar, sem hjarta þitt finnur til, ef þú heldur lengur áfram að stríða honum og forherða þig? Hvør veit nema Guð kunni, jafnvel á þessum degi, að sverja það í sinni reiði, að þú

ei skulir innkoma til sinnar hvíldar? (Ebr. 3, 18.). Eg hefi ádur sagt þér, ad þú kannt ad deya nú á þessu augnabliki; og þar sem það er moguligt, hvad gétur þá verid fyrir þig skélfiligra til ad hugsa? Já, syndari! eg vil segja þér nockud það, sem skélfiligra er enn brádur daudi, og honum fylgjandi hastarlig fordæming? Sá til reidi reitti Gud kann, eptir sínu réttlæti, ad ofurselja þig — sem áframheldur, af ásettu, ad forsmá hans nád — í fráleitt sinni, og láta þig lifa lengi í þessari þinni forherdingu; svosem hann skyldi segja: lát þessa aumu og vesælu sképnu, sem svo lengi hefir dregid, og ennnú dregur gis ad minni nád og egnir mig til reidi, lát hana lifa lengi, lifa jafnvel midt í audæfum og farsæld, og enda þar sem Guds Evangelium ríkugliga bodast; lát hana forsmá það svo lengi hún vill; það verdur henni sjálfri verst; hún eykur adeins þar med því meir sína fordæmingu, og gjorir hana æ sekari og makligri þess ad deya undir sjofaldri bolvun. Med því ad forsmá mína sér frambodna nád gjorir hún sig æ framar og framar óhæfa til ad þenkja alvarliga um ástand sitt; lát hana verda æ verri og verri, uns hún uppfyllt hefir mælíngu synda sinna, og þá skal daudinn og fordæmíngin hastarliga yfir hana falla, og sú reidi, sem hún sér med sínu ydrunarleysi safnad hefir, skal þá loksins, sem annad flód, yfir hana steypast.

§. 8. Þú hugsar máské, minn vin! ad ecki sé svo í hættu stadt fyrir þér, en mig uggir ad hætta sú sé miklu meiri, enn þú meinar. Eg þori ad segja, ad þar munu fáir þeir sofnudir til vera, hvar Guds ord hefir annars réttiliga prédikad verid, ad Guds alvizka finni þar ecki ofmarga þvílíka, sem opt hafa af Guds ordi hræst; en samt, af því þeir hafa svo lengi, af ásettu, framhaldid ad standa á móti Guds nád, eru þannig, fyrir sína eigin skuld, fallnir í forherdíngu; jafnvel það sé oss ómoguligt ad dæma og med vissu ad segja, hver þessi reidinnar ker eru, sem Gud umlídur af sinni þolinmædi, þó þau geymd séu til eylífrar fordæmíngar.

§. 9. Ad vísu kann eg ecki ad segja þér, minn lesari!

hvornig Gud muni med þig fara; hvort hann strax höggur þig upp, ellegar lætur þig ennnú standa nockra stund midt í þinni forherdíngu og ydrunarleysi; edur og, hvort nád hans, eptir nockurn tíma þó lokkins uppvekur þig, svo þú umvendir þér til hans, jafnvel þó hjarta þitt verdi þá ordid enn forherdtara enn það nú er; því þeim almáttuga er enginn hlutur ómögulegur; þar hann getur jafnvel uppvakid Abraham börn af steinunum; það er: umvendt þeim hörduſtu steinhjörtum. En þad get eg samt sagt þér fyrir víst, ad svo framt þú undandregur umvendun þína lengur, ad sú tíd mun koma, ad þú ákaflíga sér eptir undandrætti þínum, og sárángrast þaraf; svo þú hlýtur annadhvort med beiskustu hjartans hrygd ad barma þér yfir honum fyrir Gudi hér í lífi, ellegar formæla þinni vitlausu dármensku, af þeirri sömu orsök, eylífliga í helvíti; já, svo greſsiligt sem helvíti í sjálfu sér er, þá mættir þú þó heldur óſka, ad hafa hrapad í þad fyrri, enn ad hafa lifad svo lengi, til ad forsmá Guds nád og mótstrída hans heil. Anda, því þad mun vissuliga auka straff þitt þar, og gjöra þér helvítis kvalir miklu hardari.

§. 10. Eg áminni þig því og advara alvarliga í Jesú Kristi nafni, og vegna þinnar eigin ódaudligu sálar, sem stödd er í stærsta voda, ad þú ecki undandragir umvendun þína einum degi edur stundu lengur. Leyfdu ecki augum þínum ad sofa, edur augnabrám ad dotta, fyrrenn þú byrjad hefir þetta allra mikilvægasta verk; og ádurenn þú fer nú burt úr þeim stad, sem þú stendur í, þá fall fram á þín kné, í Guds allraheilögustu nálægd, og útaus þínu hjarta fyrir honum, med eptirfylgjandi, edur ad minsta kosti, líkrar meiníngar ordum.

**Bæn fyrir þann mann, sem freistast til ad skjóta umvendun sinni á frest, þó hann sannfærdur sé um, hvad ósegjanliga mikid á henni rídi.**

O, þú réttláti og heilagi Gud! þú himins og jardar stjórnari, í hvors hendi minn andi er, og sem þeckir alla mína vegu; eg vidurkénni ad eg ecki hefi heidrad þig, sem mér borid hefir,

og ecki lagad mig eptir þínum heil. vilja. Eg hefi því stærstu orsök til ad vegsama þína gódgirni og lánglundargéd, ad þú ecki fyrir laungu hefir stoppad minn andardrátt og burturyckt mér midt í mínum syndum. Eg prísa þína þolinmædi, ad eg ecki fyrir laungu sídan er ordinn einn af þeim fordæmdu helvítis eldibrøndum, hvar þúsundir, eins andvaralausra syndara, sem eg, verid hefi, klaga nú, þó offeint sé, yfir dármensku sinni, og munu forgéfins klaga ad eylífu. En, ó þú réttláti Gud! hvørsu fljótt gétur þad þó skéd, ad mitt adhugalausa hjarta steypi mér í somu fordæmíngu? æ já, í þvílíka fordæmíngu, sem vegna þinnar þolinmædi og umburdarlyndis, sem þú hefir svo lengi sýnt mér, verda mun lángt stærri og óþolanligri. Eg er sannfærdur um, ad svo framt eg ecki skal eylífliga fortapast, ad eg hlýt þá af allri alvøru — því fyrr, því betur — ad byrja mína umvendun; en samtsemádur, þó eg þetta viti, vill mitt dárliga hjarta ecki géfa sig undir þitt sæta ok. Pad svæfir sig siálft eingu ad sídur, og segir: eg vil ennnú sofa litla stund, og dotta lítid eitt og hvíla mig. Æ svoleidis vill nú mitt ramspillta hjarta ennnú afbata og afsaka sína stóru vanrækt, móti betri sannfæríngu. Hvad skal eg segja? Æ, Drottinn! hjálpadú mér frá þessum daudans dofinleika; frelsadú mig frá syndarinnar, slægsku-brøgdum; umbreittú þeirri ramspilltu og vondu náttúru, sem í mér er, og rótfestú þad í hjarta mínu, sem eg lesid hefi! O Drottinn! eg er nú ordinn sannfærdur um þau sannindi, sem eg ádur ecki hefi viljad vidkannast. Eg hefi opt ádur verid advaradur um míns lífs óvíssu; og undir eins um þad, hvad óvíst þad væri, hvad lengi dagur nádarinnar mundi yfir mér vara; og hefi stundum tekid til ad gjora fáein óvíss og haltranda fótmál á veg umvendunarinnar; æ, en þad hefir adeins verid svo hverfult og athugalaust, ad eg samt aldrei hefi med nockri stødugri alvørugéfni tekid þad fyrir mig; ásetníngur minn hefir opt hvorfid sem reykur, og mínir gódu þánkar hafa opt sundrast sem ský fyrir vindi. Æ, ad þú vildir svoleidis festa þessa þánka í hjarta mér, ad eg fengid gæti lángt stærri og sterkari sannfæríngu um þessa

hluti, enn híngad til skéd hefir. Æ, ad þú vildir áfram halda ad sannfæra mig, hvar sem eg stend edur geng; já, og midt í því, ad eg breyti svo dárliga, ad eg leitast vid ad umflýa þig og typtun nádar þinnar. Láttú þinn góda Anda fylla samvizku mína med heil. ótta, og brúka þau allrakroptugustu medøl, sem þú veizt ad naudsýnlig eru til ad uppvekja mig úr þessu dái, sem annars mundi olla mér eylífs dauda. Æ, ad þessir hlutir mættu sífeldt klíngja mér fyrir eyrum, þegar eg sit í mínu húsi, geng um farinn veg, þegar eg legg mig nidur edur stend upp; og jafnvel þó mín hvíld á nóttunni og erfidi á daginn, hindradist þarvid; þá láttú samt ecki af, minn Gud! og hættú ecki fyrr enn þú fengid hefir mitt sálar ástand sett í betra lag, enn þad nú er, og eg ødlast hefi óhulta hvíld í þér, í stad þeirrar hrædslu, sem eg nú finn í mér, og þeirrar ángistar, sem grípur mig, þegar eg til þín hugsa. O Drottinn! hárid á hofdi mér reisir sig af ótta fyrir þér, og eg skélfist fyrir þínum dómum; já eg er hræddur um, ad þú nú, midt í því eg byrjad hefi ad þenkja um mína umvendun, kunnir ad ryckja mér í burtu á þessu augnabliki, ádur heldur enn ásetníngur minn er í verk kominn, og ad sú fyrsta uppbyrjan nádar þinnar kunni svoleidis ad stansa og hindrast, af hastarligum dauda. En, æ Drottinn! sparadú mig! eg bid þig inniliga fyrir þinnar miskunar skuld, sparadú mig enn nú nockud lengur, svo eg, fyrir þína nád, géti enn nú umvendst; og ef þitt umburdarlyndi vid mig heldur áfram, þá veit, ad eptir þetta géti fundist betri ávextir á þessu rotna tré, er svo lengi skada hefir gjort þínu akurlendi. Veittú mér, ó minn Gud! ad þolinmædi þín, sem þú mér svo lengi audsýnda hefur, skélfi mig nú frá, ad hafa þig lengur og mína eigin sálu, einsog fyrir annad leikspil!

O, Drottinn! láttú mig í frá þessum degi, já, upp frá þessu augna-bliki komast ad raun um, ad sönn umvendan tekid hafi meiri framforum í hjarta mínu, enn nockrusinni ádur skéd er, vid allt þad, sem eg híngad til lesid og heyrt hefi. Amen!

## 4di Kapítuli.

**Syndarinn verdur leiddur fyrir Guds dómstól í samvizkunni, ransakadur og sakfelldur.**

§. 1. Einsog eg nú, minn kæri lesari! vil leitast vid ad leida þig til sannrar umvendunar, en ecki til nockurs útvortis eigin réttlætis, eins fullviss er eg um, ad hún fær þó eingan framgáng hjá þér, nema þú innilega audmýkist fyrir Gudi; og med því eg hugsa, ad þú fyrir Guds nád sannfærdur sért um, hve naudsýnligt þad sé, ad þú takir þér til hjarta, þad sem þú allareidu lesid hefur, þá vil eg med allri moguligri alvörugéfni leitast vid fyrst, ad vekja hiá þér sannarligt ángur fyrir Gudi út af þínum stóru syndum; því eg veit vel, ad nema þú med þad slag játir þær fyrir Gudi, þá verkar oll sú nád, sem þér í Evangelio frambýdst, alls eckért hjá þér, og sála þín fortapast efalaust, jafnvel þó þú hafir þin kroptugustu medol fra Gudi, þér til frelsis. Eg er oldúngis viss um, ad til eru þúsund, sem lifa og deya í syndum sínum, án þess ad hafa þá sonnu tilfinningu og ángur út af þeim fyrir Gudi í hjarta sínu, þó þeir, af blygdun, fyrir monnunum, játi med munninum, ad þeir syndarar séu. Þessvegna vil eg nú med hreinskilni hondla um efni þetta vid þig, þó þér kannské sýnist tal mit vera nockud hardt og strángt; því óvidurkvæmilig lempni og undanlátsemi má oldúngis ecki finnast í þeim sokum, undir hvorjum sálar vorrar eylífa velferd er komin.

§. 2. Leyf mér þessvegna, syndari! ad álita sjálfan mig sem þann, er sækja eigi Guds sok á móti þér, og sem eigi ad ákjæra þig, ecki fyrir léttvæga sok, heldur fyrir þad, ad þú sem Drottins svikari, hefur uppreist gjort móti þeim almáttuga himins og jardar stjórnara. Þessvegna má eg nú eckért eptir því fara, hvorrar stéttar þú ert í heiminum; þó þú sért af hærsta adli kominn í marga ættlidi; já þó þitt sæti sé á medal jardarinnar konúnga, og allar þínar medmanneskjur óttist þig, þá hlýt eg samt, med berum ordum, ad segja þér, ad þú yfirtrodid hefur

lögmál Konúngs Konúnganna, og unnið til þess, að hann eptir sinni réttvísi fordæmi þig eylífliga.

§. 3. Eða segir ecki samvizka þín þér, að þú ert fæddur til að vera Guðs undirsáti og þegn, og ert fortakslaust skuldbundinn til að halda lögmál hans og skipanir? en svo bersýniligt það er, — að þín skynsemi gædda náttúra — sem gjörir þig hæfan til að taka á móti lögmáli Guðs — skuldbindur þig til að hlýða því, eins bersýniligt og auðsannað er það, hvörsu illa þú lifað hefir eptir hans skipunum; já, hvörsu opt, hvörsu skammarliga og þverúðarsamliga, þú á margfaldan hátt yfirtroðið hefir hans lögmál.

§. 4. Vogast þú nú að neita þessu? þorir þú að bera fyrir þig sakleysi þitt? Gættu vel að því, að ef þú hugsar að fá staðist fyrir Guði, þá hlýtur þú að hafa aldeilis fullkomið sakleysi og réttlæti til að bera; en sé það ecki, gagnar þér það ecki til annars, enn til að sanna það, að jafnvel þó þú sért fordæmíngar makligur syndari, verður þín fordæmíng samt ecki jafnstór, sem margra annara, og þín pína í helvíti ecki eins geysilig sem þeirra; en þar nú ecki er ódruvísi ástatt fyrir þér enn svo, viltu þá standa samt á því, að þú saklaus sért? ransaka þú samvizku þína — því Guð ransakar hana — og spurðu hana af alvöru: hefi eg aldrei um lífdaga mína syndgað Guði á móti? Salómon hlaut þó á sínum dögum að játa: að þar væri ecki ein manneskja til á jörðunni, sem réttlát væri (Préd. 7, 20); og Páluð segir: að allir hafi syndgað, og séu (svo gott) sem ærulausir fyrir Guði, (Róm. 3, 23); hvörja ástæðu hefir þú þá til að meina, að heimurinn hafi betrað sig svo mikið síðan á þeim tímum; að nockur manneskja géti nú á því staðið, að hún óstraffanlig sé í líferni sínu, og svo réttlát, sem Guði líkar? Eða þorir þú sjálfur að gánga fram fyrir hans allraheilagasta auglit og segja: eg er sá maður?

§. 5. Nú þó eg vildi játa, að þú sikn væri þvílíkra stórglæpa, sem svo skaðligir eru fyrir mannligt félag, að þeir straffast

opt eptir manna løgum, gétur þú samt stadid á því, ad þú aldrei yfirtrodid hafir skyldur þær, sem Guds ótti, bindendi og kærleiki af oss krefur? Mun nockur manneskja sú, sem grant þeckir þig, géta fyrir fullt og allt samsinnt því, ad þú aldrei hafir talad edur gjört neitt óvidurkvæmiligt; edur, þó adrar manneskjur ecki gætu sannad neitt þvílíkt á þig, gétur þarfyrir þitt eigid hjarta fríként þig? gétur það ecki sannfært þig um, ad þú sért hneigdur til drambs, vanartar og bilifis; ad þú med øllum þínum girndum ert fast áhángandi heiminum og hans hégóma; ad þú í leyndum hefir stundum møglad og verid illa ánægdur yfir forsjón Guds fyrir þér, þegar heimurinn hefir ecki leikid þér í lyndi; ad þú ecki hefir brúkad tímann, sem þér borid hefir; ad þú vanbrúkad hefir þær gódu gáfur, sem Gud hefir þér meddeilt, til hégómligra, já, margopt til skadligra hluta; já, ad þú hefir opt rétt sem spottad Gud, þegar þú, í útvortis Gudsdýrkun hefir nálægst hann (ad eins) med vørunum, en hjarta þitt hefir þó verid lángt frá hønum (Es. 29, 13).

Já, þó samvizka þín gæti ecki sannfært þig nema adeins um eins bodords brot, þá veiztu ad þú, eptir Ritníngarinnar dómi, ert þá sekur vid þau øll (Jak. 2, 10); þú gétur því eins litt stadist fyrir Gudi og réttlæzt af þínum gódverkum, einsog þó þú framid hefdir þúsund stórglæpi og hneixlanir. En þú skalt vita, ad þar eru tíu þúsund fleiri hlutir, sem þér kunna til lasts ad leggjast, enn þetta; því þegar þú ferd ad yfirvega þær mørgu syndir, sem þú drýgt hefir, med því ad vanrækja þad góda, ofan á þad illa, sem þú framid hefir, hvørsu skélfilig summa verdur þad þá ecki? Láttu þig reka minni til þeirra mørgu tækifæra, sem þér hafa gésist til ad gjøra gott, en þú hefir þó ecki gjørt; hvørsu ótalsinnum þú forsómad hefir ad tilbidja Gud, einkum í einrúmi, og hrædiliga lítilsmatid ad veita hønum þá réttu virdíngu, svovel sem ad efla þíns náúnga tímanligu og eylífu velferd; hvílíkur hrædiligur grúi synda verdur þetta ecki, sé þad allt saman reiknad, svo þú mátt neydast til

ad hrópa med David: æ, mínar misgjördir eru fleiri enn hárin á höfdi mér (Ps. 40, 13). Pessi syndaher mun svoleidis standa þér fyrir augum, ad þitt hjarta getur ei annad enn sannfært þig um þær, en hvörsu þó miklu framar Gud, sem meiri er hjarta þínu, og þeckir alla hluti? (1 Jóh. 3, 20).

§. 6. Seg mér nú, syndari! sýnist þér þad á engu ríða, ad þú svoleidis yfirtrodld hefir skipanir þess stóra og almáttuga Guds, og forsmád hátign hans og myndugleika? Og þó þetta hefdi ecki skéd nema af athugaleysi einu og sávizku, var þad samt fordæmíngar makligt; en hvorsu þúsund framar, þar þad skéd hefir þér vitanliga, já, opt af ásetníngi og illvilja? Leyf mér nú ad spyrja þig alvarliga, og spyrdu sjálfur þitt eigid hjarta: hvorn hefir þú med þessu spottad og hædt? hvors skipanir hefir þú undir fótum trodid? hvors vináttu edur óvináttu hefir þú med þessu forsmád? Er þad manneskja einsog sjálfur þú, edur máské einn jardneskur einvaldskóngur? Sá, sem einúngis getur deydt líkamann, en sídan ecki meira adgjört? Nei, syndari! þú hefdir þó aldrei vogast ad breyta svo vid einn jardneskan Kóng, einsog þú breytt hefir vid þann eylífa og almáttuga kóng himins og jardar. Hvílík laun sem þér í heiminum hefdu til þess bodin verid, hefdi þad víst ecki af þér fengist ad hegda þér svo vid nockurn jardneskan stjórnara, sem þú hegdad hefir þér vid þinn Gud, fyrir hvorjum sjálfir höfudeinglarnir lotníngu bera, svo undireinsog hann býdur þeim nockud ad framkvæma, mæla þeir ecki hid minsta þar á móti; en hvor ert þú þá, ó! þú vesæla manneskja! ad þú vogast ad setja þig upp á móti hönum? ad þú þorir ad strída þeim Gudi og uppegna hann, sem hefir óendanliga makt og myndugleika, og getur, ef hann vill minstu tilraun gjöra, svipt þig á einu augnabliki öllu því sem þú átt í heiminum, rænt þig lífi þínu og upprætt þig af jördunni, já, þad sem ennnú yfir allt tekur og öllu er skelfiligra, getur, þegar búid er, steytt þig til helvítis, og látid þig lída

þar kvol og pínu eylífliga. Hvílíkur er nú sá almáttugi Gud, sem þú svo hrædiliga styggt hefir og forsmád, og hvörs heilögu bodord þú hefir eckért skeytt um, þó þú yfirtrædir, og þad í augsýn hans, dagliga dags; já, hvílíkur er nú sá Gud, fyrir hvörjum þú stendur, sem sakfeldur glæpamadur; á hvörn sannadar verda, ecki adeins tvær edur þrjár yfirtrodslur, heldur þúsundsinnum þúsund misverk; því alla þína lífstíd hefir þú eckért annad gjört, enn ad reita hann til reidi, já, frá því fyrst þú í heiminn komst, hefir þú, stundum meir og stundum minna, sett þig upp í móti honum; ef þú nú hugleidir, syndari! allt þetta, med öllum þess kríngumstædum, gétur þú þá fengid af þér ad neita synda sekt þinni?

§. 7. Hugleid enn framar: ad ef þad gétur aukid eins synda skuld, ad hann þeckti, edur gat vel þeckt, skyldu sína, sem hann þó yfirtród edur vanrækti, hvörsu stór hlýtur þá sök þín ad vera? Ertú ecki fæddur í Immanúels landi, medal kristinna? Eru ecki Guds lög þér alkunnig, í hvörjum hann segir þér, hvad þú skulir gjöra og fordast? hefir þú ecki haft besta tækifæri til ad þeckja Gud og hans vilja? Engu ad sídur hefir þú breytt einsog slíkt kæmi þér eckért vid. **Þú hefir vitad gott ad gjöra, en ecki gjört þad, þessvegna er þér þad ad synd ordid (Jak. 4, 17).** Hefir þú ecki frá úngdómi verid uppfræddur um Guds vilja, og þar fyrir utan fengid sídan þeckíngu um hann, heimugliga og opinberliga, svovel af prédikunum sem ödrum gódum bókum, sem þú heyrt og lesid hefir? Já, hefir ecki skylda þín fyrir Gudi verid þér opt svo bersýnilig, ad skynsemi þín ein hefdi gétad frædt þig um hana, þó þú ecki hefdir adra uppfrædíngu fengid? hefir þú ecki líka opt verid varadur vid þeim háska, sem af óhlýdninni flýtur? hefir þú ecki vitad **Guds réttlætis dóm, ad þeir sem slíkt gjöra, eru dauda sekir** (Róm. 1, 32); og samt hefir þú ecki adeins framid þad sjálfur, heldur og látid þér vellynda, þó adrir fremdu þad; og þessa sömu hefir þú gjört ad þínum bestu trúnadar vinum

og stallbræðrum, og svoleiðis, með þínu vonda eptirdæmi, styrkt annara hendur til ránglætisins.

§. 8. Enn framar að segja: því stærri Guðs kærleiki og miskun við þig er, því stærri og geysiligri eru þínar syndir, ef þú móti honum brýtur; hvað þú vesæla og dárliga manneskja hlýtur að játa. Seg mér: hefir ecki Guð uppalið þig, sem sitt barn, en þú hefir þó með þverúð sett þig upp á móti honum? dróg hann þig ecki útaf þinnar móður lífi? (Ps. 22, 10.) Vakti hann ecki yfir þér á þínum æskuárum, og varðveitti þig frá óteljandi hættum, sem þeir allra umhyggjusömustu foreldrar eður fósturmæður hefðu ómoguligá gétað varið eður viðgjört? Hefir hann ecki géfið þér skynsama sálu, og henni marga ypparliga krapta og eiginleika, samt lénað henni meðöl og tækifæri, af hvorjum hún kunni að uppbyggjast og betrast? Hefir hann ecki hvorn dag, með óþverrandi gjafmildi, ecki einúngis uppfyllt þína nauðþurft, heldur jafnvel géfið mörgum, sem þetta lesa, gnægð, ecki adeins af endurnæringar-, heldur og eptirlætis-meðolum, í þessu lífi? Hefir hann ecki heyrt hróp þitt, þegar þú hefir verið í neyð staddur (Job. 27, 9); og ætíð verið þinn hjálpari, þegar þú í mótlætinu hefir til hans hrópað? Hefir hann ecki opt frelsað þig í vandræðum, þegar háskinn hefir rétt sýnst ætla að uppsvelgja þig, og hjálpað þér í hættuligum sjúkdómi, þá sérhvor þér nálægur hugsaði, að hann mundi ætla að svipta þig lífi, midt í þínum dogum (Ps. 102, 24)? En, þó þú ecki verið hafir í þessum kríngumstæðum, er þá sú lánga og sjelda heilbrygði, sem þú í morg ár notið hefir, einkis verð? Mundirðu ecki hafa átt að viðurkénna hana, og hún skuldbinda þig til lángt stærri þacklátsemi við Gud, enn þú híngað til auðsýnt hefir? líttu umkríng þig, og aðgættu allt, sem þú átt og hefir undir höndum, og seigðu mér svo, hvort þú hefir nockurs þess allraminsta góða í heimi þessum notið, sem þú ecki af Guðs mildu orlætis hendi þegið hafir, og sem miskun hans og náð ecki hafi viðhaldið og verndað? En bættu nú ofan á allt þetta hans náðuga og guðdómliga vilja, sem hann svo yfirskjótanliga

hefir látið boða þér; þeim allrafoðurligustu áminníngum, sem hann hefir gjört þér; þeim hörmuligustu klögunum, sem hann hefir framfært, til að leiða þig til kristiligs lifnaðar; hans opinberaða orði, í hvörju hann hefir svo inniliga framboðið þér sína náð, sem þú hefir tíðt og opt heyrt, en þó frá þér skúfað og forsmáð; og seg mér nú. — þegar þú íhugar allt þetta — hvört þú með þínum yfirtroðslum hafir ei gjört þig sekan í því viðurstyggiligasta og skammarligasta óþakklæti, sem til er; og sýnist þér nú ecki að þvílík þín breytni vinni til stórrar refsíngar?

§. 9. Meira að segja: svo framt það eykur syndina og gjörir hann enn þá straffsmakligri, ef hún drýgð er móti samvizkunni og betri vitund, þá hefir þú, syndari! unnið til tvöfalds straffs; ransaka aðeins fyrst þitt eigið hjarta, hvört það ecki vitnar á móti þér, og neitaðu þá sökinni, ef þú getur. Guð hefir gefið þér skynsemi, og þessi skynsemi verkar óbyggjanliga þá heimugliga innvortis sannfæríngu, að maður eigi síðar að standa skapara sínum reikníng.

Það er opt hægt að mæla á móti því, sem menninnir segja, og að segra sök sína með fölskum litum; en í tilliti hjartans, sem Guð þeckir, er því allt öðruvísi háttað; það fordæmir mann opt, mildt í því túngan afsakar; og seg mér, hefir þú ecki sjálfur opt reynt, að því er svoleiðis varið? hefir ecki samvizka þín opt ákært og straffað þig fyrir þína hegðan, þó þú hafir viljað dylja hana fyrir mönnunum? Einn viss, stór og trúverðugur herramaður hefir sagt mér, að hann einusinni hafi verið staddur í einu lystugu samkvæmi manna af æðri röð, hvar einn og sérhver áleit hann og hrósaði honum, sem þeim farsælasta manni á jörðunni, af því þeir vissu ecki, hvað þar lá á hans samvizku; en sem hann í því sama bili sá einn hund koma inní stofuna, hvar hann, ásamt þeim samankomnu, staddur var, andvarpaði hann inniliga með sjálfum sér út af samvizkunnar ángist og kvíða, og æskti heimugliga: æ að eg væri aðeins þvílíkur, sem þessi racki! Nú spyr eg þig, syndari: hefir þú aldrei

fundid til neins hvílíks hjá þér? Er samvizka þín ordin svo tilfinníngarlaus, og er hún ordin svo brennimerkt (1 Tím. 4, 2), ad hún ecki framar kénnir til; og hrópar í móti þér, þegar þú gjörir henni ofríki? hefir hún aldrei varad þig vid þeim illu afleidíngum, sem af því fljóta, ad breyta med ásetníngi móti hennar áminníngum? Hvílíkar hennar áminníngar eru þó í raun og veru Guds elgin raust; þær eru nockurskonar advaranir, sem hann lætur sinn fullmektugann, er býr í þínu hjarta, géfa þér; ef þú nú engu ad sídur heldur áfram í þínum misgjördum svoleidis, ad Guds dómur til eylífs dauda hljóti vid þig ad framkoma, þá muntu heyra þessa raustu tala til þín aptur ad nýu, med lángtum skélfiligri og ógnarligri róm, enn ádur, líkum óargadýrs öskri; og þetta mun auka kvöl þína ákafliga, þar hún í eylífdinni mun brírla þér um misverk þín, og um þad, ad þú vildir ecki hér í lífi, medan þú hafdir tímann, heyra áminníngar hennar og advaranir og hlýda þeim.

§. 10. Leyf mér ná enn framar, ad setja þér fyrir sjónir: ad ef þad eykur syndina og gjörir hana vidurstyggiligri; þá madur syndgar, eptir þad Gud, fyrir sinn heil. Anda, hefir hrært hjarta manns, þá hljóta þínar syndir vissuliga ad verda þaraf ennnú stærri og straffsverdugri. Því svo myrk og ófullkomin, sem Gydínganna Guds þjónusta í gamla Testamentinu í sjálfri sér var, þráttadi þó Guds Andi vid Gydínganna samvizkur, og leitadist vid ad ávinna þá; því hvörsu hefdi Stephanus ella kunnad ad áfsaka þá og segja: þér hardsvíradir og óumskornir í hjörtum og eyrum; þér mótistandid altid heil. Anda, einsog fedur ydar, svo og einnig þér! (Gb. 7, 51.) Hvörsu miklu stærri orsök hofum vér þá til ad halda, ad Gud leitist vid ad ávinna syndarana, nú þegar vér lifum undir því skæra og sáluhjálpliga Evangelíó? Hefir þú nú aldrei, ó madur! reynt neitt í sjálfum þér, þessu líkt? Hefir þig skort þær útvortis kríngumstædur, edur þá gudhrædda kénnendur, sem hefdu kunnad ad uppvekja þig til eptirþánka? Hefir þú aldrei fundid til einslags heimugligrar driftar í sinni þínu, sem hefir viljad

knýa þig til ad þenkja um Gudhrædsluna, og líka sem ástúdligur vinur upphvatt þig, ad þú tafarlaust skyldir géfa henni rúm í hjarta þínu og reyna til ad æfa hana; og undireins bendt þér til, hvad sárliga þú mundir sídar meir ydrast þinnar hylkni og forsómunar í því tilliti?

O, þú syndari! hvarfyrir hefir þú ecki géfid gaum ad slíkum gódum og gudligum hræríngum í hjarta þínu? hvarfyrir hefir þú ecki (ad eg svo til orda taki), breidt öll segl sálar þinnar út, til ad taka á móti þessum himneska vindi, sem efalaust verid hefir Guds Anda verkan og vidleitni ad umvenda þér, án hvörs adstodar enginn kann á lífsins veg ad komast. En med því þú hefir ecki viljad þessu sæta, heldur mótistadid og nidurkæft þessar Guds Anda hræríngar, þá láttu þig ecki undra, þó sá réttvísi dómur kunni yfir þig ad gánga, er segir: "minn andi skal ecki þrátta vid manneskjuna æfinliga" (1 Mós. 6, 3). Og í sannleika, hvor gétur sagt, hvad brádliga hann kann ad gánga yfir þig? Ef þú ecki finnur neinar innvortis hræríngar, eckért ángur né trega, og enga uppvakníngu vekjast í hjarta þínu, þegar þú les nú edur heyrir ord þessi og áminníngar, þá hefir þú stærstu orsok, ad óttast fyrir ádursögdum Guds dómi.

§. 11. Hér ad auki er ennnú einn hlutur, sem stórum eykur synd þína — jafnvel þó fæstir þad meini — ad þú nefniliga hefir af þverúd rofid þau heiloguslu heit og lofanir, fyrir Gudi. Þetta er hlutur sá, sem plágad hefir samvizkur margra, og þad þeirra, sem máské, mestpart æfi sinnar, hafa dýrkad Gud med hreinskilni. En hvor mun þá orsok þess, ad slíkur þánki ecki plágar þig líka svo? líkliga sú: ad þú aldrei híngad til hefir sjálfur af hjarta unnid Gudi fullkomna hlýdnis heitstrengíngu; aldrei inngengid edur samid vid hann réttnefndan sáttmála frá þinni sídu, jafnvel þú heyrt hafir svo mikid talad um hans sáttmála, og þér hafi þráfaldliga bodid verid, í kærleika, ad gángast undir hann. En kannské, þared þú hefir þetta ecki gjört, þú álitir þig þá ecki svo straffs sekan fyrir Gudi,

þar þad verdi ecki rofid, sem ei hefir verid lofad; en trúdu mér, þetta gjörir þér miklu minni afbötun enn þú hugsar.

Eg vil ecki svo tala um sáttmála þann, sem gudfedgin þín sömdu vid Gud, undir þínu nafni, þegar þú skírdur varst; jafnvel þó þad augljóst sé, ad vér, sem látum oss kristna kalla, þar vér skírdir erum, skuldbindumst eins til ad halda þær lofanir, sem gudfedgin vor gjördu þá fyrir vora hönd, einsog vér þær siálfir gjört hefdum; en veiztu ecki ad þú siálfur hefir med eigin munni og hendi endurnýad hátídliga þennan sáttmála vid Gud, þegar þú fermdur varst, og jafnvel sídan, svo opt sem þú hefir til Gudsbords gengid? Þaradauki vil eg spyrja þig: hefir hjarta þitt, í frá úngdómi, altíd verid svo forherdt, ad þú aldrei hafir ákallad Gud, þegar þú hefir í einhvorri neyd edur hættu staddur verid? Hefir þú þá aldrei midt í bæn þinni lofad Gudi, ad ef hann vildi bænheyra þig og hjálpa þér úr naud þinni, ad þú þá skyldir láta af þínum fyrri syndum, og snúa þér til hans med sannri betrun? Nú hefir hann þó bænheyrdt þig og hjálpad þér, því annars væri þad ómöguligt, ad þú lesid gætir línur þessar. Svo hefir þá Gud med bænheyrslunni skuldbundid þig til ad halda loford þitt. Hafir þú nú ecki gjört þad, þá er enginn efi á, ad þú ert straffs sekur fyrir Gudi, þar þú hefir svo samvizkulaust svikid hann. Af þessu öllu sérdu þá, hvad hrædiligur tryggrofi þú ert vid Gud, og skalt vita, ad sú tíd kémur, ad gjörvallt þitt syndaregistur skal, þér til stærstu skammar og skélfingar, af hans réttlæti, fyrir augu sett verda, og þú sídan, nema í tíma sanna ydrun gjörir, þessvegna ad eylífu fordæmast.

§. 12. O, hugleiddu nú þetta, syndari, af allri alvöru! hvad ætlardu þér til forsvars móti þessu ad framfæra fyrir Guds dómi; muntu géta skotid máli þínu frá honum til annars ædri dómara? þad veiztu fyrir víst, ad ómöguligt er. Já, allar þínar afsakanir eru svo ógyldar, ad hvor ein heilvita manneskja — hvad vesæl sem er — gétur hrakid þær, hvad eg skal sídar sýna þér betur ofan á. Annars mun samvizka þín spá þér; hvort

útfall, fyrir Guðs dómi, að þín sök sá muni. Á þig eru sonnuð þau stærstu misverk, og samt hefir þú, þó þú vissir það alltsaman, ecki audmjúkt hjarta þitt fyrir þeim æðsta Guði (Dan. 5, 22, 23); og þarfyrir skal þinn dómur (sem Davíð segir, Sálm. 17, 2) koma frá hans augliti. Þú hefir vitandi og af þverúð yfirtroðið skipanir hans; þú hefir forsmáð hans frambodnu náð og miskunsemi; þú hefir smánað samvizku þína, sem hefir Guðs fullmakt til að straffa þig í sálu þinni; þú hefir mótistaðið hans heil. Anda og hryggt hann; já, þú hefir rétt sem spottað Guð með tómri hræsnis audmýkt, undir hans orða heyrn; og í þessu hefir þú haldið áfram allt á þennan dag; hvað lengi meinar þú, að þér muni þetta líðast? Þar eru máské margar þúsundir í helvíti, sem ecki hafa syndgað nærri svo mikið sem þú, svo það er furðanligt, að Guð skuli allt híngað til hafa þyrmt þér, og viljað nú unna þér þeirrar náðar, að þú getur lesið og heyrt áminningar þessar, og athugað þitt hörmuliga ástand; æ! spilltu þá ecki þessu dýrmæta augnabliki lengur; heldur taktu strax, með allri athugasemi og audmýkt, þvílíkar yfirveganir fyrir þig, sem bezt eiga við það aumkunarliga og skélfiliga ástand, sem sála þín er í stödd.

## Játning þess syndara, sem sannfærdur er yfirhöfuð um margfjölda synda sinna.

Ó Guð! ó þú til reiði reitta hátign, þú almáttugi og alvísi dómari! hvað skal eg svara til þessara kærumála? skal eg segja, að mér sé óréttur gjörður, og eg hafi rétt til að forsvara mig fyrir þínu augliti? Æ nei! til þess vogast eg ecki; því þú veizt bármensku mína, og mín sök er ecki hulin fyrir þér; mín samvizka segir mér og, að, ef eg vildi neita yfirtroðslum mínum, þá mundi eg auka þær með því adeins, og uppæsa þinn réttláta og forþénta reiði-eld enn framar; og ef eg segði: eg er réttlátur, mundi minn eigin munnur dæma mig ógudligan; því eg finn og sé sjálfur, að mínir misgjörníngar eru fleiri enn hárin á höfði mér, fleiri enn öll augnablik minna

lidinna lífstundaz já, sok mín er stærri, enn nockur sær sér ímindad. Mitt hjarta fordæmir mig meira enn nockur annar áklagari; og þú, ó Drottinn! ert lángt meiri enn mitt hjarta, því þú þeckir alla hluti. Hvad hefir gjörvallt mitt líf verid annad, enn sífeld mótstrída og uppreisn á móti þér? Þad eru ecki einúngis eitt edur tvø misverk, út af fyrir sig, sem eg hafi ad barma mér yfir; nei! allir minir þánkar, øll mín áform og augnamid, og allt mitt sinnislags ástand hefir syndugt verid; gjørvøll mín sála er full af synd og ránglæti; allar mínar óskir, þánkar, girndir og tilhneigíngar, því midur! eru þér hverfar.

Eg hefi breytt sem sá; er þig hatad hefir, þú sem ert þó hin allra elskuverdasta og besta vera af øllum; já, rétt einsog eg hefdi med ástundan tekid fyrir mig, ad reyna til, á allra ýtrasta hátt, ad freista þín og þreyta þína þolinmædi, sem þó er svo yfrid forundrunarverd. Mín verk hafa vond verid, mín ord ennnú verri, og hvørsu lángt verra hefir þó ecki mitt hjarta verid, enn hvørutveggja hinna? Ó, þú allra heilagasti Gud! hvørsu skélfiligt afgrunn fullt af synd og vondsku er ecki í mínu hjarta? Þar er uppspretta, full af medfæddri spillíngu, sem blandad hefir sínum eitrudu lækjum ségégnum allt mitt líferni, í frá blautu barnsbeini, og hvørra flód ennnú, allt til þessa dags, útstreymir lángt frekar, enn eg géti med ordum útmálad. Þannig sé eg nú, ad mín sok er á sig komin, þá eg hugsa til þess, sem eg einkanliga get munad til. En æ! hvørsu mørgum mánudum og árum hefi eg gleymt, um hvør eg adeins kann ad segja þad yfirhøfud, ad þau hafa nærfeldt eins vond verid, sem þau er eg til man; en veit þó, ad eg hefi ætíd meir og meir vestnad, og hefi uppegnt þolinmædi þína framar og framar, jafnvel þó eg sífeldliga hafi aptur og aptur reynt þad, hvørsu óseganliga forundrunarlig hún er! Og hvørsu stóra orsok hefi eg nú til ad vegsama þig fyrir þad, ad umburdarlyndi þitt vid mig ennnú vidhelzt? En þad kémur til af því, ad þú ert Gud og ecki madur!

Ef eg, sem adeins er syndugur ormur, hefdi svoleidis verid

af nockrum móðgaður, þá hefði eg aldrei gétað umborið það; hefði eg verið konúngur, þá hefði eg fyrir laungu verið búinn að beita mínu réttlæti, gégn þvílíkum þverúðarfullum uppreistarmanni, hvörs yfirtroðslur gætu þó ecki komist í neinn samjöfnuð við mínar; hefði eg verið faðir, mundi eg fyrir laungu hafa verið búinn að steypa og reka þvílíkt eitt óþacklátt barn í burtu frá mér, er svoleiðis hefði téð sig móti góðsemi minni, sem eg alla mína lífdaga hefi sýnt mig móti gæzku þinni. Já, sá náttúrligi kærleiks eldur til þvílíks barns, hefði fyrir laungu hjá mér útslokinn verið, og eg hefði ecki gétað séð það fyrir augum mér, heldur hefði nafn þess verið orðið mér andstyggiligt. O, hvarfyrir hefir þú þá ecki, ó minn Guð! ennnú snarað mér burtu frá augliti þínu; hvarfyrir hefir þú ecki ofurselt mig undir forherdíngardóm, einsog eg tilunnið hefi? O, það er einúngis að þacka þinni guddómligri miskun, að eg ennnú lifi og er til! O, að þar gæti þá ennnú verið meðal og von til, að frelsa þvílíkan straffsverðan syndara, sem eg er; svo að eg fyrir þitt heil. Evangelium og þína náð géti hjálp fengið! Og svo framt þú, himneski Faðir! sér að þar útkrefst ennnú meiri ángist og hræðsla hjartans, samt mótlæti og þjáníngar líkamans, til þess að sála mín géti orðið sannumvendt og frelsuð, æ, láttu það þá alltsaman yfir mig dynja; en lénaðu mér samt náð til að géta borið það með þolinmæði. O, sundursláttu mitt hjarta, ó, Drottinn! svo framt þú vilt aðeins lækna það aptur; já, sundurknúsaðu það, ef þú aðeins vilt að lyktum auðsýna mér þá náð, að binda um það og græða!

---

## 5ti Kapítuli.

### Syndarinn verður hér sviptur øllum sínum ónýtu afbøtunum.

§. 1. **M**itt síðarsta tal skildi við syndarann í miøg aumkunarverðu og rólausu ástandi, hann stendur nú fyrir Guðs

dómstóli, sem stórbrotamadur, sviptur ollu sínu eigin réttlæti og sakleysi, sem aldeilis ónýtu, svo hann þessvegna hlýtur ad kasta sér undir þann dóm, sem Guds heil. logmál á hann leggur, hvört logmál ei fyrirgéfid gétur þá minstu synd, heldur þar á móti bodar dauda og fordæmingu ollum þeim, sem ecki hlýda Gudi; hvad þá miklu framar þvílíkum, sem drýgt hafa svo ótal morg og stór misverk, sem þín samvizka, ó þú syndari! ákærir þig fyrir og fordæmir hjá Gudi? Nú vil eg vona þess, ad sumir af mínum lesurum muni taka þessari sannfæríngu vel, og ecki hugsa til ad afbata sig med eigin réttlæti; því eg er viss um, ad ef syndarinn áklagar sig sjálfur fyrir Guds dómstóli, og játar sig sekan vera, tekur hann þau bestu úrrædi fyrir sig, sem til eru, midt í sínu óluckustandi. En eg þecki líka mannanna spilltu hjortu, hvorsu hneigd þau eru til ad hræsna fyrir sjálfum sér; eg þecki þær afbatanir, sem þeir almennt brúka, á ýmsan hátt, til ad verja sig med, móti hinni kroptugustu sannfæríngu, og birla ecki adeins odrum heldur og sjálfum sér inn, ad þó sér hafi í einu og odru áfátt ordid, þá séu þeir þó ecki svo straffs sekir, einsog menn álíta, og þar séu ýmsar kríngumstædur vid, sem géti merkiliga affakad þá fyrir Gudi, ef ei aldeilis rétilætt; á þvílíkum heimugligum vidbárum táldregur margur einn sjálfan sig, þó þær séu stundum þvert ámóti skynseminni; þær deyfa alla sannfæríngu, og hindra syndarann frá ad audmýkja sig réttiliga fyrir Gudi; hvor audmýkt þó er þad besta merki til þess, ad syndarans frelsan og umvendan sé í námd. Eg vil þarfyrir ransaka mál þetta enn betur, og spyrja þig, syndari! ennú eittsinn ad, hvad þú hefir þér til málbóta móti Guds dómi? hvorjar affakanir þú gétir til fært, svo ad Guds réttlætis dómur ecki yfir þig falli, og þurfir ecki ad kvída því, ad hans skélfiliga refsíng yfir þig dynji?

§. 2. Nú þó eg framsetji spursmál þessi fyrir þig, þá er eg ecki í rauninni sá, sem þú svara skalt uppá þau; því eg er vesæll syndugur ormur sem þú, er innan skamms standa hlýt fyrir þeim sama dómstóli sem þú, (Drottinn gési eg miskun

finni á þeim degi, 2 Tím. 1, 18), heldur er það almáttugur Guð, dómari alls heimsins, hverjum þú átt að svara. Hverjar afbatanir vildir þú þá fyrir þig bera, ef þú nú stædir fyrir hans dómstóli; mundir þú nockud annad med þeim áorka, enn adeins að auka sok þína, og gjöra þig að straffsmakligri? Sannarliga, ef þú hugsar til Guðs réttlætisfullu nálægdar, þá hljóta þínar ónýtu afbatanir — hvað margar sem eru — að verða að engu, enda þó þær margopt táldragi þá, sem hreinir eru í sínum eigin augum, jafnvel þó skarn þeirra sé óafþvegið (Orðskv. 30); edur jafnvel þó þeir þecki saurugleika sinn, reiða sig þó á login ord sem ecki gagna, Jer. 7, 8, og þvílíka hluti, sem líkir eru brostnum reirstaf, Es. 36, 6. Eg vil nockrar þeirra upptelja:

§. 3. Eckért getur það, til dæmis, stoðað þig, þó þú viljir fegra mál þitt með því, að þú sért af guðhræddum foreldrum fæddur; eg neita ei það kunni satt vera, að þú hafir það fram yfir suma aðra, en þetta verður hér til þess stærri fordæmíngar, hafir þú yfirgéfið Guð feðra þinna, 2 Kron. 7, 22. Ismael var af Abraham kominn, sem var Guðs vinur, og Esau var sonur Isaaks, fæddur eptir fyrirheitinu, engu að síður veiztu þó vel, að báðir þeir urðu útiluktir frá þeirri blessun, er þeir meintu sig hafa erfdaréit til.

Þú manst til, að Frelsarinn talar um einn mann, sem kalladi Abraham, föður, og samt var hann í helviti og kvölunum (Lúk. 16, 23. 24). Og hvað segir ecki Kristur? margir af ríkisins börnum skulu útsnarast, það er fordæmast, midt í því aðrir munu koma frá fjarlægustu löndum, og sitja til borðs með Abraham, Isaak og Jakob, það er komast í Guðsríki; hvarfyrir slíkir bera eckért af ödrum fordæmdum, nema í því, að vein þeirra og tannagnístran verður skélfiligri, Matth. 8.

§. 4. Ei gét eg ætlað heldur, að þú viljir nota þér þá afbötun, að þú hafir æft þig í þeim mikilvægustu atriðum trúarbragdanna; því til hvors gétur það, eptir þínu ástandi, orðið

þér annars, enn að auka þína fordæmíngu? Því þared þú yfirtroðið hefir skipanir Guðs og breytt gagnstædt þeim allraljósustu skylduverkum, sem trúarbrøgðin krefja, þá eru misverk þín þess grúaligri; því að hafa rannsakað og reynt trúarbrøgðin og hegðað sér þó ecki eptir þeim, gjörir breytni þína því blygðunarlausari? Eða helðurðu að trúarbrøgðin séu einúngis til þess, að æfa vitsmunina og ánægja nýúngagyrninni? Ef það er satt, að þú hafir lagt álúð á að forsvara trúarbrøgðin, þá gétur skynsemi þín berliga sagt þér og sýnt, að það veruliga efni trúarbragðanna heimtar æfíngu og fulla framkvæmd í hlýðninni. Og svo framt að þetta er svo, hvarfyrir hefir þú þá ecki breytt, eptir því sem þú vissir vera átti? Hafir þú grandt þeckt øllu høfuð atriði trúarbragðanna, hvarfyrir hefir þú þá ecki lagað þig eptir þeim yfir høfuð? Það hefði verið sú allraluckuligasta afsøkun fyrir þig, ef þú hefðir með røkum gétað borið það fyrir, að þú ei þeckt hafir Guðs vilja, og því hafir þú ei gétað gjørt hann; já, þó það þeckíngarleysi, hefði að nockru leiti verið sjáfum þér að kénna, mundi það þó máské hafa nockuð linað søk þína; en þar þú viðurkénnir að þú vitað hafir Guðs vilja, en samt ecki gjørt hann, þá vitnar þú gégn sjálfum þér, og hefir unnið til mikils straffs (Lúk. 12, 47.)

§. 5. Eins lítið vill það gagna þér, þó þú segir, að ímindanir þínar um trúarbrøgðin hafi réttar verið, svo þú hafir vel skilið bæði lærdóma þeirra og skipanir; því þess hægra hefði þér veitt að hlýða þeim. En það er altíð sitt hvað, að skilja hvað rétt er og að gjøra það; og það svo vel eptir Guðs, sem manna dómi. Þú trúir að Guð sé einn, það gjørir þú vel, en djøflarnir trúir því líka og skélfast þaraf, segir Jakob, 2, 19. Þú játar Kristum að vera Guðsson, vel er það! en þú veizt líka, að þeir óhreinu andar báru þá sømu sannleiks játníngu fram (Lúc. 4, 34, 41), og eru þó engu að síður geymdir í hlekkjum myrkranna allt til dómsins (Júd. v. 6). Og hvørnig viltu þá reiða þig á slíka hluti, og nota þér þær

afbatanir, sem þeir óhreinu andar í helvíti géta eins vel notad sér, sem þú.

§. 6. En máské þú hugsir ad afbata þig med því, ad þú ecki hafir adeins þeckt og skilid trúarbrøgdin rétt, heldur og svo vandlætt fyrir vidhaldi þeirra, fylgt ýmsum þeirra atridum, og haldid þig til þess safnadar, sem hreinasta Gudsdýrkunar máta brúkar; en, þú syndari! eg er hræddur um þetta þitt vandlæti og kapp ad verja þá sonnu trú, auki framar reikníngskap þinn enn minki; hann, sem hjörtun ransakar, veit bezt hvad þér hefir til þess gengid, og hve lángt þad tók; máské hann álíti þad alltsaman fyrir eintóma hræsni, og einslags skýlu, undir hvorri þú med kænsku leitadist vid ad ná óleyfiligum tilgángi í þessum heimi; og þá hefir þú, med ollu þessu, ecki gjørt annad, enn á svívirdiligasta hátt ad spotta Guds heil. nafn og trúarbrøgdin; og ef svo er, liggur stórkostlig bölvan yfir þér, fyrir þad ad þú svo blygdunarlaust dregid hefir gis ad alvizku Guds og réttlæti. Þad gétur skéd ad alvorugéfni sú, med hvorri þú stridt hefir fyrir trúnni — og sem þú rángliga álitid hefir gudligt vandlæti — hafi einasta sprottid af hofmód og beiskju hjarta þíns; máské ad allt þitt ímindada vandlæti hafi komid af því, ad þú reiddir þig allt of mikid á þína eigin þeckíngu, og gazt ecki lidid ad nockur mælti á móti þér; edur og, ad þad hefir flotid af leyniligri vondsku hjarta þíns, sem ánægju hefir af ad fordæma adra og ofsækja. Þvílíkar manneskjur eru á vissan hátt eins grimmar í gégn trúarbrøgdunum, sem úlfur móti lambi, því þeir fara med þau einsog ránsfé, og umbreita þeim frá þeirra rétta náttúru edli, til þess sem þeim gagnstædt er. Heldur þú nú, ad þetta muni nockud géta réttlætt þig fyrir Guds dómi? Nei! þad uppæsir miklu framar Gudsreidi í gégn þér, enn ad þad afsaki þig.

§. 7. En láttu nú svo vera ad þetta vandlæti þitt hafi svo vel innra sem ytra haft bædi saklausan tilgáng, og hafi blandad verid med hógværdar adferd, hvad gétur þad samt notad þér? Gétur þad nockud afbatad þína eigin stóru óhlýdni og

uggleysi, sem þú sýnt hefir móti Guds bodordum, og sem þú hlýtur loksins ad standa reikníng fyrir? Er Evangelíi lærdómur opinberadur einúngis til þess, ad madur skuli vera ákafur í ad verja hann (þó hvörjum einum byrji þad ad gjøra), en ecki til ad æfa sig sjálfan í hans hlýdni? Med því sídara gleymir madur oldúngis Guds ords sanna augnamidi, og fer ad rádi sínu, einsog þeir sem tíundudu myntu, anís og kúmen, en gleymdu því sem mest áreid í løgmálinu (Matth. 23, 23), sem er kærleikurinn til Guds og náúngans (Matth. 22, 38). O! hvörsu getur þad møguligt verid ad þú fáir umflúid Guds réttlætisdóm, sem fellt hefir dóm yfir adra fyrir þeirra vantrúar og óhlýdnis sakir? Þú verdur miklu framar fordæmdur af þínum eigin munni, (Lúc. 19, 22).

§. 8. Skal þá mitt eigid réttlæti ekkért afsaka mig? viltu máské segja. Eg hefi verid frí fyrir stórglæpum, lifad skickanliga og æft miskunsemi, getur þad eckért stodad mig? Eg svara: satt kanntu þetta ad segja ad vísu; og ef hlýdni þín vid Guds bodord hefdi fullkomin verid, þá hefdi þetta getad verid gódar og gildar málsbætur fyrir þig. En eg er ádur búinn ad sýna þér ofaná, ad samvizka þín vitnar ámóti þér, og sannar á þig, þad sem þessu gagnstædt er, og þú getur því ecki heldur neitad. Eg vil enn framar bæta því vid, ad ef gódverk þessi, sem þú vitnar til, hefdu haft sinn uppruna af hreinskilnum kærleika til Guds og sannri trú á Jesúm Krist, þá mundir þu ecki reida þig á þau framar enn ad því leiti, sem þau sannad fá ad lifandi trú á Jesúm búi í hjarta þínu, fyrir hvörja þú hefir hlutdeild í Guds nád, er Kristur þér med sinni pínu og dauda afrekad hefir; en þad er teikn til þess, ad trú þessi er ecki sønn hjá þér, því ella uppvekti hún hjá þér audmýkt og blygdun fyrir Guds heilagleika og réttlæti, svo þú, ístad þess ad vitna til þinna gódverka fyrir Gudi, mundir framar hafa bedid um nád og fyrirgéfníngu; þar vor allra bestu verk eru saurgud med mørgum syndalýtum, í hans augliti. En med því ad eg álít

minn lesara og tala til hans, sem þess, er ennnú ecki þeckir neitt til þeirrar sonnu audmýktar og helgada hjartalags, sem á hefir minnst verid, þá finn eg mig sterkliga þrengdan til, ad segja honum, hvor sem hann er, dylgju- og afdráttar-laust, ad hvorki hóssemi, sidprýdi edur hógværd, né nockrar adrar dygdir, géta réttlætt hann hid minsta fyrir Guds dómi, því hans réttlæti ransakar alla vora þánka, ord og verk, á strángasta hátt. Þú hefir, minn vin! hvorki verid dryckjumadur, né drýgt hórdóm edur þjófnad; þad er ad vísu gott, (og Gud gæsi allir gætu sagt þad um sig med sonnu!); en gættu ad, ad þú stendur fyrir augliti þess réttláta Guds, sem hondlar vid þig eptir sannri réttvísi, þessvegna er þad víst, ad ecki mun hann fordæma þig fyrir dryckjuskap, hórdóm edur þjófnad, fyrst þú þad ecki framid hefir; en þarámóti hefir hann þúsund adrar sakir ad fordæma þig fyrir, t. d. hefir þú ecki opt gleymt honum, sem þó er þinn Fadir og mesti velgjorari? hefir þú haft hann altíd fyrir augunum, og látid hans ótta vaka í þér? hefir þú rækt ydugliga bæn til hans, og heidrad hans nafn sem þér borid hefir? hefir þú dagliga, fyrir trúna, þvegid þína sálu í hans Sonar blódi, tekid uppá þig hans kross og fylgt honum eptir? hefir þú géfid hans heil. Anda rúm og fylgt trúliga hans hræríngum í hjarta þínu? hafir þú þetta ecki gjort, þá er þad, sem þú verdur fordæmdur fyrir. Því hvad þá hluti snertir, sem sýnast líklr vera dygd og sidgædum í útvortis hegdun þinni, þá hefir þú fengid af Gudi fullkomin laun fyrir þá, svo framt þeir verid hafa meira enn hræsni eintóm og skinhelgi; því med sínum dagligu velgjorníngum þér til handa, hefir hann þetta allt meir enn þúsundfaldliga betalad. Þú stendur þessvegna fyrir hans augum sem ákærdur sokudólgur fyrir ótal misverk, sem þú ei gétur afsakad med nockurt slag, jafnvel þó ecki hafir þú þá svokolludu stórglæpi framid; og þessvegna kunna oll þín gódverk, uppá hvor þú svo mjog reidir þig, eins litid hjálpa þér til forsvars í hans heil. augliti, einsog þad vildi litt gagna einum landráda-

manni, til ad fría hann makligu straffi, ad hann hefdi gjørt mikid gott sínum fátæku nágrønnum.

§. 9. En þú vilt máské bera þad fyrir þig, ad þú hafir ecki hugsad edur vænt, ad þad mundi vera svo hættuligt ad undandraga umvendun sína; en hvad kémur til, ad þú ecki hefir þenkt þad? hvarfyrir hefir þú ecki ransakad efni þad, med meiri alúd? hvarfyrir hefir þú leyft þínu dárliga og launstolta hjarta, ad láta sér nægja med tómt útvortis skinid; hvarfyrir hefir þú reidt þig framar á þínar eigin innbirlíngar og hleypidóma þína og annara, enn á Guds berligu ord og skipanir? Hefdir þú ímindad þér Gud, einsog hann er, sem yfirdrottnara himins og jardar, þá hefdir þú strax séd, ad þar hlyti endiliga ad koma dagur sá, á hvørjum Gud mundi gjalda einum og sérhvørjum eptir hans verkum; hefdir þú med gaumgæfni yfirvegad heil. Ritníngu — hvørrar guddómligum myndugleika þú játar þig þó ad trúa — þá gat hvørt blad í henni kénnt þér, ad vænta þvílíks eins dags. Þú segist ecki hafa hugsad um umvendan og Guds dóm! um hvad, seg mér, þenktir þú þá, þegar þú þessu gleymdir? hafdir þú svo margar sýslanir adrar ad umhugsa, ad þú kæmist ei til þess? Hvad fyrir slags voru þær þess? kunni nockur hlutur vera þér svo mikils umvardandi? Nei, enganveginn! Samvizka þín hlýtur og ad segja þér, ad þú midt í øllum þínum sýslunum hefir þó haft nógan tíma og tækifæri til ad hugsa um umvendun þína; en þú vardir þig gégn þeim gódu þaunkum, einsog gégn óvini, og ummúradir þig á allar sídur med uggaleysinu, einsog þú hefdir átt ad verja þig móti hættuligasta áfelli. Gud vissi líka ad þú varst gleyminn og gálaus, og þessvegna sendi þér **bod eptir bod, línu eptir línu** (Es. 28, 10); hann lét géfa þér eina áminníngu eptir adra, og taladi svo greiniliga til þín, ad þar þurfti engrar skarpsýni vid, ad skilja þad. Hann reyndi til, bædi med þjáníngum og velgjørníngum, ad uppvekja þig af þínum synda svefni, og jafnvel þó þér stundum lægi vid ad vakna, hefir þú þó, engu ad sídur,

lagt þig út af aptur, til ad sofa í syndinni, sem ádur. Nú þó syndasvefn þinn og draumórar hafi verid þér mjøg þægiligir, máttu þó sjá, ad hvørju reka vill lokśins fyrir þér; og nú finnur þú allareidu nockur merki þess, þar sannfæríng þín, um þitt ydrunarleysi allt híngadtil, er þér nú ordin ad plágu, þar þú hefir ei viljad fyrri taka sinnaskipti.

§. 10. En sumir vilja nú máské innbirla sér, ad enn sé eptir ótalin ein mikilvæg afbøtun fyrir sig, sem þeir halda ad mega gyld álítast, nefniliga þessi: ad sér, eptir sínu náttúru-fari, hafi ómøguligt verid ad lifa ødruvísi enn þeir lifad hafa, og ad þeir hafi neydst, vegna þeirra kríngumstædna, sem þeir í voru, til ad gjøra þá hluti, sem þeim nú til lasts leggjast. Í afbøtun þessa sýnist ad vera nockud varid, en er þó eckért; hún er eintómar heimskuligar vidbárur. Því þó þad satt sé, ad þad sé ránglæti ad straffa nockurn fyrir þad, sem honum var alls ómøguligt vid ad gjøra, svo framt hann ecki siálfur var sek í, ad hann komst í þær kríngumstædur, sem neyddu hann til ad gjøra þad hann gjørdi, svo er því lángt ødruvísi háttad fyrir þér og þínum kríngumstædum; þad sama, med hvørju þú sanna vilt, ad þú hlotid hafir ad syndga, þad sama sannar, ad Gud hlýtur endi-liga ad straffa þig; því assøkun þinni sýnist mér eins varid, einsog ef einn illur þjón hefdi fyrst stolid frá húsbónda sínum, og sídan, til ad dylja þjófnad sinn, hefdi lagt eld í hús hans, en viljad þá afsaka sig og segja: ad hann hefdi neydst til þess, vegna sinna kríngumstædna, og þeirrar vondu girndar, er hann hefdi í sér til þess haft; mundi þvílík afbøtun hafa gétad fríad hann, og takast fyrir gylda? En allt eins lítid mun þér, þú syndari! á dómadegi duga sú afbøtun: ad þú, eptir þínu nátt-úru- edli og kríngumstædum, hafir ei gétad annad, enn syndgad, og framid þá hluti, sem samvizka þín fordæmir þig fyrir. Ímindadu þér, ad þú sæir einn stórbrotamann deya med þessum ordum í sínum munni: O Gud! þad er satt ad vísu, ad eg hefi rænt frá mínum náúnga og slegid hann í hel, en þú veizt, ad eptir mínum kríngumstædum gat þad ei ødruvísi verid, og minn

vilji gat ecki gefid rúm þeim hrærandi ástædum, med hvorjum þú í þínu ordi vildir ráda mér frá því og aptra; því eins litt og eg orkadi ad hræra heila jardarhnøttinn edur formyrkva sólina á festingunni, eins lítt gat eg mótistadid þeim sterku tilhneigíngum, sem knúdu mig þar til; eg legg nú þetta á samvizku þína og spyr þig, hvørt þú ei mundir heyra á þvílikt tal, sem þetta, med mesta vidbjód og forakti, og álita ad þad bidi engum svørum; eugu ad sídur er afbøtun þessi eins gyld, sem þín, og getur eins vel brúkast til ad fegra þá stærstu og hneixlanligustu lesti; en hún stridir svo aldeilis móti þeim bersýniligustu sannindum og heibrygdri skynsemi, ad eg get ecki fengid af mér ad trúa, ad nockur af alvøru muni frambera hana; og þessvegna álit eg þad tóman tímaspillir, ef eg med mørgum ordum vildi tilbaka reka þær inubirludu ástædur, sem sérvizka manna leitast vid ad fegra og afbata med syndasekt sína og yfirtrodslur.

§. 11. Þú sér þá, minn lesari! hvørsu fánýtar allar þínar affsakanir eru, og hvørsu hægt er ad hrinda þeim øllum — jafnvel þeim sem skársi álit hafa — og þad af daudligri mannsekkju, þínum líka, hvørsu þá lángt framar af honum, sem hjørtun ransakar, og í einu augnabliki getur, med ómótstædiligum krapti, snortid samvizkuna? Hvad viltu þá til ráds taka, medan þú stendur fyrir Guds augliti, sannfærdur um allar þínar misgjørdir? Hvad kanntu annad ad gjøra, enn þegjandi, med innvortis ótta og skélfingu yfir þínum mørgu og óaffsakanligu misverkum, ad búa þig undir ad heyra þinn dóm, sem løgmál Guds tilkynnir þér? Straffid hlýtur og vísuliga yfir þig ad dynja, nema svo sé, ad Guds Evangelíum bodi þér loksins nád og frikénni þig; þó hlýtur þú ad finna til skélfingar af løgmálsins hótunum, ádurenn þú drifinn verdur til ad leita hjálpar og nádar í þessu Evangelió.

## Hugleiding þess syndara, sem sannfærdur er, og fyrir Guds augliti kastar frá sér øllum sínum gagnslausu og hreint ónýtu afbøtunum.

Æ! þad aumkunarliga ástand, sem eg er fallinn og ligg í;

eg hefi syndgad; og hvad skal eg til gjora, fyrir Þér allsjáandi Gud? Æ, hvad skal eg segja edur gjøra; eg dári, sem leitast hefi vid ad afbata mig med ónýtustu vidbárum, sem eg Þó hugsad hefi, ad kynnu ad gylda nockud fyrir Þínum réttlætis dómstóli, og hefi Því dirfst ad bera Þær fram. Æ! nú sé eg ad Þær gjøra mína fordæmíngu lángtum Þýngri. Eg stend Því ordlaus og daudskélfdur! mín von er horfin, og mín sála ætlar rétt ad deya, nefniliga á hann hátt, sem hín ódaudliga sála deya kann; já, Þegar eg álít hørmúngu mína einasta, og ecki undireins Þína náð, Þá mætti eg alvarliga óska: ad hún kynni hreint ad deya. Eg er visfuliga Þvílíkur sakamadur, sem fallinn er í réttarins hendur; svíptur øllum Þeim vørnum, sem eg reiddi mig á. Hræsni og yfirdrepskapur spillir adeins máli mínu. Eg vil Þessvegna óneyddur opinberliga játa, ad eg hefi breytt, einsog eg héldi, ad Gud væri Þvílíkur einn, sem eg sjálfur er. En hann hefur sagt: eg vil straffa Þig, og setja Þér (syndir Þínar) fyrir sjónir; já, eg vil leida Þær fram sem herlid ámóti Þér. En, æ! hvørsu skélfiligur má mér sýnast Þessi stridsher af syndum? Ó! hann úmkríngir mig á allar hlídar, svo mér er ómøguligt undan ad komast. Já, mín sál! Þessi her hefir tekid Þig til fánga, og flytur Þig nú fram fyrir Guds dómstól! hér hlýtur Þú ad mæta; hér skaltu standa fyrir Þessum skélfiliga og réttláta dómari, sem rannsakar hjørtun og nýrun, og Þarf einkis annars vitnisburdar vid, Því bædi veit hann sjálfur og vitnar um Þína Þverbotnu hegdan. Þennan stóra og almáttuga Gud munt Þú, mín sál! sjá fyrir Þér á dómstólnum; og vilji hann tilreikna syndina, hvør kann Þá ad svara honum einu á móti Þúsund; og ef Þú getur ecki svarad honum, hvørnig mun hann Þá til Þín tala! Æ, Herra! í Þessu ástandi sem eg er, syndarinnar vegna, kann eg ecki annars ad vænta, enn Þú munir boda mér eylífa fordæmíngu. Æ, gef mér ad hugleida og yfirvega Þessa mér maklígu fordæmíngu; já, láttu mig opt lesa minn dóm yfir, ádurenn eg hlýt ad heyra hann, og hann sídan verdur aldrei ad eylífu apturkalladur. Eg veit Þú hefir sagt mér

þetta fyrirfram í orði þínu; eg veit ogsvo, að þú hefir gjört það í allra besta tilgángi; eg veit, að þú frelsa vilt oss, með því að gjöra oss hrædda, uppá það vér ecki eylífliga fortapast skulum, heldur hrifnir verða sem brandar útaf eldinum. Tala þú þessvegna til mín, ó minn Guð! nú, áðurenn þú talar það í síðasta sinni; svo eg komist ecki í það ástand, að þú ecki viljir heyra mig framar. Tala þú til mín strax með slíkri skélfiligri raustu, að þín rödd þursi ecki loksins á síðasta degi að setja mig í eylífa örvæntíngu; láttu orð þín, hvörsu kvalafull sem mér finnast kann verkun þeirra, vera í mér lifandi og kroptug, og beittari nockru tvíeggjuðu sverði. Líð mér ecki að smjaðra fyrir sjálfum mér með forgéfins von, og lát mig ei verða þeim að bráð, sem tala til mín með smjaðrandi orðum, uns eg loksins uppsvelgist af reiði þinni, og hlýt að reyna það, að réttlæti þitt þrengir sér, sem morð-píla, gégnum mitt hjarta, og minn andi skal hennar eitur í sig drecka. Áðurenn eg nákvæmligar athuga sjálfan mig, veit eg vel fyrirfram, hvörsu skélfiligt það er, að falla í hendur lifanda Guðs. Já, eg er, ó þú lifandi Guð! allareiðu á vissan hátt fallinn í þínar hendur; eg hefi þína reiði forþénað; já, með réttu hefi eg til hennar unnið; og hvílíkur sem dómur sá verður, er þú yfir mér dæmir, hlýt eg þó í öllu tilliti að frikénna þig, en áklaga og fordæma sjálfan mig. Þú gétur aldrei orðið strángari við mig, enn eg, með mínum misverkum, tilunnið hefi; því hvörsu bitur sem kaleikur grimdar þinnar, hvörn þú mér tilreidt hefir, verða skal, þá felli eg samt þann dóm yfir sjálfan mig, að eg er makligur til að afdrecka hann, já, afdrecka hans (síðustu) dreggjar.

---

## 6ti Kapítuli.

### Syndarinn sem sakfeldur er fyrir Guðs dómi.

§. 1. Heyrðu mig, ó þú syndari! eg vil ennnú einusinni tala til þín í Guðs, þess almáttuga dómara, nafni; en

svo framt þú vilt nú ekki heyra þénara hans, þá mun hann innan skamms tíma tala til þín medalslaust, og þad med þvílíkum krapti og skélfingu, ad þú getúr ómoguliga framar mótistadid hans raustu.

§. 2. Þú hefir nú verid sannfærdur, í Guds nærveru, um sök þína, og allar þínar afbatanir svo ónýttar, ad þú ert ordlaus gjørdur. Þú stendur því fyrir Gudi og þinni samvizku, sem sá, er alls ekkért hefir til varnar sér, móti réttvísu dóms áfelli. Hlusta þarfyrir á dóm þinn, og neyttu, ef þú getur, allra þinna sálarkrapta til ad þola þad straff, sem á þig lagt verdur. Þad er lítid í þad varid ad dæmast af monnum, edur mannligum degi; en gæt þess, ad þad er Drottinn sem nú dæmir þig (1 Cor. 4, 3. 4). Skélfstu þessvegna, medan eg segi þér, hvørsu hann muni til þín tala; edur réttara ad segja, medan eg nú greiniliga segi þér frá, hvørsu hann nú til þín talar, og í hvørju hans rétti dómur falinn er, hvør svo opt ánýast í hans heil. ordi; því ordi, um hvørt hann sjálfur segir, ad himin og jørd muni fyrr forgánga, enn sá minsti bókstafur þess (Matth. 24, 35).

§. 3. Løgmál Guds talar ekki adeins til þín, þú syndari! heldur yfirhøfud til allra yfirtrodslumanna, og er skélfiligt móti øllum syndum, smáum sem stórum, án minstu vægdar. Svo hljóda þess ord: bølvadur veri hvør sá ei heldur allt þad, sem í løgmálsbókinni skrifad stendur (Gal. 3, 10). Med þessarí skélfiligu raust talar løgmálid til gjørvalls heimsins, og svo undireins til þín, minn lesari! Því samvizka þín segir þér, ad þú hefir alls ekki haldid og gjørt þad, sem løgmálid býdur, og hlýtur því ad finna til, hvørsu óteljandi syndir á þér liggja. Þad er því ljóst, ad þú ert einn sá sem løgmálid fordæmir; já, þú ert, fyrir syndir þínar, undir formælíngar dómi almáttugs Guds, svo øll sú bølvan, sem í løgmálsbókinni skrifud stendur, liggur yfir þér (5 Mos. 29, 20). Gud hefir, á hvørju augnabliki, stærsta rétt til ad úthella henni yfir þig; því jafnvel þó þú, nú sem stendur, finnir máské ekkért til hennar,

engu ad sídur, ef hans óendanliga miskun ecki hindrar þad, mun þess skammt ad bída: ad hún gengur inn í þig, sem vatn, og smýgur, sem olía, inn í þín bein (Sálm. 109, 18).

§. 4. Svo segir Drottinn: Sú sála sem syndgar, skal deya, (Ezech. 18, 4). Nú hefir þú syndgad, og þessvegna liggur þú undir daudans dómi. O, þú vesæla manneskja! hvílíkur er þá daudi þessi? og hvílík munu afdrif þín verda? hvílík, segi eg, þegar daudans ángist og pína, sem náttúrliga flýtur af líkama og sálar adskilnadi, yfirfellur þig? Þegar þín ódaudliga sála skal slítast burt frá þínum máttlausa líkama, og þú verdur ad moldu aptur, af hvorri þú tekinn ert; þetta eru sannarliga syndarinnar óttaligu verkanir, sem Gud hefir látid í öllum londum, medal allra manna, öllum fyrir augum blasa — sem hafa vit og vilja til eptir ad taka — til ad sýna hans heilaga og réttvísliga vidbjód á syndunum. En allt þetta, svo ógnarligt þad er, er þó eckért nema inngángur og uppbyrjan til þess, sem er þúsund skélfiligra; þad eru svosem einslags hamarslög, med hverjum boltar og járn verda slegin burt af einum sakamanni, ádurenn hann er lagdur á pínubeckinn, og fluttur til aftokustadarins.

§. 5. Svo segir Drottinn, fyrir Davíds munn: **Lát þá ógudligu fara til helvítis, já alla heidíngja, sem Gudi gleyma** (Sálm. 9, 18). Þó þad séu heilar þjódir af þessu fólki, skal samt fjöldi þeirra og styrkur alls eckért hlífa þeim. Þeir skulu allir til helvítis hrekjast, inní þad brennanda fángelsi, sem reidi Guds hefir tilbúid handa þeim; inní Tophet, edur þá myrkra gryfju, sem tilreidt hefir verid, svo vel handa syndugum konúngum, sem ödrum: því þeir yfirburdir, sem einn hefir haft yfir annann fram, hér í lífi, munu þá alls eckért stoda. **Þessa gryfju hefir hann gjört djúpa og vída, og uppkveikt í henni bál med miklum brennividi, hvört andi Drottins uppæsir, sem annad brennusteins-flód** (Es. 30, 33). Þessi brennandi straumur skal brúsa fram sem annad eldflód, edur sem Ritníngin nefnir þad: **dýkid, sem vellur af eldi og**

brennisteini, og þetta er nú sá annar dandi (Opb. 21, 8); sá daudi, til hvers þú, ó syndari! ert eptir Guds dómi fordæmdur.

§. 6. Skal þá dómur þessi vera til forgéfins fyrirfram bodadur, þar ecki einúngis ad lögmálid hótar hönum, heldur stadfestir líka Evangelíum hann? Mun Gud aldrei framkvæma þad straff, sem hann tilkynnt hefir? Jú visuliga, syndari! mun hann láta þad framkoma og rætast, jafnvel þó hann um hríd sýnist sem ad apturhalda því; því þú veizt vel: ad hann hefir tilsett einn dag, á hvörjum hann dæma mun alla jardarkrínglana med réttlæti, fyrir þann mann, hvörn hann þar til settan hefir, og sem bodar öllum trúna, eptir þad hann hefir uppreist hann frá daudum (Gb. 17, 31). Þegar nú Gud á sídan þannig dæma mun allt jardríki, þá mun hann og efalaust dæma þig, ó þú syndari! á sama hátt sem adra. Já, midt í því eg minni þig á þetta, þenki eg til þess, ad hann muni ogsvo dæma sjálfan mig, med því eg þecki (þennan) Drottins ótta (2 Cor. 5, 11), og þessvegna vil eg med stærstu hreinskilni leitast vid ad advara þig, uppá þad eg frelsa kunni mína eigin sálu (Ezech. 33, 9), og til þess ad þín ecki skuli fortapast.

§. 7. Eg vil því ítreka ennnú þessa naudsýnliguslu advörun: þú, syndari! þú skalt opinberast fyrir Krists dómstóli; þar skalt þú sjá hann í sinni hátignarligu og dýrdligu tilkomu, sem svo opt hefir verid afmálud fyrir þér, en hefir aldrei gétad gjört neina verkun í hjarta þínu. En svo tilfinningarlaus sem þú nú ert, svo daudskélfd og frá sér numin mun þín vesæla sála verda, þegar þad sterka öskur Guds básúnu þrumar loksins fyrir eyrum þér; og þó enginn hlutur géti nú uppvakid edur hrært þig, mun þó hræring sú og eldslogi, í hvörjum jördin skal forgánga, gjöra þad.

§. 8. Hugsar þú þad í rauninni, ad Krists sídarsta tilkoma hafi eckért annad augnamid, enn ad kalla sitt fólk úr gröfunum, og uppvekja þad til dýrdar og gledi? Eins stóra full-

vísu sem þú hefir um það, að þeir réttlátu uppríſa muni, jafnstóra vísu hefir þú um það, að þeir ránglátu muni uppríſa (Gb. 24, 15); og um það, að hann eins trúliga muni aðskilja þá upprisnu dauðu, hvorn frá öðrum, einsog hirðir aðskilur sauði frá höfrum (Mþ. 25, 32). Eða imindar þú þér, að hann aðeins straffa muni einstaka vísa og blygdunarlausa stórsyndara, þegar orð hans segir oss: að allir hinir dauðu, bæði smáir og stórir, skulu standa fyrir Guði (Opb. 20, 12). Nei! jafnvel sá, sem vissi ecki síns Herra vilja, og þessvegna sýnist, meðal annara, hafa bestu afbötun fyrir hirðuleysi sínu og óhlýðni, skal þó, engu að síður, fyrir sína óhlýðni högg fá (Lúc. 12, 48); þó að vísu ecki svo mörg, sem hinir aðrir. Eða heldur þú, að dómur þessi, sem með svo mikilli viðhöfn og dýrð haldast skal, sá dómur, í hvörjum að réttur Guðs og réttlæti skal opinberast, og fyrir hvorn hann bersýniliga loksins skal sigri hrósa yfir öllum sínum óvinum; heldur þú, segi eg, að dómur þessi verði að litlu marki, eður að straff það, sem syndurum þá boðað verður, verði léttvægt og bæriligt? Það er þvert á mótl! vér höfum alls enga ástæðu til að halda það, og það enda, þó vér enga aðra skírslu hefðum um dóm þennan, enn þá, sem vér sjálfir gétum imindað oss; en því er ecki svo háttað, því vor dýrmæti Frelsari Jesús Kristur hefir, af sinni óendanliga náð og miskunsemi, meddeilt oss inntak dóms þessa, og sú útmálan hans hlýtur að vera aldeilis rétt og fullkomin; og þessvegna er innihald hennar verdugt þess, að innskrifast í allra hjörtu; það er þetta: Konúngurinn mun í sinni voldugu og dýrðligu tilkomu segja til þeirra, sem á hans hægri hlið verða: **Komið hingað, blessaðir míns Föðurs, og eignist það ríki, sem yður fyrirbúið er, í frá upphafi veraldar!** (Matth. 25, 34.) Sannliga, hvar konúngsins orð eru, þar er makt (Orðskv. 8, 4); svo eru þessi orð kroptug til að hugga það hjarta, sem sundurknosað er af stærstu hrygð og ángist, og til að uppfylla það aptur með óútsegjanligri og dýrðligri gleði (1 Pétr. 1, 8). Að kallast

blessadir Guds Födurs og kvaddir til hans ríkis, til ad verda þess sannir erfíngjar ad eylífu; þess ríkis, sem er svo dýrdligt, svo fullkomid, og svo yfirmáta hæft til ad gledja þvílíkar endurfæddar og forklárađar skepnur, sem hans útvaldir eru; þess ríkis, sem í allan máta sambýdur Guds eylífa rádi og kærleika, og hvert hann sjálfur tilreidt hefir og látid sér þóknast ad ákvarda handa síns Sonar elskendum; sjá, þetta er virkiliga ósegjanliga glediliga og dýrdlig von, til hvörrar vér endurfæddir erum, fyrir upprisu Jesú Krists frá daudum (1 Pét. 1, 3), og heil. Andi hefir, fyrir helganina, oss hæfa gjört. — En, ó þú syndari! þetta er sú von sem þú híngadtil sjálfur hefir útilokid þig frá; hvad mér sýnist, mætti taka þig ósegjanliga sárt, þegar þú hugleidir þitt synduga ástand, og mátt þessvegna makliga segja til sjálfs þín: þessi sætu og huggunarfullu ord mun Jesús tala til nockurra, já, til margra, en ecki til mín! "mér, vesælum syndara gétur engin blessun bodast; mér er eckért ríki tilreidt!" En þetta, — svo mikid þad er — er þad minsta sem þú kant vid sjálfan þig ad segja; þú hefir ecki einasta orsök til ad telja þig vonlausan um eylífa sælu, heldur máttu þar á ofan búast vid eylífum kvölum, svoframt þú heldur áfram ad vera sem þú ert, ydrunarlaus og vantrúadur. Því Gud hefir allareidu fyrirfram til kynna gefid, hvílíkan dóm hann fella muni yfir alla ógudliga, hvad margir og mektugir sem þeir eru, já yfir sjálfa jardarinnar konúnga, sem sett hafa sig upp á móti honum, yfir þá voldugu og stóru á jördunni (Opb. 6, 13); jafnvel yfir heilar þjódir og kóngaríki, þegar hann tala mun þessum ógnarligu ordum: Farid burtu frá mér, bölvadir, í eylífan eld, sem fyrirbúinn er djöflinum og hans árum! (Matth. 25, 41.) O, haldtu nú kyrru fyrir og hugadu med sjálfum þér um þessi skélfiligu ord, til þess þú þess betur gétir fundid krapt þeirra og mikilvægi!

§. 9. Þeirra meining er þá þessi; þegar hann segir: far þú burt! þá vísar hann þér frá sínu augliti med skömm og spotti; já burt frá sér, sem er uppruni lífsins, allrar farsældar

og blessunar, í hvorjum allir himnaríkis innbyggendur óaflátanliga gledja sig; já, frá honum áttu ad burturekast sem einn bölvadur hlutur, þar þú yfirtrodid hefir lögmál hans og dregid þarmed hans formælingu yfir þig; í frá þeim tíma og um alla eylífd, mun Gud, og sérhvor hans sképna medal Englanna og útvaldra, álita þig bolvadan, og þad allravidbjódsligasta og vesælasta hrak af öllum hlutum. Þú skal þá, segir dómarinn, fara í þann eylífa eld! æ, þenktu um þad, hvílíkur eldur þetta er! Mun þad vera adeins þvílíkur brennandi blossi, sem med skélfiligustu kvöl og pínu eydir þér á einu augnabliki? Þetta væri ad vísu óttaligt; en sú kvöl kann þó í engan samjöfnud ad koma vid þá kvöl sem þér búin er; því hún er eylíf og eldurinn ævarandi. Þad er sá eldur, sem Kristur sjálfur útmálar med þeim allraógnarligustu ordum, þegar hann segir ad hann logi þar, hvar þeirra ormur deyr ecki, og eldur slocknar ecki; og aptur segir hann: hvar þeirra ormur deyr ecki, og eldur slocknar ecki; og ennnú í þridja sinn segir hann, til ad vekja upp sterkustu eptirtekt: hvar þeirra ormur deyr ecki, og eldur slocknar ecki! (Marc. 9, 44. 46. 48.) Þó var eldur þessi ecki í upphafi tilbúinn handa þér, heldur Djöflinum og hans árum; handa þessum fyrstu Drottinnsvikurum, sem strax, eptir þeirra yfirtrodslu skéna, voru til hans fordæmdir. En þar sem þú tekid hefir þátt í þeirra yfirtrodslu, og ert frá Gudi fallinn, þá hlýtur þú ad nidursöckvast med þeim í eylífa fordæmingu; já, þú hlýtur — ad eg svo tali — ad söckvast ennnú dýpra nidur, og straffast enn hardara, enn þeir, af því þú þar ad auki hefir forsmád Frelsarann, sem þeim aldrei hefir bodinn verid. Þessir skulu þá vera þínir stallbrædur; ásamt þeim skaltu pínast, og hjá þeim vera um alla eylífd. En mun eg vera sá einasti, sem þetta segi? segir ecki bædi lögmálid og Evangelíum þad sama? Já, Drottinn Jesús Kristur, sem er þad trúfasta og sanna vitni, (Opb. 3, 14) — hver sjálfur skal þennan dóm ad lyktum kunngjöra — hann segir þad med berum ordum.

§. 10. Nær hann nú sjálfur svoleidis hefir bodad dóm

þennan, mun hann þá ecki líka svo setja hann í verk? Vill nockur hugsa ad þessir voldugu og ógurligu talshættir séu adeins brúkadir til þess ad skjóta hrædslu inní mannanna hjørtu, og ad dómur þessi sídan hverfi, og ad engu verdi? Þú getur skilid hægliga, ad slíkt strídir framar móti guddómligu réttlæti, enn ad þar aldrei hefdi nockur dómur edur réttur haldinn verid; og því getum vér audveldt rádid af þeim undangengna málsferli, ad straffid muni líka svo framkvæmast. En til þess ad syndarans táldragandi hjarta ecki skuli svíkja hann med forgéfins von, þá er straffsins fullvissa med hardla eptirþánka-verdum ordum strax á eptir fyrir sjónir sett; já þad skal ské, og þad skal strax og tafarlaust ské, medan Hljómurinn af dómarans raust ennnú klíngir í eyrum þér — skal þad ské, ad þeir ógudligu fara í eylífar kvalir (Matth. 25, 46); og þú sjálfur, minn lesari! hvør helst sem ert — svoframt þú finst í tølu þessara — hlýtur ad fara somu leid ásamt þeim; þú munt þá, medal þessa vesæla hóps, verda burtu fluttur, og þér útsnarad í eylífa gløtun. Port helvítis munu opna sig til ad taka á móti þér, en munu sídan kastast aptur, til ad inniloka þig eylífliga, og Drottins guddómliga réttlætis hønd mun sjálf slá þeim í lás, til þess ad øll von og allur møgulligleiki til ad flýa í burtu skuli þér ad eylífu tøpud og horfin vera.

§. 11. Og nú — ó þú syndari! búdu þig nú til ad mæta fyrir þínum Gudi, og til ad þola þvílíkan dóm og þvílíkt straff sem þetta er. Vit fyrir víst, ad þessum dómara er ecki háttad einsog manneskjuligum dómurum, hvørjir stundum — nær þeir áleggja skulu naudsýnliga hardt straff — verda í hjarta sínu svo mýktir og hrærdir, ad medaumkanin yfirvinnur bædi skynsemi og réttvísi; nei! sá stóri og almáttugi Gud er ødruvísi sinnadur; fyrirtæki hans og augnamid eru jafn óhræranlig, sem hans hátignar trón. Eg vitna þarfyrir í hans nafni fyrir þér, á þessum degi, ad svo framt Gud er sannordur, mun hann svoleidis tala til þín, sem ádur er sagt; og svoframt hann er almáttugur mun hann sýna þad í verkinu, med straffs-

ins áleggíngu; og svoframt þú heldur áfram í vantrú þinni og ydrunarleysi, muntu falla í þetta hörmuliga og hrædiliga ástand. Sé þá Gud hvorki máttlaus, og ei heldur sá ad hann logid géti, þá er vissuliga útgjört um þig, og þú hlýtur, fyrir víst, ad fortapast eylífliga.

## Hugleiding þess syndara, sem skélfdur er ordinn útaf tilhugsun síns ógnarliga dóms.

Æ, mig allra ófarsælustu og vesælustu manneskju! hvad skal eg til gjöra? eda — hvört á eg ad snúa mér? Eg er á vog veginn, og ofléttur fundinn; þessi er minn dómur; þessi eru mín tilunnu laun, vid hvörjum eg búast má af Krists eigin munni; af hans munni, sem deydi mönnum til endurlausnar og sáluhjálpar; ó þann skélfiliga dóm! já, því miklu skélfiligri, þegar eg hugleidi hann í sögdu tilliti! Hvört skal eg þá snúa mínum augum til ad leita mér hælis? þegar Jesús vill ecki finna mér! hvörn skal eg þá ákalla mér til hjálpar? skal eg segja til fjallanna: fallid yfir mig; og til hálsanna, hyljid mig! hvad gæti þad gagnad mér, þó þad skéd gæti, ad fjöll og hálsar hyldu mig? þeir gætu þó ecki falid mig fyrir hans alltsjáandi augum; og hans hönd gæti eins hægliga fundid mig þar, sem á hvörjum ödrum stad. Eg er sannarliga hin vesælasta sképna, og eg hefdi mátt yfir allt fram óska, ad eg aldrei hefdi fæddur verid! O ad eg aldrei þeckt hefdi, edur vitad af verdugleika þeim og yfirburdum, sem mannlig náttúra er medgædd! þad eru óluckuligir yfirburdir fyrir mig, sem olla mér Guds reidi og fordæmíngar! O, ad eg hefdi heldur aldrei verid uppfræddur um Guds vilja, enn ad hafa þeckt hann, og þó forsmád hann og yfirtrodid! O, ad þad hefdi verid Guds vilji, ad eg heldur hefdi fæddur verid, sem hin allra fáfródasta mannsképna medal allra, á þeim stödum, hvar minstur er munur á manneskjum og skynlausum dýrum, enn ad mér skyldi hafa hlotnast ad lifa medal þess fólks, hvar minni skynsemi var hægast ad upplýsast og mínum vilja ad betrast; ad eg ecki tali um

hvar kristilig trúarbrøgd blómgast og frambjóda svo margføld hlunnindi, heldur enn ad hafa notid alls þessa, en misbrúkad þad mér til eylífrar ólucku! O, eg mætti vel — vegna míns hørmuliga ástands — hafa orsøk ad óska, ad Gud vildi afmá og ad engu gjøra mína skynsømu sálu! en, æ sú ósk er til forgéfins; hún skal lifa, já, lifa eylífliga til ad géta lidid helvítis kvøl og pínu — — —! hvarfyrir audnadist mér ad sjá fegurd og ágæti þessarar veraldar, þar eg hlýt nú ad fara hédan, í þad eylífliga brennandi písla fángelsi? Hversvegna hefi eg þegid svo marga velgjørnínga af mínum skapara, og hlýt nú ad útdrecka bikar hans reidi? Hversvegna hefi eg notid þeirrar ánægju hér í lífi ad umgángast manneskjur og njóta þeirra vináttu, en hljóta nú, upp frá þessu, ad hafa samvist med djøflunum og fordæmdum øndum í helvíti? Hvør kann ad búa med þeim í þeim fortæranda eldi, og liggja ásamt þeim eylífliga, eylífliga, æ eylífliga, í þeim steikanda helvítis ofni? En hvørjum skal eg nú um allt þetta kénna, nema mér sjálfum? Hvørja gét eg ásakad nema mína eigin dárligu þvermódsku? Hvørja orsøk kann eg adra ad telja til þessarar minnar skélfiligu ólucku, enn þá, ad eg hefi yfirtrodid logmál míns Guds, og undireins frá mér skúfad hans heil. Evangelío? En — mín sál! stattu þó enn nú litid eitt vid og stilltu nockud þessar þínar hørmuligu og hjartapínandi ásakanir! Æ, eg hefi þó ennþá ecki aldeilis og inn til enda burtuskúfad Evangelío? eg fæ þó enn nú ad heyra þess nádar tilbod! minn dómur er enn nú ecki svo øldúngis fortakslaust afsagdur, ad hann ecki kunni framar ad apturkallast. Eg sé ennnú gégnum þessi svørtu ský ein-slags vonargeisla, sem þrengir sér fram; og eg líka sem grilli litla skýmu til þess, ad þad sé ecki alls ómøguligt, ad eg enn nú kunni ad frelsast. Gled þig þá, sála mín! vid þessa huggunar þánka, jafnvel þó þad sé med hrædslu, og snúdu þér nú strax til þess Guds, hvørn þú med þínum óteljandi misgjørdum uppegnt og módgad hefur; þar hann hefir enn nú ecki svarid þad í reidi sinni, ad hann aldrei framar vilji leyfa þér ad hafa ad-

gáng til sín, og ad þú aldrei skulir komast til hans hvíldar. Æ! eg varpa mér þá, ó þú stóri Gud! nidur í duptid fyrir þínu állraheilagasta augliti; eg vidurkénni ad eg er hin fordæmíngar makligasta sképna; en eg hrópa med þeim ángurbitna tollheimtumanni, og segi: **Gud, vertu mér syndara nádugur!** Eg hefi ad vísu imindun, en þó óljósa og trublada imindun, um þann máta, med hvörjum eg ennnú moguliga géti komist hjá eylífri fordæmíngu. Æ minn Gud! kénndu mér þarfyrir greiniligar og regluligar ad þeckja máta þennan; og hvörsu ordugur og torveldur sem hann í siálfum sér vera kann, þá bid eg þig samt, fyrir þíns nafns sakir, sýndu mér hann svo ljósliga og ánægjanliga, ad eg ómoguliga géti hann misþeckt og rángskilid. Æ, tilreid þú mig til ad fylgja honum midt í audmýkt og ángri hjarta míns! Æ Drottinn! eg hefi ennnú mikid ad læra; en eg bid þig: uppfræd þú mig siálfur! O, haldtu þinni upprettu réttlætis hondu ennnú lítid tilbaka, og fyrir þinnar óendanligu miskunar sakir, sládu mig ecki strax, þó eg sé þess makligur, heldur láttu mig þvertámóti enn framar læra og reyna, hvornig eg loksins fæ þína reidi umflúid!

## 7di Kapítuli.

### Pad hjálparlausa ástand þess syndara, sem undir Guds fordæmíngu liggur.

§. 1. **Þú** hefir nú, ó syndari! heyrt Guds dóm yfir þér, einsog hann skrifadur stendur, til æfinligrar minníngar í hans óumbreitanliga ordi; viltu þá liggja undir honum í eylífri orvæntíngu? Viltu enga tilraun gjora ad verda laus frá því straffi, sem bodad er þinni ódaudligu sálu, nefniliga: þeim eylífa dauda og fordæmíngu? Þegar einn sakamadur, sem eptir manna logum dómfeldur er, hefir adeins minstu von til ad frelsast, leggur hann allt kapp á ad verda þad; eigi hann vin, sem hann

hugsar géti hjálpad sér, ó, hvorsu inniliga leitar hann þá ecki hans adstodar? og medan hann ennnú stendur fyrir dómaranum, hvorsu naudugan lætur hann sig frá réttinum burtureka, svo lengi hann ennnú gétur vonad og hrópad: æ, nád, nád, nád! og jafnvel þó þad sé svo í ótíma komid, ad þad sýnist til einkis verda? Sú allraminsta von um, ad þad kunni meguligt vera ad hræra Dómarans hjarta, kémur honum til ad hrópa um hjálp; og hann vill eins naudigur þegja, sem láta sig burtu-hrekja.

§. 2. Hvarfyrir viltu þá ecki, ó þú syndari! ádur heldur enn þinn dómur verdur uppfylltur, safna þaunkum þínum saman, og yfirvega med sjálfum þér, á hvørn hátt þú ennnú kunnir ad frelsast? Hugsadu nú vel úti þetta, því þad er þad allramikilvægasta efni. Þú kannt aldrei ad fá betra tækifæri til ad nota þér þinn vísdóm, styrk og mælsku, þér til hins besta, enn í þessu tilfelli; ef þú gétur hjálpad sjálfum þér, svo gjør þad nú; vitir þú sjálfur nockurt rád, þá leitadu hvorki ráda né hjálpar hjá ødrum. Hefir þú nockurt offur fyrir þig ad frambera? eda nockurn þann vin hér í þessum heimi, edur þeim ósýniliga sem géti frelsad þig edur hjálpad þér? Notadu þér þá medøl þessi, ef þú meinar þig hafa þau, þér til frelsis; svo fordjørfunin ecki yfirfalli þig! En seg mér, ó syndari! seg mér þad fyrir Guds augliti; hvørja orku hefir þú þess, í sjálfum þér, hvørt offur ad frambera, og hvørn vin hefir þú þann á á þína sídu, sem þú megir reida þig á, í svo mikilvægu og hjálparlausu ástandi, sem þitt er? Því bædi hjálparlaust og vonarlaust kalla eg þad, svoframt þú engin duglig medøl hefir til ad grípa.

§. 3. Þú hefir (hugleid þad vel) hrædiliga nidrun gjørt Guds réttlæti; treystir þú þér med nockurt slag ad fridþægja þad aptur? Hvad vill þad segja, þó þú spyrjir sjálfan þig, einsog sá uppvakti syndari hjá Michæam: Hvarmed skal eg blídka Drottinn, og knékrjúpa fyrir þeim ædsta Gudi? Skal eg blídka hann med brennifórnum og veturgømlum

kálfum? með mørgum þúsundum hrúta, edur tíuþúsund olíu bikurum (kap. 6, 6.)? O! þó þú værir svo mektugur og mikill sem Salómon sjálfur, og gætir því í veru framborid þvílíkar fórnir sem þessar, þá væri þad ecki ómaksverdt ad nefna þær; Líbanon væri ecki nóg til eldsneytis og øll dýrin þar á, til brennifórnar (Es. 40, 16). Já, undir því Testamenti, sem annars leyfdi og heimtadi í morgum tilfellum ýmisligar fórnir, var þó (segir Postulinn, Ebr. 10, 4) ómøguligt med uxa- og hafrablódi ad burttaka syndir, þó þad fríadi mann adeins frá tímanligu straffi; lángt sídur kunni slíkt, á nockurn hátt, ad orka þess, ad samvizkan gæti fyrir Guds augliti hreinsast; því þeirri manneskju, sem drýgt hafdi glæp nockurn af þvermódsku, leyfdist alls ecki ad bera fram nockurt synda- edur brennioffur fyrir glæp sinn, heldur skyldi hún vægdarlaust fordæmast og upprætast frá fólkinu (4 Mós. 15, 20). Nú veit þad Gud og samvizka þín, ad yfirtrodslur þínar eru ecki skénar af fávizku edur óadgætni, heldur hefir þú syndgad af þverúd, og þad opt og ótalsinnum, einsog þú sjálfur allareidu vidurkénnt hefir — — já, þó þú med þeim ádur, hjá Michæas, áminnsta syndara, vildir bæta þessu vid: skal eg géfa minn frumgétinn Son fyrir mínar yfirtrodslur og minn lífs ávøxt fyrir syndir minnar sálar? Hvad vildi eins barns — hvørsu kært sem þad væri þér — hvad vildi þess blód gjøra í þvílíku tilfelli annad, enn ad gjøra misgjørnínga þína ad stærri, og þínar syndir ennnú vidbjódsligri? Þar þú hefir til reidi reitt þá almáttugu veru og óendanligu hátign, þá, svoframt þessar yfirtrodslur skulu med blódi fridþægjast, þá hlýtur þad ad vera annarslags blód, enn þad, sem rennur í þínum edur þinna barna ædum.

§. 4. Eda ætlar þú sjálfur ad lída straff Guds; þartil þú hefir fullnægju gjørt fyrir syndir þínar? — — En hvari skal þá sú fullnægjugjørd falin vera? skal hún vera í því falin, ad lída nockur ógæfusøm og sorglig tilfelli í þessu daudliga og

kundliga lifi? Mun þá í réttlæti Guds svo lítid varid, ad sáeinna daga mótlæti géti ánægjanliga fullnægt þess krøfum? Eda hugsar þú ad eptirkomandi pínslir í hinni ósýniligu verøldu muni géta gjørt þad? Svo framt þú þenkir svo, þá hefir þú enn sídur endurlausnar ad vænta; því þetta mun aldrei ské ad eylífu. Eda hvenær muntu þann sídasta pening betalad géta? En svo lengi þad ei skédur, hlýtur þú í því helvízka fángelsi bundinn ad liggja, hvar þeirra ormur deyr ecki, og eldur slóknar ecki. Eda á hverju byggir þú þá von þína, ad þú munir þadan leysast? heldur þú ad Guds réttlæti géfist nockurntíma upp ad straffa þig? eda meinar þú munir géta gengid í rétt á móti honum og krafist þinnar útlausnar? Þú værir ad sønnu lítid eitt lúckuligri enn ella, ef þú flutt gætir von þessa — svo vitlaus og fráleit sem hún er — med þér til helvítis; en þad mun ei svo vel verda; því yfirtrodslur þínar munu standa þér svo bert fyrir augum, ad þessi von — hafir þú ecki adra betri — verdur þér til eylífrar ørvæntíngar; þetta einasta ord, sem skrifad stendur í dómi þínum: sá eylífi eldur, er nægiligt til ad kollkasta og steypa øllum þvílíkum falskrar vonar þaunkum hjá þér, og uppfylla þig med stærstu ángist, skélfingu og ørvæntingu.

§. 5. En máské þú þenkir dálítid skynsamligar; máské þú meinir ad betran sú, sem þú hefir ásett þér ad sýna eptirleidis í þessu lífi, muni fría þig frá útskúfunar dómi? Gæt ad, syndari! hvád fyrir slags hlýdni þad er, sem þú vogast ad koma fram med fyrir þann heilaga og réttláta Gud; sú hlýdni, sem þú býdur honum, hlýtur ad vera fullkomin og aldúngis lýtalaus, ef hans óendanligi heilagleiki skal taka hana fyrir gylda. Henni má ecki fylgja nein óstadfesti, gleymska edur gáleysi, og hvørnig ætlar þú, sem fullur ert med svo mikla erfda vondsku, svo margar synda sidvenjur, sem þú, med þínum óteljandi yfirtrodslum, alla þína lífstíd, ert fallinn í, hvørnig ætlar þú ad vogast til ad hugsa þad, ad þú gétir þína ólifada æfitíd, audsýnt — af sjálfsdádum — Gudi svo fullkomna hlýdni — svo vel med því ad gjøra þad góda, sem med ad fordast þad vonda —

einsog réttlæti hans útkrefur? Það mundi verða forgéfins fyrir þig, að reyna til þess einn dag, því heldur lengur. Nýar syndir mundu steypa þér í nýa fordæmíngu. En láttu nú svo vera, að þú í frá þessu augnabliki, inn til þinnar síðustu lífsstundar gætir auðsýnt svo fullkomna hlýðni Guðs lögmáli, eins og Guð krafði af Adam í Paradís, hugsar þú þá, að þetta mundi nægja til að hylja, afplána og uppbæta þínar áður frömdu syndir? Gétur þú betalað gamla skuld, með því að giöra ekki aðra nýa? Bjóð þú einhvörjum manni það, og vittu til, hvört hann vill taka það fyrir borgun af þér uppí skuld þína til hans; en ef hann vill ekki gjöra það, hvörnig gétur þú þá vogast til, að bjóða þeim allrahæsta Guði þvílíkan endurgjalds máta?

§. 6. En eg vil nú ekki tala meira um svo berskýnilega sök; því meðan eg eyði orðum þarum, hleypur tíminn, dauðinn nálgast og dómurinn kémur á hælana. Hvað er það þá, sem gétur frelsað þig frá þessum skélfilegu og ógnarlegu hlutum, og hvað fær varið þig móti þeim? Gétur veröldin frelsað þig, sú falski, táldragandi og fánýti afguð, sem þú sett hefir alla þína von á, og til hvörs allar þínar óskir og girndir hneigst hafa? Nei, þú veizt það fullvel, að hún mun efalaust táldraga þig, og láta þig hjálparlausan, þegar þér allramest á liggur; og þú gétur ekki tekið eina einustu veraldar lystisemi með þér, inní þá ósýnilegu eylífðar bústaði. Nei, ekki svo mikið sem þann lítilvægasta hlut til endurminníngar; svo framt þig lystir að muna eptir svo hverfulum og svikulum vini, sem veröld þessi þér verið hefir.

§. 7. Og, þegar þú loksins ert dauður, eður að minsta kosti liggur fyrir dauðanum, munu þá þínir syndugu stallbræður géta nockuð hjálpað þér? Er þar einasta einn sá meðal þeirra, sem géti, þó hann aldrei svo vel vildi, greidt Guði friðþægíngu fyrir þig (Sálm. 49, 8); eður sem géti frelsað þig frá gröfinni og helvíti. Æ! mig uggir, að þú allt of berliga sért sannfærður um, að þegar þú liggur við andlátið og stendur sem

á grafarinnar barmi, munir þú þá ecki vilja sjá, enn síður tala við þá, sem áður voru þínir allrakærustu stallbræður og vinir; því nálægð þeirra mun þá meir hryggja þig enn gledja. Já, þeir géta þá því síður stadið straum af þér fyrir Guðs dómstóli, sem þeir sjálfir megu vænta sinnar egin fordæmíngar.

§. 8. En hvad mun þá makt myrkranna gjöra? Þú mátt vera aldeilis viss um, að hún hvörki hefir þá kraft né vilja til að hjálpa þér. Satan, sem kostað hefir svo mjög kapps um, að steypa þér í fortöpunina, mun þá án efa hælast um og hrósa sigri. Og þó þar væri, millum þín og hans, heimuglígur vináttu-kontrakt inngenginn, hvað mundi þar af annað fljóta, enn að þið báðir hlytuð að taka hlut, hvör í annars ólucku. Því á þeim sama degi, sem ógudligir menn dæmast skulu, verða ogsvo hinir vondu andar dæmdir; og eldur sá, sem þú, syndari! skalt fara í, hann er sá sami, sem fyrirbúinn er djöflinum og hans árum.

§. 9. En munu þá ecki himnaríkis innbyggendur vilja hjálpa þér? Munu þeir ecki vilja brúka makt sína, edur að minsta kosti, fyrirbón til að frelsa þig? Að brúka nockurt ofbeldi fyrir medal þar til, eptir það dómurinn er genginn yfir þig, væri að gjöra uppreist á móti Guði, á hvörju þessir heilögu og dýrdligu andar hafa stærsta viðbjóð. Og, þegar lokssins að þess stóra Dómara síðarsti vilji er auglýstur orðinn, þá í stað þess, að þeir forgéfins vilji reyna til að biðja fyrir þá ógudligu og fordæmdu stórbrotamenn, munu þeir öllu heldur, með brennandi vandlæti, fyrir dýrð og æru síns Herra, og af inniligri ánægju yfir vísdómi hans og réttlæti, vera reiðubúnir til að framkvæma hans straffunar vilja, á þeim somu. Já, svo torveldt mönnum kann nú að sýnast að ímynda sér þetta, svo sannarligt mun það þó reynast, að þeir trúlyndu Guðs þénarar, sem nú svo hjartanliga elska sínar medmanneskjur, og leitast við að verka til þeirra sáluhjálpar með stærstu hreinskilni, já, þeir sem innbyrdis hafa hér tengdir verið, hvört heldur með náttúrunnar edur vinskaparins bandi, munu þá segja Amen til

þeirra fordæmíngar, og med gledi samsinna Guds dómi. En svo lengi þeir ennnú eru hér í lífi, hræraſt hjörtu þeirra inniliga yfir allra þvílíkra ólucku, og úthella opt heitum tárum fyrir þeirra sakir. Hér leitaſt þeir vid ad sannfæra þá, og svo lengi þar er nockur von um ad Gud kunni ad hjálpa þeim, og umvenda, med einhvorju móti, leita þeir nádar hans þeirra vegna, ef ské mætti þeim yrdi kyppt, sem rjúkandi brondum, út af bálinu. En áminníngar þeirra og beidni verda þá optaſt af hinum aldeilis forsmádar, og hvad munu þá bænir þeirra til Guds fyrir þeim, á medan, orka? Á þennan hátt er þá engrar frelsunar von, fyrir þig, minn lesari, edur þvílíkar mannesſkjur fyrir Guds dómi, heldur hlýtur þú og þeir, án allrar vægdar, eylífliga ad fortapaſt. Þessvegna ræd eg þér þá einlægliga til, ad þú hvorki reidir þig á þína eigin, edur nockurrar annarar mannesſkju, makt og adſtod, í þessu tilliti, heldur ad þú í þess ſtad, kaſtir þér í audmýkt nidur fyrir Gudi, og med sundurkrömdu hjarta varpir þér sjálfur undir hans réttlætis dóm, játir og medkénnir vanmátt þinn og setjir ecki trauſt þitt á nockra adra ſképnu, og þannig, líka sem frá helvítis afgrunni, upplyptir í audmýkt augum þínum til Guds, ef hann møguliga kynni — medan dómurinn ecki er aſſagdur — ad miſkuna sig yfir þig, og sjálfur vísa þér á þad einaſta medal, er þig frelsa kann; sem hvorki heimur þessi, helvíti né himnaríki, kann þér í té ad láta, nema hann alleinn!

## Sorglig harmaklögun þess syndara, sem er í þessu aumkunarliga áſigkomulagi ſtaddur.

Ó, þad hjálpar- og huggunarlausa áſtand, sem eg er í kominn! Ó, mig vesæla mannesſkju, sem sjálfur hefi mér í þad ſteypt! Ó, hvorsu forsmánarverd og útſkúfud ſképna er eg ordin! hvar er nú øll mín drambsemi? hvar er nú mitt ſtolta hjarta? hvar eru nú mínir afgudir, hvorja eg elſkad hefi, hvorjum eg þjónad og hlýdt hefi, midt í því, eg verid hefi ad samanhrúga yfirtrodſlum móti Guds himnesſku hátign? Er þá eckert

þad hjarta til, sem vill kénna í brjósti um mig? engin hønd, sem megnar ad hjálpa mér? Æ, aumkist yfir mig, vinir mínir! aumkist yfir mig! því Guds hønd hefir snert mig; og eg finn ad hún þvíngar mig hardliga. Æ, hvad skal eg tilgjøra? máské þér ad sønnu kénnid í brjósti um mig; en hvad gagnar mér þad, þar ydar medaumkun er svo dádlaus, ad hún orkar engu. Æ, en ef þér vitid nockra hjálp, í nockrum stad, í ølln náttúrunnar ríki, þá segid mér, í Guds nafni, hvar hana er ad finna! grenslist eptir henni og vísid mér á hana! edur øllu heldur, takid í hønd mér — svo trufladur og skélfdur sem eg nú er í sinni mínu — og leidid mig þángad! Æ, þér Guds þénarar, sem settir erud til ad vegleida og hugga vesælar og ángurbitnar sálir, miskunid ydur yfir mig! Á mér sjáid þér spegil þess syndara, sem aldeilis hjálparlaus er, og þarf ydar adstodar vid í mesta máta. Setjid alla adra umsorgun til sídu, til ad hjálpa sálu minni; æ já! minni dýrmætu en þó skélfiliga vesælu sálu, sem nú rétt er komin í eylífan dauda! Viljid þér þá gánga fram hjá mér, og ecki renna til mín medaumkunar auga? En hvad kann þó hjálp ydar og fyrirbón ad gagna mér, í því hørmuliga ástandi, sem eg er? Eckért! því ef Drottinn sjálfur ei vill frelsa mig, hvørnig kunnid þér þá ad veita mér frelsi? O Gud! þú sem ert allra manna og anda Gud og Fadir; eg upphef augu mín til þín, og eg hrópa líka sem úr kvidi helvítis; eg hrópa, ad minsta kosti einsog sá, sem ligg rétt sem á á barmi þess! Eg veit ad á medan eg ligg hér fyrir þér, midt í þessari minni hørmúngu, þá kann þín endalausa makt og takmarkslausa nád ennú ad uppfinna eitt medal til ad frelsa mig. Þú ert sá, hvørn eg svo opt, já, margfaldliga til reidi reitt og módgad hefi, og nú hlýt eg þó ad leita hælis hjá þér einúngis. Fyrir þér — já, fyrir þínu augliti — hefi eg syndgad og illa breytt, svo þú hefir allra fullkomnasta rétt og orsøk til ad fordæma mig, og þad, þó þú, nú strax á þessu augnabliki, vildir hrekja mig frá þér í eylífa helvítis hørmúngu. Engu ad sídur finst mér þó, sem eg finni nockud þad, sem mig heimug-

liga til þín dragi, og rétt sem segi mér, að eg kunni þó að finna frelsi, og það þar, hvar eg unnið hefi til allrastærsta straffs og fordæmíngar. Æ, allraheilagasti Guð! mín fordjörfun er mér sjálfum að kénna, en í þér er mitt frelsi, svoframt það er mögulígt að eg ennú frelsast kunni. Eg veit vel, að þínir þánkar eru ekki sem vorir þánkar; og þínir vegir ekki sem vorir vegir, því einsog himininn er jörðunni hærri, svo eru þínir vegir hærri vorum vegum. Þarfyrir, ó minn Guð! vertu mér náðugur eptir þinni gæðsku, og afmáðu mínar yfirtroðslur eptir þinni stóru miskunsemi. O, vísaðu mér á þann rétta og opna veg til frístaðarins, og leiddu mig á þeim eylífa vegi! eg veit, að þitt heil. Evangelíum er það einasta rétta hjálparmeðal. Æ! kénndu þá þínum þénurum réttilíga að brúka það; og leyfðu ekki, að íllska sú, sem útbreidt hefir sig í allri minni náttúru, géti umbreitt þessum dýrmæta læknisdómi í dauðligt eitur; hvað þó optliga skéð hefir!

---

## 8ði Kapítuli.

### Hér verður þeim sannfærðu og af samvizkunni fordæmdu syndurum boðuð þau glediligu tíðindi, um endurlausnuna í Kristó.

§. 1. **M**inn kæri lesari! það mikilvæga augnamið sem Evangelíum hefir, orsakar hjá þeim, sem það í hreinskilni meðtaka, þá ypparligu verkun, að það uppfyllir mann með hjartahrærandi kærleika; það kénnir oss að hafa ama á því að vera að nauðsynjalausu strángir og harðir, og lætur oss ei hafa ánægju af böli og ángri náúnga vors, heldur af hans farsæld. Eg gét naumast skilið, hvörsu að kristinn maður géti haft yndi af þeirri eymd og pínu, sem jafnvel málllaus bestía líður, enn síður af því, sem hjarta þeirrar manneskju má finna til, hjá hvörri þeir þánkar — sem spretta út af því efni, sem eg áður hefi umtalað — hafa sorg og hræðslu verkað; hvörjir þánkar

þó eingan krapt hafa, til ad verka þad sem mest áríður, svoframt þeir ecki taka alvarliga yfirhönd í mannsins hjarta. Eg hefi sjálfur þráliga, inniliga ángrast af því, ad eg þyrfti ad brýna þessa hluti svo frekliga fyrir ödrum, og opt af hjarta æskt, ad eg ei hefdi þurft ad brúka svo beisk og þeim ógédfeld ord þar til; en nú tók eg mér fyrir hendur þann part míns embættis, sem eg gét af hendi leyst med allrastærstu og innilignstu gledi, og til hvörs eg midad hefi, midt undir öllum þeim skélfandi ímindunum, sem eg hefi híngadtil viljad hjá þér vekja. Allt þad sem eg híngadtil sagt hefi, litur einúngis til þess, ad sýna þér ofaná, ad hafir þú ádur lifad í synd og ydrunarleysi, ad þú þá, vegna Guds réttlætis, ert undirorpinn hans hræðiligu reidi og fordæmíngar dómi, og ad þú í sjálfum þér hefur ecki minstu von né moguligleika til ad hjálpa þér edur frelsa þig. En eg hugsa einganveginn ad láta þig vera í þessu hörmuliga ástandi, svo þú ecki fallir og deyir í örvæntíngu. Nei, aldeilis ecki, því þá mættir þú klaga yfir því vandlæti, sem fyrir tímann hefdi tekid ad pína þig.

§. 2. Stattu því upp, þú sorgbitna sála! þú sem í Guds augliti titrar og skélfur af ótta fyrir hans réttlætis dómi; því mér er af Gudi skipad ad segja þér: ad jafnvel þó þú sjálf hafir steypt þér í ólucku, þá sé þó hjá Gudi þad ad finna, sem þér géti til hjálpar ordid (Hós. 13, 9). Eg boda þér því stóran fognud, af hvörjum sjálfur eg hjartans ánægju hefi, midt í því eg boda hann; og eg vona, hann muni líka svo hressa þig; því þad sem eg boda, eru þau gleditídindi, ad sáluhjálpin sé afrekud, fyrir vors Frelsara blód og réttlæti. Og þennan bodskap, þér til enn stærri fullvissu, byggi eg á þessum ordum ritníngarinnar, ad ótöldum mörgum ödrum: Gud var í Kristó, sættandi heiminn vid sjálfan sig, med því ad hann tilreiknar þeim ecki þeirra yfirtrodslur (2 Cor. 5, 19).

§. 3. Þetta eru þau gledilígstu og sælustu tídindi, sem nockrusinni heyrst hafa; já, sá mikilvægasti bodskapur, sem Gud hefir nockurntíma látid sínum skepnum kunngjöra. Og jafnvel

eg efist ecki um, ad þú, sem uppalinn ert medal kristinna, hafir opt, já máske þúsund þúsundsinnum heyrt hann, þá vil eg nú samt svo einfaldliga og greiniliga ítreka hann fyrir þér, einsog þú hefdir hann aldrei fyrri heyrt. Ef þú, syndari, skyldir nú í fyrsta sinni, finna krapt þessa bodskapar innvortis med þér, mundi hann verda þér sem nýtt Evángelíum, enda þó hann hafi aldrei svo opt ádur hljómad fyrir eyrum þínum. Og þó hann alkéndur sé, læt eg mér ecki leidast, ad tala um hann aptur og aptur, þar hann er þér svo naudsýnligur, ef þad aukid gæti fullvissu þína. Þeir sem eru hønum allrabest kunnugir, og annars elska hann af hjarta, verda aldrei offaddir af ad heyra hann, því þeir heyra hann med inniligri og óvidjafnanligri gledi. En þarámóti er eg fullviss um, ad þeir sem hingadtil hafa forsmád hann, þeim er þó því stærri naudsýn á ad heyra hann, aptur ad nýu. Þad er ei heldur alls ómoguligt, ad einn eda annar sá kunni ad lesa línur þessar, sem enn nú hefur aldrei fengid neinn réttan skilníng á þessum mikilvæga lærdómi, jafnvel þó þeirra eylífa velferd rídi á því, ad þeir þecki hann rétt og medtaki hann. Eg vil þarfyrir leitast vid, ad láta þvílíka ecki géta afbatad sig med því, fyrir Guds dómstóli, ad jafnvel þó þeir lifad hafi medal kristinna, hafi þeir þó aldrei greiniliga og nógliga uppfræddir verid í lærdómi sáluhjálparinnar fyrir Jesúm Krist, hvør ad er vegurinn, sannleikurinn og lifid, og fyrir hvørn einúngis vér komid gétum til Fødursins (Jóh. 14, 6).

§. 4. Þarfyrir vitna eg nú fyrir ydur á þessum degi: ad, þegar sá heilagi og nádugi Gud, himins og jardar stjórnari, sá fyrir fram þad óluckuliga fall, í hvørt gjørvallt mannkynid hrapa mundi, ásetti hann sér, ad hann enganveginn skyldi breyta vid oss eptir ýtrasta og skarpasta rétti, med því ad ofurselja oss allasaman í eylífa fordæmingu; heldur þvertámóti þóknadist hønum ad inngánga og stipta vid oss sáttmála, í hvørjum hann frambýdur oss frid og sátt. Þetta bodar hann øllum þeim, sem taka á móti hans Evangelió, og frambýdur

þeim, med berum ordum, eylíft líf og sáluhjálp. Þetta ſkédur á þvílíkan hátt med þeſshátttar medolum, ſem hann, eptir ſínum óendauliga vísdómi, hefir fyrirfram ſéd, ad sambrdid gat, ſvo vel hans heilogu veru og náttúru, ſem og hans heilogu ríkisſtjórn. Máti þeſsi var víſsuliga hiun allra forundrunarverdaſti, hvorn (þó vér ſvo ydugliga hofum hann bædi á túngunni og í þaunkunum) og aldrei gét þenkt um eda minſt á, nema med allra ſtærſtu forundrun. Hann er þeſsi:

"Sá mikli og allraheilagaſti Gud ályktadi ad ſenda ſinn "eingétinn Son í heiminn, hvør ad er ljómi hans dýrd-"ar og ímynd hans guddómligrar veru (Ebr. 1, 3); hann "ſem hluttakandi er í ollum Guddómſins fullkomligleikum og "dýrd; hann ſem ecki einúngis er réttlætiſins kénnari, ſendur "til ad boda nádina, heldur er ogſvo ordinn ein fórn fyrir "mannanna ſyndir og yfirtrodſlur. Þeſsi hans Sonur ſkyldi "ecki á neinn annan hátt frelſa oſs, enn med ſínu dýrmæta "blódi og ſaklauſa dauda, og þannig útgéfa ſitt líf til endur-"lauſnar betalíngs fyrir gjorvallt mannkynid."

"§. 5. Svoleidis kom þá Frelſarinn í heiminn; og á "þeirri tíd, ſem hinn óendanligi vísdómur fyrirfram ſá ad vera "hina heutuguſtu, lét Drottinn Jeſús ſjá ſig í holdinu; og "eptir þad hann alla ſína lífstíd lidid hafdi margar og miklar "þrautir, og þolad allan þann órétt, ſem vanþacklæti og "vondſka mannanna gat á hann lagt, tók hans fríviljuga "nidurlægíng ad lyktum ſvo lángt, ad hann vard hlýdinn "allt til daudans, já, inntil kroſsins dauda (Phil. 2, 8); "og eptir þad hann hafdi útgéfid ſig, fyrir vorar yfir-"trodſlur, er hann uppríſinn oſs til réttlætis (Róm. 4, "24). Eptir ſína uppriſu var hann ſvo lengi á jordunni, "ſem þurfti, til ad gjora ſína læriſveina aldeilis ſannfærda "og fullviſsa um hana. Ad ſíduſtu var hann uppnuminn "til himna, og þeir ſáu ad ſký eitt tók hann í burtu frá "þeirra augum (Gb. 1, 9—11). Þareptir ſendi hann heil. "Anda yfir ſína poſtula, til ad gjora þá hæfa til ad prédika

"Evangelíum með krapti og sannfæríngu; og hann bauð þeim, "svovel sem oðrum, sem á ollum oldum hafa í sama embætti "eptirfylgt þeim, að þeir skyldu prédika það fyrir allri skepnu, "það er fyrir ollum monnum (Marc. 16, 15); uppá það, að "þeir sem trúa, géti sáluhólpnir orðið, fyrir þann krapt, með "hvorjum hann ennnú sífelldliga verkar, eptir sinni œvarandi "og óumbreitanligu guðdómligu makt og náð, sem er hin sama "í gær og í dag, já að eylífu!"

§. 6. Þetta Evangelíum er þá það, sem eg nú prédika og boða þér, minn lesari! Og eg óska af hreinskilnustu hjartalagi, að sálu þinni mætti þá, nú á þessum degi, fyrir Guðs náð, heilsa ské (Lúc. 19, 9). Svo yfirvega nú vel, það sem þér hér með boðað verður, hvor helst sem þú ert; því svo víst sem þessi orð standa hér skrifuð fyrir augum þínum, svo víst og satt er það líka, að Guðs Sonur er fyrir mínar og þínar sakir, orðinn að skoðunarspili fyrir heiminum, já, bæði fyrir englum og monnum. Hans bak var húðstrýkt, hans hofuð sundurkrafsað með þyrnikórónunni, hans heil. líkami útþaninn, sem á pínubeck, og negldur fastur við það bolvaða krossins tré. Í þessu hormuliga ásigkomulagi var hann upphengdur á hondum og fótum, sem eitt viðundur, til opinberrar skammar og smánar. Þaunig deyði hann mitt undir allrastærsta spotti og háðúngum, sem hans grimmu fjandmenn — er svo ákafliga þyrsti eptir hans blóði — gátu sem mest smánað hann með. En það allrasorgligasta tilfelli, mitt í allri þessari hans stóru ángist og pínu — er hann útendti það allraheilagasta og saklausasta líf með, sem nockrusinni hefir á jorðunni til verið — var það, að hann ecki naut þeirrar somu guðdómligu aðstoðar, huggunar og styrks, sem syndugar manneskjur tíðt og opt notið og reynt hafa, þegar þeir fórnfært hafa lífi sínu fyrir Guðs og sannleikans sakir; því þessir hafa ástundum útbrotist, frá sér numðir af heil. hræríngum, með að lofa og vegsama Guð, mitt í því að morðíngjar þeirra og kvalarar hafa hina hræðiligustu grimð og helvítis vondsku viðhaft, og leitast allra bragða við, að

gjöra kvalir þeirra og pínu sem stærstar og óþolanligastar. En sá krossfesti Jesús hlaut þarámóti, þegar hans heilaga og ósaurgaða sála var stödd í ýtrustu neyd, ad hrópa: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefir þú yfirgéfid mig?** (Matth. 27, 46).

§. 7. Lít nú, syndari! á þennan vorn dýrmæta Frelsara! fest augu þín og þánka á þessu aumkunarverda og hörmuliga, en þó undireins huggunarsamliga sjónarspili, og spurdu þitt eigid hjarta: trúi eg því þá, ad Jesús Kristur hafi svoleidis mátt lída og deya? og hvarfyrir hlaut hann þá ad lída og deya, á svo skélfiligan hátt? Paruppá vil eg svara þér med Guds eigin ordum: **hann var særdur fyrir vorar yfirtrodslur og kraminn fyrir vorar misgjördir; hegníngin lá á hönum, svo vér hefdum fridinn, og fyrir hans benjar erum vér heilbrygdir ordnir. Drottni þóknadist ad kremja hann undir vorum sjúkdómum; og sitt líf hefir hann til syndafórnar géfid, því Drottinn hlód á hann öllum vorum misverkum.** (Es. 53, 5. 10.) Pessvegna gét eg þá ávarpad þig med postulans ordum, segjandi: **svo veri þá ydur vitanligt, ad fyrir þennan bodast ydur syndanna fyrirgéfníng!** (Gb. 13, 38.) Svo sem þad var skipun hans, eptir hans upprísu frá daudum: **ad prédikast skyldi í hans nafni ydrun og syndanna fyrirgéfníng medal allra þjóda**, sem byrjast skyldi í Jerúsalem (Lúc. 24, 47), á þeim sama stad, hvar hans allraheilagasta blódi, á svo grimdarligan hátt og svo nýliga, hafdi úthellt verid; svo vitna eg hérmed ennnú fyrir þér, og kann, med annars gudsmanns ordum, ad segja til þín: **ad Kristur, sem ecki vissi af synd, er af Gudi gjördur ad synd**, þad er: ad syndafórn vegna vor, svo **vér verda skyldum Guds réttlæti í hönum** (2 Cor. 5, 21); þad er, ad vér fyrir þad réttlæti, er hann oss fullkomliga afrekad hefir, og þá fridþægíngu, sem hann hefir fyrir oss gjört, kynnum ad verda medteknir aptur, sem réttlátir af Gudi; og ecki adeins fá syndanna fyrirgéfníngu hjá hönum, heldur og ad verda þar á ofan til nádar

teknir. Parfyrir má eg segja við þig, minn lesari! einsog Páll sagði við Gydínga: þér er þetta hjálpræðis orð sendt (Gb. 13, 26); því Guð tilbýður þér blessun þessa, og það af allri alvöru; svo að hvað sem því líður, sem eg í þeim undanfarandi kapítulum hefi þér fyrir sjónir sett, skal yfirtroðsla Guðs lögmáls, samt ecki verða þér til fordæmíngar, nema svo sé, að þú skúfir frá þér hans heil. Evangelíó. Já, þó allar þínar óteljandi syndir vilji sem önnur stríðsfylkíng umkríngja þig, þá skulu þær þó ecki géta skaðað þig, nema þær hafi vantrúna fyrir hersforíngja, og sífeldt betrunarleysi fylgi þeim á eptir. Vel veit eg, að syndin er hlutur sá, sem hræðsla og skélfíng fylgir; eg vil þessvegna framfæra Guðs eigin orð um þetta efni, þar eckért gétur verið huggunarríkara. Hvör sem trúir á Soninn (segir Jesús sjálfur, Jóh. 3, 36), sá hefir eylíft líf, og hann kémur ecki fyrir dóm. Og Páll segir (Róm. 8, 1), að þar sé engin fordæmíng á þeim sem eru í Kristó Jesú, þeim sem ei gángi eptir holdinu, heldur eptir andanum. Þú hefir að vísu verið frekur stórsyndari, og yfirtroðslur þínar bæði svívirðiligar og margar; engu að síður, gétur þú þó glaðt þig við þá fullvissu, að hvar syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir náðin enn þá framar (Róm. 5, 20); og að hvar sem syndin drottnar til dauðans, (það er: þar sem hún áður hefir mest yfirráð haft, og mótstöðulaust hrósað sigri), þar skal náðin drottna fyrir réttlætið til eylífs lífs, vegna Jesú Krists vors Herra (Róm. 5, 11). Þetta réttlæti, sem tilreiknast þér fyrir trúna á hann, skal ecki adeins sundurbrjóta þá hlecki, í hvörjum syndin hefir með ofbeldis ákefð hrifið þig með sér, í sínum þrældómi, til eylífrar fordæmíngar; heldur mun það einnig íklæða þig hjálpræðisins möttli, og setja þig á dýrðarinnar trón, hvar þú lifa skalt og ríkja meðal þeirra himnesku herskara að eylífu, og njóta þvílíkrar dýrðar og sælu, að þú aldrei framar munt sjá minsta merki til, að Guð hafi þér nockurntíma reiður verið, eður við þig illa líkað, og að þú verið hafir undir hans banni og formælíngu. Þar mun eckért heyrast annað enn óaf-

látanlegur lofsaungur til Lambsins, sem slátrad var, og sem þvegid hefir oss af vorum syndum, med sínu blódi (Opb. 1, 5).

§. 8. Ei heldur er þess þörf fyrir þig, til ad frelsast frá syndinni og ödlast nádina, ad þú — ádur enn þú vogast ad koma til Jesum — skulir færa med þér nockud af þínum eigin gódverkum, til ad mæla fram med þér, vid hann. Ad sönnu er þad satt, ad svo framt trú þín hreinskilin er, þá sýnir hún sig efalaust í verkunum; en eg hefi, eptir Guds ordi, rétt og myndugleika til ad segja þér, ad svo framarliga sem þú, á þessum degi — sem nú yfirstendur — trúir af hreinskilni á Guds Sonar nafn, þá skaltu undireins, í dag, verda mótitekinn af hönum, og reiknast medal hans sauda, hverjum hann af nád heitid hefir ad gefa eylíft líf, og ad þeir aldrei skuli fortapast (Jóh. 10, 28). Þú þarft þessvegna ecki ad segja: hvör mun stiga til himins upp fyrir mig, edur fara nidur í afgrunnid? því ordid er þér nálægt í þínum munni og í þínu hjarta (Róm. 10, 6—8). Med þessum glediliga bodskap vil eg nú skilja vid þig um hríd; því bodskapur þessi er trúverdugt ord og allrar vidtektar verdugt (1 Tím. 1, 15). Þetta er þad dýrdliga Evangelíum, sem er mitt einasta líf; getur og sömuleidis ordid þitt, svoframt þú ecki sjálfur snarar því frá þér.

Hugleiding syndarans, útaf þessum glediligu tídindum.

O mín sála! hversu furdanligur er ecki þessi bodskapur, sem þú í dag fengid hefir? Eg hefi ad vísu tídt og opt heyrt hann ádur, en hann er nærri ordinn svo algenginn fyrir mér, ad eg naumast gét merkt nockra forundrun hjá mér, yfir hönum. En æ! hugleid þú þó, sála mín, hvad þad er, sem þú heyrt hefir; og segdu mér, hvort nafn Frelsarans — frá hverjum þessi bodskapur er — kunni ecki med réttu ad kallast undarligur rádgjafi, fyrir þad hann opinberar þér þvilíkan dásemdarfullan kærleika, og rædur þér til ad medtaka slíkan einn ypparligan

frid. En ætli þeſsu ſé þá, bleſsadi Jeſú! ſvoleidis í raun og ſannleika varid? ætli þetta ſé ecki uppáfinding manna? Nei! viſsuliga ecki. Hvör manneſkjulig ſkynſemi hefdi gétad uppdiktad þeſsu og ímindad ſér þad? Er þad ecki ljós og áreidanligur ſannleiki, ad þú af tómri medaumkun yfir þvílíkum einum veſælum ſyndara, ſem eg er, vildir um hríd yfirgéfa himinſins dýrd og fögnud? O, þó þú hefdir adeins litid híngad nidur til mín, rétt um eitt augnablik, og ſendt mér ſídan, med þínum véſælaſta þénara, eitt einaſta huggunar ord mér til uppfrædíngar, þá hefdi eg haft ſtærſtu orſök til ad varpa mér nidur fyrir þér, med þacklætisfullri forundrun, og til ad kyſsa fótſpor þeirra, ſem fært hefdu mér þann góda bodſkap, ad þú vildir mig til nádar taka; en nú hefir þú virdſt ad nidurlægja ſjálfan þig, og ert ordinn ſendibodi, til ad boda mér frid af Gudi. Og — ó, hvörſu ſtór nád hefdi þad verid, þó þú adeins ſnöggſinnis í eigin perſónu hefdir komid híngad til ad boda oſs þinn vilja, og ſvo ſtrax verid upphafinn aptur, á þinn dýrdartrón, af hvörjum þú hefdir látid miſkunſemi þína koma þér til, ad nidurſtíga um litinn tíma! En — þetta er ecki nærri því allt þad, ſem þín dýrdliga nád hefir ad verkum gjört, og komid þér til ad framkvæma; hún ecki einúngis færdi þig híngad nidur á jördina til vor, heldur ogſvo í mörg ár á eptir, kom þér til ad teſja hér, og eiga þá allra veſæluſtu koſti. Lokſins koſtadi þig þad lífid; og eptir ad þú lidid hafdir þær allra grimmuſtu píſlir og ſmánanir, varſtu ſem illrædis-madur á kroſsins gálga útþaninn; yfir hvörju, þegar eg hugſa þarum, ad mitt hjarta mætti rétt ſundurſpringa, og mín augu blódi gráta. Þannig hefir þú nú aptur fridþægt Guds módgada réttlæti, og keypt mig, Gudi til handa, med þínu blódi.

Hvad ſkal eg þá hér til ſegja? Eg trúi, Herra! en hjálpadu minni vantrú! Þad ſýniſt ſem min trú megi alvarliga neyta orku ſinnar, þegar hún ſkal ſamſinna því, ſem í rauninni yfirgengur mannliga ſkynſemi. Lofad — já, eylífliga lofad veri

þitt heil. nafn, ó, þú allrar nádar og miskunsemda Fadir! ad þú hefir virdst ad ákvarda þennan lífs og sáluhjálpar veg! Eylíf æra og dýrd sé Lambinu, sem slátrad er, og þinni nádar forsjón, sem sendt hefir mér, stórsyndaranum, þetta hjálpræðis ord! O, lát mig aldrei — og þó eg gæti áunnid þarmed þúsund veraldir — þiggja Guds nád til ónýtis! Æ, þrycktu þessu Evangelió djúpt inní sálu mína, þar til þess sáluhjálpligi kraptur hefir hreint inntekid alla hennar krapta! Láttu mig ecki alleina heyra þad og vidurkénna, heldur lát mig ogsvo finna þess krapt med mér innvortis! Láttu þad vera þinn krapt til minnar eylífu sáluhjálpar, og uppvek í hjarta mínu þvílíka inniliga og audmjúka þacklátsemi, slíkan trúskap og fylgi í þinni þjónustu, er sæmir þeim, hvörjum svo margar syndir fyrirgéfnar eru; já, fyrirgéfnar á þann hátt, einsog eg hefi fengid þeirra fyrirgéfníngu. Mér finnst, einsog hjarta mitt standi sem í fullum loga, á medan þessi gledititindi hljóma í eyrum mér; en, æ Drottinn minn! láttu þad ecki verda ad einslags hverfulum þánka og hræríngu, sem hastarliga aptur hjadni og útaf deyi! O, lát þessa innvortis hræríngu, sem eg gjarnan æskti, ad eg kalla mætti kristiliga gledi, lát hana ecki (einsog dáranna hlátur, er híngad til svo opt hefir tryllt mig med sínu ædi), verda sem þyrna er braka undir pottinum. Kénndu mér á þann hátt, sem þú sjálfur mér fyrirsett hefir, ad ödlast þessa mektugu blessun og þessa dýrdarligu von! Vardveittu mig frá þeim villudómi, ad álíta þá gédfeldu verkun, sem eg ennnú finn til í mér af heimsins gledi, (jafnvel þó eg sé ad leitast vid ad deyda hana), vera þá verkun nádar þinnar og þá andligu gledi, sem madur smackar í sálu sinni, þegar hann réttiliga tekur á móti því frambodna frelsi, af þinni hendi, og verdur þarum sannfærdur.

---

## 9di Kapítuli.

Frekari útmálan þess máta, eptir hvørjum madur gétur Krists endurlausnar hluttakandi ordid.

§. 1. Nú álít eg þig, minn kæri lesari! sem þvílíkan einn, er komi til mín med sama spursmál, sem Gydíngar fordum komu med til Frelsarans, segjandi: Hvad skulum vér gjøra, svo vér gjørum Guds verk? (Jóh. 6, 28). Svo sem þú skyldir segja: Hvørt medal og máta skal eg brúka, til ad gjøra mig fullvissan um ad fá hlutdeild í þeirri endurlausn og sáluhjálp, sem mér er sagt, ad Kristur hafi afrekad sínu fólki? Uppá þetta spursmál vil eg svara þér med stærstu alúd og hreinskilni, sem eg gét; því eg veit hvørsu mikilvægt efni þad er fyrir þig, ad þú fáir þá réttu uppfrædíngu þarum. Eg veit líka svo, hvørsu næman reikning eg hlýt Gudi ad gjøra fyrir þad, med hvørri hreinskilni og kostgæfni, eg hefi þessu spursmáli svarad. O, ad eg gæti þá adeins talad svoleidis þarum, einsog Guds ord sjálft talar; þad er, á svoddan hátt, ad af mínum munni heyrast mætti rétt sem áreidanligt bergmál edur eptirhreimur af því, sem sjálfur Gud, í sínu ordi, þarum segir!

§. 2. Þessvegna, uppá þad eg géti þá viss ordid um, ad eg, í þessu tilliti, fylgi þeim allra óhultasta vegvísara og ljósustu reglu, þá vil eg boda þér sáluhjálpina einasta eptir þeim góda gamla lærdómi, nefnilliga: fyrir umvendan til Guds og trúna á Drottinn vorn Jesúm Krist. Þessi er lærdómur sá, sem postular Drottins kénnt hafa, og enginn manneskja má vogast ad umbreita neinu þar í, ef hann ecki vill setja svo vel sína eigin sálu, sem þeirra, er honum hlýda, í þá allra stærstu hættu.

§. 3. Nú tel eg þad svo sem víst á þína sídu, ad þú aldeilis sannfærdur sért um syndir þínar, og um þad þú makligur sért eylífrar fordæmíngar, en hafir þó sjálfur engan krapt til ad ráda bót á boli þínu. Leyfdu mér samt, ad eg engu ad

sídur, áminni þig og hvetji til að láta sannfæríngu þessa verða ennnú djúplægari í þínu hjarta, svo það mætti verða sálu þinni sem fastast innrætt: að öll þín ólucka rís af sjálfum þér, en hjá **Gudi sé einasta að finna, það sem þér hjálpað getur.** (Hós. 13, 9). Lát mig þessvegna yfirtala þig, til að burtukasta öllu trausti á sjálfan þig og þína eigin krapta; hvert traust, ef þú ecki því betur varar þig, vill leyniliga og óforvarandis smegja sér inn aptur hjá þér, og tæla þig til að uppbyggja það á ný, sem þú fyrir skémstu hafðir niðurbrotið og burtskúfað.

§. 4. Vertu víss um það, að svo framt þú nockurntíma frelsaður verður, þá hlýtur þú að eigna það einasta þeirri fríu og óverðskulduðu Guðs náð; og ef þú — hvorsu straffsmakligur og vesæll sem þú nú ert — verður ecki aðeins til náðar tekinn af Gudi, heldur og jafnvel kórónaður með miskunsemi, þá skalt þú í allradjúpustu auðmýkt og þacklátsemi snara þinni kórónu niður fyrir Guðs stóli; því Ritníngin segir: **að eckért hold géti sér fyrir Drottni hrósað, en af hönum erum vér í Kristó Jesú, hvör oss er ordinn af Gudi til vísdóms, réttlætis, helgunar og endurlausnar.** (1 Cor. 1, 29. 30.) Og þú mátt rétt sem finna til þess, og reyna það í hjarta þínu, að þú ert í þvílíku ástandi, í hvörju þú hefir alls eckért af slíku, af sjálfum þér til, og þarft þessvegna í öllu þessu aðstoðar við af öðrum. Þú hlýtur því að sannfærast um, að þú ert fáfróður, fullur af synd, saurugur og fjötraður sem þræll; já, að þú ert í því ástandi, sem Kristur sjálfur segir um nockra þá, er þó létust kristnir vera, að þeir væru **vesælir, aumir, fátækir, blindir og naktir** (Opb. 3, 17).

§. 5. Ef hugleidíngar þessar verða nú hjarta þínu djúpt innrættar, þá verður þú vel tilreiddur, að taka á móti því, sem eg nú vil segja þér. Heyrðu þarfyrir í fám orðum, hvari skylda þín, svovel sem hjálp og frelsun, fólgin er. Hún er þá falin í því, að þú snúir þér til Krists, með hreinskilnum viðbjóð á þínum fyrri syndum, og með staðföstum ásetníngi af þeim að

láta, hvar til Guds náð hlýtur þó að styrkja þig. Já, þú skalt setja alla þína von og allt þitt traust á hann í tilliti friðþægingar þinnar við Guð; miðt í því þú þó frá þinni síðu tekur fyrir þig allra besta viðleitni að setja þitt góða áform í verk, þá skalt þú engu að síður þakka honum það allt saman.

§. 6. Það fyrsta og mestumvarðanda ráð, sem eg í þessum þínum kringumstæðum vil þá leggja þér, er þetta: að þú horfir á Kristum og snúir þér til hans; en seg ekki í hjarta þínu: hvör vill fara til himins upp (fyrir mig?) (Róm. 10, 6); það er, hver getur flutt mig upp til hans, svo eg komi fyrir hans auglit? Trúir þú því ekki: að sá allraheilagasti Jesús, sem var til, áður enn allir hlutir voru, og fyrir hvörs krapt þeir allir standast (Col. 1, 17), svo hann viðheldur allri veröldunni; trúir þú ekki: að hann vissuliga sé ekki lángt frá hvörjum einum af oss (Gb. 17, 27), jafnvel þó honum gleymt sé af flestum, sem þó kalla sig eptir hans nafni; og það var ómöguligt að hann kynni að hafa heitið því, að hvar tveir eður þrír væru til samans í hans nafni, þar vildi hann vera miðt á meðal þeirra (Matth. 18, 20), nema í krapti sinna guddómligu fullkomligleika, eptir hvörjum hann er alstaðar nálægur. Þarfyrir, ó þú syndari! ef þú æskir sáluhólpinn að verða, þá gaktu til þessa Sáluhjálpara; girnist þú endurleystur að verða, þá lít uppá þennan mikla heimsins Frelsara; og þó þú sért svo þúngliga hlaðinn með synd og skömm, með ótta og skélfingu, að þú ekki sért fær um að tala til hans, þá snaraðu þér samt — svo ráðvilltur og orðlaus sem þú ert — fyrir hans fætur, og álíttu hann sem það Guðs Lamb, er borið hafði heimsins syndir.

§. 7. Skoða þú hann þessvegna með athugasömu auga, og segðu svo, hvört sjón þessi ekki hrærir þig svo, að hjarta þitt rétt sem bráðnar í þér þarvið? Finnur þú ekki til þess, hvörsu bárlig og vesæl sképna þú verwið hefir? að þú fyrir sakir þvílíkra óhræsis lystisemda og girnda, hvörjum þú svo inniliga hefir eptir sókt, skulir hafa lífsins hertoga af dögum ráðið?

Hugleid þú þau djúpu sár, er hann fyrir þínar sakir fengid hefir, lít til hans, hvern þú hefir ígégnum stúngid, og muntu finna þig orsök hafa til ad veina yfir honum, nema hjarta þitt sé ordid steini hardara. Minnistu nockurrar þeirrar af þínum syndum, um hvorja þú gétir sagt: fyrir þessa edur þessa synd var þad tilvinnandi, ad eg stygdi minn Frelsara og olladi honum hans bitru pínu? Og hvorjar syndir eru þad, sem þú hér eptir kynnir freistast til, ad þú fyrir þeirra skuld, skulir vilja á ný krossfesta sjálfum þér Guds Son (Ebr. 6, 6)? Æ syndari! nei, þú hlýtur endiliga ad ángrast svo og hryggjast af syndum þínum, einni sem annari, ad þú aldeilis látir af þeim. En svoframt þad skal komast svo lángt fyrir þér, þá sé eg þad vel, ad þad hlýtur ad ské, midt undir krossinum. Því hér hlýtur þú ad yfirgéfa sérhvorja synduga lystíngu og girnd, enda þá allra yndisligustu, og þó hún væri þér svo kær sem þín hægri hönd edur hægra auga. Og til þess, ad eg moguliga géti því framar upphvatt þig þar til, þá hefi eg leidt þig ad því altari, á hvorju **Kristur** sjálfur gaf sig út til slátrunarfórnar, Gudi til **sætleiks ylms** (Eph. 5, 2); og þar hlýtur þú ad frambera sjálfan þig fyrir Gud, sem þann er af **daudum** sé **lifandi ordinn** (Róm. 6, 13); þarfyrir hefi eg þér fyrir sjónir sett, hvorsu dýru verdi hann þig keyptan hefir, vel vitandi, ad þú **ecki ert med forgengiligu gulli né silfri endurleystur, heldur med dýrmætu blódi Kristi, sem saklauss og oflekkads Lambs** (1 Pét. 1, 18. 19).

Og nú vil eg spyrja þig, fyrir Guds augliti, hvad hjarta þitt segir hér til? Ertu nú ángurbitinn útaf syndum þínum? Ertu þá fús til ad láta af þeim? Ertu reidubúinn ad verda hlýdinn og þacklátur þénari hans, sem keypt hefir þig med sínu blódi?

§. 8. Eg trúi því ad vísu, ad þvilíkur einn ásetníngur uppkomi nú í hjarta þínu, en hvad hann muni stodugur standa, og hvorsu hann muni í verkinu sýna sig, veit eg ecki. Þad gétur ské ad þú héreptir fáir alla adra þánka, og hvorsu skjótt

kunna ecki þær gódu hræríngar, sem þú nú hefir, fyrir þad ad dempast? En um þad gét eg gjort þig oldúngis fullvissan, ad þú aldrei skalt finna neina gilda orsök til ad umbreita áformi þínu, þó þánkar þínir kunni ad breitast, því Jesús Kristur verdur hinn sami í gær og í dag og ad eylífu (Ebr. 13, 8); því hin sama orsök, sem nú knýr þig til ydrunar og trúar, og er í sjálfri sér svo gild og naudsýnlig, hin sama hlýtur og — af somu ástædum — framvegis ad knýa þig (ef þú henni ecki af þverúd móti stendur), svolengi Guds háleitu eiginligleikar umbreitast ecki, og svo lengi Sonur Guds er og verdur hinn sami.

§. 9. Enn á medan þú enn þá hefir þánka þessa og þennan ásetníng, vil eg þó láta þig vita, ad þetta er þó eingan veginn allt þad, sem af þér krefst, til þess þú verdur ad eylífu sáluhólpinn, því þú hlýtur ecki adeins ad hafa gódan ásetníng, heldur jafnvel líka svo, eptir þeim krapti sem Gud gefur þér, sýna þad í hegdun þinni, ad þú um syndarinnar vidurstygd sannfærdur sért, og um þad, hvorsu naudsýnligt og nytsamt heilagt líferni sé. En til þess, ad úr þessu géti ordid nockur stadfost alvara og framkvæmd hjá þér, þá hlýtur þetta stóra Guds verk (er Kristur sjálfur svo nefnir), nefniliga: ad trúa á þann, sem Gud sendt hefir (Jóh. 6, 29), ad framkvæmast í og med þér. Til hans hlýtur þú ad setja allt þitt traust; þú hlýtur ad ollu leiti ad selja sálu þína í hans hendur, svo hann géti frelsad hana á þann hátt, sem Evangelii fastsettu reglu sambýdur. Þetta er verkan, já, sú yfrid mikilvæga verkan lifandi trúar; og eg vil inniliga bidja Gud, ad þú af reynslunni læra megir ad þeckja, í hvorju hún falin er, uppá þad, ad þú med postulanum Páli gétir, á þinni daudastundu, ordid hæfur til ad segja: eg veit á hvørn eg trúi, og eg er viss um, ad hann er máttugur til ad vardveita þad, sem eg hefi honum á hendur falid, allt til þess ytsta-dags (2 Tim. 1, 12); hvorn mikilvægasta dag ollum Kristnum stodugliga bæri fyrir augum ad hafa. O, ad eg gæti nú ordid svo luckuligur, ad eg, med því sem eg hefi allareidu þér fyrir sjónir sett, og enn framar

setja skal, gæti skuldbundið þig til þessa. Þú mátt vera viss um, að þú aldeilis ecki mátt nálægja þig Gudi, edur koma fram fyrir hans auglit án nockurs Medalgángara; því hvorki mundi það vera honum þóknanligt, né þér gagnligt, að þrengja þér fram fyrir hann, án audmýktar og heidrunar, hans eingétna Syni til handa, hvern hann hefir sett til þess, að leiða syndarana fram fyrir auglit sitt. Ef þú á annan hátt kémur fram fyrir Gud, þá kémur þú það ecki sem syndari, og þessvegna vill þá Gud álíta þig eins og þú neita viljir ollum þeim yfirtrodslum, sem hann veit að þú ert sekur fyrir. Á þvílíkan hátt vill Gud aldeilis ecki þér vidtoku veita; já ecki svo mikið, sem renna til þín nádugu auga. Frelsari vor, sem best vissi hvorsu mannanna sáluhjálp á þessu ríður, segir því með berum ordum: einginn kémur til Födursins, nema fyrir mig (Jóh. 14, 6).

§. 10. Æ, svo snúðu þér þá til þessa dýrmæta og elskuliga Frelsara! Hann er í augum sinna trúaðra mjøg elskuverdur fyrir það blóð, sem hann á krossinum, þeirra vegna, úthelti, og fyrir þau sár, sem hann þar fengið hefir. Gáktu þessvegna til hans, ó þú syndari! strax á þessum degi og þessu augnabliki; gáktu það, eins hladinn sem þú ert með ollum þínum syndum; því ef þú ecki vilt snúa þér til hans, fyrrenn þú fyrst ert ordinn réttlátur og heilagur, svo verdur þú það í sannleika aldrei, gétur og ei heldur ordið það; því gætir þú eda nockur annar fundið upp máta til að verda réttlátur og heilagur án Krists, þá væri oss eingin þørf á að leita helgunar og réttlætis hjá honum. Það væri rétt vidlíkt því, eins og madur skyldi segja, að einn sjúkur ecki skyldi leita læknarans hjálpar, fyrrenn hann búinn væri að fá sína fyrri heilsu að nýu. Leyf mér þessvegna, án þess að móðga þig, að ítreka ennnú þessa mína áminníngu: gáktu til hans og segðu (og ó! að þú gætir sagt það af øllu hjarta): "allrakærasti og sætasti Jesú! eg er sannarliga einn þeirra vesælustu og allramestu stórsyndara, sem nockrusinni hefir kastað sér nidur og kropið fyrir þér; eingu að sidur kém eg þó, vegna þess eg hefi heyrt, að þú hafir einusinni sagt: að hvørn

þann sem til þín kæmi, vildir þú einganveginn frá þér reka (Jóh. 6, 37); já, eg kém, af því eg heyrt hefi, að þú náðarsamliga sagt hafir: komið til mín allir þér sem erfiði drýgið, og þúnga eruð þjáðir, eg vil yður endurnæra! (Matth. 11, 28.)

Ó þú Fursti friðarins! ó þú Konúngur dýrðarinnar! eg er vesæll fordæmdur syndari, sem stofnað hefi sálu minni í ýtrustu ólucku, og eg verð eylífliga fortapaður, svoframt þín óendanliga miskunsemi ecki hjálpar mér og frelsar mig. Eg hefi yfirtroðið svovel þín, sem þíns Föðurs boðorð, því þú og Faðirinn eruð eitt (Jóh. 10, 30). Eg hefi unnið til þinnar reiði og fordæmíngar; og eg ligg á þessu augnabliki undir þeim dómi, sem boðar mér eylífa fordæmíngu, sem verður því stærri, sem eg hefi framar ecki sinnt þér, heldur sýnt þér forakt. Ó, þú blóðuga og saklausa Guðslamb; eg hvorki kann né vil dylja þig þess, að eg hefi þig móðgað, já, móðgað á þann allragrófasta, skammarligasta og óþacklátasta hátt; þig, sem þó ert svovel minn Frelsari og Sáluhjálpari, sem og undireins minn kóngur og Drottinn. En nú hefi eg ásett mér, að leggja mig undir þinn vilja, og, kém því hér fram, með mína vesælu, voluðu og skjálfandi sálu til þess að ofurselja hana í þínar hendur. Æ! að þú náðarsamliga vildir taka á móti henni! því ef þú gjörir það ecki, er hún eylífliga fortöpuð. Ó, Herra! eg ligg hér fyrir þínum fótum: æ útréttu þína gulligu náðar veldissprotu til mín, svo eg lifa megi; og hafi eg fundið náð fyrir þínu augliti, ó þú, — himins og jarðar — kóngur! þá géfðu mér líf, fyrst eg — af öllu hjarta — bið þig! (Esth. 5, 8). Eg hefi hreint eingin efni til að kaupa (þína náð) með; eg hefi eckért, með hvörju eg kunni að borga hana eður endurgjalda; en ef þitt miskunsama og meðaumkunarfulla hjarta hefir yndi af að frelsa eina þá allravesælustu og óluckuligustu sképnu undir himninum, þá hlýtur þú að hafa eptirlæti af að frelsa mig. Ó, Drottinn! eg hefi sá dári verið, að vilja reyna til að vera minn eiginn frelsari og sáluhjálpari; en nú reyni eg, að það tekst ecki, og

ad sú tilraun er til ónýtis; þarfyrir vil eg sleppa henni og snúa mér til þín. Uppá þig, minn blessadi Jesú! vil eg einúngis reida mig, og vid þig festa atkéri sálar minnar, því þú ert trúfastur og óumbreitanligur. Á þér, sem þeim einasta og tryggvasta grundvelli vil eg byggja mína eylífu von. Þinn lærdóm, ó þú Guds stóri Spámadur! vil eg medtaka, og kasta mér undir hann, hvörsu fullur sem hann er af leyndardómum; því þad nægir mér, ad þú sjálfur hefir hann predikad. Til þinnar fullnægjugjørdar, hlýdnis og fyrirbónar, ó þú heilagi og Guds þóknanligi Ypparsti-prestur! vil eg taka mitt tilflugt og setja allt mitt traust; og þinni stjórn, ó þú hátt upphafdi Konúngur! vil eg fús og med gledi undirgéfinn vera. Til merkis uppá mína audmýkt og kærleika, þá kyssi eg Soninn; já, eg kyssi jørdina undir hans fótum. Eg tek á móti þér, ó minn Frelsari! og umfadma þig med ósegjanligri gledi, og set þig líka sem á trónínn í hjarta mínu. Velkominn sértu þá uppá minn sálar trón! stíg uppá hann, og stjórna þú þar æ og eylífliga! undirþryktu, ó Drottinn! óvini mína, því þeir eru ogsvo þínir óvinir, og gjørdu mig ad þínum trúfostum og dyggvum þjóni, já, sem trúr sé allt til daudans og dyggur eylífliga!"

§. 11. Med þesshàttar ordum og tali hlýtur hjarta þitt ad nálægja sig Gudi, ekki einúngis þann dag í dag er, heldur framvegis alla þína æfi. En gæt þess þarhjá, ad þetta má ekki alleinasta í ordum tómum fólgid vera, heldur hlýtur þad ogsvo ad sýna sig í verkinu, í gjorvøllu þinu liferni; því þær allrasterkustu sinnishræríngar, svolengi þær óstødugar eru og ávaxtarlausar í gódum verkum, eru allt eins og fudrandi hálmstrá á Guds altari, í stadinn fyrir þægiligt reykelsi. Med þvílíkum kærleika og þvílíkri hjartans ofurgéfníngu og sálar niduræg íngu hlýtur þú opt ad kasta þér nidur í duptid fyrir Kristi fótum. Og þegar þú um sinn hættir þessari æfíngu, þá haldtu hønum samt sífeldt þess á milli fyrir þínum augum, svo þú, fyrir hans adstod, framgengid fáir fyrir Guds augliti, afneitad ógudligleika og øllum heimsligum girndum, en lifad hóf-

samliga, réttrísliga og gudliga í þessum heimi (Tit. 2, 12). Þú hlýtur ad láta þad vera þína stærstu umsorgun, ad audsýna kærleika þinn í hlýdninni; þú hlýtur því, þad fremsta þér möguligt er, ad eptirfylgja Jesú, sem þú trúir á, og hafa hans dæmi þér fyrir form og reglu ad breyta eptir. Þad skal vera þín stærsta girnd ad sækja eptir þeirri æru, ad kappkosta ad vera lifandi bílæti Kristi; til þess, ad þeir sem heyrt hafa adeins og lesid lítid eitt um hann, géti — ad svo miklu leiti kríngumstædurnar leyfa — af því ad sjá hegdun þína, þekt og vitad, hvílíkt líferni vor dýrmæti Frelsari æft hafi hér á jördunni. Þetta skal vera þín ýtrasta og stödugasta ástundan, svo lengi þú lifir, og í því tilliti skaltu sérdeilis adgreina þig frá heimsins börnum, svo lengi þú ert lífs. Þú hlýtur ad fylgja hönum hvört hann leidir þig, já fylgja hönum med krossinn á herdum þér, þá hann skipar þér ad taka hann uppá þig, (Matth. 16, 24). Jafnvel má ekki daudinn sjálfur gjöra þig litilsigldan, heldur skaltu vera trúr allt til daudans, því þá máttu vænta ad fá lífsins kórónu (Opb. 2, 10).

§. 12. Þetta er þá, ad svo miklu leiti eg sjálfur hefi gétad af Guds ordi lært, sá rétti vegur til sannrar farsældar og dýrdar. Þetta er sá óhultasti og einasti vegur, á hvörjum sérhvör einn Krists þénari hefir gengid og ennnú gengur, og á hvörn hann skyldugur er adra ad leida, svoframt hann vill leitast vid ad efla sína eigin sáluhjálp. Vér hvörki kunnum né viljum, af elsku til vor sjálfra edur vorra bestu vina, umbreitt hönum á minsta hátt. Þessi er sá einasti vegur á hvörjum, og þad einasta medal med hvörju, þad þóknast þeim mikla Gudi og sæmir honum, ad gjöra sínar fráföllnu sképnur hólpnar; og þarfyrir áminni eg þig og bid, minn kæri lesari! ad þú alvarliga hugleidir þetta. Láttu þína eigin samvitsku svara, sem fyrir Guds augliti, hvört þú sért fús til ad láta þér þessa kosti lynda, edur ei. En þad skaltu vita, ad svoframt þú forkastar þeim, þá mun þad olla þér eylífs dauda, því einsog þar er ekkért annad nafn undir himninum mönnum géfid, fyrir hvört oss ber sáluhólpn-

um ad verda, nema alleina nafn Jesú af Nazareth (Gb. 4, 12) svo er þar ecki heldur til neitt annad medal enn þetta, med hvörju Jesús vilji oss sáluhólpna gjora.

## Syndarinn yfirvegar med sjálfum sér, á hvörn hátt hann best fái notad þetta sáluhjálpar medal.

Hugsadu þig nú um, mín sál! hvort svar þú géfa vilt til þessa, sem þér fyrir sjónir sett verid hefir. Sannarliga, ef eg svara skyldi, eins og mitt spillta og vonda hjarta helst vill, þá mundi eg segja: þetta er hörd ræda, hvör kann henni ad hlýda? (Jóh. 6, 60.) Ad gjöra svo lítid úr sjálfum sér, krossfesta sig, audmýkja sig og taka þvílíkt ok uppá sig, og bera þad svo lengi madur lifir! ad affegja hvörja eina syndugaᅠlystíngu og girnd, jafnvel þó hún sé mér svo þægilig og kær, sem mitt hægra auga, og sýnist ad vera svo naudsýnlig, sem mín hægri hönd! ad verda ecki einúngis ad leggja líf mitt, heldur og jafnvel mitt hjarta undir annars skipun og typtun! — ad hafa þvílíkan Herra í sálu minni, sem þvínga vill og stjórna mörgum af mínum allrakærustu tilhneigíngum, og leida þær öldúngis gagnstædan veg, því sem eg sjálfur vil! — þann Herra, sem fyrir sjónir setur oss skipanir sínar undir þeim talshætti: **ad taka sinn kross uppá sig, og bera hann!** ad fylgja þeim allrastraungustu lifnadarreglum í öllu, nefniliga: gudhrædslunni, bindindinu, réttlætinu og sannleikanum! — og ecki á nockurn hátt, i miklu edur litlu, ad víkja þar frá, hvörki fyrir freistíng til ábata ellegar af skada, edur til þess ad sneida hjá nockrum mótgángi edur vansa, já jafnvel ecki til ad forda lífi sínu; heldur ad madur skuli vera reidubúinn, ef Guds forsjón svo þóknadist, ad leggja þad í sölurnar, eins og hlut þann sem madur hati, Krists elsku vegna; ó! Gud komi til, hvörsu þúngir kostir eru þetta fyrir hold og blód! og þó finn eg og merki, ad hér útkrefst ennnú nockud annad meira, sem hardara er, enn allt þetta. Því hvad sem öllum þessum umkvörtunum lídur; hvad sem er um allar þessar sjálfs-krossfestíngar og tilhneigínga undirokanir,

sem Kristur leggur á mína holdligu náttúru, þá gæti náttúru dramb mitt samt fundid midt í því nockra innvortis gledi, ef eg ad eins med sjálfum mér mætti, ad því búnu, álíta svo, sem eg sjálfur hefdi verid minn eigin frelsari og lausnari, ad minn eiginn vísdómur og styrkur hefdi sundurbrotid fjandmannsins fjøtur og sángelsi, og ad eg sjálfur hefdi af eigin ramleik lokid þá skuldasummu, med hverri eg endurleystur var. En nú á eg þvert á móti, eins og daudasekur, dádlaus og fordæmdur stórsyndari ad øllu búnu, ad kasta mér nidur fyrir ødrum, og þacka honum allt mitt frelsi, og halda hann sem minn borgunarmann og Medalgángara. Skal eg þá vinna þad til, ad lúdra mig undir þennan kross, til ad verda hólpinn, og leita æru minnar, med þvílíkri forsmán? Skal eg sleppa þeirri indælu krøfu, sem mitt eigid réttlæti meinar sig gjørt géta? og þannig álíta mig sjálfan líkan þeim gudlausustu manneskjum? Skal eg standa í hóp hinna allraftærstu stórbrotamanna fyrir Guds dómstóli, ásaka mig sjálfur og áklaga, líka sem eg eins sekur væri, og þeir? og skal eg þá leita míns frelsis fyrir verkun sømu nádar, sem þeir hafa leitad þess; og ødlast þad? ad vísu þori eg ecki, med øruggu gedi, ad segja, ad krafa þessi ósannsýnilig sé. Samvizka mín vitnar, ad eg syndgad hefi, og géti því ecki réttlátur ordid fyrir Gudi, eins og sá sem sáklaus er og alltíd hefir hlýdinn verid. Mín samvizka segir mér, ad þad sé nytsamligt og sanngirniligt, ad eg settur sé í þetta ástand; og ad þad sé naudsýnligt ad eg verdi beygdur; og ad þvílíkur einn sekur stórbrotamadur, sem eg er, hljóti ad kasta sér nidur á sín kné; ad einn fángadur uppreistarmadur hljóti, svoframt hann vill lífi halda, ad leggja nidur sín vopn fyrir kóngsins fætur, audmýkja sig og sárbæna hann um nád. Já, mín samvizka svovel sem mín skynsemi segja mér, ad þar sé bædi sannsýni og naudsýn til, ad svoframt eg nockrusinni frelsast skal, ad eg þá frelsist svovel frá syndarinnar makt og frá elsku til syndarinnar, sem frá hennar fordæmingu; og ad, svoframt Guds nád veitir mér nýtt líf, eptir ad eg forskuldad hefi eylífan dauda, þá sé þad ecki meira

enn sannsýniligt, ad eg framberi mig þá sjálfan fyrir Gud, sem þann er af daudum lifandi ordinn er. En, ó mig vesæla manneskju! Eg sé — og finn — einslags lögmál í mínum limum, sem strídir á móti lögmáli míns hugskots, og sem setur sig ámóti skynseminnar og samvizkunnar sannfæríngu. Hvor gétur nú frelsad mig af fjötrum þessum? Hvör fær gjört mig fúsan og reidubúinn til ad gjöra þad, sem eg í minu hjarta þó veit ad mér sjálfum allrabest er? Æ Drottinn! tem þú mitt þverlynda hjartalag, og hindrudu þad, ad eg ecki þvert á móti skynsamligum sannfæringum skuli svo ákafliga dragast á rángan veg, af mínum sansaligu girndum. Géf mér krapta til ad sigra allt þad, sem draga vill sinni mitt til óleyfiligra hluta, til þess ad eg géti gladt mig yfir því, ad mér hafi svo visdómsliga vegvísad og stjórnad verid. En sérdeilisliga bid eg þig ad nidurdempa hofmód minn og þá drottnandi spillíngu, sem svo skammarlig er fyrir vesæla og fordæmda sképnu, einsog eg er, til þess ad sáluhjálparinnar vegur géti ordid mér þess gédfeldari og kærari, sem þú framar audmýkir mig. Eg verd þess ad vísu var hjá mér, ad eg hefi lyst til ad hínkra ennnú nockud lengur vid í Sódóma; en æ Drottinn! vertu mér nádugur, og tak í hönd mér og leid mig þadan út, ádur enn þín brennandi reidi úthellir sínu hefndar flódi yfir höfud mitt, svo mér er ecki audid ad verda framar frelsadur!

## 10di Kapítuli.

### Í hvörjum syndarinn verdur alvarliga áminntur og bedinn ad medtaka þetta sáluhjálpar medal.

§. 1. Svomikid veit eg og hefi opt komist ad raun um (svoframt eg dæmt gét eptir útvortis áliti), ad margir hafa fundid sannfæríngu í samvizku sinni, en hafa því midur fleigid henni sídan frá sér burt, í vedur og vind. Einar og adrar óluckukríngumstædur, ein og önnur útvortis freisting hefir ótal morg-

um steypt í fortøpun, sokum þess ad þeirra vanheilögu hjörtu hafa alltíd móti stadid Guds helgandi, audmýkjandi og sæluverkandi nád, og hafa þessvegna forherdst af syndarinnar svikrædi (Ebr. 3, 13), allt til þess þeir sýnduft ad vera svo spilltir ordnir, ad þeim var ei framar lækníngar audid. Þarfyrir, ó þú ódaudliga sál! sem línur þessar les, eg bid þig, ad á medan þú ennú ert í þvílíku hrædiliga hættuligu ástandi; medan þú ert ennú svo óviss og efasamur í sinni þínu um, ad þú ecki veizt, hvort þú vilt heldur taka á móti því dýrdliga Evangelio, edur skúfa því frá þér, hvort eg þó hefi nú, med allri hjartans hreinskilni, leidt þér fyrir sjónir; eg bid þig, segi eg, heyrdu mig ennnú med athugasemi, á medan eg tala enn framar í Guds erindum vid þig, um þad sem sjálfum þér allra mest árídur. Hugsadu, ad þad er allt eins og Gud sjálfur áminni þig, gégnum mig, því eg bid þig í Kristi stad, láttu sætta þig vid Gud! (2 Cor. 5, 20). Æ, eg vil svo naudugur, ad þú, eptir alla þá upphvatníngu og uppfrædíngu, sem þú fengid hefir, og eptir alla þá sannfæríngu, sem þú med sjálfum þér fundid hefir, skulir med óvidurkvæmiligu hyrduleysi slá hendinni á móti Guds miskunar rádi til þinnar sáluhjálpar, því þad mundi sannarliga olla þér þeirrar hörmúngar, sem þú hlýtir ad ásaka þig um, og kveljast útaf eylífliga.

§. 2. Madur mætti þenkja, ad þess gjørdist ecki þørf, ad eyda svo mørgum ordum til, ad telja adra á ad taka móti sinni eigin lucku. Þad væri líkligt, ad undireins og hinn fortapadi syndari fær ad heyra, ad sá módgadi Gud sé fús og viljugur til ad sættast vid hann, og frambjóda honum fullkomna fyrirgéfníngu á øllum hans stóru og mørgu yfirtrodslum, já — hvad meira er — ad hann sé fús til ad taka hann í hóp sinna barna hér, og loksins láta hann hjá sér njóta eylífrar sælu; þad væri líkligt, segi eg, ad madur hugsa mætti, ad allir, einn og sérhvor, mundu med allra stærsta feiginleika og fagnudi undireins taka á móti þvilíkum glediligasta nádarbodskap, já, rétt sem ordlaus, af furdu, fognudi og þacklátsemi, varpa sér nidur fyrir

hans fótum. En æ, því midur! madur má finna optastnær þad aldeilis gagnstæda. Vér sjáum óteluliga marga, sem slétt eckért hræraſt edur vikna hérvid; og aptur ofmarga, hjá hverjum hræríng sú, sem snøggsinnis í þeim uppkoma kann, hverfur skjótt aptur og verdur ad eingu. Þarfyrir, minn kæri lesari! svo ecki fari fyrir þér sem ødrum, þá vil eg nú ítreka bodskap þann, sem eg Guds vegna hefi þá æru ad tilkynna þér. Eg bid því í Krists stad: láttu sætta þig vid Gud! taktu á móti syndanna fyrirgéfníngu og sáluhjálp af þeirri nád, sem Gud, án allrar þinnar verdskuldunar, fríviljugliga frambýdur þér!

§. 3. Eg bid þig því, fyrir Guds stóru hátignar sakir, í hvers nafni eg kém til þín, og hvers raust ad uppfyllir alla himna med lotníngu og hlýdni. Hann þarf þó ecki ad tala forgéfins til sinna þúsundsinnum þúsund eingla; heldur eru þeir svo fúsir á ad gégna honum, ad ef þad væri møguligt ad nockurt stríd gæti uppkomid medal þessara blessudu anda, yrdi þad vissuliga útaf eingu ødru enn því, hvor þeirra fyrstur skyldi verda til ad framkvæma Guds skipanir. Æ láttu hann þá ecki tala til ónýtis til þín, þú vesæla og daudliga manneskja! Eg bid þig fyrir sakir hans reidi, sem talad gétur til þín fyrir þrumur og eldíngar, og kann, ef hann svo vill, ad slíta þig brádliga í burtu, midt í þínum døgum, og steypa þér nidur til helvítis. Eg bid þig fyrir hans nádar og miskunar sakir, vegna hans hjartanligu medaumkunar, sem ætíd kénnir í brjósti um þig, sem fadir sitt kjærasta barn, hvers hann ennnú sífeldliga minnist, þrátt fyrir alla honum ádur fynda þvermódsku og óþacklæti. Eg bid þig og áminni fyrir allrar hans fødurligu gædsku sakir, ad þú ecki rétt sem þvíngir hann til ad breita nafni sínu, og gjørast af ástúdligum og medaumkunarfullum fødur, ad straungum og réttlátum dómara. Annars mun þér mæta hid sama, sem Israels lýd fordum, hverja eptir ad hann skømmu ádur hafdi kallad syni sína og dætur, segir hann vid þá: ad eldur sé upptendradur í reidi sinni, sem brenna skuli (yfir þeim) allt til nedsta helvítis (5 Mos. 32, 19. 22).

§. 4. Eg bid þig enn framar fyrir Krísti nafns sakir, fyrir hans dauda og kærleika sakir; eg bid þig vegna hans nidurlægingar, í því ad taka uppá sig manndómliga náttúra; vegna hans fátæktar, er hans fríviljugliga á sig lagdi, svo þú fyrir hans fátækt ríkur yrdir (2 Cor. 8, 9); eg bid þig vegna hans nádarríka tilbods: komid til mín allir þér, sem erfidi drýgid og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra (Matth. 11, 28), hvør ord ennnú hafa sama krapt, sem þá þau í fyrstu útgengu af hans blessada munni og hjarta, og sætari eru enn hunáug og hunángsseimur. Eg bid þig fyrir sakir hans allraheiløgustu persónu, sem innilykur í sér guddóm og manndóm, og þar ad auki er þinn Endurlausnari, Medalgángari og Kóngur. Eg bid þig søkum alls þess, sem hann þín vegna gjørt og lidid hefir, þar allir hans gjørníngar eru kærleiksverk, og øll hans pína fridþægandi. Eg bid þig søkum hans daudans ángistar og pínu, sem hann leid í grasgardinum, þá allur hans líkami lødradi í blódugum sveita. Eg bid þig sakir þeirrar hjartans hrygdar, sem hann fann til, þegar allir hans bestu vinir yfirgáfu hann og flúdu, og hans blódþyrstu óvinir drógu hann í burtu, einsog allra svívirdiligasta þræl og versta ódótamann. Eg bid þig fyrir hans blódugu húdstroku, sár og benjar, sem hans forsmáda guddómliga hátign mátti lída, medan hann var í sinna grimma fjandmanna høndum, samt fyrir þau høgg, hádúngar og hráka, er hans heilaga og hátignarliga andlit þola mátti, og hann ecki huldi þad fyrir. Eg bid þig fyrir sakir þess purpuraklædis, reirstafs og þyrnikórónu, sem þessi stóri Konúngur dýrdarinnar hlaut ad bera, til þess ad hann gæti sett oss á medal høfdíngja síns fólks, sem andliga kónga og kennimenn. Eg bid þig søkum þeirrar þúngu krossins byrdi, undir hverri hann þolinmódur rétt sem skreid áfram ørþreyttur allt á Golgata, til þess hann gæti frelsad oss frá syndarinnar óbærilíga oki. Eg bid þig vegna þeirra hvøssu nagla, sem sundurnýstu ædar og sinar á hans heil. fótum og høndum; samt vegna

þeirrar ósigrandi og sigrihrósandi gæðsku, hvar, midt í því ad hendur hans og fætur voru gégnumboradar, kom honum til ad hrópa: Fadir, fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvad þeir gjøra! (Lúc. 23, 34). Eg bid þig vegna þeirrar stóru og óútsegjanligu ángistar, sem hann þoldi, þegar hann var negldur á krossinn og héck þar útþanniun um sex kvalafullar stundir — já, sökum alls þessa, bid eg þig, ad þú viljir nú opna hjarta þitt fyrir hans ords og Anda nádarverkunum, med hverjum hann allareidu dregid hefir þúsund, já, mørg þúsund syndara til sín! Eg bid þig vegna alls þess spotts og hædnis, sem Drottinn dýrdarinnar í þad sinn hlaut ad lída; vegna hans óútseganliga þorsta, í hverjum hann naumast féck litla øgn af ediki til ad svala sér á; vegna þeirrar aumkunarligu umkvørtunar, sem eins var forundranlig sem óskiljanlig, er af hans munni á krossinum framkom, þegar hann — sá eingétni Sonur Fødursins — sagdi: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefir þú yfirgéfid mig? (Matth. 27, 46). Eg bid þig fyrir þeirrar nádar skuld, er hann audsýndi ræningjanum á krossinum (Lúc. 23, 42. 43); og þeirrar inniligu medaumkunar, er hann øllum ydrandi syndurum sýnir, og sømuleidis vill þér nú sýna; hver ed vottadi sig svo lengi nockur lífshræríng í honum var, og jafnvel ecki hætti, þá hann allareidu hneigdi nidur høfud sitt á krossinum og uppgaf sinn anda, med þessum ordum: Pad er fullkomnad! (Jóh. 19, 30). Eg bid þig sökum hans sigurríku upprísu, med hverri hann er voldugliga auglýstur Guds Sonur ad vera eptir anda heilagleikans, þad er: eptir sinni guddómligu náttúru (Róm. 1, 4). Eg bid þig vegna þess miskunarfulla kærleika, er hann audsýndi Maríu Magdalenu, af hverri hann útrak sjø djøfla, og líka svo sínum lærisveinum, sem høfdu þá miskunarliga yfirgéfid hann, þegar hann sagdi vid hana: Far til brædra minna og seg þeim, ad eg fari upp til míns Fødurs og ydar Fødurs, og til míns Guds og ydar Guds (Jóh. 20, 17). Eg bid þig sakir þeirrar línkindar, er hann audsýndi Thómasi postula, í tilliti hans ósannsýniligu, af vantrú sljótandi, krøfu,

þegar Jesús sagdi til hans: Réttu þinn fíngur híngad og skoda mínar høndur; útréttu hønd þína og legg hana í mína sídu, og vertu ecki vantrúadur heldur trúadur (Jóh. 20, 27). Eg bid þig sökum þeirrar edallundudu umsorgunar, er hann ber fyrir sínu fólki, hvörja umsorgun hann ennnú sýnir í sínu dýrdarríki; og hvør ed kom honum til ad úthella sínum Anda, med yfirnáttúrligum krapti og gáfum, til þess ad útbreida þess betur og gródursetja sitt sáluhjálpliga ord í heiminum. Eg bid þig vegna þeirrar kroptugu og medaumkunarfullu raddar, med hvørri hann taladi til Sáls, þegar hann offókti Guds kyrkju: Sál! Sál! því ofsækir þú mig? (Gb. 9, 4); sökum þeirrar óforþéntu gædsku, sem ecki einúngis hlífdi þessum óvini, þegar hann, til jardar nidursleginn, lá skjálfandi fyrir hans fótum, heldur og upphóf hann þareptir til svo háleits verdugleika, ad hann vard engu minni þeim ædstu postulum. Eg bid þig sökum alls þess, sem vér gétum munad til ad Kristur allareidu hafi gjört; og sökum alls þess, er vér ennnú vænta kunnum, hann vilji gott gjöra sínu fólki. Í fám ordum, eg bid þig fyrir sakir veldissprítu hans nádar og sverds hans réttlætis, med hvørju hann eydileggja vill óvini sína, þá sem ei vildu láta hann yfir sér drottna (Lúc. 19, 27); eg bid þig, ad þú ecki látir þessi dýrmætu augnablik til ónýtis hjá lída, medan hann ennnú úthella vill Anda sínum yfir þig, svo þú ecki vanrækir ad nota þér þad tækifæri, sem þú máské aldrei kannt framar aptur ad fá, og á hvørju þó þín eylífa velferd rídur.

§. 5. Enn framar bid eg þig, sökum þeirrar inniligu medaumkunar, sem þú skyldugur ert ad audsýna réttskickudum Krists þénurum, sem erfida og mæda sig, áminna og bidja, eyda sínum tíma og kroptum, já, sem ad líkindum stytta líf sitt, til ad hjálpa þinni sálu — og annara þvílíkra — frá eylífri glötum. Eg bid þig sökum allrar þeirrar inniligu og ákofu laungunar, sem allir þeir, er af hjarta elska Drottinn Jesúm Kristum, hafa í sér, til þess ad sjá merki þess, ad þú sért réttiliga til

Guds umvendtur. Eg bid þig fyrir þess vinskapar sakir, er þú stendur í, til þeirra lifendu, og endurminníngar þeirrar, er þú hefir eptir þá daudu, bædi þá, sem hér eydt hafa sínum lífstíma til ónýtis, og eru nú þessvegna fortapadir í sínum syndum; og hina, sem hér medtóku Evangelíum svo réttiliga, ad þeir, nú fyrir þá skuld, hafa ødlast eylífa sáluhjálp. Eg bid þig fyrir sakir eptirvæntíngar þess mikla og mikilvæga dags, þá Drottinn Jesús Kristur mun ad nýu birtast af himnum, til ad dæma lifendur og dauda, og søkum þeirrar ógnarligu skélfingar er ágánga mun, þá heimur þessi forgengur; þegar høfudengilsins raust og básúnunnar hljómur mun gjalla, og undireins sá sumpart huggunarríki, sumpart skélfiligi dómur verdur úthrópadur: **Komid híngad, blessadir míns Fødurs!** og farid frá mér **bølvadir!** (Matth. 25, 34. 41); med hvørs dóms uppsøgn ad sá stóri og dýrdligi allsherjar þíngdagur mun enda taka.

§. 6. Loksins bid eg þig fyrir sakir þinnar eigin dýrmætu og ódaudligu sálar; fyrir sakir þeirrar umhugsunar, er þú hafa átt um þína daudastundu, sem mjøg hastarliga kann ad yfirfalla þig og rykkja þér óforvarandis inní þá ósýniligu veroldu. Já, eg bid þig, taktu þetta til hjarta, svoframt þú vilt fá ad heyra eitt einasta huggunar ord, þegar þú loksins átt ad gefa upp andann, og þá líkami þinn og hjarta ekki getur hrært sig framar. Eg bid þig, vegna þess ókomna tíma, þegar þú í eigin persónu standa skalt fyrir Krists dómstóli; því allir menn, jafnvel sjálfir kóngarnir, skulu í eigin persónu fyrir honum mæta. Eg bid þig, vegna allrar þeirrar ómælanliga stóru gledi, sem þeir sáluhólpnu njóta munu, og líka vegna þeirra skélfiligu kvala sem þeir fordæmdu lída; hvørra kjør — annadhvørt þessara edur hinna — munu verda þitt hlutskipti eylífliga. Æ, eg bid þig nú og áminni — sem hjartanligast eg get — ad hugsa alvarliga um allar þessar hér á undan gengnar, þér fyrir sjónir settar hugleidíngar; og það svoleidis, einsog þú vildir svara mér til á þeim stóra dómsins degi, ef eg yrdi þar framkalladur til ad bera vitni á móti þér; já, ennþá miklu framar, svoleidis,

einsog þú vilt géta forsvarad fyrir þinni eigin samvizku, og fyrir þeim eylífa Dómara. Sleptu því þessum þaunkum, þessum hugleidíngum og þessari umsorgun ecki fyrri, enn þú búinn ert ad setja sálarefni þín í sann-lucku!igt ástand, og uns þú hefir fengid þann fasta og óhræranliga ásetníng, ad útvelja Kristum, og þann veg og máta, sem hann fyrirsett hefir oss til ad ná sáluhjálpinni, já, allt til þess þú med fullum ásetníngi ert búinn ad ofurselja þig Gudi, og binda þig vid hann med eylífum sáttmála.

§. 7. Svo vil eg þá loksins afhenda þér málefni þetta til réttrar medferdar, en fela undireins Gudi á hendur málalokin. Eg hefi nú fært þér þann bodskap, sem mér var á hendur falinn, og eg hefi framkvæmt mitt embættis erindi vid þig. Sterkari sannfæríngar gét eg ecki brúkad, edur med greiniligri og meir hrærandi ordum sett þér þetta efni fyrir sjónir, enn eg gjørt hefi. Utvel þarfyrir hvørt þú vilt nú heldur gjøra, ad audmýkja þig, og lika sem í seck og øsku ad varpa þér nidur fyrir fótum hans, er svo nádarsamliga frambýdur þér frid og fyrirgéfníngu; ellegar ef þú vilt heldur áframhalda í syndum þínum, og eiga undir, hvørnig sem fer; allt þartil hann kémur med sverdid í hendinni til ad hefna, á skélfiligasta hátt, misgjørda þinna og yfirtrodslu, samt foract þess og vanræktar, sem þú sýnt hefir móti hans nádar bodskap. Eg vildi gjarnan mega vona þess besta, bædi í tilliti þín og annara, og þessvegna gét eg ómøguliga trúad, ad þetta mitt kærleiks erfidi verdi øldúngis ávaxtarlaust og gjøri eckért gagn, svo ad ecki ein einasta sál verdi þarvid uppvakin til ad kasta sér nidur fyrir Krists fætur, í hjartans audmýkt, ákalli og trú. O, minn lesari! lát ecki þau óskøp henda þig, tak heldur ord þessi þér til hjarta og umvendtu þér til Drottins. O, ad nú sérhvør einn, sem þetta les edur heyrir, gæti í sannleika sagt þad fyrir Gudi, sem í eptirfylgjandi hugleidíngu skrifad stendur!

Þánkar þess syndara, sem, af framsettum áminníngum, verdur svo hrærdur og uppvakinn, ad hann vill taka á móti frambodinni sáluhjálp af Kristó.

O, þú allraheilagasti Gud! nú er nóg komid, já, meir enn nóg komid, og engin þörf á ad brúka fleiri sannfæringar vid mig, til ad telja mig á ad vilja þiggja fyrirgéfníngu synda minna hjá Gudi, lífid og eylífa sáluhjálp. Miskunsami Frelsari! mín sála er yfirunnin, og audmýkir sig fyrir þér. Þitt tal vid mig, fyrir þíns þénara munn og penna, hefir med krapti þrengt sér í gégnum hjarta mitt, og gjört þad audmjúkt og sannydrandi. Þad er ordid midt í mínu lífi, sem annad var. O, þú nádugi Frelsari! eg hefi, æ því midur, allt oflengi forsmád þig. Eg hefi svo opt stygt þig og krossfest þig á ný med syndum mínum og ydrunarleysi, einsog þad hefdi verid mitt stærsta eptirlæti ad draga gis ad þér, og nád þinni. En nú beygi eg mitt hjarta nidur fyrir þér, og varpa mér í djúpustu audmýkt nidur frammi fyrir fótum þínum. Eg girnist ecki ad inngánga neinn annann sáttmála vid þig, enn þennann, ad eg ad öllu leiti megi, med lífi og sálu, vera þín eigin eign, æ og eylífliga. Eg tilbid þig med gledi, og bid þig, ad þú virdist ad audsýna mér þá æru, ad uppfræda mig um þad, sem þér þóknanligt er. Kénn þú mér, ó Drottinn! hvad þú vilt ad eg gjöra skuli; því eg girnist ad læra þinn vilja, til þess ad eg géti gjört hann. En sé nú meira í þad varid, enn eg med mínum eigin kroptum orkad fæ, þá vona eg ad þú munir géfa mér meiri styrk, og þann hinn sama vil eg þá nota mér til þinnar þjónustu. O, taktu á móti sálu minni, hverja þú sjálfur skapad hefir, já, gjört hana fúsa og hæfiliga til ad vera þín eign. Nú þarf ei framar, blessadi Jesú! nú er engin naudsýn framar til ad bidja, áminna og yfirtala mig til þessa; leyf mér heldur, ad eg, sem annar fortapadur syndari, sem umsídir er kominn ad sjón og raun um, ad þar er ecki sáluhjálp í neinum ödrum enn þér, megi nú djarfliga snúa mér til þín. Leyf mér nú, ó Drottinn! ad koma og kasta mér nidur fyrir fótum þínum, mér, svo sem ödru hjálp-

arlausu og yfirgéfnu hrœtetri, sem eckért annad hæli hefir enn þína grunnlausu miskunsemi; þar nú er eins ástadt fyrir mér, sem þeim, sem offóktur er af blódhegnaranum, og inniliga lángar þvi til ad fá vidtoku í frelsisstadnum. Eg bid eptir Drottni, mín sála bidur og vonar á þitt ord, ad þú viljir af nád mér móttoku veita. Mín sála reidir sig uppá gœdsku þína og tilbidur hana. Eg vidurkénni med stœrstu audmýkt þann þolinmœdinnar ríkdóm, fyrir hvorn þú svo lengi hefir umborid mig, sem og þína nád, er nú gjörir mig af hjarta fúsan til ad vera þinn eigindómur, já, til ad vera þad á þann hátt, einsog þú siálfur áskilid hefir, og eptir sem þér framvegis þóknast ad láta þad vera. Æ, verka þú þad, ad þetta mitt táldraganda hjarta ecki falli frá þér aptur! Æ! láttu mig vera þér sameinadan med þvílíku óuppleysanligu bandi, ad eg ecki lockadur verdi af mínu eigin holdi og blódi, ecki af veraldarinnar hégóma, ei heldur af mínum fyrri andvaralausu vinum og kunníngjum; til ad snúa mér frá þér aptur, og á þann hátt baki mér nýa sök og sekt, er kann þá ad steypa mér loksins í örvæntíngu. Vertu siálfur borgunarmadur fyrir þræl þinn og huggadu mig, til þess eg sífeldt fái mér fostum vid þig haldid, og sídan ödlast eylíft líf; til þess eg loksins, af glediligri og eylífri reynslu géti æ meir og meir fullkomliga lœrt ad þeckja, hvorsu mektugur Frelsari og Sáluhjálpari þú ert. Amen!

---

## 11ti Kapítuli.

### Hér verdur vid þær manneskjur, sem ei vilja fallast á ad taka á móti þeim medölum nádarinnar, sem þeim í Evangelió frambjódast, sérilagi talad.

§. 1. Eg vona í allri audmýkt, ad þeir undanfarandi kapítular hafi kunnad ad þéna til medals, til ad uppvekja einn edur annan athugalausan, dofinn og frekan syndara, og til ad sannfœra hann um, hvorsu naudsýnligt þad sáluhjálpliga Evang.

sé, samt til ad upphvetja nockra ad taka á móti því af hjarta. Þó kann eg ecki ad smjadra svo mikid fyrir siálfum mér, ad eg hugsi ad medal þetta muni hafa jafna verkan hjá øllum þeim, í hvørra hendur ad bók þessi kann ad koma. Eg er þó ecki betri enn mínir fedur, né betri enn mínir brædur, sem alla tíma fundid hafa orsøk ad framfæra þessa Guds kløgun yfir ótalmørgum: **Eg hefi útbreidt mínar hendur allan daginn til eins óhlýdugs og þrálynds fólks** (Róm. 10, 21); og máské þar finnist margir þesshátar medal minna lesenda; margir, sem hvørki af ótta né elsku vilji láta sér segjast, edur vikna; já, margir, sem eru eins lyndir og þeir, hvørja Frelsarinn siálfur, af eigin reynslu útmáladi, med þessum ordum: **vér blésum í pípur fyrir ydur og þér vildud ecki dansa; vér þuldum ydur rauna kvædi, og þér vildud ecki gráta** (Matth. 11, 17). En eg gét þó ecki fleiri ord brúkad til ad sannfæra þvílíka, enn eg gjørt hefi, svo framt þeir meta þad lítils og skúfa því, sem eg allareidu hefi þeim sagt. Eg hlýt þessvegna ad yfirgéfa þá, og vil í þessum kapítula tala vid þá í sídasta sinni. O, ad eg gæti þá gjørt þad á þvílíkan hátt, ad eg, midt í því vid adskiljumst, fengi þó innþryckt í hjørtu þeirra þvílíkri sannfæríngu, sem verki þad, ad þó vid um ríd skiljumst ad, og þad sýnist sem þeir ei skeita vilji þeim áminníngum, sem eg í undanførnum kapítulum hefi þeim géfid, ad þeir samt á eptir sansi sig, og og girnist ad heyra, med eptirtekt, þad sem eg í sídari parti skrifs þessa hygst fyrir sjónir ad leida, og láta þad vekja sig til fullkominnar umvendunar. O, þér óluckuligu sképnur! (svoleidis hefi eg fulla orsøk ad nefna ydur, medan þér ecki réttiliga snúist); eg skil þá vid ydur, einsog læknirinn yfirgéfur þann siúklíng, sem hann ad sønnu elskar, en sér þó fyrir fram ad hann gétur ecki honum hjálpad. Hann vitjar hans samt í eitt edur annad skipti aptur, og gætir grant ad þeim umbreitíngum, sem siúkdómurinn kann ad taka, til ad athuga, hvørt eckért merki kunni ad sýna sig, sem géfi honum nockra þá von, er fái hvatt hann til ad byrja sínar lækníngar tilraunir vid hann aptur ad nýu.

§. 2. A sama hátt æskti eg nú líka ad koma til þín einu-sinni aptur. En þar eg gét nú ecki med neinu móti fengid af þér ad fylgja rádum mínum, og þú hefir enga lïst til ad taka á móti Evangelió, edur ad snúa þér til Kristum og leita nádar hjá honum, og ad láta sannan Guds ótta vera þitt stærsta naudsynjaverk hér í lífi, þá leyf mér samt, ad minsta kosti, ad spyrja þig ad nockru, og svaradu mér — edur réttara sagt, samvizku þinni — uppá þad; eg spyr þig þá: hvad gengur þér til þess, ad þú ecki vilt fallast á rád mín, sem eg hefi lagt þér? Er þad heimuglig vantrú og efi um trúarbragdanna sannleika og ástædur? Sé þad svoleidis, þá er sjúkdómur þinn annarar náttúru enn eg hingadtil þenkt hefi, og þá verdur hann líka ad læknast á allan hátt annan, enn eg hefi gjört rád fyrir. Jafnvel þó þessarar ritgjördar augnamid sé ecki eiginliga, ad hrekja vantrúarinnar vafamál, eingu ad sídur vil eg þó bidja þig, ad þú ýtarliga eptirgrenslist, hvé vidt þessar efasemdir þínar taka. Snerta þær adeins nockra þá vissa lærdóma í Evangelío, á hverjum mínar, þér gefnu, áminníngar bygdar eru? Eda áhræra þær þau heilu kristnu trúarbrøgd yfir høfud? Eda ná þær kannské ennnú lengra, nefnil. svovel til þeirra náttúrligu, sem opinberudu trúarbragda? Svo þú efist um, hvort Gud sé til, guddómlig forsjón og eptirkomanda líf edur ei? Svosem þar er nú stór mismunur á øllu þessu, svo er þad og líka mikid áríbandi, ad greina þad eina frá ødru, til þess þú lært gétir ad þeckja, hvorjar þær ástædur og lærdómar eru, er þú mátt óhultast reida þig á, þegar þú vilt ransaka þá, sem þú efast um. En, lát nú þessi efamál þín vera svo ásigkomin sem þau vera vilja, þá vil eg samt enn framar adspyrja þig, hvorsu lengi þú hefir haft þau? Og hvor medøl þú brúkad hefir til ad losast vid þau? Meinar þú þér leyfiligt sé, ad áframhalda í vanþeckíngu, efa og vantrú, og ad forsóma ad komast til réttrar sannfæríngar um þann sanna trúarinnar lærdóm, en þó ad lyktum vilja bera þad fyrir þig, ad þared þú ecki hafir gétad ordid viss um hvad sannast var, þá sé þér vorkun, þó ecki hafir

þú eptir því breytt? Gétur ecki jafnvel náttúru skynsemi þín sannfært þig um, ad svoframt þessir lærdómar sannir eru (sem þú jafnvel med efasemd þinni játar: ad þeir þó géti verid), þá ridi þúsund meira á ad ransaka sannleika þeirra, en á ollu odru sem þú gétur fyrir stafni haft í lífi þessu, og ad þér beri þessvegna ad forsóma allt annad — hversu naudsýnligt og ánægjufullt sem þad vera syndist — til þess ad ná fullvissu í trú þinni. Hvarfyrir lætur þú þá eina viku eptir adra, mánudi og ár svo framlída, ad þú midt í andvaraleysi vanrækir þetta, sem þér rídur þó lángmest á af ollu?

§. 3. Spyrjir þú nú: hvor medol þú brúka skulir, til ad frelsast frá slíkum efasemdum, þá er ecki svo torsókt ad svara þér uppá þad spursmál. Lúk augum þínum upp, og lát samvizku þína tala, og er eg þá viss um, ad, svoframt hún ecki er allt of brennimerkt og steindofin ordin, ad þú sannarliga finna munir sterkar sannfæríngar í hjarta þínu, um, ad svovel þau opinberudu sem náttúrligu trúarbrogd fullviss séu, og ad stærsta naudsýn sé á fyrir þig, ad lifa hér í heimi í sannri ydrun, trú og helgun, viljirdu eylífs lífs hlutakandi verda. Ef þú ert þvílíkur einn, sem leggur þig eptir lærdómi og bókmentum, þá hlýtur þú fyrir víst ad vita, af hvorjum rithofundum, og í hvorjum bókum, þessi stóru sannindi dyggiligast varin eru. Og jafnvel þó þú ecki lærdur sért, gétur þú þó alltíd fundid þá menn einhvorstadar í grend, sem færir eru um, ad uppfræda þig um sannleika kristiligrar trúar, og sem svarad géta þeim efamálum, sem hjá þeim ólærdu hafa uppkomid, annadhvort af sjálfum þeim til, ellegar út af hneigsliśligu tali annara sérvitrínga. Taktu þá, í Guds nafni, fyrir þig strax af allri alvoru, ad hugsa um efni þetta! Hafir þú tekid fyrir þig ad ydka bókvísi, þá lát þetta vera þér mest af ollu umbrotsvert, og eyddu ecki tíma þínum einasta til ad stunda veraldlig vísindi, svosem ságnafrædi, lagavizku, læknískonst, mælíngarfrædi, skáldskap og þesshættar; því svo lengi þú vanrækir hitt annad, eru þessir hlutir hjá því lítilsvægir ad reikna, og ecki fisvirdi. Þú hlýtur

ad vera svo kostgæfinn í ad grenslast eptir sannleika trúarbragdanna, einsog þér ridi þar sjálft lísid á; því undir því er komid þad, sem miklu meira er í varid, enn þetta þitt líkamliga líf. Hugsadu um þad, ad hvad miklu leiti þú sannfærdur ordinn ert, og ransaka svo dyggiliga ástædurnar bædi med og mót; en yfir allt fram settu þér fyrir sjónir Nýa testamentisins tilgáng og augamid. Gaumgæf þú vel, hvert þad vill leida þig, og alla þá, sem hlýda því af hjarta, og dæm sídan, hvert þess lærdómar ecki séu harla gódir. Hugsadu eptir því, hversu náttúrligur sannleiki og gædska eru hér sameinud og samknýtt. Grenslastu eptir þess hösunda réttu eiginligleikum og sinnislagi, hvörs lifandi ímind (ad eg svo til orda taki) hlýtur endiliga ad finnast ennnú í þeirra ritgjördum; og spyrdu svo þareptir þitt eigid hjarta, hvert þar géti nockur líklig ástæda til þess þenkst, ad þetta Evangelíum uppdigtad sé; þar uppdigtan sú hlyti þá ad vera einhvör hin grúaligasta; þar hún í rauninni gjördi Gudi stærstu vanæru og nidrun, undireins og hún skadadi þær bestu manneskjur, sem taka vildu vara á samvizku sinni, og setja sálu sína í ved, fyrir þad, sem þær héldu sannleika ad vera. Nei, samvizku þína mun hrylla vid þeim þánka undirnidri: ad heilög ritníng sé tómur táldragandi digtur; eda muntu þora ad upplypta augum þínum til þess alvitra Guds og segja: þú veizt, Drottinn! ad eg af audmýkt fyrir þér, og af elsku til sannleiks og dygdar skúsa hreint bók þessari, og undireins þeim sáluhjálpar vegi, sem mér í henni kéndur verdur!

§. 4. En þar eru nú ýmislig önnur torrek í vegi, viltu máské segja. En hvör eru þau? mun ecki fyrir laungu vera búid ad rýma þeim úr vegi? Fardu til þeirra, sem ennnú lifa og taka í forsvar sannleika þeirra kristiligu trúarbragda; til þeirra, um hvörra vitsmuni, hreinskilni og gudsótta þú hefir bestu þánka (svoframt þínar inndrucknu meiníngar leyfa þér ad hafa góda þánka um nockra slíka menn); segdu þeim sídan frá efamálum þínum móti trúarbrögdunum, og heyrdu, hvörnig þeir fara ad hneckja þeim. Yfirvega þad med stærstu alvörugéfni,

og hugsadu þar hjá, ad þú loksins hljótir Gudi þar af reikníng ad standa. Og, svolengi þar ennnú er nockur efi eptir hjá þér, þá fylg adeins trúliga sannleikanum, þángad sem hann vill leida þig; en taktu þér undireins vara fyrir, ad þú ecki uppihaldir hönum í ránglæti (Róm. 1, 18). Þar er einginn hlutur sem verid gétur sjarstædari og ósannsýnnri, enn sá, ad, þegar sú manneskja, sem ber þad fyrir, ad hún, sinnar samvizku vegna, ecki géti rétt kristin verid, af því hún sé ennnú ecki nægiliga sannfærd um sannleika Evangelií og þess kristiliga lærdóms, ad hún þá midt í þessu yfirtredur þau þreisanligustu lög og skyldur, sem bædi skynsemin og samvizkan segir henni á hendur, og lifir svo í þvílíkum hrylliligum löstum, sem jafnvel heidínginn hefir andstygd á. Vitum fyrir víst, ad Kristur mun dæma þvílíka, og dómur hans er eins fullkomliga réttlátur, sem hann er fullkomliga viss. Þeir gjöra þad vonda, segir hann, af því þeir hata ljósid; og þeir koma ecki til ljóssins, svo ei straffist þeirra verk (Jóh. 3, 20). En þar er þó samt eitt ljós til, sem opinbera skal og straffa verk þeirra, fyrir hvört þeir skulu, móti sínum vilja, neydast til fram ad koma, og þvíngast til ad reyna, med ángist, þad sem þetta ljós gjörir þá opinbert um þeirra athæfi.

§. 5. En hafir þú endiliga tekid þad fyrir þig, ad þú ei framar viljir ransaka málefni þetta, svo heyrdu þó ad minsta kosti þessa mína bæn, sem skédur í hreinskilnu augnamidi: eg bid þig, ad þú vaktir þig vid, ad steypa þér nú ecki, ad naudsynjalausu, í enn stærri ólucku, heldurenn þá, í hvorri þú nú staddur ert. Eg meina, ad þú ecki þar á ofan leitist vid ad hindra adra frá ad trúa sannleika Evangelií. Lofadu þeim, fyrir Guds sakir, já fyrir sjálfs þín sakir, ad njóta þeirrar sinnis rósemdar og ánægjufullu vonar, sem einginn hlutur annar, nema einúngis þau kristiligu trúarbrögd, gétur þeim veitt; og leitastu ecki vid, þó vantrúadur sjálfur sért, ad auka straff þitt med túfaldri fordæmíngu, vid hvörri þeir, sem táldregid hafa og fordjarfad annara sálir, búast mega; því þad Evangelíum, sem

þeir svo luckuliga hafa, eptir sinni meiníngu, hrakid og hindrad, skal á sídan berliga sýna, ad svo ógedfeldur sem þess sannleikur var þeim hér í lifi, svo skélfiligur og skadligur skal hann verda þeim annars heims.

§. 6. Ef eg nú ecki, med ollu þessu, fæ yfirtalad og áunnid lesarann, heldur ad hann láti nátúru dramb sitt hafa yfirhond yfir sinni skynsemi, já, ef hann vildi ennnú bæta því ofan á, til ad troda Evángelíum med þess stærra forakti undir fótum sér, ad standa á því, ad villudómur sé skadlaus, og þad gildi einu hvor trúarbrogd madur hefir, þegar þau géta stadist med manneskjuligu samlifi, þá vil eg samt ad endíngu, í því vid skiljumst ad, framsetja fyrir hann nockud, sem eg hugsa, ad sýnt géti nógsamliga og rétilætt efnisins mikilvægi. Heyrdu mér þá, ó þú syndari! ef þú þykist nógsamliga vera búinn ad rausaka kristilig trúarbrogd, og hefir því ásett þér, ad lifa svo og hegda þér, einsog þú værir viss um, ad þau folsk og ósonn væru, settu þig þá nidur og skrifadu, til endurminníngar þessa þíns merkiliga áforms, á þennan hátt: "þennan dag á þessu ári hefi eg med fullu rádi og yfirvegun ásett mér, ad eg í lifi og dauda ætla mér ad forsmá þau kristiligu trúarbrogd, og af fremsta mætti leitast vid ad gjora þeim allslags hneckir, og kollsteypa þeim. Á þessum degi hefi eg tekid fyrir mig, ad eg ecki alleinasta vil uppsegia Jesú af Nazareth allri hlýdni vid hann og allri von á hann, heldur og láta þad vera mína allrastærstu og alvarligustu vidleitni, svo lengi eg lifi, ad útrýma, svo mjog sem eg gét, allri þeirri virdíngu, sem adrir í sínum hjortum bera fyrir honum, og eg vil, af ýtrustu kroptum, kappkosta, med kænskufullum og spottskum ordum, ad gjora kristiliga trú til skammar, og, ef moguligt er, útrýma henni oldúngis úr heiminum. Allt þetta vil eg adhafast med stærstu róligheitum og stoduglyndi í frá þessum tíma, og med trássi gjora gis ad þeim degi, um hvorn áhangendur hans tala, og segja, ad hann þá muni koma í stórri hátign og dýrd, til ad leggja, med stærstu skélfíngu, þá hefnd á óvini sína, sem hann þeim hótad hafi." Porir þú nú

að vogast til að skrifa svoleiðis, já þorir þú, spyr eg þig, að undirskrifa þetta? Eg trúi með fullri vissu, að margur sá, sem vill álitinn vera fyrir Deista, eður Fríþenkjara, og er að bera sig að auka tölu þvílíkra manna, muni ekki vogast að gjöra það. Sértu nú sá, minn lesari! fyrir þína eigin persónu, sem ekki dirfist að gjöra þetta, hvar af rís þá þessi litla vareigð og blygðun, sem hjá þér eptir er? Er ekki orsökin ljós og berlig? þú finnur þvílíka heimugliga hræríngu í samvizku þinni, og nockuð það, sem setur í þig ótta og hryllíngu, og heldur þér aptur og hindrar þig þar frá; en þetta hið sama staðfestir þá svoleiðis, að þetta Evangelíum, er þú þannig forsmáð og spottað hefir og sett þig því á móti, sýnir sig að vera og verða sannarligt og guddómligt. Svoframt þú þá finnur þvílíka verkun og hræríngu í hjarta þér, þá láttu samvizku þína framkvæma sína skyldu, í að sannfæra þig um þá guðlausu dármensku og fásinnu, sem á þér er, þegar þú hegðar þér svoleiðis, eins og það fyrir laungu væri óhrekjanliga sannað, að lærdómur Krists sé augljósliga falskur og grundvallarlaus. Þetta gétur ánægjanliga kénnt þér, hvorsu møguligt það se, að þú kunnir að finnast meðal þeirra, sem stríða á móti Guði. Já, hvorsu frekur og óbilgjarn sem þú nú ert, í því að forsmá Guðs sjélfsligu hótanir, þá kanntu þó svo auðveldt að falla í hans hendur, og máské heyra þann Guðs dóm, sem þú dregur nú gis að; í hvørn þú munt þó ekki álíta svo lítið varið, þegar þú loksins hlýtur að heyra hann, af þíns eylífa dómara munni. Já, eg vil ennnú í tráss við þitt blygðunarlausa forakt ítreka það hér og segja: að það er møguligt, að þú með eigin eyrum hljótir að heyra kónginn svoleiðis til þín tala: Far burt frá mér, þú hinn bølvaði, í þann eylífa eld, sem fyrirbúinn er djøflinum og hans árum! (Matth. 25, 41.) Nú svo, farðu þá, þú forblindaða sál! og rángfærðu þá heil. ritníngu, gjørðu hana svo forsmáða, sem þú gétur; hafðu þá að háði, sem offrað hafa lífi sínu og blóði, fyrir hennar sannleika sakir; gjørðu spámannanna og postulanna allraðýrmætustu lærdóma, eins

hlæiliga, eins og sumir hafa gjört, sem ecke'rt annad endurminníngar merki hafa eptir sig látid, enn skammvinnan vitnisburd um sína dármensku, gudlast og mannilsku; já, fardu og reistu vantrúarinnar strídsmerki upp, til ad sanna sigur þinn; gjördu þig stoltan þaraf, ad þú ert einn á medal þeirra vantrúudu ske'pna, sem svarid hafa sig undir þetta strídsmerki, og vilja sídan fylgja því; en midt í öllu þessu, þá varadu þig, ad sá í þínum augum forsmádi Galilæari Jesús, spenni ecki óformerkt boga sinn, leggi á hann daudlig skeyti, og skjóti pílu einni í hjarta þitt, sem stíngi þig í hel, þú ofdirfskufulli, freki og forherdti spottari! í midju kafi, fyrenn þú úthellt hefir því sídarsta gudspottunar galli, er í hjarta þínu liggur, og hvörju þú hafdir í sinni ad vilja útspýa móti honum, med þinni meineitrudu túngu.

§. 7. Nú vil eg snúa me'r frá (svonefndum) Deistum edur trúarefurum, en þar á móti snúa tali mínu til þeirra, sem bera kristid nafn, en eru þó enganveginn verdugir til ad bera þad. Peir sem, þrátt fyrir allt þad, sem eg ad undanförnu sagt hefi, finna þó ecki til neinnar inniligrar gírndar í sér, til ad leggja sig undir nádarstjórn Frelsarans, hvörs nafn þeir þó bera. Æ, syndari! þú snýr þér frá þeim Drottni, hvörs erendi eg á vid þig ad reka; en eg bid þig nú alvarliga, ad þú inniliga hugleidir, hvarfyrir þú vilt þe'r frá honum snúa, og til hvörs þú ætlar þá ad flýa, þegar þú yfirgéfur hann, þar þú siálfur játar þó, ad hann hafi ord eylífs lífs (Jóh. 6, 68). Pú kallar þig siálfur kristinn, og þó ertu enganveginn fáanligur til, ad leita med re'ttri alvöru sáluhjálpar hjá Jesú Kristó, hvörn þú kallar þó þinn Drottinn og Lærimeistara. Hvörnig ge'tur þú nú afsakad þig fyrir samvizku þinni, ad þú skulir undandraga þetta einu augnabliki lengur! Hefdi eg áminnt þig til nockurs þess, sem hefdi verid tvísýnt og efasamt, hvört þú giöra skyldir edur ecki, þá hefdir þú haft einslags re'tt til ad afsaka þig, þó þú svo lengi værir ad hugsa þig um, hvad þú afráda skyldir. Ef eg hefdi frekt leitast vid, ad telja þig til ad

fylgja einum ellegar ødrum vifsum trúarmeiningaflocki medal kristinna, þá hefdi þad verid framar vorkun, þó þú hefdir þurft lángan umþenkíngartíma; já, menn hefdu máské mátt álita undandrátt þinn fyrir skyldu þína, vid vorn sameiginliga Frelsara, og þad enda þó þú hefdir sett þig á móti mér. En þetta á hér eckért heima; því leikur nockur efi edur óvissa á því medal kristinna, hvort þar sé einn óendanligur, réttlátur og heilagur Gud til, edur ecki? eda á því, hvort vera þessi, sem vér allir játum ad til sé, eigi heldur ad heidrast og elskast af oss, edur vanheldrast og forsmást? Er nockur efi um þad, hvort syndarinn eigi heldur ad ángrast út af syndum sínum og láta af þeim edur halda alltid áfram í þeim? Er nockur óvissa og þræta um þad vor á medal, hvort Jesús hafi fædst manneskja, og lokfins dáid á krossinum syndurunum til endurlausnar, edur ecki? og þar sem þetta ecki er, þá vilda eg gjarnan fá ad vita, hvernig þeir, sem játa því þó, ad hann sé Sonur Guds og mannanna Endurlausnari, kunni á nockurn hátt þurfa ad hika vid edur hugsa sig um, hvort syndarinn skuli þá leita hans edur forsmá hann? ellegar hvort sá, sem læzt þó kristinn vera, eigi ad víkja frá ránglætinu, edur sockva sér aldeilis nidur í þad? Er þá lærdómur vors mikla Frelsara svo myrkur og óskiljanligur, ad þar skuli vera nockur þorf edur orsok til ad spyrja: hvort Kristur heimti af oss ad lifa heilogu, audmjúku, andligu, árvokru og sjálfsafneitunarfullu líferni, edur hann vilji leysa oss ad breyta þar þvert á móti? Hefir þá Kristur, sem med kénníngum sínum leidt hefir lífid og ódaudligleikann í ljós, gjort þad málefni ennnú óvissara enn ádur, ad í eylífdinni sé ad vænta farsældar edur ófarsældar, og hvílíkir þeir séu, sem þessa hafa, hvors fyrir sig, ad vænta? Er nockur efi á því, hvort Gud vilji edur ecki vilji, leida sérhvørt verk fram fyrir dóminn, med øllu því sem dulid er, hvørt heldur illu edur góda (Préd. 12, 14); og hvort þeir ógudligu, þegar búid er ad uppsegja dóminn, skulu fara í eylífa pínu, en réttlátir í eylíft líf (Matth. 25, 46), edur ei? Eg er viss um, ad þú munir skammast þín

ad segja, ad þú efast um þetta, en látir þig þó undireins kristinn kalla. Hvarfyrir viltu þá ecki láta telja þig til, ad taka þessa hluti til hjarta, og hegda þér svoleidis, sem skylda þín og þín eigin velferd útkrefur? O, þú syndari! orsökin er allt of þreifanlig; í hvorja þó svo lítid varid er, ad hún ecki er maklig þess, ad kallast orsök. Eda mun þad ecki koma til af því, ad þú ert svo forblindadur, tryltur og sigradur af þínum eigin girndum og hégómasinni? Rís þad ecki af því, ad þú átt nockra fáa léttvæga og forgengiliga hluti, er svoleidis tryllt hafa sansa þína og ímindunar krapt, ad þú metur þá meira enn Gud og Kristum, já, meir enn sálu þína og sálar velferd? Í einu ordi: kémur þad ecki af því, ad þú ennnú ert þínu holdligu sinnislagi undirgéfinn, hvert, enda þó þú útvortis sért aldrei svo frómur og sidprúdur ad sjá, er fjandskapur í gégn Gudi, sem hvörki er, né gétur verid hans lögmáli undirgéfid? (Róm. 8, 4); og þessvegna ertu þá, í samslags vesælu ástandi, sem þeir menn voru, um hvorja Frelsarinn, þá hann var hér í sínu niðurlægíngarstandi, sagdi: þér viljid ecki til mín koma, svo þér hafid lífid (Jóh. 5, 40); og þessvegna skulud þér þá deya í ydar syndum (Jóh. 8, 24).

§. 8. Af þessu flýtur, ad eg ecki sé, til hvörra nota þad géti verid, þó eg ennnú ítreki fyrir þér þessháttar afmálanir og áminníngar, sem eg allareidu í undanförnum kapítulum framfært hefi; því einsog vor dýrmæti Frelsari sagdi um þá, sem forsmádu hans Evangelíum: ad jafnvel þó þeir séd hafi sín verk, hafi þeir þó hatad bædi sig og sinn Födur (Jóh. 15, 24), allteins má eg nú í sannleika til þín segja. Eg hefi, med ljúfustu og berustu ordum, leitast vid ad sýna þér, bædi Kristum og Fødurinn; eg hefi þér fyrir sjónir leidt þínar skyldur vid þá báda; eg hefi sýnt þér ofaná misverk þín, svovel sem þína fordæmíngu; eg hefi kénnt þér ad þeckja þad sanna og einasta hjálparmedal; eg hefi bendt þér til þess hellubjargs, á hvörju sjálfur eg bygt hefi von mína um eylíft líf, og til

þess vegar, á hverjum eg áset mér ad ødlast sáluhjálpina; eg hefi brýnt fyrir þér þvílíka hluti, sem eg, ef Gud gefur mér þartil tækifæri, vil, á minni daudastundu, svo hjartanliga og einlægliga sem eg best gét, áminna mín eigin born, og ráda þeim til, og mínum bestu vinum á jørdunni, sem þá kannské verdi mér nálægir, og þarmed géfa þeim þad stærsta merki míns vinskapar, og vissasta teikn kærleika míns til þeirra. En, svo framt þú trúir sannleika Evangelií, og þú engu ad sídur hefir þó ásett þér í verkinu ad neita hønum og forkasta, þá hefi eg ecki annad eptir ad segja þér enn þetta, ad þú mátt búast vid því, sem loksins fljóta vill af þessu þínu fyrirtæki. Svo, eins og Móises, þegar hann í sídarsta sinn gékk út frá Pharaónis augliti, og merkti, ad hjarta hans var ordid enn forherdtara enn ádur, vid þær mørgu plágur og eptir þær forundrunarligu frelsanir, sem hann ádur reynt hafdi, bodadi hønum seinast þetta sem fylgir: **Svo segir Drottinn: um midnætti vil eg útgánga midt í gégnum Egyptaland, og allir frumburdir í Egyptalandi skulu deya** (2 Mós. 11, 45); hvar med hann advaradi hann, um þad stóra og aumkunarliga óp og vein, sem mordengilsins sverd olla mundi allstadar í hans gjørvøllu kóngsríki. Sjá, ó þú syndari! svoleidis vil eg líka tala til þín, þegar eg nú sný frá þér, hvort sem þú vilt géfa því gaum, edur ecki. Eg boda þér því einn lángt skélfiligri dóm, hvørn sverdid, sem á himnum er nú útdregid, og sem brýnt er af Guds réttlæti til ad hefna á þér, skal efalaust framkvæma og þad eylífliga. Og því stærri sem þverúd þín og stæling er, fram yfir þá, sem hjá þeim stolta Pharaó fanst, því stærri og skélfiligri mun straff þitt og plága verda; já, eg hlýt, ó þú syndari! med postulanum Páli, ad snúa mér frá þér til annara, sem reidubúnari og fúsari eru til ad heyra mig, enn þú. Eg hlýt med Páli, ad hrista mín klædi og segja: **ydar blód sé yfir ydar høfdi, eg er hreinn**, (Gb. 18, 6). Þó vil eg ennnú einusinni segja þér, hvor afdrif verda munu á øllu þessu, fyrir þér! Og, ó ad eg gæti sagt þér þad, med þvílíkum krapti, ad

þad sem ønnur skelfilig þrumu raust dunadi svo frekt í eyrum þér, ad þú þaraf fengid gætir heilsusaman eptirþánka; hvør þá ecki á eptir dempadist — einsog vant er — af heimsins og holdsins gledi, edur felli í dá af slíkum háskaligum svefndryck, sem þú siálfur byrlar þér, til þess ad gjøra samvizku þína tilfinníngarlausa.

§. 9. Leita þú þá, syndari! hvørsháttar lystisemda edur eptirlætis, sem þú vilt og gétur hér í heimi, þá læt eg þig þad samt vita, ad þó þú yrdir svo stór í heiminum, svo myndugur, mektugur og dýrdligur, sem hinn stóri Babýlónar einvaldskóngur var, þá skal samt *hátign þín og hørpuhljómur nidursnarast í helvíti, hvar ormarnir skulu verda þín undirdýna, og madkarnir þín ábreida* (Es. 14, 11). Já, ó þú syndari! endalykt þessara hluta skal vera daudinn, sá allra kvalafyllsti og grimmasti daudi fyrir þig, svo framarliga þú áfram heldur þínu syndsamligu líferni, og lætur þínar syndugu girndir og lystíngar yfir þér drottna. Þú gétur øldúngis ecki hjá hønum sneidt! O, ad þad væri møguligt, ad eg fengi svo innþryckt þessu í sálu þína, ad þad gæti þér aldrei framar úr minni fallid. Hugsa þú til þess, hve veikt og valt þitt líf er! ertu ecki siúkdómi og veikindum undirorpinn, einsog adrir? *Kraptur þinn er ecki af steini, né hold þitt af kopar* (Job. 6, 12); og svo framt ad Gud ei burturyckir þér úr heiminum, med nockru hastarligu og óforvarandis tilfelli, mun fliótt verda raun á því, hvílíkt hetjuskap verdur hjá þér ad finna á sóttarsæng þinni, þegar eylífdin nálgast. Þó þú nú forsmáir Kristum, og rétt sem spottir hans Evangelíum, medan þú ert heilbrygdur, mun þad reynast, ad þú nidursøckur i stærstu ángist og hrædslu og nærseldt í øvæntíngu, þegar daudinn kémur. Þá mun allt þitt eptirlæti og holdligar vellystir, samt þínir ógudligu synda stallbrædur hreint í burtu hverfa. Og skyldi þad vilja til, ad einn edur annar þeirra, sem þú hefir ádur, til ad syndga, lagt lag þitt vid, kæmi þá til þín og dirfdist ad vera svo bestíuligur og

dárliga djarfur ad fara ad segja þar frá nockrum kátligum frásøgum og blygdunarlitlum késknis ordum, midt í því þú lægir fyrir daudanum og rétt sem berdist vid øndina, mundi þad sýna sig, hvad gédfeldt þér slíkt væri; já, þad mundi sýna sig, hvørja huggun þú þá af því hefdir, sem þú vissir þig til forna framid hafa, edur hvørn vonarstyrk þad veitti þér, í tilliti þess sem fyrir þér lægi í eylífdinni. Máské þér yrdi þá heldur fyrir skjálfandi og titrandi af ógnarligi hrædslu, fyrir Guds reidi, ad spyrja: hvad skal eg gjøra, svo eg hólpinn verdi? Máské þú þá midt í þinni stóru ángist og ofbodi viljir senda bod eptir einum Guds ords þénara, hvørn þú nú forsmáir, vegna þess vandlætis, sem hann sýnir fyrir sálu þinni, til ad frelsa hana. En þad gétur þá hendt sig, ad þú verdir fallinn í rasari, og þín skynsemi tøpud, ellegar og ad þú sért kominn í andarslitrin, og dragir þad sídasta andartak, þegar hann kémur til þín, svo þú gétir eptir engu því tekid, sem hann talar. Edur og annarskostar, ef sjúkdómur þinn varir lengi, þá gétur verid, þú smjadrir fyrir sjálfum þér, med þeirri von, ad þér kunni ad batna aptur, og álítir þad þessvegna ecki rádligt, ad fara allt offnemma ad taka fyrir þig alvarligar umhugsanir fyrir sálu þinni og um Guds dóm og eylífdina, af ótta fyrir því, ad hugskot þitt verdi þar af of óróligt, svo kraptar þínir þar vid enn framar bilist, og sjúkdómurinn taki þess heldur yfirhønd. Til þessa háskaliga sálar svikrædis, kunna máské þínir bestu vinir og jafnvel læknirarnir ad géfa tækifæri, rétt eins og þeir stædu í sambandi med Satan, ad steypa sálu þinni, ad svomiklu leiti þeim møguligt er, í eylífa gløtun.

§. 10. Eg set nú, ad ef eitt edur annad tilfella þessara skyldi mæta þér, þegar þú liggur á þinni banasæng, hvørnig gétur þá sønn umvendan verid møgulig í þvílíkum kríngumstædum? Nei, þad er sannliga víst, ad svo framt Gud ecki med einslags nádar furduverki (þad er med óalmenniligri og stakligri nádar tilhlutan) hrífur þig, sem eldibrand út úr loganum, þegar bálid hefir rétt sem umkríngt þig, þá máttu álíta allar þær

ádurſøgdu kríngumſtædur ſem forboda og uppbyrjun annara þúſ-
und ſkélfiligra hluta. Æ, minn Gud! hvør fær ſlíkt útmálad?
hvør gétur í þaunkum ſínum ímindad ſér þad? æ ſyndari! í
hvørs hendur mun þín veſæla ſála falla, þegar þínir eptirlátnu
vinir eru ad gráta yfir þínum andvana líkama og ſkilja vid
hann í ſídarſta ſinni, þegar á ad flytja hann til ad rotna í þeirri
fúlu og dimmu grøf? Hvílíkir hrædiligir hlutir munu þá ei
mæta ſálu þinni, þegar hún er frá líkamanum ſkilin, og þad
jafnvel ádur enn hann er kaldur ordinn, og þín broſtnu augu
eru apturlukt? þá munt þú reyna, hvad þad er ad mæta fyrir
Guds augliti, og verda útſkúfadur af hønum, vegna þeſs þú
forſmádir hans heil. Evangelíum, og hans eingétna Son, ſem
og þann einaſta fridþægíngar- og nádar-ſáttmála, fyrir hvørn
þér var unnt, ad ná eylífu lífi, hefdirdu viljad. Þá muntu
læra ad þeckja, hvad í þad er varid, ad vera af Kriſto afneitadur
og þar eptir komaſt ad raun um, hvad hrædiligt þad ſé, ad
ofurſeljaſt í vald þeim vondu og bølvudu øndum. Þá er øll
vinátta úti, og þá verdur ei framar neina huggun ad fá, eda
nockud ſem mýkja kunni ángiſt þína og pínu; heldur muntu
þvert á móti reyna, ad allt þad, ſem kríngum þig er, midar til
þeſs ad auka kvalir þínar; og allan þann tíma, medan ſála þín
og líkami adſkilin eru, finnur þú ei til annars í þér enn grimm-
uſtu ørvæntíngar, og munt óaflátanliga vera ad ópa og kveina
útaf ýtruſtu ſkélfíngu og ſamvizku biti. Lokſins muntu heyra
þad ſterka Guds báſúnu øſkur, í hvørri ſem helſt jardar holu
ſem moldir þínar ſlækjaſt kunna; já þad mun þrengja ſér
þángad inn til þín, og þú munt þó lángt heldur óſka, ad meiga
hylja þitt fordæmda høfud í þeirri ſømu holu (hvørſu óttalig og pín-
ufull ſem hún annars er), enn ad þurfa ad koma fyrir auglit
þeſs allraréttlátaſta dómara, fyrir hvørju himin og jørd flýa
munu (Opb. 20, 11). En þú hlýtur þó ad koma þad, og ſála
þín ſameinaſt aptur líkama þínum, ſem nú er ſvo tilbúinn, ad
hann, án þeſs ad eydaſt, gétur eylífliga kvaliſt, og þad í þvílíkri
pínu, ſem á einu augnabliki foreydt gæti líkama þínum, eptir

því sem hans edli nú er varid. Ádur vildir þú ecki láta telja þig til ad koma til Krists sem ydrandi syndari, heldur rétt umflúdir þú hann, þvert á móti skynsemi, samvizku og hjartnæmustu áminníngum, út af hans heil. Evangelio; en nú hlýtur þú, sem fordæmdur syndari, fram fyrir þennan skelfiliga og ósættanliga dómara dreginn ad verda, af hverjum þú gétur ecki þá vænt þér minstu vægdar edur miskunar. Þar mun eg, ó þú minn lesari! hver sem helst þú ert, siá þig — hversu fjarlægir sem vid hér í lífi hver ødrum verid høfum, svovel í tilliti stada sem tíma — þar mun eg siá þig — sem ei vildir þessum minum áminníngum gaum géfa — einn á medal þeirra þúsund-sinnum þúsund ólukkuligu sképna, sem titra þá og skjálfa undir sinni fordæmíngu fyrir dómarans augliti. Þá mun eg heyra þig hrópandi og veinandi eptir þeirri nád, sem þú hér ecki þyggja vildir, já sárgrætiliga hrópandi, enn þó allt til ónýtis. Þvertámóti mun þá dómarinn, í sinni hátignarfullu dýrd, reisa sig upp af dómstólnum og ofurselja þig til ad útsnarast í eylífan eld, til hvers hans réttlætis hefnd hefir dæmt þig, þar þú ecki vildir í tíma láta frelsa þig þar frá. Svo mun þá helvíti opna sitt gin til ad svelgja þig, og sídan læsa sig aptur á eptir þér eylífliga; en ómurinn af þínu skélfiliga kvalá hrópi og veini mun þá sem uppsvelgjast og hverfa, midt undir þeim himneska lof-lofgjørdar og sigursaung, er þeir allir þá sýngja munu, er á þeim mikla degi finna nád fyrir Guds augliti.

§. 11. Þessi munu nú sannarliga verda endalok og afdrif þessara hluta, er þú, sem Kristinn ad nafni, játar þig ad vita og trúa. Mitt hjarta viknar nú inniliga yfir þessu medan eg skrifa þad, jafnvel þó þú sért tilfinníngarlaus, þegar þú les edur heyrir þad. Eg trúi því ad sønnu fyrir víst, ad sérhvør sá, sem sáluhólpinn verdur, hafi þá svo stóra líkingu af sinnislagi síns Frelsara, í tilliti vísdóms, gædsku og vandlætis fyrir Guds dýrd og hans heil. réttlæti, ad hann, í sinnis kyrd og ró, géti séd uppá og samsinnt øllum þessum skélfiligu hlutum, sem framkoma vid þá fordæmdu, og enda þó þeir hér í lífi hafi verid

honum af teingdum edur vináttu hinir allrakærustu. En af því eg ennnú er ad eins hold og blód, þá kémst eg nú innvortis sárliga vid, og mín augu fljóta í tárum, þegar eg húgsa til þess, ad vesælir syndarar skuli nú ecki hafa meiri medaumkun yfir sálum sínum, enn þeir hafa; og þegar eg sé fyrir fram, hvorsu þeir, þrátt fyrir allar áminníngar, munu loksins af þverúd steypa sjálfum sér í eylífa fordæmíngu. Nú þó eg vildi hér tilbúa eina bæn handa þér, minn lesari! sem þannig sinnadur ert, til ad brúka, væri þad til einkis, þar þú ecki vilt gjøra þér neinn alvarligan eptirþánka, né réttiliga bidjast fyrir. Samt, eins og eg opt og tídt hefi úthellt hjarta mínu í bæn, hjá einum vini mínum, í hans sídurstu neyd, þegar sjúkdómur hans hefir tekid svo mikla yfirhønd, ad hann ecki hefir gétad sameinad sína bæn med minni, allteins vil eg nú koma fram fyrir Gud þín vegna, ó þú ólucksuliga manneskja! og þó nú forakt þitt, edur kaldsinni, taki svo lángt, ad þú jafnvel viljir ecki lesa þad, sem eg, af hjartans medaumkun yfir þér, fyrir Gud frambera vil, þá vona eg samt, ad þeir, sem fundid hafa Evangelii krapt í sálum sínum, muni, ásamt mér, klaga yfir þínu ólucksuliga og hørmuliga ástandi, og sameina sig med mér, í þesshattar innilígum, en þó afbrotnum andvørpum, sem þessi eptirfylgjandi eru.

## Ein bæn framborin fyrir Gud, vegna þvílíks ydrunarlauss syndara, sem er í ádursøgdu ástandi.

Almáttugi Gud! allir hlutir eru þér møguligir; þarfyrir snýég mér nú til þín, og bid þig audmjúkliga, vegna þessarar svo dýrkeyptu og ódaudligu sálar, sem, einsog þú sjálfur sér, hefir ásett sér ad deya í sínum syndum, og hefir forherdt sjálfa sig móti þínu heil. Evangelio, sem þó hefir ordid mørgum þúsundum — já þúsundum þúsunda — kraptur Guds til sáluhjálpar. Þú ert vitni, ó þú allraheilagasti Gud! þú ert vitni til þess, hvorsu greiniliga og alvarliga þessi glediligi bodskapur er honum bodadur. Fyrir þínum altsjáandi augum eru øll þau ord skrifud, sem hér ad framan um þetta efni høndla, og fyrir

þínu augliti lesin af þeim sem það hafa gjort. Láttu þér þar=fyrir þóknast, ad skrifa það í þína minnisbók, uppá það, ad, svoframt þessi ógudliga manneskja skyldi deya í sínum misgjorn=íngum, eptir það, ad hann svo greiniliga og alvarliga hefir ad=varadur verid, ad hans blóds verdi þó ei krafist af minni hendi, né heldur af þess hendi, sem af kristiligum kærleika og hrein=skilinni laungun til ad verka hans sálarvelferd, kynni ad hafa fengid honum bók þessa í hendur til lestrar. Vertu vitni til þess, blessadi Jesú! á þeim degi, þegar þú dæma munt leynda hluti mannanna, ad þitt Evangelium var þó prédikad fyrir þessum forherdta syndara, og ad sáluhjálpin fyrir þitt blód var honum frambodin, jafnvel þó hann héldi áfram ad for=smá hana. O, ad þinn óverdugi sendibodi mætti verda góð ylman fyrir þér í Kristo, hjá þessari sálu, jafnvel þó hún loks=ins, fyrir sína eigin skuld, fortöpud verdi! O ad það þóknadist þér ad uppvekja hann og umvenda honum med þinnar guddóm=ligu nádar almættis krapti, frá hans stóru forherdíngu og ydr=unarleysi! Vér vitum það vel, ó þú stóri yfirdrottnari allrar náttúrunnar, ad þér, sem sálina skapad hefir, er audvelt ad gjora það, ad þínar kroptugu sannfæríngar géti, sem eitt sverd, þrengt sér í gégnum hana. O ad þú, eptir þínum óendanliga vísdómi og kærleika virdtist því til ad uppfinna það medal, med hvorju þessi vesæli syndari gæti frá eylífum dauda frelsadur ordid! æ, ad það væri þinn allraheilagasti vilji ad gjora það, jafnvel nú á þessu augnabliki! Þú veizt, minn Gud! ad hann er daudlig sképna; þú veizt, ad svo framarliga hann skal hólpinn verda, þá hlýtur það brádliga ad ské; þú þeckir augnablik það, sem eptir þínu alvísa rádi skrifad stendur í bók þinnar nádar, á hvorju hann flytjast skal í það ástand, hvorju aldrei umbreitt verdur. O ad þú vildir hrífa hann út af bálinu, og frelsa hann, fyrst hann ennnú lifir, og þar er ecki oll von töpud um hann. Þín óumbreitanligu lög og sú nádarinnar ákvardan, sem þú fastsett hefir, leyfir ecki, ad ein sál kunni umvendast og endurnýast, eptir það allareidu er búid ad flytja hana inní þá ósýniligu veroldu.

Lát þarfyrir þinn heil. Anda verka í honum, svo lengi nádar-tíminn yfirstendur, og medan hann verkad gétur. Erfidadu, o Gud! uppá hann, hvornig og med hvorju helst medali sem þér best sýnist, ef þú adeins vilt miskuna þig yfir hann og vera honum nádugur. O, Drottinn! vertu honum nádugur, svo hann ei sokkvi nidur í fordæmíngarinnar evlífa afgrunn, á hvors barmi hann nú svo þeckjanliga stendur. Æ skyldi þad vera naudsýnligt, og ef þér sýnist þad hentast og þócknanligast, þá lát hann komast í þad stærsta hormúngar og sorgar ástand hér í heimi; og, ó ad hann þá med Mannasðe mætti gripinn verda midt á medal þyrnibúskanna, og líka sem bundinn med koparvidjum, ad hann þess fljótara mætti audmýkja sig fyrir augliti Guds sinna fedra. En eg vil ei vogast til ad fyrirskrifa neitt þínum óendanliga vísdómi. Þú hefir audsýnt makt þína (til ad umvenda syndurum) med morgum dýrdligum og dásamligum dæmum, og eg þacka þér fyrir þad, ad þú hefir látid mig svo merkiliga læra ad þeckja þau, ad eg, fyrir þad, hefi vardveitzt frá slíku athugaleysis sjálfstrausti, sem nockrir á sér hafa, er, af fávizku og drambi, hafa haldid eitt edur annad fyrir ómoguligan hlut, sem þó virkiliga skéd hefir. Eg veit til þess, ó Gud! ad þú, vid einn einasta þánka í einrúmi, hefir komid til vegar, sem þær allrahordustu hótanir, þær allra hjartnæmustu áminníngar, þau allrasorgligustu tilfelli, edur dásamligustu frelsanir ecki megnad hafa. Svoleidis hefir margur luckuliga frelsast, sem ádur ecki hafdi viljad vita af nádarinnar-medolum og sáluhjálparinnar reglu ad segja, heldur forsmád hvorutveggja. Gjordu nú, ó þú stóri Gud! nafn þitt og nád svoleidis dýrdliga, sem þad gétur best sambodid og verdugt verid þínum óendanliga vísdómi og heilagleika; adeins verkadu þad, (eg bid þig og varpa mér þó í allradjúpustu audmýkt undir þinn vilja), verkadu þad: ad þessi syndari verdi sáluhólpinn! Ef ecki, þá lát þó mitt erfidi í þessu efni ecki verda eldúngis til forgéfins; svo ad þó sumir, til sinnar eigin stærstu ólucku, forsmái þad og skúfi því, ad samt nockrir mættu þó hlýdnast því, sér til velferdar! Géf ad þínir þén-

arar, sem trúliga erfidad hafa fyrir annara endurlausn og sálu- hjálp mættu loksins í ríki dýrdarinnar sjá þá og finna, sem eitt herfáng, hvørt þeir ødlast hafa, og sem þú hefir virdst ad brúka þá sem verkfæri til ad ávinna, svo ad þeir ásamt þeim megi samtaka verda ad sýngja himneskt halelúja honum til dýrdar, sem elskadi oss og þvodi oss af vorum syndum med sinu blódi, sem og hefir gjørt oss af fordæmíngar verdum þrælum og drott- inssvikurum, ad konúngum og prestum fyrir Gudi og sínum Fødur; hvørjum ad sé dýrd og kraptur um alla eylífd! Amen!

---

## 12ti Kapítuli.

**Hér verdur sú sála sérílagi uppørfud og hrest, sem finnur svo frekt til byrdi synda sinna, ad hún ecki þorir ad sinna sér til Kristum, og er þessvegna rétt vonlaus um, ad ødlast sáluhjálp hans vegna.**

§. 1. Eg hefi nú ecki lengur ad sýsla vid þær ólucku- sképnur, sem annadhvørt aldeilis forsmá Evangelíum, edur og meta þad lítils og vanrækja þad. Eg sný mér þessvegna med stærstu ánægju til þeirra, sem vilja hlýda á ord mín og taka eptir þeim, med gaumgæfni. A medal þeirra ýmisligu tilfella, sem koma mér í hug og útheimta mína inniliga, hreinskilna og stakliga umsorgun, er þar eínginn, sem vinni til stærri med- aumkunar, enn þeir, hvørra ástandi svoleidis er varid, sem fyrir- søgn þessa Kapítula gétur um, og einginn, sem vidþurfi brádari hjálpar, enn þvílíkir.

§. 2. Þad gétur mikid vel skéd, ad ein sála, sem í þvi- líkri þrengíngu stødd er, kunni ad hrópa þannig: Nóg er komid! gjørdu sorg mína og hermúngu ecki stærri, enn hún er. Sá Guds dómur, sem þú svo skélfiliga útmálad hefir, og sem koma skal yfir sérhvørn ydrunarlausan og vantrúadan syndara, sá dómur heyrir mér til, og hans skélfíngar munu allar bitna á mér, því mínar misgjørdir ná allt til himins og Gud

minnist minnar þvermóðsku (Opb. 18, 5). Þar hefir vissuliga aldrei verið svo stór syndari til, sem eg er; eg hefi notið af Gudi svo margra nádargáfna, svo störra gæðsku hlunninda; mér hefir svo þráfaldliga verið frambodin miskun hans í Evangelío, og samt er hjarta mitt svo forherðt, mín náttúra svo yfirmáta hneigd til syndar; og þær kríngumstædur, við hverjar eg hefi styggt Gud, eru svo ótal margar, ad eg ecki þori ad vænta mér nádar. Þad er nóg, ad Gud hefir svo lengi haft við mig þolinmædi; þad er nóg, ad eg í svo mørg ár hefi óguðliga lifað, og hann hefir samt ecki burtusnarad mér til helvítis. Sérhvør dagur, sem mitt straff hefir undandregist, er mér svo stór nád, ad eg í hærsta máta má furda mig þar yfir; gángi eg til hvílu, má eg falla í furdu yfir, ad dauði og fordæmíng ecki skuli þann umlidna dag hafa hrifið mig í burtu; stígi eg úr reckju, má eg eins undrast yfir, ad mín sæng ecki skuli hafa orðið mér ad grøf. Eg furda mig stórum yfir því, ad mín sála skuli ecki fyrir laungu vera slitin frá líkama mínum, og burturekin í hóp djøfla og fordæmdra anda í helvíti.

§. 3. Þad er satt, mér hefir sáluhjálpin verið tídt og opt boðuð; en æ! mér finst eg eigi einga hlutdeild í henni. Þar eru aðrar farsælar sálir, sem þá von hafa, en ecki eg, og þeirra von stendur til Kristum og Guds nádar, sem í hønum er opinberuð; en þessar sálir finna þá í sér einslags upphvørfun til þess ad koma til Kristum; en hana finn eg einga í mínu hjarta, og þessvegna þori eg þá ecki til hans ad koma. Kristur og hans nád eru þvílíkir hlutir, í hverjum eg óttast ad eg einga hlutdeild hafi, og ei heldur géti vænt mér ad ødlast hana. Þar eru ad vísu mørg yfirmáta stór og dýrmæt fyrirheit í Guds orði, en þau eru øll fyrir mér sem innsiglud bók; þau eru mér hulin og géta ecki komið mér ad notum. Eg veit ad sonnu ad Kristur er máttugur til ad gjøra menn sáluhólpna, eg veit ogsvo, ad hann er fús til ad gjøra hólpna suma; en ad hann skuli vera fús og viljugur til ad gjøra mig hólpinn, sem er svo óhrein og svo óguðlig skepna — sem Gud og mín samvizka veit ad eg

verid hefi, og er ennú þann dag í dag er — það gétur mér ecki trúligt sýnst. Svo hvornig sem eg reyni til að fá mig siálfan til að trúa því, svo kémst eg aldrei lengra, enn adeins að skilja, að það ecki sé að öllu hreint ómögnligt; og að eg ennuú er ecki sockinn í þá fullkomnustu örvæntíngu, jafnvel það sé svo nærri að því komið, að eg er hræddur um að eg þann og þann dag og stundu muni falla þar í.

§. 4. Eg skyldi víst ecki hafa afmálað ástand þetta svo ýtarliga, ef eg ecki hefdi vitað til svo margra, sem í það hafa komist. Þarfyrir, kæri lesari! ef þú nú ert í þvílíku ástandi, þá vil eg segja þér það til hresśíngar og upporfunar, að ýmsir þeirra sömu, sem í því verið hafa, eru nú í tölu þeirra hreinskilnustu Kristinna, er stóra náð hafa af Gudi þegið; og eg vona að þú, fyrir hans náð, munir líka svo komast í þeirra tölu, svo framt þú annars gétur, uppúr þessu djúpi, hrópað til Guðs miskunar; svo jafnvel þó þér finnist, að þú, eins og Jónas, útsnaradur sért frá hans augum, munir þú þó loksins, fá að siá og komast í hans heilaga musterl.

§. 5. Hugsadu ecki, að það sé af neinu forakti við þann verduga heil. Anda, sem eptir sínu embætti er sá stóri huggari, þó eg vildi nú, med skynsemdar rökum, leida þig út úr þessu huggunarlausa sinnis ástandi; því svosem hann er sú stóra og ótæmanliga skynsemdar uppspretta, svo fer hann að og breytir við oss, elns og við skynsamar sképnur, og það eru allt skynsamlig medöl og hugleidingar, sem hann notar sér til sinna nádarverkana í vorum sálum. Leyf mér þessvegna að eg með hæglæti megi spyrja þig að: hvorja orsök hefir þú til að áklaga og ásaka þig siálfan svo frekliga? Hvorja orsök hefir þú til að þeinkja, að ástand þitt sé það allraversta, þar þó adrir hafa sagt þér að þeir verið hafi í líku ástandi? Hvorja orsök hefir þú til að fella svo hardan dóm yfir þig siálfan, svolengi sem Gud í Evangelio sýnir sig að vera svo nádugan? Og hvað kémur þér til að hugsa, að allt það góða, sem þér í því frambodið verður, komi þér þó eckert við? Þú þeckir sannarliga framar þitt eigið

spillta hjarta, enn annara hjörtu, og þú finnur þeim þúsund afbatanir til vægdar, fyrir þeirra opinberu yfirsjónir og breisk-leika, sem þú ecki finnur í tilliti þín sjálfs. En máské þó ad margir medal þeirra, sem þú med addáun álítur ad vera stór heilaga menn, liggi þó í mold og ösku af audmýkt fyrir Gudi; og þegar þeir bera sig saman vid þig, álíti sig ecki makliga ad reiknast med Guds fólki, já æski sér ad vera í þínum sporum, vegna þess þeir meina sig ad finna meira af gódu og minna af vondu hjá þér, enn þeir finna hjá sjálfum sér.

§. 6. En látum oss álíta sök þína á versta hátt. Eg set, ad þú værir sá allra ógudligasti syndari, sem nockurntíma hefir á jördunni tilverid; látum sem syndir þínar hefdu náð til himins upp og ránglæti þitt til skýanna; lát vera, ad þær væru svo grúaligar, ad himin og jörd hefdu orsök til ad hafa andstygd á þér, sem ödru gudleysis vidundri, skyldi þarfyrir nockur hlutur vera Drottni ómögulegur? (1 Mós. 18, 14). Er nockur synd svo stór, ad einn syndari ecki géti ángrast út af henni og ydrast; edur svo svívirdilig, ad Kristi blód ecki géti afþvegid hana? Þad mætti vera ofdirfskufullt gudleysi og geysilig dármenska ad vísu, ad vilja halda áfram í syndinni, til þess nádin gæti því framar yfirgnæft (Róm. 6, 1); en samt sem ádur þó þú drýgt hefdir þvílíka stórsynd — já slíka, sem Guds nád hefdi aldrei fyrri þurft adra jafnstóra ad fyrirgéfa — mætti þá nockur samt vera svo djarfur, ad vilja setja reglu þeim Heilaga í Israel (Sálm. 78, 41). Eda hvør þyrdi ad segja, ad þad væri ómoguligt, ad Gud kynni ad taka þvílíkan einn vesælan syndara til nádar, sem þú ert yfir adra fram, og setja þig til slíkrar ærustyttu og minnisteikns nádar sinnar og miskunar, sem aldrei hefdi ádur sinn líka haft? Postulinn Páll kénnir berliga ad hann verid hafi sjálfur í sama hörmuliga ástandi, sem þú; hvørsvegna ef slíkir stórsyndarar hafa nád og miskun fundid, hvarfyrir skyldi þá ecki þad sama géta komid fram vid þig, ad Jesús Kristur kunni ad audsýna á þér, sem þeim stærsta syndara, stakliga þolinmædi, til eptir-

dæmis þeim, sem hér eptir munu á hann trúa, til eylífs lífs? (1 Tím. 1, 16).

§. 7. Midt í þessum svo yfrid sorgligu og huggunarlausu þaunkum þínum, vildi eg þó gjarnan mega spyrja þig: hugsar þú í samvizku þinni, ad Kristur sé ecki fær um ad hjálpa þér, og gjöra þig sáluhólpinn? hvarfyrir skyldi hann ecki vera þad? Hann kann þó (segir postulinn, Ebr. 7, 25) fullkomliga ad gjöra þá sáluhólpna, sem koma til Guds fyrir hann. Máské þú viljir þá svara mér: víst er hann fullkomliga fær um ad gjöra þad; en eg þori ecki ad leida mér í hug, ad hann vilji þad vid mig gjöra. En hvaraf veiztu þad, ad hann vilji þad ecki gjöra? Hefir hann þó ecki hjálpad þeim allrastærstu syndurum, sem ádur hafa flúid á hans nádir? og hefir hann ecki frambodid þeim miskun og sáluhjálp med allra kroptugustu og huggunarsomustu ordum, segjandi: ef nockurn þyrstir, komi sá til mín og drecki! (Jóh. 7, 37); líka svo segir hann: komid til mín allir þér, sem erfidi drýgid og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra! (Matth. 11, 28). Og enn framar segir hann: hvörn þann, sem til mín kémur, þann vil eg enganveginn útreka! (Jóh. 6, 37). Þetta veit eg satt er, segir þú, en þad lítur adeins til þeirra, sem Jesús segir: ad sinn Fadir hafi sér géfid; svo gæti eg vitad, ad eg sé einn í þeirra tölu, þá skyldi eg gladur leita hælis hjá hönum. Minn kæri lesari! eg bid þig, ad þú sjálfur gætir vel ad texta þessum í nýa testamentinu, og sjáir, hvørt þessi skilmáli er berliga settur þar til. Ordin hljóda þó ecki svoleidis: eingum af þeim, sem Fadirinn hefir géfid mér, skal verda útskúfad. Nei, ord þessi hljóda lángt huggunarsamligar og enn meir upporfandi; og hvarfyrir skyldir þú hnecka visdómi hans og gædsku, med því ad bæta því vid þau, sem þú sjálfur tilsetur? bæt eingu vid hans ord, svo hann straffi þig ecki! segir Salómon (Okvd. 30, 6). Taktu þau heldur, rétt eins og þau skrifud standa, og lát þau vera þér til huggunar. Þad sýnist, sem vor Frelsari hafi fyrir fram séd, í hvílíka trublun og efasemi ad nockur þúsf-

und hugskot kynnu líkliga ad falla, út af þeim ordum sem hann hafdi ádur sagt: **allt hvad minn Fadir gefur mér, þad kémur til min;** þarfyrir, líkasem af ásettu, vill hann svosem mýkja úr þessum sínum ordum, med því ad bæta þessum ósegjanliga nádarríku ordum vid: **og þann sem til min kémur, skal eg einganveginn** (á eingan hátt og í eingu tillíti, frá mér) **útreka.**

§. 8. Ef þessvegna er allareidu ad því komid fyrir þér, ad þér fallist hugur og óttist stærd og fjøldi synda þinna, þá varadu þig, ad þú ecki bætir þar á ofan, til allra hinna, þeirri stærstu synd, nefniliga: ad þú einga tiltrú hafir til þess blessada Frelsara nádar og hreinlyndis. Settu þig því ecki med ýtrustu makt gégn augnamidi kærleika hans til þín. Æ, vesæla sál! hvør er þad, sem þú ert svo hrædd vid? Hvør er þad, sem þú þorir ecki ad komi nærri? Er þá nockud svo óttaligt á einum krossfestum Frelsara? á einu Lambi, sem slátrad hefir verid? Ef þú færir sálu þína — þegar nærri er ad því komid, ad hún géfist upp undir sinna synda byrdi — til hans, og leggur hana nidur fyrir hans fætur, hvad býdur þú og færir honum þá annad þarmed, enn sem nockurskonar aflafé, er hann med blódi sínu og dauda hefir sjálfur afrekad sér til eigindóms? Og skyldi hann til þess hafa keypt hana svo dýru verdi, ad hann med forakti og vidbjód steyti hana frá sér aptur, þegar búid er? Gack nú þessvegna strax burtu, og kastadu þér nidur fyrir hans augliti; og þarsem þú nú ádur barmadir þér yfir boli þínu, til þess ad steypa sjálfum þér í orvæntíngu, og rétt sem til ad sýna, ad þér væri ecki hjálpar audid, þá kvartadu nú yfir eymd þinna í øllu tilliti, nefniliga til þess, ad skuldbinda sálu þína til ad leita athvarfs hjá Jesú, og hræra þann medaumkunarsama Frelsara til ad veita þér vidtøku; og vertu svo fullviss um, ad **hvar syndin er ordin yfirgnæfanliga þeckt, þar verdur nádin enn nú yfirfljótanligar reynd** (Róm. 5, 20. Vertu viss um þad, ad ef nockur syndari gétur gjørt sig fullvissan um, framar ødrum, ad hann sé til nádar tekinn, þá er þad ecki sá, sem minna er

straffsfekur og vesæll, enn hinn annar; nei! heldur er það sá, sem mest er sundurkntísaður og auðmjúkur fyrir Guði; því hann er sá, sem í hans augum þóknanligastur er.

## Athugi yfir þessar upphvatníngar og hugganir, ásamt með inniligri og auðmjúkri bæn um náð.

Æ, mín sála! hvað segir þú nú til þessara hluta? sýnist þér þá ekki mögulígt vera að fá hjálp hjá Kristó? eða á hvorn annan hátt munt þú géta hana fengið? Er nockurt annað nafn undir himninum oss géfið, fyrir hvert vér kunnum hólpnir að verða? Eg veit fyrir víssu, að það alls ekkért er; svo eg má þá segja með þeim líkþráu mönnum af Ísrael (2 Kg. 7, 4): sé eg hér, þá hlýt eg að deya; fái eg ekki hjálp hjá Jesú, þá er mér eylífur dauði búinn. En hver veit, nema hann kannské vilji halda sálu minni við lífið? Eg vil þessvegna uppstanda, og á hans fund fara, eður þó enn framar trúa, að hann sé hér nálægur mér, eptir sínum andliga krapti. Já, eg vil svo syndugur og vesæll, sem eg er, á þessu augnabliki varpa mér niður á mitt andlit, og úthella mínu hjarta fyrir honum. Æ, allrakærasti Jesú! eg vesæl sképna kém til þín, sem annar fortapaður syndari; eg kém til þín, knúður þar til, af ýtrustu nauð; því ef hörmúng mín þrýsti mér ei til þess, mundi eg vissuliga skammast mín að láta mig sjá, fyrir þínu hátignarfulla augliti. Eg er fullkomliga sannfærður um, að dármenska mín og syndir eru lángtum stærri, enn að þær kunni á nockurn hátt afsakaðar að verða; stærri, enn þær géti útmálaðar orðið; já stærri, enn nockur géti það skilið. Eg finn einslags syndasvelg í minni spilltu og vanartugu náttúru, fra hvorjum syndir og yfirtroðslur útstreyma eins og lækir frá uppsprettu, svo eg er sjálfum mér til óþolandi skélfíngar og byrði. Já svoleiðis eru misverk mín stór orðin, að það mætti sýnast rétt ofdirfska fyrir mig, að eg vogast skuli til að biðja um fyrirgéfníngu á þeim. En væri það þó ekki enn stærri dármenska, ef eg segja vildi, að mínar yfirtroðslur yfirgengu þína náð, og að þitt blóð ekki sé

kroptugt til þess ad afmá þær? ellegar ad segja: ad þú hefdir ad vísu makt og nád til ad fyrirgéfa vissar medalmáta syndir, en hún nædi ecki til þvílíkra stórsyndara, sem eg er og mínir líkar? O, Drottinn! vardveittu mig frá slíkum gudløstunar þaunkum! vardveit mig frá svoddan ástædulausri og óvidurkæmiligri efasemd! Þú, Drottinn! megnar alla hluti; og þar er enginn þánki hulinn fyrir þér; þú ert, einsog þitt ord segir, ofsuliga megnugur til ad giøra einn fullkomliga sáluhólpinn. Þessvegna vil eg bera mig ad yfirvinna allar þær hindranir, sem blygdan og ótti setja í veginn fyrir mig, til þín ad koma. Eg vil varpa mér nidur í dupt og øsku fyrir augliti þínu. O, Gud! þú veizt mína bármensku, og mínar syndir eru ecki huldar fyrir þér. Eg kann ecki, og eg vona eg megi segja, ad eg vilji ecki, á nockurn hátt dylja þær fyrir þér edur afsaka. Asaka mig, ó Drottinn! sem þér best þóknast; eg vil med hreinskilni játa, ad eg er sekur í øllum þínum ásokunum! Eg vil siálfur vidurkénna, ad eg sé svo stór syndari, sem þú segir mig ad vera; en eg er þó samt þvílíkur syndari, sem kém til þín, bidjandi um nád og fyrirgéfníngu. Ef þú vilt láta mig deya, þá varpa eg mér ad øllu leiti fyrir fætur þér, og vidurkénni, ad þú hefir rétt til ad straffa mig; og eg vil þá líkasem grípa um altaris horn nádar þinnar, og halda mér þar fast vid, jafnvel þó eg verid hafi stærsti upphlaupsmadur í ríki þínu og Drottinsvikari. Hvørsu margir hafa þó eigi med þetta slag fundid fullkomna fyrirgéfníngu og nád, lángt fram yfir þad sem þeir gátu vonad sér og vænt? Eda er þá øll miskun þín og medaumkan, ó þú blessadi Jesú! gjørsamliga úttæmd? eda viltu nú byrja þad fyrst ad útskúfa þeim audmjúkum syndara, sem flýr til þín, og bidur um óforþénta nád og miskunsemi? æ miskunadu þig yfir mig, ó þú mildi og nádaríki Frelsari! miskunadu þig yfir mig, og lát sálu mína vera dýrmæta fyrir þínum augum. Aset þér ecki ad snara mér nidur í þad vesæla ørvæntíngar ástand, úr hvørju þú hefir nádarsamliga leitast vid ad frelsa svo marga

ádur. Kastadu mér ecki, Drottinn! frá augliti þínu, og vertu mér ecki reidur, þó eg vogist til ad halda mér fast vid þinn konúngliga klædafald, og segi: ad eg hvorki kunni né vilji sleppa þér, fyrrenn þú hefir blessad mig. Æ Drottinn! minstu þess, ad ástand mitt á sidan í eylífdinni rídur þar á. Minstu þess ad øll mín von, ad ødlast eylífa sáluhjálp og snelda hjá eylífri útskúfan byggist á þér einum, sem minnar sáluhjálpar einasta og fasta grundvelli; já þetta er allt komid einasta undir þinni nád og miskun; en sú von hverfur mér øll, ef þú lítur ónádugu auga til mín, og hefir til mín reidi þánka. Æ miskunadu þig yfir mig, fyrir minnar ódaudligu sálar sakir, og þó ecki einasta minnar sálar vegna, heldur og margra annara; hverra sumir kynnu ad upperfast vid þá nád, sem þú audsýnir mér, en sumir særast og tapa voninni, ef þeir sæu mig falla í ørvæntíngu. Eg bid þig, ó Drottinn! fyrir þinnar eigin og fyrir þíns Fødurs dýrdligu og yfirgnæfanligu nádar sakir; eg bid þig, vegna þess fridar og nádarsáttmála, sem Fadirinn gjørdi vid þig, til ad endurleysa ydrandi og trúada syndara; eg bid þig, søkum þess blóds, sem þú á krossinum úthellt hefir; já, ó Herra! eg bid þig: frelsadu mig, sem inniliga lángar eptir ydraninni, trúnni og betruninni. Pad er ad vísu satt, ad eg er þvílikur syndari, af hvørs eylífri útskúfun og fordæmíngu þitt réttlæti kynni stóra dýrd ad hafa; en, æ Drottinn! ef þú vildir nú fyrirgéfa mér syndir mínar, þá yrdi þarmed uppreist einslags endurminníngar teikn til dýrdar nád þinni og þeim óendanliga krapti þíns heil. blóds; sem mundi því stærra verda, sem sá syndari stærri væri, sem nád þín útbreiddi sig til, og því sídur er hann, án nádar þinnar, væri fær um, ad hjálpa sjálfum sér. Tala þá til mín, ó Drottinn! fyrir þinn heil. Anda, og sviptu frá mér øllum ótta og hrædslu! lít þú til mín í nád og kærleika eptir þinni þolinmædi; og segdu til mín þad sama, sem þú, á þínum holdsvistar døgum, sagdir til svo margra ydrandi syndara, sem audmýktu sig fyrir þér: **þínar syndir eru þér fyrirgéfnar, far í fridi!**

## 13di Kapítuli.

Her verdur ein efasöm sál sérdeilisliga uppfrædd um pad, hvörnig hún géti fullvifs ordid um pad, hvört hennar ydran og trú hreinskilin sé, edur ecki.

§. 1. Med því svo margir alvarligir hlutir hafa í undanfarandi Kapitulum fyrir sjónir settir verid, vona eg, ad þess megi med vissu vænta, ad hjá ýmsum þeirra, er þetta lesid hafa, hafi gudligir þánkar uppkomid, sem þeir ecki ádur haft höfdu, edur hafi uppviknad á ný hjá þeim, sem ad sönnu höfdu þá ádur haft, en vóru ordnir hálfvolgir aptur edur kaldir. En þad tekur mig hardla sárt, og eg óska þad sömuleidis mætti taka minn lesara, þegar eg hugsa um þann stóra sálarháska, sem margir þeir eru staddir í, sem smjadra fyrir sjálfum sér, í þessu mikilvæga efni. Hvörsu naudsýnligt er þá ecki, ad vara sérhvörn vid því, ad hann ecki allt of brádliga álykti sig umvendtan ad vera, vegna þess hann í eitt edur annad skipti fundid hefir sterkar sinnishræringar í hjarta sínu, ellegar vegna þess ad hann lagt hefir af ýmsa grófa útvortis lesti, sem hegdan hans ádur var fleckud af. Hvilik villa gétur ollad óbætanligs skada. Pad gæti verid orsök til þvilíks falsks fridar, er tæla kynni manneskjuna til ad blessa sig sjálfa í sínu hjarta, midt í því, ad öll sú bölvan, sem í lögmálsbókinni skrifad stendur, lægi þó í raun og veru yfir hennar sálu. Já hún kynni ad eigna sjálfri sér þúsund þau fyrirheit, í hvörjum hún hefdi þó ecki minsta hlutskipti; svo þetta gæti ordid henni jafn skadligt, sem vínid er manni þeim, er sjúkur liggur í hitsugri köldusótt, edur svefnmedal er þeim, sem í dái liggur. Pad ord, sem í grýtta jörd féll, var medtekid med gledi, og sýndist einsog þad á uppskéru tímanum mundi bera gódan ávöxt, en sökum þess þad hafdi ecki rot, visnadi þad. En til þess, minn kæri lesari! ad þad fari nú ecki svo fyrir þér, og til þess, ad öll sú mæda, sem bædi eg og þú hingad til haft höfum, ei skuli til ónýtis verda, og svo ad þig ecki lengur forgéfins dreyma þurfi um von og

visſu þinnar sáluhjálpar, og þú með því móti steypir þér ennnú dýpra í eymd og ólucku, þá leysðu mér að uppfræða þig um það, hvernig þú alvarliga ransaka skulir og prófa þitt eigið hjarta, til þess að þú verðir því betur hæfur til að dæma um þitt eigið ástand, og gétir gjört nákvæmann mismun þess manns, sem í hærsta máta kann að kallast, að vera aðeins nálægur himnaríki, og þess, sem orðinn er þess virkiligur innbyggjari.

§. 2. Allt er undir því komið, hvort trúin á Kristum er hreinskilin eður ei, þegar hún er tekin í þeirri víðurstu merkíngu, svoleiðis, sem hún í því undanfarna hefir afmáluð verið; það er: að hún innilyki í sér ydran fyrir syndirnar, húngur eptir náðinni, og staðfastan ásetníng til nýrrar hlýðni í öllum hlutum; hvar til trúin, svoframt hún réttskickuð er, visſuliga er sem lifandi uppspretta. Til þess nú að kénna þér, minn lesari! hvornig þú dæma skulir um ástand þitt, þá leysðu mér, að eg spyrji þig, eður réttara sagt, biðja þig, að þú spyrjir sjálfan þig: hvornig þú híngað til hefir álitið, og hvornig þú nú álitur syndina og Kristum? Hvort er augnamið þitt í tilliti hegðunar þinnar framvegis um lífdaga þína? Eg vil ecki með mörgum orðum tala um sérhvort atriði, sem heyrir til þessum höfuðpóstum, heldur miklu framar vísa þér til þinnar eigin skynsemi og yfirvegunar, til þess þú dæmt gétir, hvort hjartalag þitt samhljóðar Guðs orði eður ecki; sem er sú tállausa leiðarsnúra, eptir hvorri vort hjartans ásigkomulag dvalarlaust ransakast á, og vor eylífu og óumbreitanligu kjör eiga að fastsetjast og ákvarðast.

§. 3. Ransakaðu fyrst af allri alvöru, hvornig þú hefir álitið syndina, og til hvörs þú fundið hefir í hjarta þínu út af henni. Þar var tími sá, þegar hún var þér svo yndislig og gat svoleiðis tryllt þig með sætleika sínum og útvortis áliti, að hjarta þitt var aldeilis af henni inntekið, og þitt ypparsta augnamið í lifnaði þínum stefndi til þess, hvornig þú gætir hana drýgt. En nú hefir þú síðan fengið betri upplýsíngu þar um. Þú finnur nú að hún bítur sem höggormur, og stíngur

sem nadra (Okvb. 23, 32). Þú hefir nú lært ad álíta hana med lángt stærri vidbjód, enn yndi þad var, sem hún nockrusinni ádur gjordi þér. Þetta er nú gott, þad sem þad tekur. Svoleidis gengur þad til fyrir sérhverjum sannydrandi syndara; já, og jafnvel fyrir sumum þeim, sem eg er hræddur um ad heyri þó ei til þessara tolu. Lofadu mér þessvegna ad spyrja þig enn framar: af hvorju flaut þessi þinn vidbjódur á syndinni? Flaut hann mest af elsku til sjálfs þín? adeins af því, ad þú fanst, þú hafdir sært sjálfan þig med henni? edur og vegna þess, þú steypt hafdir sálu þinni í hørmúngu og fordjørfun? Fanstu þá eckért til þess um leid hvad syndin í sjálfri sér vidbjódslig, forsmánarlig og vond er, í tilliti þess ad hún framin er á móti þeim allraheilagasta Gudi, sem er sú dýrdligasta, besta og nádugasta vera? Hefir þú aldrei med lifandi eptirþánka komist alvarliga vid af því, hvílíkt óþacklæti þú sýnt hafir Gudi, med því ad drýgja hana? Enn framar bid eg þig ad yfirvega: hvad hefir þú nú ásett þér í hjarta þínu framvegis ad taka þér fyrir hendur móti syndinni; og hvornig hefir þú allt híngad til sett þad í verk, sem þú þér ásett hefir? Er ásetníngur þinn midandi til ad hata allar syndir? hefir þú verid kappsamur ad strída á móti þeim, og þó midt í því kappi audmjúkur fyrir Gudi? Þegar þú bodadir þínum syndum stríd, hefir þú þá bodad þeim þad øllum jafnt? Er þad þvílíkt stríd, sem þú aldrei vilt aptur hætta, heldur fyrir Guds nád áfram halda, uns þú loksins hefir annadhvort yfirunnid syndina, eda liggur sjálfur daudur? Sé nú þetta svo fyrir þér, hvar eru þá þeir verdugu ávextir umvendunarinnar, sem þú gjørir? (Luc. 3, 8) og kappkostar þú á allan møguligan hátt ad undirþryckja syndina og eydileggja hana? Eg vil ecki vona, ad þad innifalid sé í vissum hrygdakofum, sem fljóta í burtu med miklum tárastraumi? Hefir þú þá ogsvo virkiliga látid af illt ad gjøra? ertú þá ogsvo ad læra ad gjøra gott? (Es. 1, 16. 17.) Géta menn af umvendun þinni og forbetrun séd, ad þú ángrast og hryggist út af syndum þínum? Ellegar þvert á móti, ad þad, ad þú svo

opt fellur í þínar fyrri syndir á ný, líka sem vilji sanna það, að þú rétt sem ydrist og sjáir eptir þinni svokölludu og inn-birludu betrun? Hefir þú inniligan viðbjóð til allra synda, og sýnir þú þá réttiligt hatur til þeirra og vandlæti við sjálfan þig, móti þeim? Verkar þetta hjá þér stakliga umsorgun, að vakta þig fyrir öllu tækifæri, tilefni og freistíngum til syndanna? vaktar þú þig líka svo kostgæfiliga fyrir, að þú ecki komist í svoddan kríngumstædur, fyrir hverjar þú kunnir aptur í snöruna að dragast? Og brúkar þú nú einkum tvöfalda varatekt á móti þeirri synd, sem helst situr um þig, sem þú freistast til, ert hneigdastur til að drýgja og sem allra fastast við þig loðir? Hefir þú öllu því úr vegi rudt, sem gétur hindrað þig frá að hlaupa það skeid, sem kristindómurinn fyrir þig setur? Og hefir þú með svo föstum ásetníngi rudt því úr vegi, að þú ecki ein-asta aldrei viljir snúa þér tilbaka til syndarinnar, heldur jafnvel, ef mögulígt er, eckert samkvæmi hafa með þeim persónum edur hlutum, sem þig hafa til hennar dregið edur lockað.

§. 4. Lofaðu mér nú enn framar að spyrja þig: Hvílíkir hafa þánka þínir og ímindanir í tilliti Kristum verið? Hvad virðist þér um hann? hverja þánka hefir þú um sameiníngu þá, sem vera á millum hans og þín? Ertu orðinn aldeilis sannfærður um, að þar hlýtur að stofnast eitt nýtt samfélag millum hans og þinnar sálar? Finnur þú og sér, að þú ert skyldugur að auðsýna honum serdeilisliga auðmýkt og lotníngu; ei alleina sem þeim, er í sinni eigin ypparligu persónu mildur, góður og náðarríkur er, og fyrir hvers nafni og minníngu þú bera átt stærstu virðíngu; heldur og sem þvílíkum, er lifir til að stjórna öllum hlutum, og alltíð er hjá þér og géfur ná-kvæmliga gætur að öllum þínum högum og hegðun? Hefir þú nú svoleiðis ímindað þér hann og nálægt þig til hans? Ertu búinn að semja við hann, um þá allramikilvægusta hluti, á hverjum þín eylífa sálar velferð ríður?

§. 5. Líkliga eru nú þánkar þínir svo lángt leiddir, að þú spyr með sjálfum þér: hvarmed skal eg blídka Drottinn,

og framkrjúpa fyrir þeim hæsta Gudi? (Mich. 6, 6). Skéd gétur, ad þér hafi eitt edur annad skipti í hug komid, ad þvílíkt offur fyrir syndina, sem þú af eigin mætti gætir í té látid, mundi nægja. En ertu nú ecki sannfærdur ordinn um þad, ad slíkt enganveginn nægir edur dugir parid, heldur hljótir þú ad leita athvarfs hjá því Lambi, sem Gud útvalid hefir? Og hefir þú þá álitid Jesúm, svosem þad Guds Lamb, sem bar veraldarinnar syndir, (Jóh. 1, 29); svosem hann, er ecki vissi af synd, en er þó gjördur ad synd vor vegna, til þess ad vér verda skyldum Guds réttlæti í hönum? (2 Cor. 5, 24). Hefir þú álitid hann sem þann, er í siálfum sér algjörliga réttlátur er, og örvæntir þú aldúngis ad verda sáluhólpinn fyrir þitt eigid réttlæti? Ertu svo aldeilis fullkomliga í hjarta þínu sannfærdur um þennan mikilvæga sannleika, ad, svoframt þú nockurntíma skal hólpinn verda, þá hlýtur þad ad ské einúngis fyrir Krists krapt; ad svoframt Gud nockurntíma skal miskuna sig yfir þig, þá hlýtur þad ad ské fyrir hans forþénustu sakir; og svoframt þú nockrusinni skalt upphafinn verda og settur í Gud heil. dýrdarmusteri, þá hlýtur þú ad standa þar, sem eylíft minnisteikn þess sigurs, sem Kristur yfir helvítis makt unnid hefir, hvor annars mundi yfir þér sigri hrósad hafa?

§. 6. Svo segir Drottinn fyrir munn Esajæ (kap. 45, 22): snúid ydur til mín, svo þér frelsadir verdid; og í eigin persónu segir hann: þegar eg verd frá jördunni upphafinn, mun eg alla til mín draga (Jóh. 12, 32); hefir þú þá, kæri! snúid þér til hans, sem þess einasta Frelsara? hefir þú látid þig til hann draga med þeim dýrmæta og heilaga segulsteini, nefniliga hans kærleika, sem vildi fyrir oss deya, og hvors kraptur draga skal alla hluti til sín? Veiztu hvad þad er, ad koma til Kristum sem vesæll þreyttur og þúngaþjádur syndari; samt hvad þad er, ad finna hvíld og endurnæringu hjá hönum? (Matth. 11, 28). Veiztu, af andligri reynslu, hvad þad þýdir: ad eta mannsins Sonar hold og drecka hans blód? (Jóh. 6, 53). Hefir þú lært ad halda þann krossfesta Kristum fyrir

þinnar sálar einasta og fasta máttarstólpa? hefir þú fundid til svo sárrar laungunar og girndar eptir honum, einsog madur náttúrliga er vanur ad finna eptir mat og dryck? Ertu kominn ad raun um hvad þad er, ad ofurgéfa sig sjálfan Kristo af insta grunni, sem auma og vesæla sképnu, er hans kærleiki hefir sjálfur dýru verdi keypt? Hefir þú falid þína ódaudligu sálu í hans hendur, til þess hann gæti hreinsad hana og hólpna gjort; stjórnad henni eptir reglu síns ords og fyrir krapt síns heil. Anda, svo hún fengi þjónad honum til dýrdar; og loksins til ad reyna hana og typta, medan hún ennnú býr hér í líkamanum, eptir sem honum best þóknast, uppá þad ad hann géti í daudanum tekid á móti henni, og sett hana í hóp þeirra sælu anda, sem med óaflátanligum lofsaung umkríngja hans trón, og þjóna honum eylífliga? Ertu nú af hjarta ánægdur yfir öllu þessu, og géfur þartil þitt fulla og fúsa samþycki? Finnur þú til þess hjá þér, medan þú ert ad lesa þetta, ad þú, af allri þinni sálu og hjarta, segir þartil gledifullt já og amen?

Ef ad þannig ástadt er fyrir þér, þá gét eg med stærstu ánægju géfid þér heilagt kærleikans handsal; já, eg gét þá kyst þig og umfadmad, sem sannan Drottins Jesú Krists lærisvein, hvor frelsadur er frá **valdi myrkranna, og settur í Guds Sonar ríki** (Col. 1, 13).

Nú kann eg ad ávarpa þig í nafni Drottins, sem þann, til hvors eg, sem Jesu Kristi þénari sendur er, og mér er skipad ad tala huggunarsamliga til, til ad boda þér og fullvissa þig um, ad sá allraheilagasti Gud sjálfur fyrirgéfur þér hreint allar þínar syndir. Já, þú ert einn þeirra, til hvorra hann í sínu heil. Evangelío hefir sagt, og ennnú sífeldt segir: **vertu hughraustur! þínar syndir eru þér fyrirgéfnar! Þarfyrir: far nú hédan í fridi!** (Lúc. 7, 48. 50) og lát ord þessi verda þér til huggunar!

§. 7. En svo framarliga þér ennnú er allt þetta ókunnugt, og hefir ecki þetta reynt, og ef þad finnis ásigkomulag, sem eg hér ad framan útmálad hefi, finnst ecki hjá þér, þá hlýt

eg ad segja þér, ad þetta stóra mikilvæga og allranaudsýnligasta erfidi: nefniliga þín umvendan er ennnú ecki skéd, heldur ert þú enn þá ydrunarlaus og vantrúadur syndari, sem **Guds reidi** blífur yfir (Jóh. 3, 36). Já, syndugur madur! hvorsu miøg sem þú hefir, af Guds orda kénníngu, hrærst og uppvakist; hvorn ásetníng, sem þú jafnvel hefir, til ad betra líkuad þinn, fyrir þig tekid; hvorsu rétta ímindun og þeckíngu sem þú um trúarbrøgdin haft hefur; hvorsu hrein sem þín útvortis Guds dýrkan hefir sýnst; hvorsu brennandi sem þitt vandlæti hefir verid; hvorsu strángur sem þú hefir verid vid siálfan þig, en medaumkunarsamur vid adra; já, hvorsu sidprúdt liferni sem þú ydkar og ydkad hefir, þá kann eg enganveginn ad géfa þér nockra huggun. Øll þín Gudhrædslu-von er til ónýtis; svolengi þú hefir ennnú ecki af hjarta audmýkt þig fyrir Guds augliti, og ángrast útaf øllum þínum syndum; svolengi þú ecki bodad hefir opinbert og óaflátandi stríd gégn øllum þeim hlutum í fari þínu, sem Gudi misþóknast; svolengi þú ecki finnur til þinnar eigin spillíngar og ólucku, og til þess hvorsu Kristur og hans endurlausn sé þér ómissandi; svolengi þú ecki af allri alvøru hefir snúid þér til hans, og fyrir trúna ofurgéfid sálu þína í hans hendur; svolengi þú hefir ecki afneitad siálfum þér og fest vonar atkér þitt vid hann alleinasta; svolengi þú ecki ályktad hefir og fyrir þig tekid, ad þú, án allrar undantekníngar, viljir ófurselja þig æ og alltíd, vid øll tækifæri og kríngumstædur, til ad vera hreinskilinn Guds þénari, fyrir hans krapt og adstod; já svolengi þú ecki midt í øllu þessu undireins játar og finnur til þess, ad þú ert ónýtur þjón, sem med eckert annad slag gétur vænt sinna synda fyrirgéfníngar og ad verda tekinn til nádar, nema einúngis fyrir Jesú blód og réttlæti, og fyrir þann ríkdóm guddómligrar nádar, sem í hønum er; svolengi þetta allt er nú ecki svo ásigkomid hjá hér, þá segi eg þér þad ennnú einusinni, ad øll þín von er til ónýtis, og þú byggir hana ad eins á lausum sandi. Byggíng sú, sem þú allareidu uppreist hefir, hlýtur ad nidurbrjótast til grunna, svo þu hlýtur ad leggja

annan grundvoll enn ádur, og ſkorda hann faſt í hjarta þínu; annars verdur þér, med allri ádurſagdri byggíngu og von, innan ſkams tíma burtuſópad, og þú ſvo grafinn undir rúſtum eylífrar fortøpunar.

## Sálin bidur Gud af hjarta ſjálfan ad ranſaka og kénna ſér ad þeckja, hvørt ydran ſín og trú ſé hreinſkilin, edur ecki.

O þú ſtóri og almáttugi Gud! þú ert ſá Drottinn, ſem ranſakar hjørtun og nýrun hjá mannanna børnum! Ranſaka mig, o Gud! og ſkodadu mitt hjarta; reyndu mig og adgættu þánka mína, og ſjádu, hvørt þad er vondur vegur ſem eg er á, og leid mig á þann rétta veginn! Æ Drottinn! ef mín ſamvizka vitnar ecki fyrir þér, ad mín ydran og trú ſé ſvoleidis á ſig komin; ſem þad allareidu hefir útmálad verid, ad hún vera ætti, ellegar ad eg ad minſta koſti æſki af øllu hjartu og girniſt ad hún ſvo áſigkomin ſé? Æ ſvo kom þú þá, verdugi Guds Andi! þú ſem alla nád og hugſvølun verkar, kom og gjørdu ſálu mína í þeſsu tilliti, æ framar og framar fullkomna! O ſettu mér ſyndina fyrir ſjónir med þeim allravidbjódsligaſta lit, ſvo eg fá megi rétt daudligt og óſættanligt hatur til hennar! O ſettu mér fyrir ſjónir þeſs ſtóra og bleſsada Guds hátign og nád á þann hátt, ad hjarta mitt þar vid hræriſt og ſundurſmeltiſt! Sládu á klettinn, ſvo af honum útſljóti vatn, nefniliga einlæg, hræſnislaus og ſonarlig ydrunar tár! Sannfærdu mig, ó þú bleſsadi Andi! um ſynd og um réttlæti og um dóm. Sýn mér ofaná, ad eg er ſjálfur adili óluckn minnar, en hjá Gudi einúngis ſé þad ad finna, ſem mér hjálpad gétur; já hjá Gudi, fyrir Kriſts ſakir, þar hann, fyrir hans ſkuld alleina, vill mér nádugur vera, og láta mig øðlaſt nád og miſkun. Tak þú, eptir þínu ſtakliga embætti, af því ſem Kriſto tilheyrir, og bodadu mér þad! Láttu mig ſjá, hvørſu máttugur hann er til þeſs ad gjøra mig ſáluhólpinn; en þó undireins, ad hann fús ſé, til ad brúka þá ſína makt! kénn mér í trúnni ad ſkoda hann,

svo sem hángandi á krossinum með útbreiddum ørmum, og með gégnum stúnginni blódugri síðu! tala til mín með allrakrøptugustu orðum, og segðu mér, hvílíkt rúm þar sé til, í raun og veru, handa mér, í hans hjarta! O að eg mætti reyna, hvað það er, að vera af øllu hjarta inntekinn af hans kærleika; og það svoleiðis inntekinn, sem eg væri með honum krossfestur, til að vera dauður frá syndinni og heiminum, en lifa fyrir Guði í Kristo Jesú vorum Herra! Láttu mig setja allt mitt traust á hans makt og kærleika! Láttu mig án allra minstu undantekníngar fela minn anda í hans hendur! Láttu mig bera hans mind í mínu hjarta! Láttu mig fylgja hans boðorðum og þjóna honum með hreinskilni! já, láttu mig í tíma og eylífð verða eitt minnisteikn um krapt hans Evangelíi, og æruteikn hans eylífu sigurríku náðar!

Æ, þú blessaði Guð! svoframt mig ennnú brestur nockuð til þess, sem gétur gjørt mig í sannleika og hreinskilni Kristinn, opinberaðu það þá fyrir mér, og verkaðu það sjálfur með mér! niðurbrjót og eydilegg sérhvørja falska og grundvallarlausa von, hvørsu álitlig sem bygging sú verið hefir, sem eg byggt hefi á sandi tómum, og hvørsu mjøg sem eg af hennar hégómligu prýði mig stært hefi! Láttu mig þeckja, í hvørju tilliti lakast er ástaðt fyrir sálu minni, hvørsu illa sem mér sú þeckíng fellur; og ef ástand mitt er eður verður háskaligt, æ svo láttu mig þá komast að raun um það, meðan þar ennnú er nockurrar hjálpar fyrir mig að vænta. Sé þar ennþá nockur leynilig synd, sem liggur hulin í hjarta mér, og sem eg ennnú ecki hefi með hreinskilni skúfað, auglýstu mér hana þá og ryð henni útaf hjarta mínu, þó hún sé því aldrei svo djúpt inngróin, og hafi það svoleiðis til fánga tekið, að það særi mig í líf og blóð, þegar hún skal upprætast! Slít hana í burtu með makt, en þó undireins með náðugri hendi! Uppbæt þú hvað af hvørju — en því fyrr því betur — allan vansa minnar trúar; og uppfyll mig með allri þinni gæðsku og velþóknan! gjør þú mig, himneski Faðir! ríkan af náð þins heil. Anda! tilbú mig og laga til að vera líkan

ímind þins allraelskuligasta Sonar, og kom síðan, fyrir hans sakir, og opinberaðu þína náðarnærveru í sálu minni, allt til þess hún gjörist hæf til að njóta hans dýrðar, til hvörrar allar þessar kroptugu náðarverkanir eiga hana undir að búa. Amen!

---

## 14di Kapítuli.

Enn þá greiniligri hugleiðing yfir þau ýmisligu atriði, sem snerta sinnis ástand eins sannkristins manns, af hvörri lesarinn getur öðlast enn frekari aðstoð til að dæma um hvílíkur hann er, og hvílíkur hann eigi kappkosta að vera.

§. 1. Þegar eg yfirvega hvörsu ósegjanliga mikilvæg að eylífðin er, á eg yfirmáta örðugt með, að láta mér lynda við sjálfan mig, í tilliti þess, sem eg á öðrum að kénna, og á hvörju eg veit að þeirra eylífa velferð ríður. Eg hefi allareiðu géfið þér, minn lesari! einslags afmálun, og eg vona eg kunni með sönnu að segja, rétta og trúverðuga afmálun þess hugarfars, sem sannkristinn maður á að hafa til að bera. En þó til að hjálpa þér enn framar, þá vil eg á ýmsan hátt setja þér það fyrir sjónir, til þess þú sjálfur getir um dæmt, hvílíkur þú ert og hvílíkur þú átt að vera. En í þessu tilliti skal það ecki einúngis vera augnamið mitt, að sannfæra þig um, að þú ennnú sért framandi fra þeim rétta og sanna Guðs ótta, heldur ogsvo til að uppbyggja þig enn framar, svo framt þú nú fyrir Guðs náð hefir af reynslunni lært að þeckja sannan Guðs ótta. Farsæll, já ósegjanliga farsæll, ertu og muntu verða, ef þú, mitt í því þú yfirles þessar afmálanir, getur sagt við hvört eitt atriði þeirra: þetta er mín lýsing og mitt sinnis ásigkomulag. Farsæll ertu líka svo og það ecki í lágri tröppu, svofram þú getur sagt: þetta er nú það sem eg inniliga girnist, sem eg óaflátanliga af hjarta bið Guð um, og sem eg staðfastliga sækist

eptir. Eg met þetta œdra, enn alla adra hluti, sem því á móti strída, jafnvel þó eg enn nú ecki hafi odlast þad.

§. 2. Rannsaka þig nú og prófa: hvørs anda þú ert! (Lúc. 9, 55). O, ad hann, sem hjörtun ransakar, virdist sjálfur ad stjórna þinni ransókn svo, ad þú verdir hæfur til ad dæma sjálfan þig, svo þú þurfir ecki, med heiminum, ad fordæmast! (1 Cor. 11, 31. 32.)

En þetta er þad sem þú yfirhøfud vita skalt, ad svoframt þú sannkristinn ert, þá ert þú og verdur endurnýadur í anda þins hugskots (Eph. 4, 23); þad er: einsog Jesús segir endurfæddur edur fæddur ad nýu (Jóh. 3, 3). Pad er ecki nóg ad þú berir þetta nafn, edur þó þú breytt hafir hegdan þinni útvortis til betrunar í ýmsum greinum. Nei, umbreiting sú hlýtur bædi ad vera hreinskilin og líta til alls þins ástands, bædi innvortis sem útvortis, yfirhøfud. Ransaka því: hvørt þú fengid hefir nýtt álit um andliga hluti, hvørt þú dæmir allt ødruvísi, enn ádur, í tilliti Gudhrædslu æfínga og athafna; prófadu hvørt augnamid þau, sem þú hefir, og tilhneigíngar þær, sem þú finnur ad verka í hjarta þínu, sem og allar athafnir þínar, sem af þessum tilhneigíngum fljóta, eru ad øllu leiti nýar, og lángt ødruvísi, enn þær ádur voru? Enn framar ad segja: svoframt þú ert sannkristinn ordinn, þá ertu hluttakandi ordinn gudligrar náttúru; gudligrar, í tilliti síns uppruna, síns augnamids og sinnar líkingar. Ransaka þessvegna, hvørt Gud hefir plantad svoddan tilhneigíng í hjarta þínu, sem midar til hans, og ollar því, ad þú ert hønum líkur. Prófa þú sálu þína med gaumgæfni, og adgæt, hvørt þú í henni hefir nockra líkíngu Guds dygda og hans fullkomleika, til dæmis: hans heilagleika og réttlætis, hans gædsku og hreinlyndis; því sá ný madur er skapadur eptir Gudi í sannarligu réttlæti og heilagleika, og endurnýadur til þeckíngar, eptir hans mind, sem hann skapad hefir (Eph. 4, 23. 24; Col. 3, 10).

§. 3. Til ad hjálpa þér enn framar, þá grenslastu eptir, hvørt þú ert svoleidis sinnadur, sem Jesús Kristur var?

(Phil. 2, 5); hvert þú ber á þér mind Guds eingétins Sonar; hans sem er síns Fødurs allradæiligasta og fullkomnasta ímind, hvørs líkí enginn finnst á himni og jordu. Þessi blessadi Jesús hefir géfid sig sjálfan til eptirdæmis og fyrirmindar øllum sínum eptirfylgjurum. Og hann er í sannleika þad eptirdæmi, sem allrahentast er fyrir oss eptir ad fylgia; hann er eptirdæmi í vorri eigin náttúru og í þeim kríngumstædum, sem oss mæta yfirhøfud hér í lífi; já eptirdæmi, sem oss rádlagt er ad fylgja, bædi vegna hans háleitu og flecklausu fullkomligleika, og svo vegna þess, ad hann í Guds dýrmæta ordi verdur oss fyrir sjónir settur, sem vor frædari, vor vinur og vort yfirhøfud. Á hønum er bygt vort eylífa líf, og í því ad vera samlíkir hans mind, skal vor eylífa farsæld falin vera, svoframt vér óskum oss sáluhólpnir ad verda. Hugleid þarfyrir Kristi líf og lifnad svoleldis, sem hann er afmáladur í ordi Evangelíí, og skodadu svo, hvert þú fundid gétur nockud í lifnadi þínum, sem hønum líkt sé. Hefir þú nockud í þér af hans kærleika og ofurgéfníngu til Guds? nockud af hans andagt, audmýkt, hógværd og hjálparfýsi vid menninna? nockud af hans heilaglelka og vísdómi; af hans forakti til heimsins, hans þolinmædi, hans støduglyndi, hans vandlæti? Já, hvert þú hefir nockud í þér, af øllum ødrum atridum, sem heyra til þess sannkristna rétta sinnis ástands; hvert ástand ecki sær umborid, heldur þvert á móti hatar, þær ódurdrýgdu syndir? Af þvílíkum kénniteiknum, sem nú eru framfærd, gétur þú notad þér, til ad ransaka þig þess betur, í þessu efni.

§. 4. Leyf mér ennnú ad bæta þessu vid: ef þú ert sannkristinn þá ertu líka andliga sinnadur; því þú veizt, ad andans sinni er líf og fridur; en holdsins sinni er þarámóti daudi (Róm. 8, 6). Og jafnvel þó þú umgángist í holdinu, þá lifir þú samt ecki eptir því, né lætur þad vid þig ráda. Ad vísu áttu ad álíta þad skyldu þína, ad sorga fyrir naudþurft þess og vidurværi; en þad hlýtur þó allt ad lagast svo, ad velferd þinnar ódaudligu sálar hafi þar af eingan halla, heldur jafnvel

hagnad; sem skédur, ef þú sorgar fyrir líkamanum framar af hlýdni vid Gud, enn af elsku til sjálfs þín. Þessvegna hljóta þínir þánkar, tilhneigíngar, og allt þad þú eptirsækist, sífeldt framar ad snúa sér til andligra enn líkamligra hluta; sinnisfar þitt á ad vera inntekid af þeim ókomnu, ósýniligu og á vissan hátt ennnú óskiljanligu hlutum. Þín trú skal vera verkandi, vegna þess þú setur þér fyrir sjónir Guds tilveru, hans fullkomligleika og forsjón, hans bodord, hótanir og fyrirheit. Þín trú hlýtur ogsvo ad verka fyrir Kristi krapt, hvørn þú ecki hefir séd, en elskar þó og heidrar (1 Pet. 1. 8). Þín trú skal ogsvo verka, vegna þeirrar ósýniligu veraldar, sem þú veizt ad eylíf er, og þessvegna óendanliga meira verd, enn nockrir sýniligir edur stundlegir hlutir.

§. 5. Þessir eru eiginligleikar þeir yfirhøfud ad tala, sem hjá einum og sérhvørjum sannkristnum finnast, eptir hvørjum eg inniliga bid þig, ad þú viljir sjálfan þig ransaka. En nú vil eg leida þig lengra áfram, til ad yfirvega þau yppurstu atridi hér út af, sem áhræra Gud, sjálfa oss og vorn náúnga; og undireins viljum vid skoda þá gódu eiginligleika, sem hvørju atridi um sig fylgja. Þeir eru þessir: hreinskilni, stoduglyndi, vidkvæmni, vandlæti og forsjálni. Nú vil eg bidja þig, ad þú gætir vel ad, medan eg útlista sérhvørt eitt af atridum þessum fyrir þér, svo þú eptir því getir sjálfur þess betur dæmt, bædi um ástand þitt og skyldu þínu.

§. 6. Vid eg þig þá fyrst, ad þú nákvæmliga ransakir, hvørnig hjarta þínu er háttad, í tilliti þess stóra og blessada Guds! Finnur þú hjá þér audmjúkan ótta, inniligan kærleika og sanna heidran, þegar þú hugsar til hans hátignar, sem og hjartanliga laungun eptir honum, sem þeim allrahæsta góda, ásamt djúpri þacklátsemi vid hann, sem stærsta velgjørara? Reidir þú þig á hans umsorgun; hefir þú traust á hans fyrirheitum? Ertu fús — án alls sortaks — ad hlýda hans bodordum med heilagri lotníngu, og ad undirkasta þig, í øllum hlutum, vilja hans guddómligu forsjónar? Lætur þú dýrd hans

vera þitt allrayppaſta augnamid, og þína frekuſtu umſorgun hér í lífi, ad þóknaſt honum? Sœkiſtu yfir allt fram eptir, ad líkjaſt honum, og ad *tilbidja hann í anda og ſannleika* (Jóh. 4, 24).

§. 7. Trúna á Kriſtum hefi eg allareidu med mörgum ordum fyrir þér afmálad, og því vil eg hér ei framar tala um hana, edur hvörſu madur eigi med henni ad taka Kriſtum ad ſér, ſem þann ypparſta Preſt, Spámann og Konúng, og ad ofurgéfa ſálu ſína í hans hendur, ſem trúarinnar rétta náttúra áſamt ödru útkrefur, og hvar med hún adgreinir ſig frá falſkri, ſjálfſmídadri og daudri munnflapurs trú. Þeſsvegna ſé þeſsi trú á Kriſtum hreinſkilin, þá uppvekur hún, án alls efa, kærleika til hans, ſvo madur hefir meſta yndi af ad hugſa um hann, ſterkt trúnadartrauſt til hans, ſtærſtu umhyggju fyrir ad halda hans bodord, og heituſtu laungun eptir hans nád og anda. Madur ber ſkylduga virdíngu fyrir hans vinum, og öllu ſem honum tilheyrir; allar hans ſtiptanir eru honum yfirmáta kærar og dýrmætar, einkum ſú, ſem falin er í ſakramenti altariſins, er hann innſetti í minníngu síns ódaudliga kærleika. Lokſins hefir ſá ſanntrúadi inniliga laungun til þeſs himneſka búſtadar, hvar Jeſús ſjálfur er, og hvar hann ad lyktum vill, ad allir, ſem hann hér réttiliga þeckt, elſkad og heidrad hafa, ſkulu eylífliga hjá ſér vera. Þetta allt verkar nú ſanna og lifandi gledi í hjarta ſérhvörs þeſs er Jeſúm elſkar: hann gledur ſig yfir tilgángi hans híngadkomu, og yfir hans fullkomna krapti ad ná þeim ſínum tilgángi, med því ad uppfylla öll ſín fyrirheit, og veita oſs þad dýrdliga frelſi, er hans trúadir hafa bædi í þeſsu og eptirkomanda lífi; og þeſsi gledi verdur því ſtærri, ſem upplýſing mans er ſtærri um augnamid og áverkti Jeſú híngadkomu, og eptir ſem hid andliga ſamneyti med honum í trúnni er ſterkara og rótgrónara.

§. 8. Leyf mér nú enn framar ad kénna þér ad yfirvega hvörſu hjartalagi þínu varid ſé, í tilliti þeſs bleſsada Guds Anda. Þú veizt hvad ritníngin ſegir: ad ef nockur hafi ecki

Krists anda, sá heyri ecki Kristi til; og þvertámóti: ad þeir sem Guds Andi leidi, þeir séu Guds børn (Róm. 8, 9. 14. Þarfyrir, svoframt þú sannkristinn ert, þá girnist þú inniliga ad verda uppfylltur af Guds Anda, til þess ad kraptar sálar þinnar verdi Gudi undirgéfnir og hans verkanir í hjarta þínu verdi þess ánægjusamri og kroptugri. Opt munt þú taka fyrir þig alvarligar umþenkíngar út af Guds ordi, til ad uppvekja hjá þér þessar heilögu verkanir. Vakta muntu þig fyrir þvilíkum syndum, sem heil. Anda hryggja; en nota þér sem best þá luckuligu tíma, þegar þú verdur þess var, ad hann úthella vill sínum sælu nádarverkunum í sálu þína. Senda muntu brennandi bænir upp til Guds, um ad hann ríkugliga úthella vilji sínum heil. Anda yfir þig, fyrir Jesú Kristi þíns Frelsara sakir (Tit. 3, 6). Þú munt hjartanliga óska þess, ad hann verki hjá þér sonarligan útvalníngar anda, svo þín Gudsdýrkun vera mætti frjáls og óþvíngud; þín hlýdni sonarlig, ljúf og gladvær; þín sorg útaf syndum þínum alvarlig og einlæg; þín ofurgéfníng undir Guds vilja audmjúk og þolinmód; og þinn kærleiki til Guds heitur og brennandi. Í einu ordi: þú munt óska og girnast, ad hann, ígégnum líf og dauda, vilji leida þig med þvilíku sinnislagi, sem þad barn hefir, er fullkomliga elskar sinn fødur, og lángar því þess framar eptir, hjá hønum ætíd ad vera.

§. 9. Enn framar: ad med því þú í heimi þessum settur ert til ad berjast móti þeim andligu óvinum, sem eru fyrst djøfullinn sjálfur, med sínum glóandi pílum; heimurinn þarnæst med sínum tælíngum og ógnunum; og loksins þitt eigid hold og blód, med sínum girndum og tilhneigíngum, þá muntu víst, sem sannkristinn, æskja þér ad ødlast hugrecki og hreysti, til þess ad géta, sem ønnur Krists strídshetja, móti þessum óaldarflocki varist og barist allt til daudans; og þar ad auki géta stadist af þér øll þau ýmisligu torrek og þrautir, er þér útvortis mæta kunna í þessu lífi, í þínu kalli og embætti. Því á móti

øllu þessu hlýtur þú ad strída allt til daudans, ef þú fyrir Krists krapt, ødlast vilt dýrdarinnar kórónu.

Þetta sem eg nú sagt hefi, má álíta fyrir þau verulígu atridi, er tilheyra sonnum Guds ótta, sem nytsamligur er til allra hluta, og hefir fyrirheit bædi þessa lífs og svo hins eptirkomanda (1 Tim. 4, 8).

§. 10. Í annan máta vil eg nú fyrir sjónir setja þér þau atridi, sem líta til sinnislags þess sannkristna í tilliti persónu sjálfs hans. Ef þú annars, minn lesari! ert í sannleika kristinn madur, hlýtur þú vissuliga ad meta velferd sálar þinnar lángt meira enn líkamans, og þad eylífa lángt framar enn þad stundliga. Já, þad hlýtur ad vera þinn fasti ásetníngur, ad keppast eptir ad vera viss um eylífa velferd þinnar ódaudligu sálar, hvad sem þad svo vill kosta þig; og hvad sem þú þarfst til þess ad vinna, og fyrir þess skuld ad þola edur lída. Ef þú ert sannkristinn, hlýtur þú ad vera prýddur med audmýkt; þú hlýtur med inniligu ángri ad finna til þeirra bresta og vansa, sem finnast í náttúrufari þínu, þinni hegdun og breytni. Þú hlýtur ad kvarta yfir því, ad þeckíng þín ecki nál vidari út, enn hún nær, og ad ásetníngur þinn til þess góda sé svo óstødugur og hverfull. Þú hlýtur ad vidurkénna, ad þú ert, í øllu og alltíd, uppá Gud kominn, og ad nærfeldt allir hlutir, sem í kríngum þig eru, hljóta ad uppfylla þorf þína. Sérilagi hlýtur þú med skélfíngu ad finna til þess, hvad syndir þínar eru svívirdiligar fyrir Gudi, hvenær sem þær koma þér í hug, og þad eins fyrir þad, þó þú hafir ástædur til ad vona, ad þær séu þér fyrirgéfnar. Þetta gétur aptrad þér frá ad vera drambsátur og stoltur í umgengni þinni vid adra. Þad mun ogsvo kénna þér, þegar Guds forsjón vitjar þín med refsíngum, ad bera hans reidi med þolinmædi, þar ed þú veizt, ad þú hefir syndgad móti hønum (Mich. 7, 9). Enn framar, svo framarliga þú sannkristinn ert, þá leitast þú eflaust vid ad vera hreinn af hjarta, og vidheldur þessvegna hjá þér stødugum vidbjód á øllum holdligum girndum og lystíngum. Þad mun því upp-

fylla þig med blygdun og ángri, þegar þér kémur í hug eitt edur ønnur óhrein og blygdunarlaus athøfn, sem þú ádur framid hefir; og þú hlýtur því framvegis ad leitast vid ad vaka, eins vel yfir þínum þaunkum og girndum, sem þínum ordum og verkum; sem og ad halda þér ecki adeins frá ad gjøra íllt, heldur ogsvo frá øllum møguligum tækifærum þar til; já jafnvel hlýtur þú líka ad fordast allt þad, sem hefir íllt álit (1 Þess. 5, 22). Þetta hlýtur ad ské, vegna þess þú þeckir, ad sá Gud, fyrir hvørs augliti þú gengur, er sú allraheilagasta og hreinasta vera; og ad þú ecki heldur annars gétur haft þá sáluhjálpligu von, sem hann í sínu heil. Evangelío þér géfid hefir.

§. 11. Med þessu sannkristins sinnislagi er sú elskuverda dygd hóf sem in nákvæmliga sameinud. Hún hlýtur ad kénna þér, hvørnig þú átt ad vakta þig fyrir óhófi í mat og dryck, sem gjørt gétur líkamann ad óbrúkanligu verkfæri sálarinnar. Þar ad auki sviptir óhóf og vellystingar þig þeim dyrmæta fé-sjódi tímanum, og olla þér svoddan útgifta og tilkostnadar, sem rænir þig ecki adeins þínum sønnu naudþurftum, heldur ogsvo tækifæri til þeirrar gjafmildi vid fátæka og naudlídandi, sem skylda vor vid Gud og náúngann útkrefur. Í fám ordum: þú hlýtur ad vakta þig fyrir øllu því, sem hindrad gétur sálu þína, frá heil. samfélagskap og umgengni med Gudi, og fordast allt þad, sem skérda kann alvøru þína, fúsleika og alúd til ad dýrka Gud og þjóna honum.

§. 12 Þessi guddómliga speki og vizka, sem sjálfur Jesús kénnir, hlýtur ogsvo ad kénna þér ad hafa ról igt og ánægt sinnislag. Hún skal setja takmark laungun þinni til heimsligra lystisemda, eptir hvørjum margir hafa óslöckvanligan þorsta, en géta þó aldrei fulla svølun fengid, hvad mjøg sem þeir leitast vid ad ánægja sínum lystíngum. Þú hlýtur ogsvo ad vakta þig vid allri mátalausri áhyggju fyrir þeim hlutum, sem géta af-vegaleidt þig til ad gleyma þinni himnesku arfleifd. Þú hlýtur ad kasta þér til fóta guddómligrar forsjónar, ef fyrirtektir þínar

gánga þér ecki eptir ósskum. Sjáir þú adra menn vera luckuligri enn þú ert, þá mátt þú ecki ofunda þá, heldur miklu framar þacka Gudi, svovel fyrir þad sem hann hefir gefid þeim, sem gefid sjálfum þér. Þú mátt aldrei nota þér nockur óleyfilig medöl, til ad bæta med kjør þín, heldur, hvörnig sem þau eru, nota þér þau svovel sem þú getur; en minnast þess þarhjá, ad Guds óendanligi vísdómur og gædska, hefir sett þig í þad ástand, sem þú ert í; og ad þad, hvörsu bágt sem er, er þó lángt betra, enn þú tilunnid hefir. Já, skortur sá, ordugleiki og bágindi, sem kannské fylgja þínum útvortis kjörum, geta þénad til þess ad gjøra þig hæfari enn ella, til eptirkomandi fullkominnar farsældar.

§. 13. Svofremt þú ert sannur Krists eptirfylgjari, þá sameinar þú þolinmædina med því ánægda sinnislagi; já, þú verd þig ad eignast sálu þína í þolinmædi (Lúc. 21, 19). Þad er satt, ad þú getur ómoguliga verid aldeilis frí, hvörki frá ángursemdum né ofsóknum; en sinni þitt hlýtur þó engu ad sídur, vera róligt og kyrlátt midt í þessu; þú hlýtur ad halda áfram í ad gæta skyldu þinnar og gjøra hana. Þó ad sorg og mótlæti þrengi sér uppá þig, og jafnvel þó vonir þínar — og þad áríðandi vonir, um eitt edur annad líkamligt — bregdist þér og þínir bestu adburdir verdi til ónýtis. Þolinmædin í slíkum tilfellum getur hindrad þig frá, ad þú med ofmiklu brádræði og athugaleysi gángir til verks, edur grípir til óløgligra medala til ad hjálpa sjálfum þér med. Þolinmædin gjørir þig hæfiligan til ad bída þess tíma, sem Gud hefir ásett til ad hjálpa þér; svo þú heldur áfram ad gjøra skyldu þína, en felur Gudi, sem trúlyndum Skapara, á hendur sálu þína, midt í því þú kappkostar þó gott ad gjøra (1 Pét. 4, 19). Þú hlýtur líka ad sorga fyrir því, ad þú varðveitir þolinmædina allt til enda, til þess ad þú getir fullkominn ordid og eckért tilbresti (Jac. 1, 4), svo þú getir sigurinn fengid, þegar þú kémur í þær kríngumstædur, hvar allramest ridur á ad hafa hana til ad bera. Til dæmis: þegar eitt mótlætid hledst á annad

ofan; þegar það er lángsamt mjög, og hittir þig á aðskiljanligan hátt, svo eitt hörmúnga afgrunnið hrópar til annars, og allar Guðs vatnsöldur og bylgjur gánga lukt yfir þig (Sálm. 42, 8). Þegar Guð slær þig á þann hátt, sem þér viðkvæmast er; þegar orsakirnar til reffínga hans eru þér eldúngis óskiljanligar; þegar þeir náttúrligu kraptar sálar þinnar eru veikir og máttþrota; þegar óleyfilig meðöl, til að hjálpa þér, eru nærri við hendina, og þau er hægt að fá; þó öllu þessu sé nú þannig varið, hlýtur þó lotníng sú, sem þú ber fyrir vilja þíns himneska Föðurs að yfirvinna það alltsaman, og þú, með allri þolinmæði og kyrlæti, að bíða þess tíma og meðals, sem hann sjálfur ákvarðað hefir, þér til frelsunar.

§. 14. Svoleiðis hefi eg þá í stuttu máli sýnt þér það rétta sinnis ástand kristins manns, bæði í tilliti Guðs og hans sjálfs. Leyf mér nú, að eg í þriðja máta bæti hér við nockrum mikilvægum lærdómum, sem Guðs orð kénnir þér, í tilliti til þíns náúnga. Þeir eru allir innibundnir í þessum orðum: elska skaltu náúnga þinn, sem sjálfan þig! (Róm. 13, 9); og allt það sem þú vilt (meiníngin er: kannt eptir rétti og sannsýni að krefjast, ef þú værir í einum eður öðrum kríngumstæðum) að aðrir menn skyldu gjöra þér, það skalt þú þeim gjöra (Matth. 7, 12). Undireins og sá blessaði Frelsari og sinnislag hans drottnar í sálu þinni, þá yfirvinnur þú alla þá óregluliga makt, sem sjálfselskan yfir þér hefir, og þú lærir þá að álíta náúnga þinn, einsog sjálfan þig, með allri hreinskilni og meðaumkun; einsog þér er sár þinn eiginn réttur og þú vilt halda honum, eins skaltu vera, hvað rétt þíns náúnga snertir; einsog þú verja vilt þitt eigið góða nafn og rikti, allteins skaltu verja hans. Þú hlýtur að leitast við að efla svo vel hans velferð, sem þína eigin, og vera eins reiðubúinn að hjálpa honum, í hans neyð, einsog þú æskir að aðrir skuli vera fúsir að hjálpa þér. Þú hlýtur altíð að taka orð hans og verk upp í bestu meiníngu. Þú átt að gleðja þig yfir lucku hans, og hryggjast yfir hans ólucku, sem þinni eigin. Og — ó, hvörsu farsæll

mundir þú verda, ef þessar almenniligu reglur væru rétt innþrycktar í sinni þitt; ef þetta gylliul logmál væri rétt innskrifad í hjarta þitt; og ef þú, vid sérhvort tækifæri, stærra edur smærra, leitadist altíd hlífnislaust vid ad lifa þar eptir.

§. 15. Það hellaga Evangelium skuldbindur þig sømuleidis til hógværdar; ecki adeins í tilliti Guds, ad þú undirkastir þig ordi hans og vilja hans forsjónar, sem allareidu er ádur sagt, heldur og í tilliti þíns náúnga, hvør helst sem hann er. Sá hógværdarfulli lærdómur Evangelii hlýtur ad laga svo sinni þitt, ad þú, enda þó einhver ránglíga skadi þig edur smáni, gétir samt verid róligur og stillinn, og verdir ecki strax reidur edur uppæstur þarvid, nema þú hafir aldeilis réttvísa orsök þar til. Þú hlýtur ad taka vara á ordum þínum, ad þú ecki uppertir edur espir adra, heldur leitist vid ad ávinna sérhvørn med kærleika og mildi. Hógværdin kémur því til vegar, ad þú ecki allt of brádliga grípur til hardra og stránqra medala, svo lengi þú, á løgligan hátt, gétur hjá því komist. Hógværdin verkar þad, ad þú ert reidubúinn ecki einúngis ad taka sáttum vid mótpart þinn, heldur og sjálfur ad bjóda þær, svoframt þar er nockur von til ad ná forlíkun. Því sterkar, sem þessi kristiliga dygd drottnar í hjarta þínu, því framar muntu vakta þig fyrir øllu því, sem ødrum gétur géfid þarflausa ásteytíngu. Hegdan þín skal vera sidsom og ljúfmannlig, eptir þeirri stétt sem þú ert í settur, bædi í tilliti hærri og lægri. Þú hlýtur ad læra ad virda þá fyrri, en ad forsmá ecki, undiroka, ángra né af ásettu upperta þá sídari. Í tilliti trúarbragdanna skal hógværdin aptra þér frá øllu mátalausu stridi út af þeim, og ósannsýniliga hørdum dómum, sem olla reidi, og verka ecki þad, sem rétt er fyrir Gudi. Já, í sannleika er þad altíd gódri sok til vanæru og skada, þegar gédsmuna óstjórn og frekja blandar sér þar inní.

§. 16. Þessari dygd hógværdinni fylgir altíd náttúrliga ønnur, sem er fridsemin. Ef þú sannkristinn ert, þá hefur þú á fridnum þvílíkar mætur, ad þú leitast vid ad ødlast hann og

vidhalda honum, þad þér er moguligt, og ad svo miklu leiti þad gétur skéd med sannsýni, án þess ad breyta á móti ødrum skyldum þínum. Þetta skal verka þad í hegdun þinni, ad þú ecki einúngis altíd varir þig vid ad vera ødrum til ásteytíngar, sem og sjálfur ofbrádliga ad steyta þig á ødrum; heldur og innilíga æskir, ad fridur og vinátta — þegar þad á einhvern hátt raskast — géi aptur, svo fljótt moguligt er, í lag komist, svo ad sárid verdi svo læknad, medan þad nýtt er, og ádurenn þad tekur ad spillast og eta um sig. Dygd þessi skuldbindur þig serdeilis til ad vardveita einíngu andans í bandi fridarins, vid alla þá, sem ákalla nafn Drottins vors Jesú Krists (Eph. 4, 3; 1 Cor. 1, 2); því svoframt þú af hreinskilni elskar þinn Frelsara, þá hlýtur þú ogsvo ad elska þá, sem þú hefir ástædur til ad halda, ad séu hans sannir þénarar og eptirfylgendur.

§. 17. Ef sjálfur þú ert sannkristinn, þá íklædir þú þig inniligri miskunsemi (Col. 3, 12). Miskunsemi Guds og þíns Frelsara, skal verka í hjarta þínu, og laga þad til medaumkunar og gjafmildi, svo ad annara sorg og skortur taki svomikid á þig, ad þú æskir ad hjálpa þeim í þeirra naudþurft, og, eptir sem þér gefst tækifæri, audsýnir þeim gott bædi á sálu og líkama. Í fám ordum: þú hlýtur med þvílíkum gódum verkum ad láta sjá, ad þú af hreinu hjarta audsýnir miskun nágúnga þínum.

§. 18. Svoframt þú sannkristinn ert, þá heldur þú líka fast vid sannleikann, og tekur hann í forsvar, med stærsta vandlæti; ecki adeins þegar þú stadfesta skalt med eidi vitnisburd þinn fyrir yfirvaldinu, heldur ogsvo yfirhøfud, í þinni dagligri umgengni. Muna hlýtur þú ogsvo til þess, ad loford þín skuldbinda þig sterkliga, og ad þú hefur enganveginn frelsi til ad gánga þeim á bak edur brygda þau; en þó hlýtur þú í ollu ad bera umsorgun fyrir því, ad ord þín og verk sambjódi altíd því, sem sómir þeim manni, er þjónar þeim Gudi, sem er Gud sannleikans, já, sannleikurinn sjálfur.

§. 19. En framar að segja: hvorsu umhyggjusamliga sem þú nú leitast við að halda Guðs boðorð, muntu altíð finna, marga ófullkomligleika hjá sjálfum þér, hvorsvegna þú hefir stærstu orsök að biðja Guð, að gánga ecki í strángan dóm við þig, þar þú veizt að enginn lifandi maður gétur fyrir hönum réttlátur verið, nefniliga af sínum eigin verkum (Sálm. 143, 2). Vakta skaltu þig líka við því, að þú ecki dæmir aðra svoleiðis, að þú þarmeð dragir yfir sjálfan þig Guðs stránga dóm. Dæm því engan með nockrum sjálfteknum myndugleika, svo lengi athafnir hans koma þér ecki við; ei heldur með bráðræði, án þess að komast eptir kríngumstæðunum; ecki heldur af meðfylgi, án þess að yfirvega þær með nákvæmd og hreinlyndi; ecki heldur án kærleika, með því að útleggja þá hluti á versta hátt, sem í sjálfum sér tvísýnir og efasamir eru. Hvað gétur ósannsýnligra verið, enn að gjöra augnamið mannseskjunnar verri, enn þau í rauninni eru, eður að álíta þau skaðlig, sem þó géta verið saklaus og gagnlig? Hvílík ósanngirni er það, að dæma um einnar manneskju hugarfar og þánkamáta, eptir einni eður annari vissri athöfn hans, og svoleiðis leggja máské bæði þann seka og saklausa að jöfnu? Nei! Guðs orð kénnir oss þann rétta máta til að dæma aðra, og að deyða lesti þá og íllsku, sem af kærleikslausum dómum fljóta.

§. 20. Þar eg nú svoleiðis hefi stuttliga útlistað þau yppurstu atriði, sem líta til þess rétta sinnislags eins sannkristins manns, svo vil eg þá enda afmálun þessa með að minna þig á nockra góða eiginligleika, sem yfirhöfuð fylgja eiga fyrrsögðum dygðum, og sem tilleggja hverri þeirra um þig, fullkomna fegurð og glansa; þær eru: hreinskilni, stöðuglyndi, viðkvæmni, vandlæti og forsjálni.

§. 21. Minstu þess þá fyrst: að hreinskilnin er einsog sál hins sanna Guðsótta, því það, að leitast við að vera Guði þóknanligur og honum aldeilis á hendur seldur, ætti að vera vort einasta augnamið, sem upplífga og stýra ætti öllum vorum fyrirtækjum. Með slíku sinnislagi skyldir þú ætíð fylgislaust

grenslast eptir ollum þínum skylduverkum, og svo framkvæma þau strax, ad því leitl þú hin somu þeckt gétur. Allt sem þú giorir, hlýturdu ad gjøra af hjarta. Hegdan þín út af fyrir siálfan þig, og í leyndum, hlýtur altíd ad samsvara þinni opinberu umgengni vid alla. Hátign Guds, sem hjarta þínu skal innþryckt vera, hlýtur ad kénna þér ad halda Guds bodord af einlægni, og hata af alvøru alla hræsni.

§. 22. Svoleidis hlýtur þú ad framgánga veg þinn í heiminum í einfeldni og Guds grandvarligleika; og þú hlýtur ad skuldbinda sálu þína til ad vera stadfasta, óhvikula og altíd ypirgnæfandi í verki Drottins (1 Cor. 15, 58). Þú mátt ecki láta þér nægja, ad finna einslags óstødug andagtar hitakost og hræríngar í þér, edur þesshattar, heldur hlýtur þinn Gudsótti ad vera fullur af alvøru og stødugleika, og siálfum sér líkur í ollum hlutum. Þú verdur ad hafa þann fasta ásetníng, ad vera stødugur allt til enda. Gudhrædslan hlýtur ad ad vera þín ypparsta og altídasta athofn hér í lífi. Þú hlýtur nákvæmliga ad vakta þig fyrir ollum þverúdar og ásetningssyndum, og altíd halda vord mótl þínum algengasta og mest ástrídandi breiskleika. Fallir þú í eina edur adra synd af astrídu, þá hlýtur þú strax, eptir hennar ásigkomulagi, ad audmýkja þig fyrir Gudi, og þá hefir þú stærstu orsøk til ad endurnýja þinn ásetníng, ad þjóna honum med fullkominni alvørugéfni. Þannig verdur þú nú ad framgánga alla þína lifstíd, og láta þér ei hugfallast, þó vegurinn sé bædl lángur og ørdugur, og ei heldur láta locka þig edur tæla á eina sídu, né skélfa á adra, af nockurslags freistíngum, sem umkríngja kunna þig edur áreita. Sála þín hlýtur ad halda fast vid þennan óraskanliga grundvoll, og oll þín hegdan skal vera óyggjanlig roksemd þess, ad þú veizt, ad þú þjónar þelm Gudi, sem er mikill og óumbreitanligur, og ad þú væntir þér óhræranligs ríkis og sælu hjá honum eylífliga.

§. 23. Somuleidis, ef Evangelíum drottnar í hjarta þínu, þá er þad vidkvæmt, svo þitt steinhjarta er umbreitt til eins

kjotligs hjarta. Þú sækist eptir ad hafa lifandiímindun um guddómliga hluti, inniligan fúsleika til ad láta þá innþrykkjast hjarta þinu, og vidkvæma samvizku, sem fljót er til ad vikna. Yfirhöfud hlýtur þú ad ofurgéfa allt, sem þú ásetur þér og fyrir þig tekur, undir makt Guds og myndugleika, og vera svo af hjarta fús til ad gjora allt þad, sem þú veizt þeim allrahærsta Gudi þóknast. Þú hlýtur ad bera virdingu fyrir Guds ordi, taka þér vara vid syndinni, og vakta þig fyrir þeim snorum, sem heimsins lán edur lucka setur í veg fyrir þig. Þú hlýtur ad audmýkja þig undir volduga Guds hond, og í ollu því, sem snertir Guds dýrd, sýna þig vidkvæman og tilfinníngarsaman. Í einu ordi: þú hlýtur trúliga ad vara þig vid, ad þú hverki sjálfur gjorir, né leyfir odrum (ad svo miklu leiti þú gétur þad hindrad) ad gjora nockud þad, med hvorju Gud kunni ad styggjast, og sú sanna Gudhrædsla ad vanvirdast.

§. 24. Já, ennnú framar: svoframt sannur Gudsótti býr í hjarta þér, þá audsýnir þú líka heilagt **vandlæti** og alvoru í ad þjóna þínum Frelsara og Fodur; þú verdur því allíd vandlátur í tilliti þess sem gott er; og því mikilvægara þad góda er, sem þú gjora skalt, því stærra mun og þitt vandlæti verda. Þú hlýtur stakliga ad vera vandlátur í ad betra alli þad, sem óregluligt er hjá sjálfum þér, og af ýtrustu kroptum strída fyrir Guds æru. Þú gétur því ómoguliga látid þér liggja í létiu rúmi, þegar þú sér ad annara hegdan er Gudi misþóknanlig; og fyrir þá skuld hlýtur þú — ad svo miklu leiti kærleiki, audmýkt, hógværd og forsjálni leyfa — ad láta þína misánægju í ljósi, yfir ollu því sem vanvirdir Guds æru, og gétur ordid manneskjum ad skada. Og þú skalt ecki adeins kosta kapps um ad snúa manneskjunum frá þvílíkum óveigi, heldur og ad leida þær virkiliga á veg Gudhrædslunnar, og gjora þær otular á hans skeidi.

§. 25. Loksins hlýtur þú ogsvo ad óska og girnast, ad brúka þá **forsjálni**, sem Gud hefir géfid þér, til ad dæma um þad, sem í þá og þá nærverandi kríngumstædum er skylda þín,

í tilliti Guðs, þíns náúnga og sjálfs þín, og í að umhugsa og uppsinna þann allra hagkvæmasta og gagnligasta máta til að framkvæma hana. Því þú mátt það fyrir satt halda, að sú manneskja er hin forsjálasta og luckuligasta, sem með stöðugri athugasemi og eptirþánka fær uppfundið það besta og hentugasta tækifæri, til að gjöra það sem gott er, og sem með forsjálni og brennandi ákefð brýzt í gégnum allar hindranir, til að færa sér það sama tækifæri í nyt.

§. 26. Þetta er nú þvílík ein afmálan þess rétta hugarástands og þánkamáta hjá sannkristnum manni, er eg hét að setja þér fyrir sjónir. Eg hefi látið hana vera svo stutta, sem mér var möguligt, og eg vona hún komið géti mörgum til nota, í því stóra og nauðsýnliga verki, að prófa sjálfa sig. Láttu nú þína eigin samvizku svara uppá það, hvað vel þú allareiðu hefir að þessu gaum géfið, og, að hvað miklu leiti, þú hefir það sama í verk sett. Láttu þær yppurstu dygðir, sem eg hér að framan fáorðliga umtalað hefi, verða svo innprentaðar minni þínu og hjarta, að þú gétir framfært þær fyrir Guði, þegar þú í þinni dagligu bæn auðmýkir þig fyrir tróni hans náðar, og svoleiðis öðlast hjá hönum alla nauðsynliga hjálp, til að æfa þær sömu!

**Bæn, í hvörri þau aðskiljanligu atriði, sem tilheyra sannkristins manns innvortis ástandi, eru, með Ritníngarinnar orðum, stuttliga ítrekuð, í sömu röð sem áður.**

Ó, þú blessaði Guð! eg ákalla þig auðmjúkliga, þú sem ert sá stóri ljósanna Faðir, frá hvörjum allar góðar og fullkomnar gáfur koma. Hjá þér einum leita eg þessvegna allrar blessunar; einkum þeirrar, fyrir hvörja eg verð til þín dreginn, og tilreiddur til að njóta hjá þér eylífrar gleði. Eg tilbið þig, sem þann Guð, er hjörtun og nýrun ransakar: ransaka mig, ó Guð! og skoðaðu mitt hjarta; reyndu og skoðaðu þánka mína, og aðgættu, hvört það er vondur vegur, sem eg er á, og leið mig á þann rétta veginn. Lát þú mig komast að vissri raun

um, af hvorjum anda eg leidist, og varðveittu mig frá, að eg ecki dragi sjálfan mig á tálar, í þeim hlutum, hvar villa mín gétur orðið mér að óbætanligum skaða. Láttu mig, ó Drottinn! endurnýast í anda míns hugskots! géf þú mér nýtt hjarta og nýan anda! gjörðu mig hluttakandi guðligrar náttúru, og lát mig, eptir þeim heilaga, sem mig hefir kallað, heilagan verða í öllu mínu dagfari! Láttu mig hafa sama sinnislag og þánka, sem Jesús Kristur hafði! lát mig umgángast eins og hann umgéckst! Frelsaðu mig frá sinnislagi holdsins, sem er til dauða, en lát mig skynja andliga hluti, sem eru líf og friður! unn mér þess, ó Guð! að, svolengi eg geng í þessari sýniligu veröldu, að eg þá géti gengið í trúnni, æ meir og meir í henni styrkst og géfið Guði dýrðina. O Drottinn! láttu þína sáluhjálpligu náð, sem öllum mönnum opinberuð er, og sömuleiðis hefir svo dýrðliga og kroptuglega opinberað sig mér, lát hana svoleiðis typta mig, að eg afneiti allri óguðligri hegðun og heimsligum girndum, en lifi sparliga, réttvísliga og guðliga í þessum heimi! Verkaðu í hjarta mínu þvílíka guðhræðslu, sem nýtsamlig sé til allra hluta; og kéndu mér fyrir þinn heil. Anda, að elska þig, Drottinn minn Guð! af öllu hjartu, allri sálu, öllu hugskoti og öllum kroptum! Láttu mig ofurselja sjálfan mig þér, sem þann, er lifandi sé orðinn af dauðum; og láttu mig frambera minn líkama sem eitt lifandi, heilagt og Guði velþóknanligt offur, sem er mín skynsamlig Guðsdýrkan! Viðhaldtu í mér sann-hreinskilinni og elskufullri lotníngu fyrir þeim blessaða Jesú, þínum eingétna Syni, sem er ljómi þinnar dýrðar og ímind þinnar guðdómligrar veru; og jafnvel þó eg ecki hafi séð hann, lát mig samt elska hann; já lát mig trúa á hann og gleðjast þaraf, með óútsegjanligri og dýrðlegri gleði! Lát mig, á meðan eg ennnú í holdinu lifi, lifa dagliga í Guðs Sonar trú! Lát mig uppfylltan verða af heilögum Anda! Lát þinn Anda leiða mig, svo það fyrir öðrum þeckjanligt verði, og lát hann þaraðauki vitna með mínum eigin anda, að eg sé Guðs barn og erfíngi himnaríkis! Lát mig ecki meðtaka þrældóms anda til hræðslu,

heldur sonarligan útvalníngar anda, sem gjöri mig hæfan til ad hrópa: Abba Fadir! Lát þinn Anda, sem maktar, typtunar og kærleiks Anda verka í mér, svo ad eg audsýnt fái dygdina í minni trú, og géti verid fulleruggur og hraustur! Lát mig, sem réttskickadan kristinn mann, framkvæma þad verk, sem eg er tilkalladur, og fullkomna þá orustu, sem eg gaf mig útí, þegar eg sór þeim stóra sáluhjálparinnar Fornígja trú og hollustu, og géck undir hans strídsmerki! Kénn þú mér, ó Drottinn! af allri alvöru ad hugleida, hvörsu dýrmæt sála mín er, svo eg géti metid hana eins mikils, einsog ber ad vera! Lát mig ecki erfida einúngis né allrahelst fyrir fædu þeirri, sem forgengur, heldur þeirri, sem varir til eylífs lífs! Géf mér, ad eg audmýki sjálfan míg undir þína voldugu hönd, og sé prýddur med audmýktiuni, já, med hógværdar- og kyrlætis-fulls anda óforgengiligu edli, sem hardla kostuligt er fyrir Gudi! Lát mig vera hreinan af hjarta svo eg fái ad sjá Gud! Lát mig deyda mína jardneska limu, svo ad, ef mitt hægra auga hneigslar mig, ad eg þá slíti þad út, og ef mín hægri hönd hneigslar mig, ad eg þá snídi hana af og snari frá mér. Géf mér ad eg svoleidis haldi mér frá öllum hlutum, ad eg géti ánægdur verid med þad nálæga; já kénn mér ad vera vel til frids, í hvörju helst ástandi, sem eg svo er! Vidhald þinni þolinmædi í mér stödugri allt til enda, til þess ad eg géti fullkominn ordid, og ad mig eckert bresti! Tilreid mig, ó Drottinn! ad eg hafi géti réttskickad hjartalag til minna samkristinna! Láttu mig elska náúnga minn sem sjálfan mig, og lát mig gjöra þad allt ödrum, sem eg vil (edur réttiliga má vilja) ad þeir gjöri mér! géf ad eg skrýddur sé med hógværdinni, hvörsu stóran skada og órétt (af ödrum) sem eg hlýt ad lída! Og ef þad er moguligt, þá láttu mig lifa í fridi vid alla menn, ad svo miklu leiti eg gét adgjört! Láttu mig vera miskunsaman, eins og minn himneski Fadir er miskunsamur! Láttu mig tala sannleikann af hjarta, breyta réttiliga í kærleikanum, og vakta mig fyrir öllum tækifærum, til ad lasta adra og af vondsku út á þá ad setja; láttu mig ecki dæma adra

hardara, enn eg vil sjálfur dæmdur verda, og ecki vera strángari vid þá, enn þú og mín eigin samvizku vita, ad eg er ecki sjálfur fær um ad þola! Eg bid þig hjartans inniliga, minn Gud! ad þú virdist ad verka í mér alla þessa gódu eiginlígleika, sem tilheyra sonnum kristindómi; hvorjir og géta gjørt mig þér stakliga þóknanligan, og þénad til ad prýda mitt kall og embætti hér í heimi! Skapadu í mér hreint hjarta, og endurnýa stodugan anda innvortis med mér! Gjør þú mig ad sonnum Israelsmanni, í hvorjum engin svik eru! Og svo lengi sem eg held hér hátíd, þá láttu mig halda hana med Kristó, mínu Páskalambi, sem fyrir mig slátrad er; ecki í gomlu súrdeigi, nefniliga í vondskunnar og hreckvísinnar súrdeigi, heldur í hreinlætisins og og sannleikans ósýrda braudi! Gjør þú mig, ó, þú álmáttugi og ómbreitanligi Gud, fastan, óhræranligan og yfirgnæfandi altíd í verki Drottins, samt fullvissan um, ad erfidi mitt sé ecki ónýtt fyrir þér! Mýktu mitt hjarta, svo eg fundid géti til krapts orda þinna, og skynjad þína guddómliga forsjón, svo eg borid fái inniliga lotníngu fyrir dýrd þinni, og reynt þær kreptugu nádarverkanir þíns heil. Anda! Láttu mig ad vísu vera vandlætíngasaman, minn Gud! en þó med skynsemi, greind og kærleika! Kénn mér ad vera slægur sem hoggormur í þinni þjónustu, oruggur sem ljón, en þó einfaldur sem dúfa. Verka þad med nád þinni, ad eg géti hér þeckjanliga likst mínum dýrmæta Frelsara; og láttu mig loksins komast svo lángt í því, ad eg borid géti hans fogru heilagleika og dýrdar ímind í þeirri verøldu, hvar sjalfur hann býr; uppá þad, eg ad eylífu megi lofa hann og vegsama ásamt þér, ó, þú nádarinnar og miskunsemdanna Fadir, sem géfid hefir mér þessa ómetanligu gáfu; sem og þinn verduga heil. Anda, fyrir hvørs nádarverkun eg vona, eg megi kalla þig minn Fodur, og Jesúm minn Frelsara og Sáluhjálpara. Amen!

## 15di Kapítuli.

Hér verdur lesaranum tilbendt, hvørsu stórliga hann þurfi heil. Anda adstodar vid, til ad ødlast þad sinnislag, sem ádur er umgétid, og hvørja fullvissu hann hafi géti um, ad ødlast hann.

§. 1. Eg hefi nú sett þér fyrir sjónir afmálun þess sinnislags og sálar ástands, sem Evangelium af þér krefur, og hvert þú, svoframt þú sannkristinn ert, æskir þér af øllu hjarta, og kappkostar ad ødlast. Vissuliga finnst nockud þad í tómri afmálun þess, sem kroptugliga hrært gétur hvert hugskot, sem í sér hefir minsta smeck þess, sem í sjálfu sér er ágætt og ypparligt. Og eg efast ecki um, ad þú, minn kæri lesari! munir strax ad nockru leiti finna hvørsu þad fær á hjarta þitt, og sem strax uppvekji hjá þér lifandi ásetníng ad keppast eptir því; og máské þú líka ímindir þér, ad þú undireins gétir ødlast þad. Þú sér, hvørsu skynsamligt og sannsýniligt þad er, hvørsu ánægjufullir og æskiligir þeir hlutir eru, sem naudsýnliga þaraf fljóta, og hvørsu þeir mida til sannrar sinnis rósemdar í þessu, og ædstu farsældar í því ókomna lífi, og hefir þessvegna ásett þér ad hegda þér svoleidis, sem af þér heimtast. En leyfdu mér, ad eg alvarliga minni þig á þad, ad þeir hafa margir verid — og þau grátligu dæmi eru ecki svo sjaldgæf — hvørra gódi ásetníngur í þessu tilliti hefir verid einsog þad morgunský, og sú døgg, sem árla kémur, og hverfur strax í burtu (Hós. 6, 4). Eg má ad sønnu ecki brúka ad øllu leiti í þessu tillitt ord Jósuæ til Israels fólk, þegar hann straffadi þeirra allt of brádgjørdu og oflitt umþeinktu fyrirtekt, ef eg tek ord hans í sterkustu meiningu, og segji: Þú gétur ecki þjónad Drottni (Jos. 24, 19); en svo mikid þori eg ad segja þér: ad þú ecki gétur þad svo audveldt, sem þú meinar. Æ, þú þeckir ennnú ecki þær mørgu og megnu hindranir, sem þú hlýtur gégnum ad brjótast; þú þeckir ecki þær megnu freistíngar, sem Satan vill leggja í veg fyrir þig; þú veist ecki hvørsu blygd-

unarlaust þeir, sem ádur voru þínir stallbrædur í syndunum, munu leitast vid ad snúa þér til baka aptur í þá snoru, sem þú vilt, og ert farinn ad reyna til, ad slíta af þér; og yfirhöfud ad segja, þeckir þú ecki oll þau slægdarbrogd, sem þín eigin syndaspilling mun nota sér, til ad ná aptur ad nýu yfirdrottnun yfir þér. Hugsadu ecki, ad þær gódu hræríngar og ásetningur, sem þú finnur nú til hjá þér, munu verda eins stodugar, þegar sídar frálídur. Máské þú á morgun fáir adra þánka, og verdir ad nýu táldreginn. Hvor veit, hvort á morgun kann ecki ad koma eitt edur annad lítilvægt tilfelli, undir nýu yfirskíni, sem kunni svoleidis ad taka þig til fánga, ad þú aldeilis gleymir þínum góda ásetníngi? já, máské fyrr enn þú gengur til reckju, kunni allar þær gódu hræríngar, sem þú finnur nú til, aldeilis aptur frá þér ad hverfa. Þær vondu girndir, sem búa í hjarta þínu, og eru nú líka sem fallnar í svefn edur ómegi, kunna ad vakna upp aptur med stærri ákéfd; rétt sem þær hefdu lagt sig til svefns, til ad safna nýum kroptum; svo, ef ad ecki einn hærri kraptur, enn þinn eiginn, styrkir þig, þá mun allt þitt ómak, sem þú gjorir þér, til ad verda laus úr syndarinnar bondum, adeins olla því, ad syndin mun héreptir fá megnara vald yfir þér, enn ádur, og þrældómur hennar verda þér ennþá óþolanligri, enn þá hættuligri, og til enn stærri skammar.

§. 2. Hvad er hér þá til ad gjora? skal hinn sannfærdi syndari þá hreint orvænta? skal hann segja: eg er sá fángi, sem aldrei gét vænt þess ad verda laus úr mínum fjotrum; eg gét audveldar brotid í sundur limi mína, enn med makt sundurslitid mín syndafjotur; því med tilraun minni gjori eg ei annad, enn auka þad vonda, sem eg vil hjá komast. Gud forbjódi slíkt! eg er viss um, ad þú aldeilis ecki gétur verid svo fákænn í kristiligum trúarbrogdum, ad þú vitir ecki, ad þau kénna oss, hvorsu naudsýnlig heil. Anda adstod er hér til, og lofar oss því hans guddómligri adstod, á hvorri oss rídur svo mjog, í æfíngu Gudhrædslunnar. Eg vil ei efast um, ad þú opt hafir heyrt

edur lesid þessi ord: lífsins anda lögmál í Kristó Jesú, hefir fríad mig frá syndarinnar og daudans lögmáli (Róm. 8, 2); og hvörsu opt og tídt hefir þú ecki heyrt, ad vér deyda skulum holdsins verk fyrir andann (Róm. 8, 13); hvörsu þrátt hefir þú ecki heyrt ord þessi, eptir Postulans munni: eg megna alla hluti í Kristó, sem mig máttugan gjörir (Phil. 4, 13), hvörs nád ad mér nægir og hvörs kraptur fullkomnast í breiskleikanum (2 Cor. 12, 9). Nú svo þá! gefdu nú vel gaum ad þessum Ritníngarinnar vitnisburdum, sem eins eru ljósir, sem þeir eru mikilvægir.

§. 3. Í þessu samhljódar skynsemin aldeilis med Ritníngunni. Gjörvöll sú skapada veröld hlýtur endiliga ad hafa sinn uppruna af Gudi og vidmakthaldast af honum. Af honum fáum vér þeckingu þá, sem vér höfum um alla skapada hluti; af honum, sem oss skynsemina géfid hefir. Honum á madur fremst af öllu ad þacka þad, ad uppfundist hafa íþróttir og vísindi, hvörsu miklu framar hlýtur þá ecki þvílíkt ypparligt og mikilvægt verk, sem þad er, ad endurskapa hjarta manneskjunnar, útkrefja guddómligan krapt? Þegar þú yfirvegar þær mörgu adskiljanligu dygdir, sem finnast eiga hjá einum sannkristnum, og hvörsu margar þeirra strída ámóti því sinnislagi, sem svo lengi hefir yfirhönd haft í þínu hjarta, og drottnad í líferni þínu alla þína æfi, þá getur ecki hjá því farid, ad þú skiljir þad, ad guddómligur kraptur er eins naudsýnligur til ad verka slíkar dygdir og vidhalda þeim, einsog sólskin og regn er naudsýnligt, til ad framleida jurtir og blómstur, korn og ávexti, sem prýda jördina og vidhalda lífinu. En um þetta muntu enn betur sannfærast, þegar þú yfirvegar þá ákøfu mótstödu, sem mæta mun þér í þínum kristindómi, og hvarum eg vil nú strax med fleirum ordum advara þig. Og hafir þú ei allareidu sjálfur reynt þetta, þá kémur þad af því, ad þad er rétt nýskéd sem þú ert tekinn til, ad þenkja til sannarligs Gudsótta.

§. 4. Þegar þú géfur nú sjálfum þér tíma til ad rádfæra

þig við heil. Ritníngu um þetta efni, (því svofremt þú lifa vilt sem réttkristinu, hlýtur þú að ráðfæra þig dagliga við hana, og haga þínum þaunkum, orðum og verkum þareptir), þá muntu finna, að hún kénnir þér, næstum því á hverju blaði, þann lærdóm, að vér megnum alls ekért, án Guðs aðstoðar. Einkum muntu það finna, að uppbyrjan þess sanna Guðsótta í sálunni, telst á meðal Guðs fyrirheita; og þegar það góða er fullkomnað orðið, þá eignast það alltíð í Ritníngunni Guðs verkanda krapti; og sú náð og Guðsótti, sem vex og þróast í hjörtum þeirra, sem endurfæddir eru, kallast líka svo Guðs verk, hvört hann sjálfur byrji og fullkomni allt til dags Jesú Kristi (Phil. 1, 6).

§. 5. Svo flýtur þá héraf, að þú skalt láta það vera þína föstu og vissu reglu, að þú gjörir enga tilraun til Guðhræðslunnar, af þínum eigin kroptum. Ef þú gleymir þessu og væntir þó, að Guð muni að lyktum gjöra þig sáluhólpinn, þá mun hann láta allt það, sem þú vilt með eigin kroptum gjöra, þér margsinnum misheppnast, til að auðmýkja þig með því móti, þángaðtil þú lærir að þekkja þinn eiginn vanmátt og dugleysi. Allt þitt ómak, og allt það sem þú sjálfur vilt fyrir þig taka, mun þér til skammar verða, svo lengi þú byggir ekki yfir þann rétta grundvöll. Guð mun vissuliga sýna þér ekki einúngis yfirhöfuð, að þinn kraptur og styrkur til þess sanna góða hlýtur að koma að ofan, heldur og sérílagi, að það sé heil. Anda verk að hreinsa hjartað, og að vekja í því heilagar hræríngar; svo hann í öllum þessum verkunum má álitast sem Krists Andi, sem verkar eptir hans vilja, og sem einslags lifandi kraptur, hvörn Kristur, safnaðarins höfuð, meðdeilir oss, eptir sem hann sjálfur vill, til að gjöra oss hluttakandi í Andans helgandi gáfum og náðar aðstoð. Og sú er orsökin, hvarfyrir þetta er kallað (Phil. 1, 19) tilstyrkíng Jesú Krists Anda; hvörn (nefniliga Jesúm) að Guð hefir upphafið til eins höfðíngja og Frelsara, til að veita umvendan og synda fyrirgéfníngu (Gb. 5, 31); fyrir hvörs náð vér alleinasta styrkvir verð-

um (2 Tim. 2, 1) og af hvørs fyllíngu vér ogsvo gétum allir fengid nád fyrir nád (Jóh. 1, 16).

§. 6. Ásettu þér þessvegna af allri alvöru ad þjóna Gudi, og sorga fyrir sálar þinnar eylífu velferd! en ásettu þér þad samt í allri audmýkt! því þeir úngu (segir Guds ord) skulu þreytast og uppgéfast, og þeir útvøldu kappar falla; en þeir sem Drottins bída, skulu fá endurnýada krapta (Es. 40, 30. 31). Þegar ein sála er svoleidis þenkjandi, ad hún er fyrir Guds augliti hrædd ad lofa því, ad hún ei framar skuli adhafast þad edur þad, med hvørju hún veit sig hafa ádur Gud styggdan; þegar hún er hrædd ad heita því, ad hún eptirleidis æfa skuli eitt edur annad skylduverk med alúd og stöduglyndi; heldur þarámóti segir einúngis med audmýkt, ad þad sé sín innilig hjartans ósk og laungun, ad hún, fyrir Guds adstod, géti látid af því vonda og gjørt þad góda, þá er eg kominn ad raun um, þvílík sál er á þeim rétta vegi til ad læra og æfa þá sáluhjálpligu íþrótt, ad yfirvinna syndina, og taka framförum í því góda.

§. 7. Þarámóti á adra sídu, láttu þér ecki hugfallast, þó ad umvendan og gudhræddsla sé komin undir adstód heil. Anda; lát þad ei skélfa þig, þó þú finnir þinn eiginn veikleika og vanmátt í því andliga, til ad géta, án hans sífeldu adstodar, gjørt nockud gott. Láttu þad alltsaman ecki hindra þig frá ad ofurgéfa þig Gudi og byrja gudligt líf og lifnad. Hugsudu til þess, hvørsu yfirmáta stóra orsök þú hefir til ad gjøra þig fullvíssan um hans medverkandi nád! Ljós náttúrunnar, af hvørju þú jafnvel séd gétur, hvørsu stóra naudsýn þú hefir á hjálp Guds, til ad æfa sanndygdugt líferni, gétur líka svo kénnt þér: ad svo gædskurík vera, sem veitir jafnvel þeim allraóverdugustu og athugalausustu manneskjum, svo margar blessanir, muni ogsvo vera stalliga fús, til ad medbýta þeim, sem audmjúkliga hann þar um bidja, sína nádarríku hjálp, til þess ad þeirra ódaudliga sála géti endurskapast eptir hans mind, og tilreidst til

ad njóta þeirrar farsældar, sem sambýdur þeirra kynsömu náttúru, og til hvorrar þeir í upphafi skaptir vóru; Guds ord gétur þó einkum ysirsljótanliga styrkt þig í þvílíkri von. Í því færd þú ad heyra, ad sú guddómliga speki hrópar — já og þad jafnvel til þeirra, sem lengi hafa forsmád hennar lærdóma: snúid ydur til minnar ögunar, sjá! eg vil yfirgnæfanliga úthella mínum anda yfir ydur, og eg vil kunngjöra ydur mín ord (Okv. b. 1, 23). Þú hefir heyrt hvad Postulinn segir: Látum oss gánga fram med djörfúngu, fyrir nádarstólinn, til þess vér gétum fengid miskunsemi og fundid nád, til hjálpar á hagkvæmri tíd (Ebr. 4, 16). Já þú heyrir Frelsarann sjálfan tala þessum sætu og sannfærandi ordum: ef þér, sem vondir erud, kunnid ad géfa börnum ydar gódar gáfur, hvörsu miklu framar mun þá Fadirinn, sem á himnum er, géfa þeim heil. Anda, sem hann bidja? (Lúc. 11, 13). Þessa andans gáfu og fyrirheit fékk Kristur sínum trúudum til huggunar, þegar hann sté til himna; þessvegna heitir þad svo: ad Gud hafi úthellt hönum ríkugliga yfir oss, fyrir Jesúm Kristum vorn Frelsara (Tít. 3, 6). Eg kann og enn framar bæta þessu vid, ad laungun sú, sem þú hefir eptir því ad fá heil. Anda, er verkan hans fyrstu nádar, sem hann allareidu hefir þér veitta; svo ad þú, med skakligum rétti, gétur álitid þad sem fullkomna skipun til þín, frá Gudi, ad þú skulir uppljúka þínum munni, til þess ad hann géti hann uppfyllt (Sálm. 81, 11). Þig þyrstir, þessvegna máttu fyrir víst vita, ad Jesús hefir bodid þér ad koma til sín og drecka; já hefir géfid þér þad loford, ad ecki alleinasta skulir þú sjálfur, þá þú til hans kémur, fá ad drecka, heldur ogsvo, ad út af þínu lífi skuli fljóta lifandi vatns straumar, ödrum til uppbyggíngar og endurnæríngar (Joh. 7, 37. 38).

§. 8. Haldtu þessvegna áfram því þú byrjad hefir, med audmjúku og öruggu sinni, og æfdu allar þær skyldur, sem tilheyra kristiligu lífi og lifnadi. Haldtu áfram og fardu vagsandi í Drottins krapti, og hafdu réttlæti hans fyrir þinn leidiþrád.

Ó ad hjarta þitt mætti meir og meir uppvekjast til inniligrar laungunar eptir þeirri blessun, sem eg hefi áminnt þig til eptir ad sækja, því þad sýnir þá merki til þess, ad þú allareidu fengid hefir hlutdeild í heil. Anda nádargáfum. Ó ad þú yrdir upp-örfadur til ad úthella dagliga hjarta þínu fyrir þeim nádarríka Gudi, med þesshàttar andagtar andvörpunum og ordum, sem hér eptirfylgja:

## Audmjúk bæn, um verkun guddómligrar nádar, til ad uppbyrja og fullkomna sanna gudhrædslu í sálunni.

Allraheilagasti Gud! eg medkénni af hjarta fyrir þér minn stóra veikleika og vanmátt til ad gjøra þad allraminsta þess andliga góda. Eg er búinn ad reyna þad meir enn þúsundsinnum, og þó vill mitt dárliga hjarta aptur og aptur reida sig uppá sjálft sig, og taka sér fyrir hendur stóra hluti, af eigin kroptum. Láttu þad þá vera þína fyrstu nádar verkun í hjarta mínu, ad leida mig til sannrar audmýktar, svo eg ei framar setji nockurt traust á sjálfan mig, heldur á þig alleina. Ó, Drottinn! eg gled mig inniliga yfir þeirri nádarríku fullvissu, sem þú hefir géfid mér, um ad þú fús sért, ad veita mér ríkugliga þá stóru velgjørninga nádar þinnar. Eg kém þessvegna eptir þínu ástríka tilbodi, og geng med djorfúngu fram fyrir nádarstólinn, uppá þad eg fengid géti miskun og fundid hjálp þegar mér mest áliggur. Eg áforma ecki, Drottinn minn Gud! ad nota mér nád þína til oftrausts, né heldur brúka breiskleika minn til afbotunar hirduleysi mínu, og dofinskap. Eg má játa, ad þú allareidu hefir géfid mér meiri krapta, enn eg brúkad hefi; og þad er mín eigin skuld enn ecki þín, ad eg ecki fyrir laungu sídan fengid hefi enn þá yfirgnæfanligri adstod til þess góda. Eg ósska ad eg framvegis gæti fundist kostgæfnari í því ad nota mér øll þau nádarmedol, hvor þú mér veitt hefir. Eg veit vel, ad þvílík bæn sem þessi, er sem gudlast, svoframt eg vanræki medøl þessi; og hún mætti framar, med réttu, uppegna þig, til ad svipta mig því góda, sem eg allareidu af þér þegid hefi,

enn upperfa þig til ad géfa mér meira. En af því eg hefi fastliga ásett mér ad neyta ýtrustu kappsmuna til sannrar gudhrædslu, þá bid eg þig af innstu rótum, ad þú virdist ad meddeila mér nád þína, til þess eg géti hæfur fundist, ad framkvæma þetta mitt áform. Vertu, ó Drottinn! fullvedja adstodari þjóns þíns til hins góda! Uthell, eptir þinni miskun, þínum helgandi krapti í sálu mína, svo eg geti hæfur ordid til þess góda, og til ad æfa hvort helst þad skylduverk, sem þú af mér krefur! Eg bid þig, innrættu sérhvorja nádargáfu og dygd djúpt í hjarta mitt, og haldtu svo því uppbyrjada góda vid hjá mér, midt í öllum útvortis og innvortis freistíngum, sem eg alltíd undirorpinn er, medan eg ennþá lifi í þessum heimi, og er umkríngdur af svo morgum snorum og tælíngum. Gjör þú mig, Gud minn! velsinnadann, bædi til þín og míns náúnga! Láttu mig alltíd hugsa til þinnar alstadar nálægdar, og þess, ad allir mínir þánkar — jafnvel þeir leyniligustu — eru opinberir fyrir þér! O ad eg þessvegna væri vakandi gégn syndinni, undireins og hún tekur til ad hreisa sér í mér, og gæti vaktad mig fyrir henni, þegar hjarta mitt tekur ad fá girnd til hennar. Og til þess ad Satan ecki fái inngaungu hjá mér med sínum vonda innblæstri, þá bid eg þig, ó Drottinn! inniliga, ad þú virdist ad uppfylla hjarta mitt, med þínum heil. Anda, og taka þér sjálfum bústad þar inni. Bú þú í mér, og haf umgeingni þína í mér! og láttu minn líkama vera musteri þíns heil. Anda. O ad eg væri svo fast sameinadur Jesú Kristo, ad eg verid gæti einn andi med honum, og gæti fundid, ad hans styrkjandi kraptur sífeldt knýi mig og hvetji til hins góda, og til ad yfirvinna allar freistíngar og afvegaleidslur! svo ad á medan þeir úngu menn verda þreyttir og géfast upp, og þær útvoldu hetjur falla, ad eg þá svoleidis megi bída Drottins, ad eg géti endurnýjad minn krapt, og framgengid frá krapti til kraptar, í trú, kærleika, vandlæti og helgun; uns mér audnast fullkomliga ad opinberast hjá þér í Zíon, til þess ad uppausa af þér ódaudligan krapt og fognud, sem þeirri eylífu uppsprettu þessa hvorulveggja, fyrir

Jesúm Kristum minn Drottinn; af hverjum eg hefi mitt réttlæti og styrk, og hverjum eg girnist ad géta innt eylífa lofgjörd og vegsemd, fyrir alla þá framför í því góda, sem eg fyrir hans nád tekid hefi. Amen!

## 16di Kapítuli.

**Hér verdur einn umvendtur kristinn madur advaradur og upphvattur til ad láta sér ecki hugfallast, af þeim hlutum, sem hönum óyggjanliga mæta munu til hindrunnar, undir eins og hann tekur ad gánga á vegi sáluhjálparinnar.**

§. 1. Vor blessadi Frelsari krefur med stærsta rétti af oss, ad vér skulum alvarliga kappkosta, ad gánga ígégnum þad þraungva port (Lúc. 13, 24); med hverju ordatiltæki hann sýnist géfa tilkynna, ad vegurinn ecki alleinasta þraungur sé, heldur jafnvel, bædi á hægri og vinstri hlid, umkríngdur af sterkum og slægum óvinum. Og þú mátt eiga þad víst, minn kæri lesari! ad í hverjum sem helst kríngumstædum þú ert hér í lífi, hlýtur þú ad búa þig til ad berjast á móti þeim. Þú hlýtur því ad breyta svo forsjálliga, ad þú nákvæmliga, í þaunkum þínum, hugsir um hvernig þeim varid sé, svo þú séd gétir vid hverju þú átt ad búast, og þú sért forhugsadur fyrir, hverslags herklædum þú hlýtur skrýddur ad vera, og hver vopn þú brúka skalt til ad heya orustuna med. Þú hefir opt heyrt, ad þessir þínir óvinir, eru sem í þremur fylkíngum undir þremur mektugum hersforíngjum, nefniliga: Djöflinum, heiminum og þínu eigin holdi.

Eg vil nú útmála þér hvers þeirra makt út af fyrir sig, sem og sýna þér, á hvern hátt þeir rada lidi sínu nidur, móti þér. O, ad þad gæti upphvatt þig til ad íklædast Guds fulla herskrúda, og sýna þig öruggan í kristindómsins framgaungu!

§. 2. Lát þú samvizku þína svara, eg spyr þig: hvert

þú ecki hafir í þér spillta náttúru? Eg efast ecki um, ad þú finna munir til verkana hennar í þér. Til hennar finnur þú, eptir postulans ordum (þegar hann talar um hana, sem hlut þann, er alla kristna snerti), þegar holdid girnist í móti andanum, svo ad madur fær ecki, í öllum tilfellum, gjört þad sem hann vill (Gal. 5, 17.) Þú hefir fært óregluligar girndir med þér inn í heiminn, og þared þú svo þráfaldt hefir látid eptir þínum syndugu tilhneigíngum, hefir þú stórum aukid makt þeirra og ofurefli þarmed; þessvegna muntu reyna þad, ad þú getur ecki án stórrar torveldni og mædu, látid af þínum gömlu vanasyndum. Þér hlýtur efalaust opt í hug ad koma, med hvörsu náttúrligri samlíkíngu, ad Spámadurinn afmálar þvílíkt ástand, sem þitt er. Þú getur ei neitad, ad þad er náttúrlig samlíkíng uppá þig, ad líkja þér vid blámann, sem ei getur skipt um sinn hörundslit, og Pardusdýr, sem ei fær breitt sínum fleckjum (Jer. 13, 23). Ad vísu getur þad skéd, ad þú í fyrstu finna kunnir svo sterka drift til Gudótta í sálu þinni, ad þú hugsir, ad allar hindranir og öll mótstada sé nú strax úr vegi rýmd, frá þér. En — æ eg óttast mjög, ad óvinir þeir, er nú sýnast sem liggja fyrir fótum þér, muni innanskamms reisa sig upp aptur, grípa til vopna, og endurnýa bardaga móti þér, med eitt edur annad slag. Og máské þú hljótir ad þreyta þýngsta strídid gégn þeim, sem þú hugsadir þér yrdi audveldast ad sigra, og þér verdi stærsti háski búinn af þeim, sem þú síst óttadist; einkum af andligu drambi og dofinleika í sálunni, og þá hjarta þitt tekur heimugliga og óformerkt, ad snúa sér frá Gudi, og gjörast óhæft til ad umgángast hann; sem kémur af því, ad hjartad lodir svo fast vid jardneska og sýniliga hluti; því jafnvel þó þeir jardnesku hlutir séu oss ecki aldeilis forbodnir, géta þeir þó — þegar hjartad inntekst mjög af þeim — ordid oss skadligir, dregid oss frá Gudi, og sett oss í stóra sálarhættu. Þú hlýtur því í ótal tilfellum, ad afneita sjálfum þér, því annars getur þú ecki sannkristinn verid (Matth. 16, 24).

§. 3. Líka máttu búast vid því, ad stór torveldni mun þér

rísa af heiminum, hans venjum og dæmum. Hlutir þeir, sem í heiminum eru, munu hindra þig á eina síðu, og heimsliga sinnadir menn, á adra. Já, kannské þú finnir líka minna medhald, af frómum og gódum monnum, enn þú væntir; því margir þeirra, midt í því þeir vilja forsjálir vera, og sneida sig hjá ollu því, er sýnast kynni, sem þeir vildu gjora sig til af Gudhrædslu sinni, þá dylja þeir hana svoleidis þarmed, af ótta fyrir því ad heimurinn hafi horn í sídu sér, og dragi ad sér gis. Þú munt komast ad raun um, ad flestir þeirra, sem ásamt þér óttast Gud leitast margopt framar vid, ad dylja dygd sína og Gudsótta, heldur enn heimsins born ad dylja sína skammarligu lesti, mannúlsku og Gudlast. En midt í því þú á adra sídu nýtur svo lítils fylgis af Gudsbornum, muntu án efa á hina sídu reyna megna mótstridu af heimsins bornum, því annars yrdir þú heppnari enn allir adrir. Trúarbragda spottarar og sannleiks fiendur munu rádast á þig med ofdirsku og offa, midt í því margir þeirra, sem óttast Gud, skammast sín ad veita þér adstod. Og einn einasti ógudligur madur mun máské kosta stærra kapps um ad steypa þér í fortopun, enn tíu Gudsborn ad frelsa þig þar frá. Þeir sem ádur voru þínir stallbrædur í syndinni, munu med þúsundslags brogdum leitast vid ad draga þig aptur í sinn hóp, hvorn þú hefir sagt skilid vid. Sumir medal þeirra munu máské gjora þad af innbirladri velvild og medaumkun til þín, en flestir þeirra munu nota sér þá kroptugu slægdar adferd, sem þeim ógudligu bitur optast best, nefniliga, ad hlæa ad þeim gódu og hæda þá. Þeir, sem svo stoltir og sérgódir eru, ad þeir láta adra hafa þad fyrir reglu og réttarsnúru, sem þeir sjálfir álíta rétt edur órétt, munu máské rádast á þig, med þvílíkum frelstingum, sem mótistrida sidsemi og almennum mannelsku kærleika. Þeir, sem þú náttúrliga væntir helst eptir æru og kærleika frá, munu optast mest spotta þig og hæda, svo þú munt komast ad raun um, ad þú framar, enn þú væntir, færd ad mæta því, sem Postulinn (Ebr. 11, 36) segir um nockra trúada: ad þeir hafi hádúngar lidid, sem er þó þess slags

reynsla, er sumir óttast meira, enn sverd og eld. Við þessari ofsókn af vondra manna túngum máttu búast, og máské sumir beri það út, að þú sért viti fyrrtur, og fullur med grillur; einúngis af þeirri orsök, að þú tekinn ert að brúka skynsemi þína rétt, og vilt ecki breyta sem þeir, sem í vitleysu og dármensku sleppa sínum eigin sálum vísvitandi í ýtrustu ólucku.

§. 4. Það er og líka svo fullíkligt, að Satan muni, ásamt þessum neyta sinnar mestu orku, til að gjöra þig hræddan og litidsiglðan. Hann mun án efa uppvekja í þaunkum þínum þær yndisligustu ímindanir um þínar fyrri ánægjusemdir og lýstingar, samt þína fornu kæru stallbræður, sem þú hlotið hefir að skilja þig við; en þarámóti setja þér fyrir sjónir, med skélfingu, torveldni þá og erdugleika, sem hann vill innbirla þér, að fylgi sonnum Gudsótta. Hann mun ecki forsóma, að setja þér Gud — sem þó er allrar sælu og gædsku brunnur — fyrir sjónir, sem einn strángan Herra, eptir hvors gédi ómeguligt sé að gjöra. Hann mun kannské fylla þig med stærstu hrædslu og rádvillu, og med geysiligri og bölvadri vondsku stæra sig af, að hann sé fyrir laungu búinn að gjöra þig að sínum þræli, þar hann þó veit, að þú ert ordinn Drottins frelsíngi. Stundum leitast hann við, að skjóta þeim þaunkum inn hjá þér, sem hindra þig frá þínum skylduverkum, í þeirri meiníngu, að hann géti fengið þessmeiri makt yfir þér. Stundum ber hann sig að innbirla þér, að ef þú ecki allt í einu verdir óþreytandi, án aflàts, í bæn og andagt, þá hafi hann fulla makt yfir þér; og med þvílíkum ótta þreytir hann sinni þitt, og gjörir þér andagtina leidinliga. Í fám ordum: þessi æsdi og útfarni svikari hefir svo mörg brögd í frammi, að það þyrftu að skrifast heilar bækur, ef madur skyldi vilja útmála og advara mennina við hverju einu þeirra. Hann mun víst offækja þig med slægd og vondsku, svolengi þín pílagrímsreisa ecki er á enda kljáð; og hann mun neyta allra medala til að gjöra þig vanmegna til hins góda, og til að ángra þitt hjarta. Svo, þó hann máské ecki géti hindrad þína eylífu sáluhjálp — med því að Guds

nádar adstod verndar þig — mun hann samt raska þínum sálarfridi og rósemd, medan þú ert á veiginum til hennar.

§. 5. Þetta eru þau tilfelli sem Guds born fá ad finna og reyna, og hverjum þú sömuleidis á einn edur annan hátt mæta hlýtur, ef þú ert einn í þeirra tolu. En vid allt þetta máttu þó hvorki verda uppgéfinn né huglítill. Kristur er foríngi vorrar sáluhjálpar (Ebr. 2, 10); og þad er mikil hughreystíngar orsok, ad meiga álita hann þannig. Þegar vér sjáum þad ógrynnis herlid, sem vorir óvinir móti oss hafa, gétum vér samt upplypt med hugrecki hofdum vorum, og sagt: óttastu eckert! því þeir eru fleiri, sem eru med oss, enn móti oss (2 Kong. 6, 16), því þeir, sem reida sig á Drottinn, þeir eru eins og Zions fjöll sem ecki rótast munu, heldur vara ad eylífu (Sálm. 125, 1). Þegar óvinir þínir brjótast upp á þig, þá þenktu, ad Drottinn er med þér. Koppkostudu ad audsýna hreysti og manndóm, og ad standa fastur í trúnni (1 Pet. 5, 9); minstu þess, ad hann gefur þeim þreyttu krapt og eykur þeim orku, sem einga krapta hafa (Es. 40, 29); hann hefir allareidu, med morgum þúsundum dæma, audsýnt þetta, og hann vill sanna þad, med morgum fleiri. Hversu margur, sem álitast hefir mátt, sem annar óæfdur únglíngur (í gudhrædslunni), hefir þó yfirunnid sína (andligu) óvini, svo stóra sem risa, útbúna skélfiligum hertígjum; þegar hann hefir farid á móti þeim (eins og Davíd móti Golíath); einúngis med einn staf og slaungu, (en þó) í Drottins Zebaoths nafni (1 Sam. 17, 40. 45)! Hversu margar kvinnur og born hafa trodid makt óvina sinna undir fótum sér, og hafa voldugliga hjálpast frá breiskleikanum! (Ebr. 11, 34.)

§. 6. Midt í því ad heimur og helvíti veita þér nú allra stærstu mótstodu, sær þú, hvort helst sem þú snýr augum þínum, ad reyna, ad þitt hjarta finnur allstadar upporfun og adstod. Forusti trúar þinnar er þér alltíd nálægur; nálægur til ad hjálpa þér og umbuna. Þegar freistíngarnar herja sem frekast uppá þig, þá hugsadu til hans, sem þoldi þann smánarliga

krossins dauda, til ad frelsa þig. Hugleid þíns guddómliga Hertoga styrkleik og orku, og berdu þig svo ad feta í hans fótspor; hlustadu á hans raustu, þá hann hrópar og segir: sjá, eg kém snart, og mín laun medur mér (Opb. 22, 12); vertu trúr allt til daudans, þá vil eg géfa þér lífsins kórónu! (Opb. 2, 10.) O hvörsu dægiliga mun hún þá skína á höfdi þér, og hvörsu stödugur mun glansi hennar verda! Þegar edalsteinar þeir, sem prýda kórónur konúnganna, og sem, í mörg hundrud ára, hafa (líkasem ad erfdum) gengid frá einu konúngligu höfdi til annars, eru brádnadir í þeim sídarsta loga, þá er þessi þín dýrdar kóróna óvisnanlig (1 Pét. 5, 4).

§. 7. Aptur á móti er þad vissuliga satt, ad þeir sem frá hafa hvorfid á sína bognu (ránglætis) vegu, þá sömu mun Drottinn burtudrífa med illgjördamönnum (Sálm. 125, 5); til þess skélfiliga straffs, sem guddómlig réttvísi hefir þeim fyrirætlad; og þad vildi þá hafa verid betra fyrir þá ad þeir ecki hefdu réttlætisins veg þeckt, enn ad þeir — midt í því þeir þecktu hann — hafi snúid sér frá Guds heilögu bodordum (2 Pét. 2, 21).

En eg vil gjöra mig, kæri lesari! fyrir Guds nád, fullvissan um betra ástand, í þínu tilliti. Og þad er og skal vera mín inniliga hjartans bæn til Guds fyrir þér, ad þú, fyrir Guds krapt, mættir vardveittur verda, líka sem innan eins á allar sídur óyfirvinnanligs fastaslots, fyrir trúna, til eylífrar sáluhjálpar.

## Sálin, sem út af hugleidíngu ádursagdrar torveldni, er órólig ordin, felur sig sjálfa undir vernd guddómligrar nádar.

Blessadi Gud! eg flý til þíns nádar almættis, og leita þar adstodar. Sjá, hvörsu umkríngdur eg er af þrengíngum og háska! O, réttu þína almættis hönd út, og hjálpadu mér. Sýn þú dásamliga þínar miskunsemdir; þú sem frelsar þá, er trúa, frá þeim, sem reisa sig upp ígégn þinni hægri hendi. Í

dag ofurgéf eg mig audmjúkliga undir þína vernd. Sýndu þig máttugan til ad hjálpa mér, og leyf mér ad eg megi hælis leita undir skugga þinna vængja. Lát þína nád nægjast mér, og þinn krapt fullkomnast í mínum breiskleika. Eg þori ecki ad segja, ad eg aldrei skuli yfirgéfa þig og aldrei afneita þér; en eg vona, ad eg géti í sannleika sagt: ad eg ecki vilji fúsliga giøra þad; og eptir því áformi og þeirri sannfæringu, sem eg á yfirstandandi tíma hefi, er sjálfur daudinn mér ecki eins skélfiligur, sem ad styggja þig á nockurn hátt, med ásetningi og frívilja. Æ, ryd þú burt úr hjarta mínu øllum þvílíkum spillíngartegundum, sem á tíma freistínganna géta komid mér til ad álíta mín sáluhjálparefni med ødrum augum, svo eg þessvegna falla kunni í hendur minna sálar óvina! Styrk þú mína trú, ó Gud! og adstoda mína von! Géf mér hugrecki, ad eg, sem hetja, strídi móti øllum þeim hlutum, sem hindra mig á veginum til himins! Lát mig setja andlit mitt sem tinnustein móti heimsins og helvítis makt! Þegar syndarar vilja locka mig, lát mig ecki samsinna þeim; þegar þeir spotta mig, lát mig ecki skeyta því; þegar þeir hóta mér hørdu, lát mig ei óttast þá! Lát heldur heilagt og brennandi — þó forsjálligt og sæmandi — vandlæti kvikna í mér vid þessa þeirra hjartans vondsku, er þeir í ljósi láta, svo eg leitist vid ad sannfæra þá og forbetra! Lát mig, ad minnsta kosti, aldrei skammast mín ad verja þína søk, móti þeim allra andvaralausustu trúarbragda spotturum! Lát mig heyra føgnud og gledi, þá vil eg kénna yfirtrodslumønnum þína vegu, svo syndararnir umvendi sér til þín! Já, ó Drottinn! ef sú hrædsla kann ad yfirfalla mig, ad eg verdi fordæmdur, þá vil eg samt vidurkénna, ad eg hefi forskuldad þad fyrir minnar dármennsku sakir; og eg vil — þó þad sé á móti sjálfum mér — játa, ad sá þinn dómur réttvís sé. Ó Drottinn! vardveit þú mig nú og alla tíma! lát mig aldrei, í hvørri stétt sem eg er, eda á hvørn aldur sem eg kémst, hugsa, ad eg nógu sterkur sé til ad strída, án þinnar adstodar. Lát mig ei heldur innbirla mér, ad þessi mín nýliga byrjada umvendan og Gud-

hræðsla, sé ennnú allt um of veik til þess, að þú getir með þínum krapti styrkt mig, sem nægir! Lát mig fylgja þér, hvort helst sem þú mig leiðir, og í hvort ástand sem þú setur mig; láttu mig kappkosta að viðhalda heilögu stríði gégn mínum sálaróvinum, og heldur sjálfur deya miðt í því stríði, enn með skömm strjúka burtu úr því! O, þú minn stóri Frelsari! þú minn Sáluhjálparforíngi! þú minnar trúar Byrjari og Fullkomnari! þegar þú sér mig í hættu staddan, að kunna að afneita þér, sem Pétur gjörði, æ, lít þá til mín með þvílíkri náð, sem blönduð er með hátign og meðaumkun; hver þá annaðhvort varðveiti mig frá að falla, ellega snarliga hjálpi mér á fætur aptur, til að leita Guðs náðar og gæta skyldu minnar á ný. Kénn mér jafnvel af yfirsjónum mínum, að taka mér tilefni til að auðmýkja mig þess inniligar, fyrir allt það sem mér yfirséſt hefir, og til að neyta enn stærri kostgæfnis og forsjálnis, í hegðan minni, framvegis! Amen!

---

## 17di Kapítuli.

### Sá kristni verður hér alvarliga áminntur um og uppfræddur hvörnig hann skuli að því fara, að ofurgéfa sig af öllu hjarta, til að þjóna Guði.

§. 1. Eg vona, minn kæri lesari! að þú, í trásts allri þeirri mótstöðu og hindrunum, sem allareiðu hafa eða géta komið í veg fyrir þig, ásetjir þér samt af hjarta, þegar þú hugleiðir þær mörgu hrærandi ástæður, og stóru hjálp, sem þú átt hjá Guði vísa (eptir sem þér í tveimur undanförnum Kapítulum hefir verið fyrir sjónir sett), eg vona, segi eg, að þú ásetjir þér að ofurselja þig af öllu hjarta til að þjóna Guði; hvar til eg nú líka alvarliga vil áminna þig og upphvetja. Það er ecki nóg, að þú hafir þennan ásetníng í hjarta þínu, heldur hlýtur þú berliga að láta hann í ljósi fyrir Guðs augliti og í hans nærveru; því efnisins ásigkomulag útheimtir það vissuliga, að

þú gjörir þetta á hinn allrahátídligasta hátt; því þér liggur stórum á, ad binda þvílíkt eitt tálbdraganda og ótrútt hjarta — sem vér vitum ad vor hjörtu eru — fastliga vid Gud. Þetta mun og olla oss inniligustu gledi, þá vér hugleidum og yfirvegum, ad þad skédi á þeim og þeim tíma, vid þær edur þær kríngumstædur, í þeim edur þeim stad, fyrir þad edur þad medal, sem þénad gétur til ad styrkja minnid og vekja samvizkuna. Heit þau, sem þú unnid hefir Gudi, sem ætíd liggja þér á hjarta, mun styrkja þig á freistínganna tíma; og, þegar þú minnist þeirra, munu þau upperfa þig til ad koma fram fyrir hann, med audmjúkri djörfúngu og hugrecki, og í allri uppáfallandi naud ad leita hjálpar hjá honum, sem, eptir sáttmála, er þinn Gud og Fadir.

§. 2. Framkvæm þessvegna, med gódri yfirvegun, þennan ásetning þinn; framkvæm hann, og set þér fyrir sjónir, hvörsu þér ber ad gjöra þad af öllu hjarta, já med gledi, ecki naudugur heldur sjálfviljugur (1 Pet. 5, 2); því svovel í þessu tilliti, sem ödru, hefir Gud hýran gjafara kæran (2 Cor. 9, 7). Þar er vissuliga einginn hlutur til, sem vér gjöra ættum med stærri ánægju og meiri hjartans einlægni enn ad ofurselja oss, á þvílíkan hátt, Gudi, þeim Gudi, sem hefir skapad oss, og sett oss í þessa — oss svo vel til yndis sem naudþurftar — vel tilbúna veröldu, sem sorgadi fyrir oss, þegar vér vorum ómálga börn, vardveitti oss á vorum veiku æsku árum, og sem allt híngad til hefir dásamliga hjálpad oss, vidhaldid og verndad. Eckert er því sannsýniligra, enn ad vér játum hann ad vera vorn rétta einvalds Herra og ædsta stjórnara; ad vér ofurgéfum oss aldeilis undir hans makt og vald, sem vors allramildiríkasta velgjörda födurs, og ad vér leitum hjá honum vorrar allrahærstu farsældar. Alls eckért gétur því berligar sannsýniligt verid, enn ad vér, sem erum verk hans almættis, og med hans Sonar blódi dýrdkeyptar sálir, séum hans eigin eign og undirsátar eylífliga. Og þegar þú álítur sökina med réttu móti, hlýtur þad af öllu hjarta ad ángra þig, ad þú nockrusinni skulir hafa snúid þér

frá þessum blessaða Guði og hans þjónustu. Því gétur það ómöguliga skéð, að þú æskir þér að vera einu ári eður einum degi leingur aðskilinn frá honum; heldur miklu framar gleðjast yfir því, að géta fært honum hans villuráfandi sképnu tilbaka; og einsog þú híngað til léð hefir syndinni limu þína til ránglætis verkfæra, svo skal það nú og á að gjora þér gleði, að þú gétur komið fram fyrir Guð, sem sá er lifandi er orðinn af dauðum, og síðan léð limu þína réttlætinu til verkfæra (Róm. 6, 13).

§. 3. Þessi ofurgéfníng og afsalan sjálfs þín til Guðs á að ské eins fullkomliga, sem dvalarlaust og með fögnuði. Allt hvað þú ert, allt hvað þú átt og hefir, allt hvað þú gétur gjört, allur þinn tími, þín eign, þín hegðan við aðra, þetta alltsaman hlýtur að vera honum ofurselt og helgað til hans dýrðar. Þú mátt ecki óska, að halda neinu eptir fyrir honum, heldur með fullri alvöru hafa þá trú, að þú eigir þá fyrst, á allra eðalligasta hátt, ráð á sjálfum þér, þegar þú aldeilis fullkomliga ert búinn að ofurselja þig, á hans vald. Við þetta mikilvæga tækifæri hlýtur þú líka svo að ofurgéfa allt það, sem þú hefir, í hans náðugu og alvísu forsjónar vilja; og ecki einúngis játa makt hans yfir þér, heldur og viðurkénna, að hann hefir óyggjanligasta rétt til að gjora við þig, og við allt það sem hann þér géfið hefir, eptir sem honum hentast sýnist; og þú mátt vera hjartanliga ánægður yfir öllu því, sem hann híngað til hefir við þig gjört, og héreptir ennnú framar vill gjöra. En svosem þessi þín ofurgéfníng til Guðs hlýtur að vera undanteknîngarlaus, svo hlýtur hún ogsvo að vera viss og stöðug. Þú hlýtur því svoleiðis að ofurgéfa þig Guði, að þú aldrei framar girnist eður sækist eptir að vera þinn eigin; því réttur Guðs, er eins og vera hans, eylífur og óumbreitanligur, og í tilliti hans skynsemdarfullu sképna, er hann hinn sami í dag sem í gjær, og að eylífu.

§. 4. En framar vil eg sýna þér og áminna þig til, að þessi þín ofurgéfníng og afsal sjálfs þín til Guðs, hlýtur að

ské á þann allrahátídligasta hátt. Gjör þad ecki adeins med þaunkum heldur skírum ordum. Og máské ad í þessu tilliti sé allrabest, ad fylgja vísra gudhræddra kénnifedra rádum, sem áfýst hafa til, ad gjöra þad skrifliga. Settu þína hönd og signet þar undir, ad þú þann og þann dag, í þeim og þeim mánudi, þad og þad ár, og á þeim og þeim stad hafir med fullkominni yfirvegun og alvarligum ásetníngi, óbrœranliga áformad þér og fyrir þig tekid, ad þú, hvad sem adrir svo gjöra vilja, ætlir ad þjóna Drottni, þínum Gudi (Jos. 24, 15).

§. 5. Þvílíkt eitt skjal edur skrif kannt þú, ef þú vilt, sjálfur búa þér til; edur, ef þú heldur vilt nota þér af forskrift til þess, þá gétur þú fundid hana hér strax á eptir; í hverri þú hægliga gétur gjört þvílíkar umbreitíngar, sem svara til þinna sérligu kríngumstædna. En hvorja adferd edur logun sem þú brúkar, þá hlýtur þú vel ad yfirvega, hvad þú gjörir. Hugsadu því fyrst um þad og gættu ad því sem Salómon segir (Préd. 5, 2), ad þú ecki sért offljótur med þínum munni, edur ad þú látir hjarta þitt hasta sér ofmikid, ad tala nockud fyrir Guds augliti. Og þegar þú ásetur þér ad setja þessa skrifligu ofurgéfníngu til Guds í verk, þá láttu þad yfir allt fram ské med meiri — enn vanaliga — kyrlátri og heitri andagt. Láttu þann dag — ef þú mögulíga gétur — vera þér heimuglíga föstu- og bænadag; og þegar hjarta þitt er útbúid med tilhlýdilegri audmýkt fyrir guddómligri hátign, med audmjúku trúnadartrausti til hans gædsku, og med traustfullri laungun eptir hans nád, þá kom þú og kasta þér nidur á þín kné fyrir augliti Guds, les þad sídan stillt og hægt og med eptirþánka fyrir hans augliti; og, þegar þú búinn ert ad skrifa undir þad, þá geymdu þad í óhultum og vissum stad, hvar þú gétur fundid þad aptur, hvenær sem þú vilt. Gjör þú þér þad sídan ad reglu, ad þú lesir þad upp fyrir Gudi, á vissum tímum ársins, svo þér þess innihald því minnisfastara verdi og skuldbindíng þín ad hátídligri.

§. 6. Fylg nú þessari reglu, ad minsta kosti svo lengi, þar til þú finnur þig hæfan ad gánga til Gudsbords, hvar þú aptur átt ad endurnýa sama sáttmála, og innsigla hann med allrastærstu andligri vidhøfn og hátídarhætti. Gud léni þér sína nád til ad halda hann, og ad breyta eptir honum í allri þinni heilu umgengni! Ó, ad hann gæti verid þitt sálar akker í øllum freistíngum! Ó, ad hann, svo opt sem þú hugsar til hans, gæti gjørt þína bæn djørfúngarfulla fyrir Gudi, þegar þú nálægir þig hans nádartróni; og ad hann géfid gæti sálu þinni enn meiri styrk, enn ella, þegar þú loksins skalt hér vid skiljast; med inniligri fullvissu um, ad þú farir þá upp til hans, sem er þinn sáttmálabundinn Gud og Fadir, og til þess nádarikasta Frelsara, hvørs makt og trúfesti vissuliga mun vardveita þad, sem þú hefir hønum á hendur falid, allt til þess dags (2 Tim. 1, 12).

## Forskrift fyrir því, hvørsu madur skrifliga skal ofurselja sig Gudi, til þess ad hann á hátídligasta hátt fái endurnýad sinn sáttmála vid hann.

Ó, þú eylífi, allrahæsti, blessadi Gud! þú himins og jardar Skapari, æ, mig lángar nú, í djúpustu hjartans audmýkt, ad koma fram fyrir þig, og falla nidur fyrir þínu allraheilagasta augliti. Eg veit ad sønnu vel, hvørsu þvílíkur syndugur ormur sem eg er, er óverdugur ad koma fram fyrir þína allraheiløgustu guddómliga hátign; einkum í því augnamidi sem eg vil gjøra þad, nefniliga: til ad semja sáttmála vid þig, þú Konúngur Konúnganna og Drottinn Drottnanna; en af því þú hefir audsýnt þá nád, ad leyfa mér og ødrum ydrandi stórsyndurum þetta ad gjøra, og af því sáttmálans form og innihald er, í þínu heil. ordi, svo gott sem af sjálfum þér, samid og stílad, þá vogast eg til þessa. Þú hefir, af þinni endalausu miskunsemi, fyrir medalgaungu þíns Sonar Jesú Krists, tilbodid mér nád þína, og hefir látid þinn heil. Anda beygja hjarta mitt til ad vilja þiggja hana. Í því trausti kém eg nú til þín, svo óverdugur sem eg þó er nádar þinnar, þar þú hefdir fyrir laungu

haft orsøk til ad steypa mig frá þínu augliti í eylífa fordæmíngu. Eg ber mér á brjóst, med þeim ydrauda tollheimtumanni, og segi: **Æ Gud, vertu mér syndugum líknsamur!** Þó kém eg ecki í trausti minnar ydranar til þín, heldur í trausti þíns Sonar fullgylda réttlætis, og þessvegna grátbæni eg þig, í hans nafni, ad taka á móti mér, og fyrirgéfa mér mínar syndir, hans vegna, sem og ad gjøra mig ad þínu óskabarni, fyrir trúna á hann. Allraheilagasti Gud! eg ofurgéf nú sjálfan mig á hátídligasta hátt í þínar hendur. Heyrid þér himnar og hlusta til þú jørd! eg heitstrengi þad mínum Skapara í dag: ad hann skal vera minn Gud og Drottinn, en eg einn af hans sáttmáls børnum og eigindómsfólki, í frá þessum tíma og eylífliga. Skrifa þú, ó minn Gud! þessa mína heitstrengíngu í þína minnisbók! Eg afsegi, upp frá þessu, alla adra herra, sem ádur hafa yfir mér drottnad, og segi skilid vid þá ad eylífu. Í þínu nafni býd eg tráss Djøflinum og allri helvítis makt, sem ádur hefir ófrjálsa makt haft yfir minni sálu; eg býd tráss heiminum, med øllum hans tælíngum og freistíngum; sem og mínu eigin holdi og blódi, med øllum þess girndum og vondu tilhneigíngum. En þar á móti ofursel eg mig, med øllum mínum líkama og sálarkreptum, þér, minn Gud! til ad vera þitt lifandi heilagt og þóknanligt offur, sem eg veit ad er mín skynsamlig þjónusta. Somuleidis helga eg þér allar mínar eignir, allan minn tíma, og allan þann rétt, sem eg hafa kann yfir ødrum, eptir mínu standi; þetta skal allt brúkast til þinnar dýrdar, medan eg lifi í þessum heimi. Stjórna þú mér og stýr eptir þínum guddómligum vilja, og láttu þad fram vid mig koma hér í lifi, sem þér þóknast, hvørt mér sjálfum, eptir minni holdligri náttúru, fellur þad ljúft edur leidt; adeins þad þéni sem best til þinnar dýrdar og minnar sønnu velferdar; og undirkasta mig í øllu tilliti þínum guddómligu vísdóms rádstøfunum, og segi, án allrar undantekníngar: **Verdi þinn og ecki minn vilji!** Brúka þú mig, ó Drottinn! sem verkfæri, til ad fram-

kvæma þinn vilja, svovel þér til æru, sem mínum medmanneskj-um til besta, hvad eg tel siálfum mér stærsta heidur og lucku! Nú þó eg giort gæti allt þad sem þú býdur mér, mætti eg samt reikna mig ónýtan þjón, hvad þá þar sem eg gét ecki giort þús-undasta part þess, sem þitt heil. logmál skipar, og þar á ofan er þad lítid gott, sem eg ber mig ad giora, svo stakliga vansa-fullt, hvarfyrir ad allt mitt eigid réttlæti er hreint ónýtt; þess-vegna bid eg þig þá, heilagi Gud, ad láta þinn góda Anda til-reida svo mitt hjarta fyrir sanna umvendún og lifandi trú, ad eg géti hluttakandi ordid þess réttlætis, sem alleina fyrir þér gildir; þetta er réttlæti þíns elskuliga Sonar Jesú Krists, sem hann hefir med sinni fridþægjandi pína og dauda afrekad þeim ollum, sem á hann med lifandi trú trúa. Lát svo þennan þinn sama blessada Anda stjórna mér og stýra alla mína lifdaga og leida mig á réttum vegi til eylífs lífs; lát hann straffa mig í sam-vizkunni fyrir syndina, svo eg hana aldrei vísvitandi drýgi, og minna mig á allt þad sem Jesús sagt hefir, svo ord hans verdi mér líf, ljós og kraptur, sem upporfi mig, vegleidi og hughreysti, svo lengi sem eg á hér í heimi aldur ad ala. Þegar eg sídan hefi eptir þínum vilja fullendad mína lifdaga hér, þá kalla þú mig hédan í burtu, hvenær og á hvorn hátt sem þér þóknast; unn mér adeins þeirrar nádar, ad eg á minni daudastundu géti minst þessa míns sáttmála vid þig, og lát minn sídasta andar-drátt brúkast til þinnar þjónustu. En verdi eg þá svo yfirkom-inn, ad eg ecki géti til hans munad, minstu hans samt engu ad sídur, himneski Fadir! og rendu til mín, þíns vesæla barns, þegar eg berst vid daudann, þínum blessudu miskunar augum. Géf mér hugstyrk og traust, þegar eg gánga skal gégnum þann dymma daudans dal, tak svo á móti sálu minni, og leid hana inní þá bústadi, hvar þeir eru, sem sofnad hafa hédan í burtu í sannri trú á Jesúm; svo hún þar, ásamt þeim, bída kunni med gledi eptir uppfyllíngu þinna fyrirheita, í tilliti dýrdarfullrar upprisu á sídasta degi, og sælufullrar eylífdar í þinni guddóm-ligu nálægd. Skyldi nockur af mínum eptirlátnu vinum, þegar

eg er í moldina lagstur, finna þennan minn skrifliga sáttmála, er eg vid þig samid hefi, þá lát hann verda medal til ad hræra svo hans hjarta, ad hann semji þvílíkan einn af hreinskilni vid þig, og haldi hann sídan trúliga allt til síns sídarsta augnabliks. Já lát alla mína eptirskilda ástvini vera þess sinnis, ad leita þíns andlitis réttliga, og med áhyggju vardveita, í trúnni á þinn Son Jesúm Krist, þann sáttmála, sem þeir í skírninni vid þig somdu; svo þeir loksins, ásamt mér, og øllum útvøldum, géti eylífrar sælu hluttakandi ordid, og hæfir til ad greida þér, þú þríeini Gud! Fadir, Sonur og Andi, þad þakklæti, dýrd og lofgjørd, sem þér, fyrir alla þína nád og elsku, Endurlausn og Fridþægíngu, helgun og huggun, med fullum rétti, eylífliga tilheyrir! Æ skrifa nú sjálfur, í mínu hjarta, med þínum fíngri heil. Anda, í Jesú þíns Sonar blódi, undir þennan minn sáttmála vid þig, þitt guddómliga nafn, eins og eg vil mitt nafn í sannri trú undir hann skrifa, svo hann verdi — eins og øll þín fyrirheit — í þínum elskuliga Syni, þér til dýrdar, en mér til blessunar, óbrygdanligt Já og Amen!

---

## 18di Kapítuli.

### Hvørnig sá kristni skal inngánga kyrkjunnar samneyti vid Drottins kvøldmáltíd.

§. 1. Svo sem eg vona, kæri vin! ad hjá þér finnist nú sá fasti ásetníngur, ad vilja vera í sáttmála vid Gud, og ad þú af øllu hjarta hafir ofurselt þig til ad þjóna honum; svo skal þad vera mín innilig bæn til Guds, ad sáttmáli sá, sem þú vid Gud hér á jørdu samid hefir, verdi á himnum stadfestur og undirskrifadur. En leyfdu mér, ad eg, þér til því stærri uppbyggíngar, minni þig á þad, ad vor Drottinn Jesús Kristur hefir ákvardad eitt stakligt medal, med hvørs brúkun vér vottad gétum heidrun vora honum til handa, og endurnýad vorn sáttmála vid hann á hátídligasta hátt; hvørs brúkun, þó ecki

fyrirmuni oss ad nota oss ennur medöl til hins sama, má þad samt einganveginn til sídu setjast edur vanrækjast, fyrir þeirra medala skuld, er vér sjálfir uppþeinkt höfum, hvörsu skynsamlig sem þau vera sýnast.

§. 2. Frelsari vor hefir nærsta viturliga ákvardad, ad hlunnindi þau, sem fljóta af mannesskjuligum félagskap, skuli ogsvo hafa stad í trúarbrögdunum; þessvegna, eins og allir þeir ed játa sig kristna ad vera, koma, eptir skipun hans, saman, til ad vera vid opinbera gudsþjónustu, á einn edur annan hátt, eins hefir hönum þóknast ad stipta eitt samkvæmi, hvar heill söfnudur kunni ad gánga til hans bords, til ad eta af því sama braudi, og drecka af þeim sama kaleik. Og þetta skyldu þeir gjöra, ecki ad eins til ad fæda þar sálir sínar med hans holdi og blódi, heldur ogsvo til ad sanna, ad hans elska til þeirrar midt í daudanum sé þeim minnisstæd, ad sá heil. sáttmáli, er þeir somdu vid Gud, sé þeim óglöymdur, svo vel sem þeirra hreinskilna elska bædi innbyrdis sín á milli, og til allra þeirra samkristinna, fast innrætt.

§. 3. Ad þetta sé í raun og vera þad stóra augnamid Drottins kvöldmáltídar, þarf eg ecki med mörgum ordum ad sanna. Þú þarft ei annad enn lesa þad sem postulinn Páll í þeim 10da og 11ta Kapít. hans fyrra sendibréfs til þeirra í Corinthuborg skrifad hefir, til ad sannfærast fullkomliga hér um. Þar segir hann med berum ordum, ad vor Herra Jesús hafi skipad, ad eta braud og drecka vín, til sinnar endurminníngar; þad er, til ad minnast hans, og þeinkja um hann; til þess ad svo opt sem vér nálægjumst þessa heil. stiptun, þá skulum vér kunngjöra dauda Drottins; hvör tídkan vidhaldast skuli, þángad til hann kémur (1 Cor. 11, 24. 26). Já, jafnvel í sama stad er kaleikurinn sérílagi kalladur kaleikur þess nýa testamentis í hans blódi; þad er: innsigli þess sáttmála, sem med hans blódi er stadfestur. Héraf er þad berssýniligt, ad vér eigum ad gánga til Guds bords í tilliti þessa sáttmála, til þess ad njóta blessunar af hönum, og upperfa oss til ad hlýda hans heil. kröfum. Þessvegna höfum vér, eins og postulinn

segir, samneyti í Krists líkama og blóði; svo, þegar vér etum af hans braudi og dreckum af hans kaleik, þá komumst vér í inniligustu sameiníngu med sjálfum honum, sem fólk hans og eigindómur. Vidlíkt og heidíngjarnir í þeirra godablóts veitslum samneyttu og sameinudu sig afgudum síuum; og Gydíngarnir, med því ad eta sjálfir af fórnunun, sameinudu sig Gudi, og hosdu umgeingni med honum. Framvegis minnir postulinn þá á, ad, jafnvel þó þeir margir séu, séu þeir þó ad eins eitt braud og einn líkami, eins og þeir allir verdi hluttakandi í einu braudi (1 Cor. 10, 17), og allir dryckjadir til eins anda (1 Cor. 12, 13). Pad er, ad þeir safnast saman, líka sem þeir væru ad eins eitt heimilis fólk, til þess, í einum hóp, ad minnast þess sama blóds, sem var þeirra sameiginligt lausnargjald, og undireins Drottins Jesú, sem var og er þeirra sameiginligt yfirhofud. Nú er þad augljóst, ad þann sama rétt og skyldu sem þeir fyrstu kristnu hofdu, hafa kristnir á øllum eptirfylgjandi tímum. Leyf mér þessvegna, kæri vin! ad eg, med vors guddómliga kénnifedurs myndugleika, megi leitast vid ad innprenta lærdóm þennan djúpt í þitt hjarta, svo þú þess betur breytt fáir eptir þessari skipun hans

§. 4. Og þetta vil eg því heldur gjora, sem eg er fullvissari um, ad máltíd þessi midar til ad frama þína farsæld. Þú hefir allareidu ofurselt þig til ad lifa kristiligum lifnadi, og eg hefi sett þér fyrir sjónir, alla þá mótstodu og hindranir, sem þér í því tilliti mæta munu. En þad er þín elska til Krists, sem allrahelst skal hvetja þig og styrkja til ad yfirvinna alla hluti. Hvors gétur þú þá framar æskt þeir, enn ad þú fundid gétir, ad elskan til hans sé alltíd lifandi hjá þér? og hvad gétur meir upporfad hana og haldid henni vid lifaudi hjá þér, enn þad, ad þú hugleidir dauda hans og blóds úthellingu, svoleidis sem hún er þér fyrir sjónir sett og afmálud í hans kvoldmáltíd? Hvor fær hugleidt braudid, sem brotid verdur, og vínid, sem áskeinkt er, og ecki ímindad sér þar út af, hvorsu Jesú allraheilagasti líkami var í hans pínu sundurslitinn, og hans allraheilagasta

blódi úthellt á jordina, sem vatni? Hvor fær þeinkt um ángist þá, sem sundurkníſadi Guds Sonar hjarta, og álítid hana sem borgunar gjald vorrar endurlausnar og sáluhjálpar, án þess ad finna til iunilígrar medaumkunar í hjarta sínu, og verda upptendradur af þacklætisfullum kærleika? Hversu háleita þánka fáum vér ecki um þá blessun, sem fólgin er í sáttmála Evangelii, þá vér hugsum til þess, ad hann er innsigladur og stadfestur med Guds eingétins Sonar blódi? Og þegar vér nálægjum oss til Guds, sem vors himneska Fødurs, og ofurseljum sjálfa oss ad øllu leiti til ad þjóna honum, gétum vér þá gjørt þad í verdugra augnamidi, enn þessu, nefniliga ad styrkjast í vorri sannfæríngu um þad: ad vér ecki framar erum vorir eigin (herrar), þar vér erum dýru verdi keyptir? (1 Cor. 6, 19. 20.) Hversu sáluhjálpligt augnamid er þad ecki, ad vakta sig og vara vid øllum freistíngum til þeirra synda, sem vér svo hátídliga afneitad høfum, og ad setja vora trú á hann, sem vér allareidu, líkasem med eidi, høfum selt oss til eigindóms, med lífi og sálu? Á þvílíkan hátt géta hjørtu vor ordid samteingd í kærleikanum (Col. 2, 2), þegar vér álítum sjálfa oss, ad vera allasaman eitt, í Kristo Jesú (Gal. 3, 28). Hans blód heldur þessari sameiníngu saman, og bindur oss í anda, ecki adeins hvørn vid annan, heldur vid alla þá, sem ákalla vors Herra Jesú Krists nafn, á hvørjum helst stad sem þeir eru (1 Cor. 1, 2).

Svoleidis gétum vér þá med ánægjufullri von tekid hlutdeild í þeim glediliga og blessada degi, þá hinn gjørvalli søfnudur trúadra skal tilsamans koma, og svoleidis skulum vér þá allatíma hjá Drottni vera (1 Thess. 4, 17). Þessar hugleidíngar géta og allvel skuldbundid oss til ad afneita sjálfum oss, taka vorn kross uppá oss og eptirfylgja vorum krossfesta Frelsara (Matth. 16, 24). Þær géta líka vissuliga skuldbundid oss, til ad leggja mesta ástundan á bænina, samt allar adrar kristiligar æfíngar; til ad þéna eptirfylgjurum hans og vinum, er hann afrekad hefir sér med sínu blódi, og sem á

sídan, í sælufullum ódaudleika, skulu verda honum og oss eylíf-
liga sameinadir.

§. 5. Pad er sömuleidis vors dýrmæta Frelsara fullkomin
skipan, ad þeir limir, sem heyra til þvílíks samfélagskapar, skulu
alvarliga vera áhyggjufullir fyrir hvors annars andligri velferd,
og einkum ad hans kyrkja mætti vardveitast hrein og heilög.
Pad er Jesú vilji, ad þeir skuli halda sig sjálfa frá hvörjum
þeim bródur, sem ósæmiliga umgengni hefir (2 Thess. 3, 6),
ad þeir skuli hafa vakt á þeim, sem vekja þrætumál og
hneigslanir, móti þeim lærdómi, sem þeir lært hafa, og ad
þeir skuli skilja sig frá þeim (Róm. 16, 17). Hann vill og-
svo, ad þegar nockur er því hans ordi, sem Postularnir
kénnt hafa, óhlýdinn, þá skulu þeir eckert hafa med hann
ad sýsla, til þess hann megi skammast sín (2 Thess. 3, 14);
já, ad þeir skuli jafnvel ecki eta med þvílíkum, sem opinber-
liga sýni óvidurkvæmiliga hegdan, heldur þarámóti skilja þá
vondu frá sér (1 Cor. 5, 11. 13). Héraf er hægt ad álykta,
ad þvílíkt samneyti vid brúkun kvöldmáltídarinnar er einkanliga
stiptad kristindóminum til æru, og sérhvörjum kristnum til besta.
Pegar vér þá hugleidum hlýdni þá, sem vér erum vorum sam-
eiginliga Herra umskyldugir, og þá skyldu, sem á oss liggur,
med forsjálni ad hyrda um vort eigid og vorra medbrædra besta,
þá flýtur þar naudsýnliga af, ad þeir, sem elska Drottinn Jesúm
af hreinu hjarta, skulu gánga til þessa samneytis hvör med ödr-
um, og tidka þá heil. kvöldmáltíd verdugliga.

§. 6. Par fyrir bid eg þig, edur ef eg má segja svoleidis,
eg legg þad í Jesú nafni, og eptir hans skipun, uppá þína sam-
vitsku, ad þú ecki látir þíns dýrmæta Frelsara lærdóm vera for-
géfins og gagnslausan hjá þér; því, ef þú í rauninni elskar
hann, þá hlýdir þú svovel þessari, sem öllum ödrum, hans skip-
unum, og skeytir eckert þinnar eigin edur annara holdligu skyn-
semdar vidbárum. En þad allramest áridanda spursmál er þetta,
hvörnig þú skalt undirbúa þig, til ad medtaka þetta sakramenti
verdugliga? En eg hugsa, ad ef madur — í þessu tilliti —

yfirvegar nákvæmliga þad sem hér ad framan er allareidu sagt og kénnt, svo megi med fám ordum nægiliga hér uppá svara.

Hafir þú — ad svo miklu leiti þú þeckir þitt eigid hjarta — verid hreinskilinn í ad ofurgéfa þig sjálfan Gudi fyrir Krists sakir, eins og eg hefi bedid þig ad gjøra, í nærstfyrirfaranda Kapítula; hafir þú þad gjørt, segi eg, hvort sem þad skéd hefir eptir þar umgétinni forskrift, edur ecki, þá hefir þú í raun og veru fengid hlutdeild í þessum sáttmála, og hefir þessvegna rétt til ad taka á móti hans innsigli. Framar er ecki, né gétur verid, neitt í þessari innstiptun, sem þú hafir móti ad mæla. Þessvegna, ef þér er þarum af alvøru annt, ad minnast Krists dauda; ef þig lángar af hjarta til ad endurnýa þinn sáttmála vid Gud, fyrir Krists sakir; ef þú óskar inniliga ad reiknast einn í tølu hans dýrkenda; ef þú elskar þá, og vilt gjøra þeim gott, eptir þínum kroptum; og yfirallt fram, ef þú ecki villt leyfa þér sjálfum ad drýgja neina vitanliga synd, ellegar vanrækja nockra vitanliga skyldu, þá gét eg óhræddur sagt þér, ad þú ecki einúngis ert velkominn géstur til Jesú kvøldmáltídar, heldur og ad hún er innsett einúngis handa þvílíkum, sem þú ert.

§. 7. Hvad hin ønnur mótmæli snertir, er hægt ad hrekja þau í fám ordum. Til dæmis: ad uppbyrjan gudhrædslunnar í sálu þinni sé ad eins veik og vanmeta ennnú, þá samt, ef hún í rauninni hefir þar rætur fest, er svo lángt frá, ad þad géti verid afsøkun fyrir þig ad gánga ecki til Guds bords, ad þad lángt heldur má sannfæra þig um, hve naudsýnligt þér sé, ad nota þér þetta heil. medal; sama er um þad ad segja, ad þó þeir séu margir, sem kalla sig sjálfa kristna, og vanrækja samt þessa heil. athøfn, þá ætti þad því framar ad skuldbinda þig til ad sýna vandlæti þitt vegna þessarar heil. stiptunar, sem þannig verdur af mørgum forsmád og vanvirdt. Enn framar ad segja: ef þú óttast þad, ad þú med ad gánga til Guds bords, aukir søk þína, svo framt þú fellur frá aptur, svo láttu þvílíkan ótta eckert rúm hjá þér finna; því fyrst kann máltíd þessi, fyrir Guds adstod, verda ánægjanligt medal til, ad koma í veg fyrir

þá ólucku sem þú óttast; og þar næst er þad víst og satt, ef þú ert (sem eg gjöri rád fyrir) sannarliga umvendtur, hvort ed er, hefir þú einga ástædu til ad þeinkja, ad þú munir á ný fráfalla, svo framt þú sjálfur vilt stodugur standa, og ef hjarta þitt er hreinskilid. Veri þad þarfyrir þinn alvarligur ásetníngur ad gjöra þína sáluhjálp svo vissa og fasta, sem þú best gétur! Og eg þecki einga þá innstiptan, sem vor dýrmæti Frelsari gjört hefir handa oss, sem framar géti upphvatt þig til ad ná þessu blessada augnamidi, enn þessa somu, sem eg hefi sett þér fyrir sjónir.

§. 8. En eins hlutar vildi eg þó ad minsta kosti af þér beidast, og eg skil ecki á hvorn hátt þú gétir mér um þá bón synjad. Meiníngin er: ad þú hugsir um efni þetta af allri alvoru, og ad þú kostgæfiliga eptirgrenslist, hvort þú í samvizku þinni hefir orsok til ad halda, ad þad sé Guds vilji, ad þú nú gánga skulir til þessarar heil. máltídar, edur ecki. Já, eg sárbæni þig, ad þú haldir áfram ad yfirvega þetta og eptirgrenslast, midt undir brennandi bæn til Guds, uns þú finnur fullkomna upphvatníngu í hjarta þínu til ad gánga til Jesú máltídar. Því um þad máttu úr skugga gánga, ad ef þú óhæfur ert í rauninni til ad nálægjast þetta heil. bordhald, þá ertu undireins í því ástandi, ad þig vantar allan naudsýnligan undirbúníng, undir daudann og dóminn. Þessvegna ef þú ecki falla vilt í dýpri svefn á þeirra ytstu nof til eylifrar fordæmíngar, þá máttu ecki einn einasta dag halda áfram í svo hrædiliga hættuligu ástandi.

## Bæn fyrir þann, sem inniliga æskir ad gánga til Gudsbords, en hefir þó ennnú efa nockurn í sér um þad, hvørt hann hafi rétt til þessarar heiløgu stiptunar.

Allrahæsti Gud! eg heidra ad sonnu þína vísdómsfullu og nádugu innstiptun, til ad uppbyggja þína kyrkju í heilagleika og kærleika. Eg þacka þér fyrir þad, ad þú bodid hefir þínum dýrkendum ad halda samkomur á vissum tímum til ad vegsama

þig; eg tilbið ogsvo minn náðuga Frelsara, sem á sínu síðasta dauðadægri innsetti þá heil. kvøldmáltíð, til endurminníngar sinnar ódauðligrar elsku, um allar ókomnir tíðir, og til að viðhalda því sameiníngarbandi, er hann vill að samtengi alla sanna limi sinnar kyrkju. Eg vona, að eg megi, minn Guð og Drottinn! kalla þig til vitnis uppá þá hreinskilni, sem eg hefi í því að vilja ofurselja sjálfan mig, þér til handa. Eg hrópa til þín: minstu sálar minnar! Svoframt eg ennnú óviss er, um þá stakligu aðferð, er eg til þessa brúka skal, þá ris það enganveginn af því, að eg ennnú hafi í sinni að yfirtroða það minsta af þínum boðorðum, eður forsmá neina þína náðarveitíngu. Eg efast ekki um, að þú veizt, að mín forsóman kémur aðeins af óvissu um skyldu mína, og af ótta þeim, að eg vanhelga kunni þessa þína heil. stiptun, ef eg skyldi óverðugur til hennar gánga. Þó í sannleika, Drottinn minn! þar sem þú hefir géfið mér að bera virðingu fyrir skipun þinni, uppvakið hjá mér laungun eptir að standa í sáttmála við þig, og gjørt mig fúsan til að ofurselja mig að øllu leiti til þinnar þjónustu, þá gét eg álitið slíkt fyrir gott merki til þess, að þú viljugur fért til að veita mér viðtøku, og að eg ekki oldúngis óhæfur sé til að vera við þessa þína heil. stiptun, hverja eg svo mikiliga heiðra og hjartanliga girnist. Þarfyrir offra eg þér nú minni auðmjúkri bæn, ó Drottinn! og bið, að þú í dag náðarsamliga viljir uppfræða mig um skyldu mína, og kénna mér þann veg, sem eg skal gánga á. Reyn mig, Drottinn, og ransaka mig, hreinsa mín nýru og mitt hjarta. Er þar ennnú nockur sú leynilig synd, sem eg framvegis vilji elska og með ánægju drýgja? Er nockurt það af þínum heil. boðorðum, er eg af ásettu yfirtroða vilji? Nei! eg vona, að eg megi krefja þig til vitnis um, að það ekki sé. Láttu mig þá ekki gjøra sálu minni þann órétt, að eg af hirðuleysi eður vangá haldi mér frá þínu heil. borði. Þessvegna bið eg þig, Drottinn! unntu mér þess, að þitt orð og Andi greiði stigu mína fyrir þér. Drif þú alla þá efasemi frá mér, sem þú sér á eugu bygða! Uppfyll mig æ meir og meir með stødugri trú

og brennandi kærleika! Fullkomna þitt náðarverk í hjarta mínu svoleiðis, að eg ecki lengur géti undandregið að gánga til þinnar heil. máltíðar, með því eg (svoframt eg annars í rauninni er þjón þinn), er bæði skyldugur til þess, og hefi leyfi þitt þartil. Lát mig ei til lángframa gleyma því, heldur sífeldt kapps um kosta, sé þar ennnú eptir nockur efasemd í sinni mínu, að burturýma henni með alvarligri ástundun, að forðast allt það sem andstyggiligt er fyrir þínum allraheilögustu augum, en rækja af alúð öll mín skylduverk. Lát þann krossfesta Kristum verða svo handgenginn sálu minni, og lát mig svo kroptugliga finna til hans óðauðliga kærleika í henni, að eg, af minni eigin reynslu, géti orðið fullviss um, að eg sé þvílíkur einn, handa hverjum þessi heil. máltíð innstiptuð er. Já, jafnvel nú, þá eg í anda og elsku er sameinaður þinni kyrkju — þótt það ennnú ecki sé með svo sterku bandi, sem eg æski — bið eg þig af hjarta, að þú virðist að úthella blessun þinni yfir allt þitt fólk; og að þú virðist að fóðra þína arfleifð og gjöra hana dýrðliga að eylífu! Lát sérhvörn kristinu söfnuð blómgast í þeckíngu, heilagleika og kærleika! Klæð þína presta með blessun, svo þínir heilagir géti súngið með fögnuði! Lát þína kyrkju allstaðar dýrðliga í voxt fara af þeim, sem flýja, sem ský, og sem dúfur til sinna vindglugga! Lát þitt borð, ó Drottinn! altíð vera umkringt með gesti, og lát alla þá, sem lyst hafa til réttlætisins, ætíð segja: Drottinn á stórum að vegsamast, sem lyst hefir til sinna þénara velferðar. Já, eg bið ennnú af hjartans rót, að allir þeir sem játa og að sér tekið hafa Jesúm Kristum vorn Herra, mættu af ýtrustu kroptum bera umsorgun fyrir, að umgángast í honum; svo vér allir tilreiðst gætum til samkundu þeirra frumgétnu á himnum, og orðið þar sameinaðir þeim, í lángt eðalligri og meðalslausari Guðsþjónustu, hvar allir skuggar og fyrirmyndir eru afmáð, og hvar á þessum endurminníngar-meðölum ei þarf framar að halda, þar sá lifandi Frelsari mun verða þar sýniligur til eylífrar gleði, öllum þeim, sem hér í lífi höfðu eptirlæti af að endurminnast hans dauða. Amen!

## 19di Kapítuli.

### Enn nákvæmari ávísanir, til ad halda vid lídi sífeldri sameiníngu med Gudi, og hvørnig madur lifa skuli á hvørjum degi í hans ótta.

§. 1. Eg vona ad lesarinn hafi nú med alvarligri hugleidíngu, hreinskilinni sjálfsprófun, og hjartanligri bæn undirbúid sig og ásett sér ad gánga til Drottins bords, til þess ad innsigla þar sinn sáttmála vid Gud. Eg gjøri enda ráð fyrir, ad þessi heil. athøfn sé allareidu skéd, edur og, ad minsta kosti, ad hann, á annan hátt, hafi hátídliga skuldbundid sig til ad þjóna Gudi trúliga, og ad hann nú af alhuga vilji grenslast eptir, hvornig hann fái þau heit sín, er hann Gudi unnid hefir, dyggiliga efnt og uppfyllt. Þessvegna, til ad hjálpa honum í þessu tilliti enn framar, vil eg (auk afmálana þeirra, sem eg um þess sannkristna rétta sinnislag og kénnimerki, hér ad framan, yfirhøfud framsett hefi) gefa honum frekari og nákvæmari ávísun um, hvornig hann fái hjá sér vid lídi haldid því andliga og himneska sinnislagi, sem, eptir Ritníngarinnar talshætti, getur kallast, ad umgángast dagliga med Gudi, edur halda sér hvørn dag í Drottins ótta (Ordskv. 23, 17). En reglur þær, sem eg til þessa augnamids hygst ad framsetja, getur ad sønnu hver einn kristinn séd og fundid, hve gagnligar séu til ad vidhalda sønnum kristindómi í sálu manns, án þess eg þó fyrirskrifi þær fortakslaust hverjum sem einum, edur áliti sálartopun vidliggja, ef madur kríngumstædna vegna — sem opt kann til ad bera — fær þeim ecki fullkomliga fylgt, adeins ad misbrestur þar á rísi ecki af forakti, edur holdligri leti og hirduleysi einsstaklar. Til þessa fanst mér naudsýnligt ad benda, vegna þeirra veiku en þó hreinskilnu sálna í sínum kristindómi, ad þeim ecki fallist hugur, þegar þær finna sinn stóra vansa og vanmætti í æfingum trúarinnar. Látum oss adeins med audmýkt gjøra þad besta til, sem vér getum, og hugga oss þarvid, ad vér eigum þvílikan nádugan Fodur, sem þeckir allan vorn breiskleika, og svo

miskunsaman Ypparstapresti, sem útþýdir jafnvel vora veikustu vidburdi — í því ad gjöra skyldu vora í kærleikanum — svoleidis á besta hátt, ad þeir ordid géta þeim réttláta Gudi þóknanligir.

§. 2. En svo eg viki til efnisins, þá hljóta ávísanir þær, sem eg, í ádur sogdu tilliti, géfa vil, náttúrliga ad skiptast í þrjá parta; nefniliga: hvornig vér breyta skulum í Guds augliti, vid hvørs dags byrjun, framgáng og endalykt. Eg vil ad vísu segja mína hjartans meiníngu hér um, en ætla undireins hjarta lesarans fylgislaust um ad dæma, ad hvad miklu leiti sérhvad af þessu gétur átt vid hans kríngumstædur. En mitt augnamid er, ad minsta kosti þad ad fordast í þessu efni tvennslags afvegi; nefnil. á adra sídu allt of stóran af hjátrú fljótandi strángleika í léttvægum efnum, en á hina sídu sérhlífnisfullt hirduleysi; hvort ef vér í léttvægum efnum látum yfir hönd hafa, gétur audveldliga eptir sér dregid skadligustu forsómun í því sem meira á rídur, og loksins straffsverdasta kaldlyndi.

§. 3. Vid dagsins byrjun skyldi þad ætíd vera vor fyrsta umsorgun ad upplýpta hjörtum vorum til Guds, undireins og vér voknum og medan vér erum ad fara á fætur; og sídan straks þar eptir, án dvalar og med alvørugéfni, ad byrja vora heimugligu morgun andagt.

§. 4. Þad fyrra af atridum þessum sýnist vera fullkomliga náttúrligt; því hvorsu ótal hlutir eru þad, sem þá géta géfid oss tækifæri til ýmsra gudligra hugleidínga og heimugligra andvarpana; svo þad er ómoguligt ad gudligt hugarfar verdi þeirra ecki vart. Til dæmis ad taka: vort endurnærda og hresta sinnislag, þegar vér fyrst voknum af svefni; sá óhultleiki sem vér nutum, medan vér láum sofandi og varnarlausir; hlýindi þau og hægdir, sem sængurklædin gjördu oss; sú yndisliga byrta sem sólarinnar uppruni orsakar; jafnvel sú konstrika uppáfinníng ad brúka ljós og lampa oss til yndis og nota, medan sólarinnar ljós er í burtu; von sú sem vér vaknadir hofum, ad komast aptur í samfélag vorra kærustu vina; sú tilhugsan ad géta enn-

nú þann komanda dog fengid tækifæri til ad þjóna Gudi, og efla vora sálarheill; og yfirallt fram sú sæla von sem vér hefum um glediliga uppriſu til dýrdarinnar á sídarſta degi. Þessir og margir adrir þvílikir hlutir, sem eg ecki fæ talid, géta géfid oss nóg efni til glediligustu hugleidínga og lofgjørdar, þegar vér vøknum á morgna og stígum af sæng. Og, ef vér erum þá einir, er þad tilhlýdiligt, ad vér tølum ýmiſt til ſjálfa vor og ýmiſt til vors himneſka Fødurs, og úthellum vorum hjørtum fyrir hønum med gledi og þacklátſemi. Já, eg vil bæta því vid: ad ef vér finnum hjørtu vor vera til þvílíkra hugleidínga fús og hæfilig, þegar vér vøknum, þá megum vér ſtakliga lofa Gud þarfyrir, og jafnvel máſké álíta þad sem bænheyrſlu edur ſvar hans, uppá þá bæn, med hvørri vér ádur logdum oss út af, til ſvefns.

§. 5. Í ad framkvæma vora heimugligu morgun=andakt, (ſem eg vona ſé, yfirhøfud ad tala, vort fyrſta erfidi), gét eg ecki ſvo nákvæmt ſett ødrum reglur, hvørnig þeir ſkulu því til vegar koma. Menn verda í því tilliti ad hegda ſér eptir kríngumſtædum og beſtu vitund. En ſkuli eg tiltaka nockra viſsa adferd fyrir þá, ſem brúkad géta hálfa klukkuſtund edur meira á morgna til þeſsarar ydju, (ſem eg held fleſtir gætu, ef þeir notudu ſér ſinn tíma med forſjálni), þá ſýniſt mér víſt ad þeir mættu ſvoleidis ad fara:

§. 6. Vora dagligu andakt ſkulum vér byrja, fallandi á kné fyrir Gudi, med ad lofa hann og vegſama, og med ſtilltri en þó greiniligri rauſtu, láta þacklæti vort í ljóſi, fyrir þá velgjørnínga hans, og adra, ſem vér ſettum oss fyrir ſjónir medan af ſæng ſtigum. Þarhjá megum vér aldrei gleyma því, ad hugſa til Jeſú Kriſts, ſem þeſs einaſta ſtóra grundvallar allrar vorrar ſálar ánægju og vonar; ei heldur ſkulum vér gleyma, ad þacka Gudi fyrir ſinn heil. Anda, ſem vegleidt hefir hjørtu vor til Guds, og knýr oss til ad leita hans. Þeſsar, ſvovel ſem adrar vorar andaktar æfíngar, ſem eg ſídar vil áminnaſt, hljóta ad framkvæmaſt med athugaſemi og hreinſkilni; því komi bænir

vorar, loffsaungvar og þacklæti ecki af hjartans grunni, vega þær ecki einasta eckért í Guds augum, heldur eru honum vidurstygd. Þessa vora morgun-andakt er tilhlýdiligt, ad vér endum, med því ad endurnýa af alvöru sáttmála vorn vid Gud, og ítreka vorn stödugá ásetníng, ad vera honum aldeilis ofurgéfnir, og sérdeilisliga ad brúka þann fylgjanda dag honum til dýrdar.

§. 7. Midt í þessu er þad þénanligt, ad vér setjum oss fyrir sjónir þá hluti, sem oss á komanda degi mæta kunna, ad svo miklu leiti vér gétum þá ad líkindum fyrirfram séd, samt hvornig vér gétum þann dag réttiliga brúkad. Vér kunnum þessvegna ad spyrja oss sjálfa og segja: hvornig á eg nú ad brúka minn tíma í dag fyrir Guds augliti? hverjar eru athafnir þær, sem eg á vid ad sýsla? hvors tækifæris hefi eg nú ad vænta mér, hvort heldur til ad gjöra gott, edur þiggja? Hvad slags freistíngar munu líkliga mæta mér í einum edur ödrum stad, í einu edur ödru manna samkvæmi, í einum edur ödrum kríngumstædum, sem fyrirhittast kunna? Í hvörju tilfelli er þad sem mig nýliga hendti yfirsjón? og hvornig gét eg nú verid óhultur um, ad hún hendi mig ecki ad nýu?

§. 8. Eptir þessa hugleidíngu búna, ættum vér ad offra stuttri en heitri bæn til Guds, og bidja hann ad léna oss krapta til ad framkvæma vor skylduverk; ad hann styrki oss gégn öllum þeim hættum og freistíngum, er oss mæta kunna; ad hann géfi oss luckn til einnar edur annarar þeirrar athafnar, sem vér til hans dýrdar tokum oss fyrir hendur; og sömuleidis ad hann hjálpi oss til ad finna og nota þvílík tækifæri, sem vér ecki fáum fyrirfram séd; ad mótistanda óforvarandis hneigslunum, og med þolinmædi ad bera allar þær þjáníngar, sem yfir oss kunna ad falla, á þeim nýbyrjada degi.

§. 9. Hér á ofan vil eg ráda þér, minn vin! til ad lesa nockud í Ritníngunni; þó ecki allt ofmikid í senn; ei heldur allar hennar bækur í röd, heldur nockra útvalda stadi, í hennar nytsömustu bókum; máské hérum 10 edur 12 vers í einu; og

þó þau ecki hángi næmt til samans, þarftu ecki svo á þig ad setja. Ellegar þó í þeim mæti eitthvad þad, sem allir skilja ecki eins, skaltu ecki láta þad trubla þig, (jafnvel þó eg vilji ráda þér, ad ransaka þad á ødrum tímum, ad því leiti sem þecking þín og ástand leyfir); en hér er alleina tilgángurinn, ad uppørfa andakt þína og Gudrœknis æfíngu. Tak þér sídan af því, sem þú les, þvílíka lærdóma, sem þú gétur ydugliga endurminst; yfirvega þá í þinni samvizku, og taktu þér í hjarta þínu fyrir alvarliga ad laga þig eptir þeim, þar þú veizt, ad þeir eru guddómlig bodord. Ef þú nú med innilígu andvarpi til Guds, yfir hvorri grein, sem þú les, framber bæn þína, ádurenn þú leggur aptur þína Biblíu, mun þad þess dýpra innrætast í minni þitt og hjarta, svo þú gétur þá haft þann ábata þaraf, ad þú í framtídinni hefir numid marga ypparliga þánka og talshætti, til ad brúka, fyrir Gudi, í þinni bænagjørd.

§. 10. Loksins er þad og yfrid vel sæmandi, ad þú endir þessa andakt þína med einum sálmi edur lofsaung. Og þad er glediligt ad vér høfum gnægd af þvílíkum andríkum saungvum vor á medal, sem vér brúka kunnum, hvort heldur í einrúmi, ellegar ásamt voru heimilis fólki, til ad lofa Gud med, og uppørfa sjálfa oss til Gudhrædslu.

§. 11. Hvornig vér nú þessu næst í tilliti framgángs sérhvørs dags breyta skulum fyrir Guds augliti, vil eg innilykja í eptirfylgjandi atridum: **Fyrst** skulum vér vera **alvarligir** í **andakt** vorri, edur hennar afleidingum, heila daginn út, einkum og sérdeilis á Drottins døgum, hvort heldur þad skédur í Guds húsi, edur heima hjá oss. Látum oss altíd, um fáar minútur, ádurenn vér byrjum svoddan gudliga athøfn, hugsa med oss og yfirvega vel fullkomligleika Guds, fyrir hvørs augliti vér framkomum; látum oss hugleida hvørsu erindi þad er mikilvægt, sem vér fyrir stafni høfum; ánægju þá og gagnsemi, sem reglulig og andaktug Gudsdýrkan med sér færir, og þar á móti synd þá og dármensku, sem hræsnisfull hegdan, í því tilliti, orsakar. Midt í því vér erum þá ad fremja slíka gud-

liga athøfn, þá látum oss halda nákvæma vakt yfir hjørtum vorum, og strax leitast við að støðva þánka vora, þegar þeir fara að drelfa sér, og þegar vér høfum leitast við að gjøra þessa skyldu vora, þá látum oss þó strax á eptir hugsa um, hvað dyggiliga vér gjørðum það, og spyrja vora samvizku, hvert vér høfum orsøk til að halda, að Guði hafi líkað við oss, eður ecki. Því þar er viss máti til að æfa þessar skyldur, sem vort eigið hjarta gétur strax sagt oss, að hann ómøguliga géti Guði líkað; og hafi oss viljað til óvørum að brúka hann, ber oss inniliga að auðmýkja oss fyrir það í Guðs augliti, svo vor bæn verði oss ecki til syndar (Ps. 109, 7.)

§. 12. Hvað þarnæst vorar veraldligu sýslanir snertir, hvert heldur þær ské með handa erfiði, edur með bókyðkunum, þeim sem ecki eiginliga líta þó til trúarbragðanna, þá látum oss samt byrja þær, með þeirri sannfæríngu, að hvað sem vér aðhøfumst, þá skéður það í Guðs augliti og nálægð, og skal allt miða til hans dýrðar. Látum oss framkvæma það sem vér vinnum, með aðfylgi og kappsmunum, en vera ecki sem þeir er rétt sofa yfir verkum sínum, og eyða til þess þrem stundum, sem þeir gætu afkastað á einni, sem þó hendir marga þá, sem þykjast aldrei yðjulausir vera. Verum oss því að koma sem mestu af, vér gétum, á stuttum tíma, hugsandi til þess, að allur vor tími er mjøg skammvinnur. En viðurkénnum þó altíð, hvørsu mjøg oss ríður á blessan Guðs, í øllum vorum athøfnum.

§. 13. Í þriðja lagi, hvað ánægjusemdir vorar áhrærir, þá sorgum af alúð fyrir því, að vér veljum oss hinn rétta tíma þartil, og að tilgángur vor sé einúngis sá, að vér því betur gétum á eptir framkvæmt vort dagliga erfiði, og að máti vor í brúkan þeirra, géti stadist með sønnum Guðsótta, sem altíð vera skal aðal-regla allra vorra athafna. Þessvegna verðum vér að varast, að hjørtu vor dragist ecki þarmeð frá Guði, og að vér eyðum ecki ofmiklum tíma til þeirra. Látum oss alltíð hugsa til þess, að bæði vorir náttúru kraptar, og þeir sem vér með

endurfædíngunni ödlast höfum, eru oss til þess géfnir, ad koma einhvörju gódu og mikilvægu til leidar í heimi þessum, og þess- vegna aldeilis ecki leyfa oss meiri dægra styttíngu né ánægju, en sambodid gétur vel sannskynsamligri og gudligri hegdun.

§. 14. Í fjórda máta er þad mjög nytsamligt, ad vér géfum gætur ad Guds forsjón, hvad hann lætur fram vid oss koma, bædi í medlæti og mótlæti. Til dæmis: þegar Gud ann oss luckn, annadhvört yfirhöfud, edur í einhvörju stakligu tilliti; géfur oss ad njóta stödugrar heilbrygdi; veitir oss fædi og klædi, bædi til naudþurftar og hressíngar; lénar oss góda og uppbyggiliga vini; lætur vorar útréttíngar velluckast, og engin slis henda oss; og þar á ofan géfur oss ad hafa ánægt sinni og róligt, án hvörs enginn hlutur gétur oss til ánægju ordid. Allt þetta ber oss ad álíta sem velgjörnínga Guds forsjónar, og inna honum þarfyrir þacklæti og lofgjörd sífeldliga. En þar á móti höfum vér ecki minni orsök ad géfa gaum ad Guds forsjón yfir oss í öllum vorum mótgángi, vid hvörn skada sem vér lídum á líkama vorum, eignum og ástvinum; hvört heldur sem skadi sá virdist ad koma medalslaust frá Gudi edur af manna völdum, og þad þeirra kannské, sem vér sízt þenktum; í öllu þessu eigum vér ad æfa þolinmædina, og hugsa ad Gud hafi hér hönd í verki, annadhvört á þann hátt, ad hann lætur þad, eptir tilhlutun sinni, ské, edur lídur ad þad vid oss framkomi. Þetta er oss naudsýnligt ad athuga í ýmsum lífsins tilfellum; einkum þegar vér mætum óþægiligu af vorum bestu vinum, sem oss óróliga gjört gétur; þá er naudsýnligt ad vér tökum vara á hjörtum vorum; þar sumir finnast þeir, sem midt í því þeir ecki fá umborid þessi léttvægu tilfelli án gremju, géta þó látid bædi Gudsótta og skynsemina, adstoda sig til ad umbera þad stærsta mótlæti annad, med gédstillingu og hughreysti.

§. 15. Í fimta máta liggur manni yfrid mikid á, ad vakta sig fyrir freistíngunum, og svo opt sem vér skiptum um stand, stadi edur persónur, ad þenkja med sjálfum oss: vid hvörjum snörum má eg nú búast á vegi fyrir mér? En einkanliga

skulum vér, med mestu umsorgun, vara oss vid þeim snörum, sem vér ad morgni dags, gétum fyrirfram séd. Og þá vér komum í þær kríngumstædur, sem vér meigum búast vid áreittir ad verda, en gétum þó ecki — vegna embættis skyldu — umslúid, skulum vér þannig hugsa med sjálfum oss: nú byrjast orustan! Nú adgætir Gud og heil. Einglar hvad fyrir orka og stadfesti sé fyrir í minni sálu, og hvörsu mikid ad Guds myndugleiki, samt endurminníng minnar bænar og betrunar áforms, hjá mér orki, þegar á hólminn er komid.

§. 16. Í sjötta lagi hvad vort trúnadartraust til Guds adstodar snertir, þá hlýtur þad ad vera stadfast, og vér meigum aldrei gleyma því, hvörsu hans adstod er oss ómissanlig. Eitt augnablik sem vér brúkum til ad andvarpa til Guds um hans nádugu hjálp, gétur gjört meira gott, en margar minútur, sem vér brúkum til ad rádfæra oss vid tóma skynsemina. Og jafnvel þó vér ecki meigum heldur vanrækja þad — med því skynseminnar ljós er ogsvo frá Gudi — þá eigum vér samt ecki ad fylgja því framar enn svo, ad þad géti stadist med þeirri skyldugu sannfæríngu, ad vér í öllu séum komnir uppá hans nád og vegleidslu, sem er Fadir ljósanna; því annars kunnum vér hégómliga ad reida oss á vora eigin þánka, þegar vér álítum oss sjálfa hyggna ad vera (Róm. 1, 22). Látum oss þessvegna alltíd ákalla Gud, og, til dæmis, þegar vér bidja ætlum, segja svoleidis: O, Drottinn! géfdu mér gaumgæfni; uppvek í mér heilagar hræríngar, og úthell yfir mig anda bænar og nádar! Þegar vér tökum oss Biblíuna, edur adra góda bók í hönd, þá segjum: ó, Drottinn! opna þú augu mín, ad eg sjái þá dásamligu hluti í þínu lögmáli! upplýs mína skynsemi og vermdu mitt hjarta; lát minn góda ásetníng stadfastan verda, og gjörvallann minn lifnad lagadan eptir þínum vilja? Þegar vér byrjum vorar veraldligu sýslanir, þá bidjum svoleidis: ó, Drottinn! stadfest þú verkin minna handa, og géf mér þína blessun til alls þess, sem eg tek fyrir mig, eptir þínum vilja! Þegar vér förum til ad njóta einnar edur annarar ánægju, þá segjum:

blessadu, Drottinu! minar ánægjusemdir! lát mig ecki midt í þeim gleyma þér, heldur líta til þess, sem þér er eins dýrdligt, sem mér ánægjusamt! Þegar vér komum í annara selskap, þá bidjum svo: láttu nú adra hafa gott af mér, og mig af ødrum. Lát eckért ósæmiligt tal gánga út af mínum vorum, heldur þad sem gétur gjort odrum uppbyggíngu, og þér er til æru! Þegar vér rotum í einhvor vandrædi, andvorpum þá: gefdu mér nú visdóm, Drottinn minn! til ad grípa til þeirra bestu úrræda, leid þú mig á þeim rétta vegi, sem er sléttur og hættulaus! Þegar vér komum í freistínga kríngumstædur, bidjum þá þannig: æ, nádugi Frelsari! láttu nú krapt þinn fullkomnast í mínum breiskleika!

Þessi framsettu dæmi géta synt oss, til hvors þessar áviѕanir mida, jafnvel þó þær einganveginn nægar séu, til ad nota oss, í ollum þeim kríngumstædum, sem oss mæta kunna.

§. 17. Í sjøunda lagi heyrir þad ogsvo til skyldu eins kristins manns, ad stjórna þaunkum sínum, þegar hann er í einrúmi. Látum oss vid oll tækifæri æfa oss þar í, og leitast vid ad gjora þad oss ad vana; svo vér, á þann hátt, fáum makt yfir þaunkum vorum. Látum oss sorga fyrir því, ad ecki offsterkar sinnis hræríngar edur óregluligar tilhneigíngar til holdligs eptirlætis edur stundligs ávinníngs, svipti oss því valdi, sem vér hafa eigum yfir þaunkum vorum. Látum þánka vora sýsla um eitt edur annad sannuppbyggiligt efni; til dæmis: látum oss hugsa um þess almáttuga Guds óendanligu fullkomligleika; um Jesú Krists stóra kærleika; um tímans ómetanliga verd; um daudans og dómsins vissu og mikilvægi og um honum fylgjandi eylífa sælu edur hormúngu. Látum oss líka stundum, þegar vér einsamlir erum, yfirvega hvad vid reynt hofum í tilliti vors sálar ástands; einkum um þad, hvort oss hefir í gudhrædslunni fram edur aptur farid. Látum oss hugsa um þá sídurstu prédikun, sem vér heyrdum, edur þær greinir í Biblíunni, sem vér sídarst lásum. Einkum væri þad mikid nytsamligt, ef vér útveldum oss eitt edur annad vers í Biblíunni, af

þeim sem vér ad morgni lesid hefdum, og geymdum þad sem féssjód í hjörtum vorum, til ad þenkja um þad, þegar oss skortir andligt og gudligt efni til yfirvegunar, á vorum frítímum. Þetta mundi opt verda sem önnur uppspretta, af hverri margir nytsamligir og ánægjuríkir þánkar mundu spretta, hverra vér máské ecki hefdum ádur varir ordid, í ödru eins samheingi og krapti. Og þó því ecki væri svoleidis varid, samt er eg fullviss um, ad þad væri miklu betra ad ítreka og umhugsa eina og sömu grein úr Biblíunni hundradsinnum á sama degi, og úthella undireins fyrir Gudi audmjúku andvarpi, sem vid efnid ætti, enn ad láta þánka sína festast vid ýmsa adra lítilvæga hluti, sem svo audveldt géta inntekid sinni manns, og orsakad sálunni, á sinn hátt, stóran skada.

§. 18. Loksins, í áttunda máta, hvad snertir athugasemi þá, sem vér brúka eigum í samtali voru, þegar vér erum í annara hóp, þá hljótum vér ad bera mestu umsorgun fyrir, ad vér ecki tölum neitt edur gjörum þess, af hverju vor kristindómur géti nockra nidran edur álas haft; ei heldur þad sem skada kunni, hvort heldur nálæga edur fjarlæga. Ad vér ecki hofumst neitt þad ad, sem sýni vondsku edur sláttskap, adra géti upæst til reidi, edur á annan hátt ad hneigsli ordid. En vér meigum ei heldur láta oss nægja þad, ad tal vort sé meinlaust, heldur eigum vér líka ad leitast vid, þad verdi uppbyggiligt, bædi fyrir sjálfa oss og adra. Þessvegna ber oss ad kappkosta, ad vér höfum ætíd eitthvort þad umtals efni til reidu, sem nytsamligt sé um ad ræda, hvar til undanfarin ávísan, um ad uppvekja og vidhalda gódum þaunkum, gétur oss mikid vel þénad. Vér meigum ecki sleppa neinu hentugu tækifæri, sem oss géfst, til ad vekja nytsamligar hugleidíngar; og þegar einhvör gudhræddur vinur, medal þeirra samankomnu, fer ad hefja máls á einhvörju uppbyggiligu, ber oss ad leitast vid ad styda hann þar til, sem best vér gétum. Þegar oss géfst nú ecki færi til ad láta allt samtalid höndla um andlig efni, skulum vér þó snúa því, ef möguligt er, einhvörnveginn, á þá leid. Vér skulum ogsvo

gæta vel ad sinnislagi þeirra og skilníngi, sem nálægir eru, til þess ad vér, óformerkt, gétum komid þeim til ad tala um þad sem þeir best skilja, því þad er efalaust gédfeldast þeim, en gagnligast oss. Og þegar vér hættum ad tala, er þad ecki afvegis, ad vér heimugliga andvarpum til Guds, ad hann vilji adstoda oss og vini vora, med nád sinni, og hjálpa oss til ad efla hvor annars velferd, til þess, ad allt hvad vér tolum edur gjorum, bædi sæmi vel skynsamri manneskju, og sambjódi kristins manns hugarfari og hegdun.

§. 19. Nú vil eg framvegis géfa lesaranum ávísun um, hvorsu hann skuli daginn gudrækliga enda, og vil eg innilykja þad í tveimur atridum ad eins: nefnil. fyrst um þann máta, hvorsu vér vora heimugliga kvoldandakt laga skulum, sem nockud odruvísi verdur ad vera, enn vor morgunandakt var, í sumu tilliti.

Þessvegna er þad rád mitt, ad madur lesi fyrst nockud í Biblíunni, yfirvegi þad vel, og lagi svo bæn sína þar eptir, einsog ádur er sagt. Þar á eptir lesi madur einn Davíds sálm, edur og sýngi einhvorn annan gódan sálm. Ad því búnu skal hann taka til ad prófa sjálfan sig, er géfa mun manni tækifæri, ad úthella hjarta sínu, med lengri bæn fyrir Gudi, enn þeirri fyrri; hvorja madur þá lagar, eptir þeim kríngumstædum, sem honum lidinn dag mætt hafa. Þegar madur þá svoleidis audmýkir sig fyrir nádarinnar tróni, er hæst naudsýnligt, ad hann bidji Gud, ad fyrirgéfa sér allt þad góda sem hann um daginn forsómad hefir, svovel sem þad illa, sem hann drýgt hefir; ad madur vegsami hann fyrir alla þá nád sem hann honum, bædi í andliga og líkamligu tilliti, audsýnt hefir; ad hann feli sig á tilkomandi nóttu, undir hans guddómligu vernd; ad hann bidji ogsvo fyrir odrum, hvorra neyd hann á ad láta sér til hjarta gánga, sem sína eigin; einkum fyrir þeim vinum sínum, er hann næstlidinn dag haft hefir umgengni med. Já, þar géta margir adrir hlutir fyrirkomid bædi í vorri morgun- og kvold-

bæn, sem eg hér ecki áminst hefi; og þad var ei heidur ásetníngur minn, þad alltsaman upp ad telja.

§. 20. Adur enn eg vík frá þessu efni, vil eg minnast þess, hversu stór naudsýnlig skylda þad sé: ad prófa sjálfan sig; og eg er viss um, ad þad er víst ómaks verdt, ad eg tali ennú nockur ord þarum. Adferdin er annars svo audveld, ad ef vér adeins hofum þau réttu spursmál fyrir oss, efast eg ecki um, ad sérhver medalhygginn madur, getur, med Guds adstod, prófad sig eptir þeim, til hlýtar. Eg vil þessvegna meddeila lesaranum eptirfylgjandi spursmál, hvor eg vona hann dagliga vilji nota sér, og þó sjálfur breyta þeim til, eptir sem hans kríngumstædur útheimta. Til dæmis kann hann ad spyrja sig þannig: vaknadi eg í morgun upp med Gud í þaunkunum, og fann eg í hjarta mínu til inniligrar þacklátsemi, fyrir hans gædsku og miskun, medan eg sté af sæng? Hvornig framdi eg mína heimugligu morgunandakt? lofadi eg Gud og vegsamadi inniliga, og endurnýadi eg minn sáttmála vid hann af hjartans grunni, í kærleikanum, einsog mér bar? Hefi eg hagad mínum veraldligu sýslunum í dag reglulíga og med skynsemi? Hvornig hefi eg lesid Ritnínguna og adrar gódar bækur? Er nockud af því, sem eg las, mér í minni fast? Hefir þá hjarta mitt nockud betrast þarvid, edur las eg þad einúngis af vana og til dægra styttíngar? Hvornig hefi eg vidhaldid andakt minni umlidinn dag, hvert heldur opinberliga eda heima hjá mér? Hefi eg framkvæmt mínar embættisskyldur med ástundun og adfylgi? hefi eg gjort allt med reglu og á réttum tíma, svo sem fyrir Guds augliti? Hversu miklum tíma hefi eg í dag eydt, fyrr og seinna, til ónýtis? og hvad hefir flotid af þessari minni tímans eydslu? Med hvílíku sinnislagi og hvílíkri stillíngu og hófi, hefi eg í dag leitad minnar ánægju? Hefi eg ordid var vid Guds hønd og hans blessan í øllu því sem mér vidkomid hefir, bædi til líkama og sálar? hefi eg líka ordid hennar var, í því ógédfelda sem mér mætt hefir, hvert heldur af manna voldum edur odru? Og — hefi eg þá

tekid á móti medlætinu med þacklátsemi, en móti mótlætinu med þolinmædi? Hvorsu hefi eg í dag varad mig vid freistingum til synda, einkum þeim, sem í morgun gat fyrirfram séd og vidbúist? Hefi eg í hjarta minu fundid til audmjúks trúnadar trausts, til Guds nádar og adstodar? Hefi eg lifad í Guds Sonar trú, og metid Kristum í dag sem minn Kénnifødur og Drottinn, sem minn Frelsara og Fyrirbidjara, sem mína fyrirmind og forgaungumann? Hafa mínir þánkar í dag snúid sér til daudans og eylífdarinnar, og hefi eg álitid mig, sem lærisvein, sem á ad læra ad þeckja veginn til himins, og gét eg med Guds nád vænt þess, ad eg sé á honum réttum? Hefi eg í dag vakad yfir þaunkum mínum, einkum þá eg hefi í einrúmi verid? Hvada efni hefi eg í dag valid mér til ad þenkja um, og hvorja verkun hefir þad hjá mér haft? Hvornig hefi eg stjórnad tali minu, þegar eg verid hefi í samblendi annara? hefi eg ecki talad neitt í reidi, eckert óskynsamligt, ósæmiligt og gagnlaust? Hefir hjarta mitt í dag verid fullt af kærleika til Guds og til allra manna, og hefi eg leitast vid ad nota mér oll tækifæri, til ad gjora þad sem gott er, og efla þad? Med hvilikri gaumgæfni og notum hefi eg á þessu kvoldi lesid í Biblíunni? hvornig prófadi eg sjálfan mig á nærstlidna fyrra kvoldi? og hvor not hefi eg haft þess í dag? hefi eg betrad þær yfirsjónir sem eg þá fann hjá mér? med hvorju sinnislagi lagdi eg mig þá til svefns?

§. 21. Þessi eru þau spursmál til sjálfsprófunar, sem eg vildi meddeila lesaranum, hvor hann kann, eptir sínum kringumstædum, ad stytta edur leingja; ad eins, ad hann hafi sína andligu uppbyggíngu fyrir einasta augnamid. Þegar hann svoleidis hefir nú sinni kvoldandakt lokid, á hann ei annad eptir, enn leggja sig til hvíldar, og skal hann, svo lengi sem mogulígt er, bera sig ad halda sínum þaunkum vid andligar imindanir. Nú géfst manni staklig orsok, ad þenkja til Guds stóru gædsku, sem ennnú hefir bætt einum blessudum nádardeigi, vid alla þá undanfornu; já, hvorsu má madur þá ecki prísa Guds fodurligu

forsjón, sem unnt hefir oss svo margra líkamligra sem andligra velgjörnínga. Hann hefir gefid oss hentugt húsaskjól, þægilig hvílurúm, og haldid oss vid þvílíka líkamans heilsu, ad vér gétum nú lagt oss útaf med rósemi og glødu sinni, sem géfur oss von um ad fá ad njóta endurnærandа svefns; hvorrar endurnæríngar vér meigum þó ecki leita, eins og skynlausar skepnur, einúngis til ad ánægja náttúrunni; heldur eigum vér ad álíta hana, sem þvílíka naudþurft, er Skaparinn ákvardad hafi; ecki einúngis til ad minna oss á breiskleika vors líkama, heldur og til eins medals ad safna nýum kroptum, til ad framkvæma því betur skylduverk stéttar vorrar. Og á þann hátt gétur svo vel vor svefns sem vökutími, á vissan hátt, verid Gudi helgadur. Þegar vér erum nú rétt ad því komnir, ad kasta oss í svefnsins fáng, sem er bródir daudans, er þad tilhlýdiligt, ad vér af alvøru setjum oss fyrir sjónir, hvorn enda þad muni hafa fyrir øllum lifendum ad lyktum, og ad vér þessvegna endurnýum vora trú og ydrun svoleidis, sem vér álítum naudsýnligt, ef vér vissum, ad vér ættum aldrei ad uppvakna framar af vorum svefni til þessa lífs.

§. 22. Þessar eru nú reglur þær, sem eg, eptir beztu yfirvegun, meddeili þér, minn kæri lesari! til þess ad géta dagliga framgengid í sønnum Guds ótta; og eg er fullviss um, ad ef þú trúliga fylgir þeim, verdur lifnadur þinn, æ framar og framar Gudi þóknanligur, og þú honum og þínum Frelsara innlífadur og ødrum til eptirbreytnis uppbyggiligur, ad þú í sannleika mátt hlacka til eylífdarinnar, hvar þín dýrd verdur á sídan því fullkomnari, sem þánkamáti þinn og lifnadur var hér ordinn þínum Frelsara líkari: já, af eigin reynslu er eg þess fullviss, ad einn dagur svoleidis brúkadur, er ecki ad eins miklu betri, heldur og ánægjusamari samvizku manns, heldur enn morg ár, sem eydast í heims sýsli og sællífi, midt í því ad sønn gudrækni er þó forsómud. En nú vil eg ad endíngu géfa þér, minn vin! form eitt, til ad laga þína þánka og andvarpanir til Guds eptir, þegar

þú leggur þig til svefns, er svari til þeirra undangángandi andaktar æfinga:

Alvarlig umþeinkíng daudans, hvørja madur á sér fyrir hendur ad taka, þegar hann leggur sig til svefns.

O, mín sála! lít þú nú nockud fram i veginn fyrir þig, med athugasemi, og lærdu vísdóm af því ad hugleida þína endalykt. Nú er aptur einn af þessa þins daudliga lifs dogum horfinn og á enda kljádur, og allt ad einu, eins og eg hefi nú klædi mín af mér lagt, til ad leggja mig í mína sæng til hvildar; eins mun eg loksins afklædast þessum mínum líkama, svo hann verdi i grøfina til hvíldar nidurlagdur, og þessi endalykt míns lífs mun máské snarliga ad hondum koma. Liggi þá minn líkami þar; eg kæri mig ecki framar þar um, enn klædi þau, sem eg nú hefi af mér lagt. Eg hefi nockud annad, sem mér rídur miklu framar á um ad þenkja. Hugsa þú því um þad, sála mín, ad þegar daudinn kémur, þá hlýtur þú ad fara inní eylífdina og þá óssýniligu veroldu, og flytjast annadhvort til himnaríkis edur helvítis. Oll þín áhyggja og umsorgun, oll von og ótti, já oll þín sorg og gledi, sem þú hér í lífi haft hefir, er þá úti og á enda; og þar opnar sig fyrir augum þér verold sú, hvørrar innbyggendur eru einúngis andar. Og — æ hvørsu gétur þad skéd, ad hún snart opni sig! Hvør veit, hvørt þad ecki ské kunni, ádurenn sólin, med sínu ljósi, rennur upp aptur á nærsta degi? hvør veit, hvørt sól sú, er ad morgni skína skal, mun ljóma mér lífs fyrir augum, edur ad hún einúngis rennur upp yfir mér, sem tilfinníngarlausu líki, sem þá kann ad liggja hér, í stadinn þessa míns lifanda líkama? Eg veit ad minsta kosti, ad daudinn, sem burtu tekid hefir svo marga á þeirra blómliga alldurs skeidi, sem haft hafa stærri gáfur, stærri Gudsótta, og verid til stærri nota í heiminum enn eg, eg veit, segi eg, ad hann berliga gétur géfid mér þá advorin, ad eg ecki má reida mig uppá lengi ad lifa, og ad eg mætti miklu heldur furda mig yfir því, ad eg hér í heimi lifad hafi svo morg ár,

enn að eg þurfi að skélfast yfir því, að mér svo hastarliga burtu svipt verði. Og nú, mín sála, svaraðu nú, svo sem fyrir Guðs augliti: ertu reiðubúin að deya, ertu vel viðbúin? Er nockur sú synd eptir hjá þér, sem þú ei afneitað hafir, sem þú ecki hafir hjartanliga ángrast útaf og ydrast, og af alvöru afneitað, fyrir hverri þú þurfir hrædd að vera, eður finna til samvizku nögunar og skélfingar útaf, á þínum síðarsta burtferðar tíma, þegar þú stendur líka sem á barmi eylífðarinnar? Skélfstu þá strax yfir því, að þú finnur þig svo straffsseka, og snúðu þér undireins, á þessu augnabliki, til Guðs náðar og þíns Frelsara blóðs, svo þú gétir frelsast hér frá. En ef þinn stóri reikningskapur er vel af hendi leystur; ef þú allareiðu ert búinn inniliga að ángrast yfir og ydrast þinna margföldu misgjörða Guði á móti; ef þú með hreinskilni hefir, fyrir trúna, selt þig á hendur þess blessaða Jesú; og ef þú hefir þá ecki síðan rofið þann sáttmála við hann, með að snúa til þinna fyrri synda aptur að nýu, þá þarftu ecki að vera hræddur fyrir, að hugsa til dauðans, því það stendur ecki í hans valdi að skaða neina þá sálu, sem er Guði ofurgéfin, og sameinuð orðin þeim stóra heimsins Frelsara. Hann gétur að eins svipt þig þínum veraldligu ánægjusemdum; hann gétur eydt og að eingu gjört þín augnamið til að þéna öðrum hér á jörðunni; en, ó mín sál, hugsaðu til þess, að þar eru til himneskar ánægjusemdir, og lángt eðalligri þénustur, sem bíða þín hinumeiginn grafarinnar. Eylífliga veri nú Guðs nafn og Jesú Krists kærleiki lofaður og vegsamaður, fyrir þessar ánægjufullu, huggunarríku og glediligu íminðanir! Nú vil eg leggja mig með friði niður til svefns, frí frá öllum ótta fyrir því, sem í nótt kann yfir mig að falla, hvört heldur sem líf eður dauði mér ákvarðað er. Faðir, í þínar hendur fel eg minn anda, því þú hefir endurleyst mig Drottinn, þú sannarliga Guð! þarfyrir gét eg með gleði falið það þínum heilaga vilja á vald, hvört þú vilt láta mig uppvakna aptur í þessari, eður hinni annari veröldu. Amen!

## 20di Kapítuli.

### Alvarlig áminníng, til ad brúka vora daga á þvílíkan hátt, sem í næstundangéngnum kapítula hefir kénnt verid.

§. 1. Eg hefi í þeim fyrirfarandi kapítula géfid ávísun um nockud þad, sem eg er hræddur um ad sumir af mínum lesurum álíti of torveldar reglur, svo þá bresti hug til ad reyna til, ad laga sig eptir þeim. Og sannarliga hefir þvílíkur lifnadarmáti í mørgu tilliti svo mikla yfirburdi yfir almennan lifnad kristinna, ad eg er hræddur um ad sumir, sem þó kristnir mega kallast, hugsi med sér, ad þessar ávísanir, — hvørsu mikla forsjálni sem eg hefi þó brúkad, í ad samansetja þær — séu uppskrúfadar á þarflausliga háa troppu, og þessvegna allt offstrángar. En eg er sannfærdur um, ad þau kristiligu trúarbrøgd tapa miklu af sínu áliti og heidri, af því ad játendur þeirra eru allt of fast, í sínum hjørtum, áhángandi lítilvægum hlutum, svo þeir gjøra sér ecki svo háa og stóra þánka um þad háleita og heilstand, í hvørt þeir komnir eru, einsog trúarbragdanna náttúru og edli sambýdur, og sjálft Guds ord útkrefur. Eg er øldúngis sannfærdur um, ad þessir talshættir Ritníngarinnar: "ad halda sér á hvørjum degi í ótta Drottins" (Ordskv. 23, 17); en þó einkum og yfir adra fram, þessi: "elska skaltu Drottinn Gud þinn af øllu hjarta, allri sálu, af øllu hugskoti og øllum þínum kréptum" (Marc. 12, 30), útkrefur, ef ei allar þær kríngumstædur, sem eg tiltekid hefi, þá, ad minsta kosti, þá veruligustu parta þeirra, og þad ad svo miklu leiti sem vor skynsemi, tími og tækifæri tekur. Og eg gét ecki annad hugsad, enn ad margir gætu notad sér betur tvennt þad sídara, nefniliga, tímann og tækifærin, og undireins reynt til ad forbetra skynsemi sína, ef þeir, í tíma, vildu bera meiri umsorgun fyrir því ad drottna yfir sjálfum sér. Ef þeir sleppa vildu øllum hégómligum og naudsynjalausum lystisemdum, einkum þvílíkum sem ei géta ánægt nema þeim lakasta parti vorrar náttúru; og ecki ad-

eins ræna oss lángt ypparligri ánægjusemdum, enn þær sjálfar eru, heldur máské steypa oss í þá stærstu ólucku.

Margar af þessum reglum mundu finnast audveldar eptir ad breyta, ef menn vildu læra ad íhuga, hvad tíminn dýrmætur er, og vara sig vid, ad eyda honum ecki til naudsynjalauss svefns, sem marga gullvæga tíma dagsins ónýtir; á hverjum somu tímum ad morg Guds born ánægja sér med ad drecka af straumum lifanda vatns, þegar þau lesa Guds ord og yfirvega þad, midt í því ad hinir þeirra brædur sofa í sæng sinni, og eyda tímanum med ónýtum draumum, sem svo lángt er fyrir nedan ánægjusemdir skynsamrar manneskju, sem gledi sú, er madur finnur af sannri andakt, yfirstigur hátt allt jardneskt og stundligt eptirlæti.

§. 2. Eg veit vel ad manneskjurnar eru svo hverfullyndar og óstodugar ad þad er torsókt mjog ad halda vid lídi slíkri yfirdrottnun yfir þaunkum vorum, sem vér gjarnan vildum, og sá máti, er eg hefi rádid til, útkrefur. En dýrd Guds og vor eigin velferd er þó svo mjog undir því komin, ad eg vil bidja þig, minn lesari, med gaumgæfni, ad heyra mig, á medan eg tala vid þig um efni þetta; og ad þú af alvoru ransakir allar ástædur minar og rok, svo þú gétir umdæmt, hvort ad umhyggja sú og hegdan, sem eg hefi rádlagt þér, er í sér sjálfri skynsamlig og sanngjorn; og hvort hún ecki stórliga þéni til þess ad auka hjá þér huggan og gledi, og styrkja til ad vera sem nytsamligastur odrum í þessu lífi, og loksins gjora þig hughraustan á þinni dauda stundu; og sælu þína annars heims ad stærri.

§. 3. Láttu samvizku þína segja, hvort lifnadur sá, er eg ádur afmálad hefi, sé ecki í mesta máta bædi sannsýniligur og skynsamligur. Gættu aptur ad hans veruligu portum og yfirvegadu þá dyggiliga; og varadu þig ad skeyta eckert um, hvad þitt eigid hold og blód, edur heimsliga sinnadir menn, kunna því móti ad mæla. O íhuga þú, sem þig sjálfur kristinn kallar — og gleymdu því ecki midt undir yfirveganinni, ad þú ert Guds sképna og endurleystur med Kristi blódi, og segdu

síðan, hvert sáttmáli sá, sem þú stendur í fyrir Gudi, útkrefur ecki þvílíka kostgæfni og adburdi, sem eg hefi viljad skuldbinda þig til. Eda seg mér: ad svoframt þú lifad hefdir, eptir öllum þeim ávísunum sem eg hefi gefid þér; svoframt þú byrjad hefdir og endt hvern einasta dag, med heilögum þaunkum og umgengni med Gudi í bæn og ydrun; svoframt þú á hverjum degi hefdir sorgad fyrir ad nota þinn tíma sem best, Gudi til dýrdar; svoframt virdíng fyrir Gudi, umhugsan hans allstadar nálægdar, og vandlæti vegna hans dýrdar, hefdi fylgt med allri þinni Gudsþjónustu, öllu þínu erfidi og öllum þínum ánægjusemdum; svoframt gaumgæfni á Guds forsjón, árvekni mótl freistíngum, traust á Guds hjálp og adstod, athugasemi í ad stjórna þaunkum þínum í einrúmi og ad haga þínu tali vel í samblendi annara; já, eg vil ennnú bæta þessu vid: svoframt þú fylgt hefdir öllum áburgéfnum reglum, nema þar sem samvizka þín hefdi sagt þér, ad þú gjört gætir nockud annad, sem þú vissir fyrir víst ad Gudi væri þóknanligra, hvor tilfelli kunna endur og sinnum ad mæta í lífi manns; eg segi nú, ad svoframt þú allt þetta gjört hefdir, ecki einn dag adeins, edur eina viku, heldur alla þína lífstíd, hvort hún laung edur stutt verid hefdi; og svoframt þér kæmi nú þessi þinn lifnadarmáti í hug, vid endalok lífs þíns, medan þú ennnú værir þó med fullu rádi. Seg mér, hugsar þú ad þetta mundi knýa þig til ad segja: æ, eg hefi gjört mér allt ofmikid ómak fyrir þeirri sonnu Gudhrædslu. Minn Skapari hefir ecki unnid til alls þessa af mér. Minni ástundan, hreinskilni og vandlæti, enn þetta, hefdi verid nóg til ad endurgjalda þad blód, sem úthellt var mér til endurlausnar. Nockur partur míns hjarta, míns tíma og míns erfidis, hefdi gétad nægt til ad þjóna honum, sem géfid hefir mér alla mína krapta, frelsad mig frá allri þeirri spillíngu, sem hefdi gétad pínt mig og plágad eylífliga, og þaradauki vill, ad lyktum, upphéfja mig til óendanligrar æru og farsældar. Meinar þú nú, ad þú med nockurri djörfúngu gétir sagt þetta fyrir Gudi? En svoframt þú gétur þad ecki, þá vitnar sannliga samvizka þín, ad

allt þad sem eg ádur hefi rádid þér til — þó ecki undantekníngarlaust — er bædi sannsýni og skynsemi samkvæmt, og ad skylda þín og þacklátsemi vid Gud útheimtir þad; hvaraf flýtur, ad svo opt þú af ásettu vanrækir þad, dregur þú sek yfir sálu þína, reitir Gud til reidi, og gjörir þig ómakligan ad bera nafn kristins manns.

§. 4. Eg bid þig, minn lesari! ad þú enn framar hugleida viljir, hvert hegdan sú, sem eg útmálad hefi, muni ecki þéna til ad efla vora sönnu rósemi og gledi í þessu lífi? Þenk um þad med þér, í hvörju sú sanna farsæld fólgin er. Er hún falin í því ad vera lángt frá Gudi, edur nálægt hönum? Vissuliga gétur þú ecki kristinn verid, enda ecki skynsöm manneskja, ef þú efast um, ad í því sé yndi og farsæld falin, ad vera sameinadur Gudi, uppsprettu alls góds; og sé í þessu yndi fólgid, þá njóta þeir þess mest, sem ætíd og allstadar hafa sér Gud fyrir augum. Þú gétur ecki annars enn vitad í þinni eigin samvizku, ad þetta sama er þad, í hvörju sú himneska farsæld falin er; og þessvegna, ad því meira sem manneskjan nýtur af þessu hér á jördu, þess meira nýtur hún af þeirri himnesku gledi í sálu sinni. Ef þú reynt hefir nockud af sönnum Guds ótta í þér, jafnvel þó ecki verid hefdi nema fáa mánudi edur vikur, þá hlýtur þú samt af eigin raun ad géta um þad dæmt, hvörjir dagar þér hafi yndisligastir ordid, alla þína lífstíd. Hafa þad ecki þeir verid, á hvörjum þú allrabest hefir lifad eptir líkum reglum, sem eg ádur géfid hefi, og haldid hjarta þínu sem stödugast vid Gud og andliga hluti, og þarmed yfirunnid þad vonda? Þvíngun sú, sem þú í mörgum slíkum tilfellum hefir þurft á þig ad leggja til ad strída á móti þínum syndugu tilhneigíngum, kann ad vísu ad hafa verid þér ógédfeld, en hún hefir sannliga endurgoldist þér ríkugliga, og mun enn framar, med þeirri ánægju, sem þú finna munt í þér, út af því, ad þú í samvizku þinni ert sannfærdur um, ad þú gétur drottnad yfir þínum þaunkum, girndum og verkum, sem er lángt ypparligra, enn allur sá myndugleiki, sem þú kannt yfir ödrum ad hafa.

§. 5. Somuleidis vil eg bidja þig ad athuga, ad hve miklu leiti þvílík hegdan, sem þessi, fál efli annara manna farsæld. Þad er audséd, ad þad gétur stórum verid. Þú munt þá finna hjá þér, ad hjarta þitt er altíd reidubúid ad nota sér med gledi sérhvört tækifæri, til ad gjöra ödrum gott. Þú munt þá leggja alla ástundan á ad haga svo efnum þínum, ad eitt gódverk þitt bjódi ödru heim á eptir sig, og í þessu mun þér dagliga eins framfara, sem hinum óedlari skepnum, í ad láta í té medöl þau, er þéna mönnum til næríngar og ánægju; ellegar sem jördunni, er ætíd framber gróda sinn med nýum og nýum ávöxtum. Og jafnvel þó manneskjurnar, eptir þeirra spillta edli, séu hrædiliga hneigdar til ad fylgja framar vondum dæmum enn gódum, gétur madur þó gjört sér þá von, ad þegar þú lætur svoleidis þitt ljós skína fyrir ödrum, munu þar finnast nockrir, sem, þegar þeir sjá þín gódverk, vilji kappkosta ad breyta eptir þeim, og vegsama vorn Födur, sem er á himnum (Matth. 5, 16). Svoleidis kanni þú, fyrir Guds nád, verda hlutlakandi umbuna, ecki adeins fyrir gódverk þau þú sjálfur gjört hefir, heldur og þau, sem þú ollandi verid hefir ad adrir gjört hafa, upphvattir af þínu dæmi; og einkis auga, nema þess alltsjáanda Guds, gétur séd hve lángsamliga og hve vídt út, ad þeir blessudu ávextir þaraf kunna ad breida sig. Slíkt mun í hvört sinn, sem þú var verdur slíkra ávaxta, olla stakligrar og edalligustu gledi hjarta þínu, sem verdur skærasta eptirmind þeirrar gledi, sem sá allraheilagasti Gud hefir af því, ad sjá og gjöra sképnur sínar luckuligar.

§. 6. Satt er þad ad vísu, ad midt í öllum þessum gudligu og velmeintu atburdum, kunna manni ad mæta ýmisligar þrengíngar og mótgángur, sem, á einn edur annan hátt, géta hindrad manns góda áform og atburdi, en þvílíkt böl mun manni veita því hægra ad þola, sem hjartad er ádur róligra ordid í Gudi, og vitnisburdur samvizkunnar, fyrir Gudi og mönnum, er betri og vísari. Hvílíks eptirlætis mun þad ei olla þér, þegar þú litur til baka og yfirvegar þína lidna tíd, og hugsar til þess,

ad þú ecki einúngis hafir af hjarta audmýkt þig sjálfur fyrir Gudi, vegna þeirra þinna ádur framinna misgjørda, sem þinn uppáfallni kroß rekur þig nú til ad minnast; heldur og gétur hugsad til þeß, ad þú sýnt hafir rok til, ad audmýkt sú hafi hreinskilin verid, med betrun þins lifnadar, svovel í tilliti þeß ad fordast þad vonda og strída á móti því, sem med hreinskilnum kappsmunum ad gjøra þad góda. Og sé þín ypparsta ástundan og yndi í lifnadi þínum, ad hafa umgengni med Gudi og ad gjøra þínum náúnga gott, muntu finna þúsund tækifæri ad halda vid lídi hjá þér róligu og ánægdu sinni. Já, þú munt enda, midt í øllum þeim ángursemdum, sem annars gjøra oß óhæfa til útvortis gledi nota, finna þvílíka sinnis rósemi og føgnud í þér, ad ef nockur vildi þá fara ad tala vid þig um líkamligt eptirlæti og skémtanir, mundir þú verda svo órór þaryfir, einsog þér gjørd væri blygdunarlítil minkun og vansi.

§. 7. Loksíns mun daudinn ad dyrum berja, hvørn svo margar þúsuudir þeirra, er lifad hafa gudligu liferni, og margar milliónir hinna, sem þad þvert á móti vanrækt hafa, eru búnar allareidu ad útstanda. Lát nú samvizku þína dæma, hvørt þar hafi medal þeßara milliona einn einasti sá verid, sem á sinni daudastundu hafi haft orsøk til ad gledja sig yfir þeßari vanrækt; eda hvørt nockur medal þeirra fullkomnustu kristinna hafi barmad sér yfir því, ad hjartalag sitt og lifnadur hafi á allt ofkrekan hátt verid Gudi ofurgéfinn? Lát samvizku þína dæma, hvørt nockur æskt hafi, ad partur þeß tíma, sem þeir til Gudsótta brúkad hafa, yrdi þeim nú aptur géfinn, til ad géta, betur enn ádur, hegdad sér eptir heiminum, med ad sockva sér nidur í hans bilifi, audlegd og metord? Og ef sjálfur þú lægir fyrir daudanum, og ef einn þinna kærustu vina, edur barna, stædi hjá þér, mundir þú þá — svoframt rit þetta, edur næstfyrirfarandi kapituli skyldi koma þér í hug — mundir þú þá, segi eg, vilja ráda barni þínu edur vini frá, ad skeyta um ad laga sig eptir þeim reglum, sem eg þar framsettar hefi? Þvílíkt

spursmál sýnist máské þarflaust, þar audvitad sé, hvort svarid mundi verda. Nú, svo bid eg þig þá, ad þú læra viljir, hvörsu þú lifa skalt, med ad yfirvega, hvörsu þú æskir þér dáid ad géta; og hvílíkum lifnadi þú kýs þér ad géta þeinkt til, ad þú lifad hafir, þegar þú loks átt vid heiminn ad skilja og strax mæta fyrir Guds dómi. Hugsa um þetta af alvöru; og ef ské kynni ad daudinn í hasti yfirfélli þig, svo þú valla hefdir einnar stundar edur minútu frest til ad undirbúa þig, hvört mundir þú þá æskja þér, ad þinn sídasti lífsdagur hefdi svoleidis verid allur framleiddur, sem eg hér ad framan sagt hefi, edur þvert á móti? Víst mundir þú vilja kjósa fyrir þig, ad Gud findi þig heldur fullan af þvílíkum þaunkum og athöfnum, sem honum gédfeldastir eru, enn af gagnstædum. Mundi ecki vegurinn til eylífdarinnar og þín burtför úr heimi þessum í annan, verda þér audveldari og rólegri hefdir þú vitad þig ad undanförnu lifad hafa gudligu liferni, líku því eg útmálad hefi. Edur á adra sídu, svosramt daudinn skyldi med lengri addraganda nálægja sig þér, mundi þad þá ecki gjöra sóttarsæng þína rétt sem mýkri og hægri, enn ella, ef samvizka þín gæti þá med sanni borid, ad þú lifad hefdir gudligum, heilögum og uppbyggiligum lifnadi, ad undanförnu? Þad er ad vísu dagsatt: ad ecki máttu í trausti þessara hluta deya, edur reida þig uppá þá, sem forþénustu nockra. Gud forbjódi þad! nei, þú hlýtur lángt heldur ad finna med ángri til þinna margföldu yfirsjóna fyrir Gudi, og kasta þér nidur fyrir Kristi fótum, til þess ad hann skrýdi þig sínu réttlæti og þvoi þig í sínu blódi, og ad þú megir, svo útlítandi, mæta fyrir Guds augliti. Sérhvörn gódan vilja, sem þú fundid hefir í hjarta þér, og sérhvört gódverk, sem þú hefir afkastad, þetta hlýtur þú, allt til þíns sídasta andartaks, einúngis ad þacka Guds nád, sem þetta med þér verkad hafi. En — seg mér — mundi þad þá ecki olla þér stærri gledi, enn tíu þúsund veraldir væru verdar, ef þú í sannleika findir þá med þér, ad nád sú, sem Gud hefdi veitt þér, hefdi ecki verid til ónýtis? (1 Cor. 15, 10); heldur ad þú med audmýkt, þacklæti og kær-

leika hefdir leitast vid ad gjöra þinn himneska Födur hér á jördunni dýrdligan; og ad þú svoleidis — ad vísu ecki svo fullkomliga sem þú æskt hefdir, en þó í vísari troppu — fullkomnad hefdir þad verk, sem hann falid hefdi þér á hendur ad gjöra (Jóh. 17, 4); og ad þú svoleidis í mörg ár hefdir líka sem búid vid himnaríkis dyr, og leitast vid ad laga hjarta þitt og lifnad, eptir þess innbyggjara sinnislagi og lifnadar-máta.

§. 8. Leyf mér nú enn framar og loksins, minn vin! ad bidja þig: yfirvega þú, hvad þú um þessa hluti þenkja munt, þegar þú kémur inní dýrdarinnar ríki, svoframt Guds nád (sem eg af hjarta bid) leidir þig þángad. Mun ecki vidtaka þín verda þar eptir því, sem þú hér í lífi sýnt hefir meiri áhyggju edur vanrækt í þeim hlutum, sem þér borid hefir hér ad æfa og framkvæma? Mun þeim blessada Jesú — sem þar útbýta mun kórónum og trónum — vera þad jafngilt, hvort þú þjónad hefir honum hér í lífi med stærstu kappsmunum edur kaldsinni? Sannarliga mættir þú óska, ad þér géfinn verdi ríkugligur inngángur í vors **Drottins** og **Frelsara Jesú Kristí** eylífa ríki (2 Pét. 1, 11); og hvad gétur því óhultar til vegar komid, enn þad, ad *vera alltíd ýfirfljótanligur í verki Drottins*? (2 Cor. 15, 58.) Þad gétur ecki skéd, ad þú hafir svo lága þánka um þad dýrdarliga ástand, ad þú gétir ímyndad þér, ad þú, þegar þar ert kominn, munir med heimugligri óánægju sjá eptir því, ad þú í hjarta þínu hafir, í þessu lífi, virdt of mikils þann erfdahluta, sem þér hlotnast hefir, og ad þú hafir sókt eptir honum med allt of miklum kappsmunum, áhyggju og eptirþánka. Hvertámóti hefir þú stærstu orsök til ad halda, ad ef nockur hlutur annars gæti í himnaríki uppvakid hjá þér sorg og misánægju, þá sé þad þad, ad þú hér í lífi, midt á milli svo margra hrærandi orsaka, og allareidu tilfinnanligra nota, hafir ecki lagt meiri ástundun á, ad ödlast þad ómetanliga sælu hnoss, enn þú gjört hafir.

§. 9. En nú vil eg ecki eyda fleiri ordum til ad sanna þetta berfsýniliga efni, og þessvegna enda kapítula þennan med

ad géta þess, ad, ef sá er nockur, sem af ásettu innbirlar sér, ad ófullkomin mæling sannarligs Gudsótta sé honum nóg, og álitur stærri æfíngu og framtaksfemi þar í, hvílikan hlut, sem hann hvorki óskar né girnist, edur sem hann máske hefir heimugliga ásett sér, ad hann ecki ætli eptir ad sækjast, þá er slíkt eitt af þeim allraólucluligustu en þó vissustu kénnimerkjum, sem vér oss ímindad fáum, til þess, ad hann sé aldúngis framandi, jafnvel í þeim fyrstu grundvallar reglum, sem heyra til sannrar gudhrædslu.

**Bæn, sem á vid ástand þeirrar sálar, sem inniliga æskir ad ná þvílíku sinnislagi og lifnadi, sem í þeim 19da kap. var afmáladur.**

Æ, blessadi Gud! eg gét ecki lengur móti mælt þvílíkum kroptugum sannfæríngum. O ad eg, framar enn nockrusinni ádur, fundid gæti til þeirra vidvarandi verkunar! O, þú ert hin stóra uppspretta bædi vorrar veru og vorrar farsældar. Og eins og mín vera hefir uppruna sinn frá þér, svo flýtur líka öll mín farsæld frá þér einúngis. Því nálægri sem eg' því er þér, því hreinni og ágætari eru straumar þeirrar sælu sem eg nýt; því hjá þér er lifsins uppspretta, og í þínu ljósi sjáum vér ljósid. Þad stadfasta adalaugnamid vonar minnar, er ad lifa hjá þér eylífliga. Æ géf mér nú lítinn forsmeck þessa sælurika eptirlætis! Eg bid þig, unn mér ad reyna farsæld þess manns, sem óttast Drottinn, og sem mikla lyst hefir til hans bodorda. Tilreid hjarta mitt fyrir nád þína, svo eg fái haldid mér hvern dag í Drottins ótta! Géf mér ad þánkar mínir, undireins og eg vakna á morgnana, géti snúid sér til þín; og upplyptu, ó Drottinn! ásamt þeim fyrstu geislum, sem mér í augu skína, ljósi þíns andlitis yfir mig? Þegar kraptar mínir aptur endurnærdir eru, eptir þad þeir í svefninum verid hafa rétt sem daudir, þá láttu, minn Gud! mína fyrstu fyrirtekt vera ad ofurgéfa mig þér. Þú sem géfur mér ljósid, og sem veitir mér hvörn morgun eins og nýtt líf og nýa skynsemi, tilreiddu

hjarta mitt til ad úthella sér fyrir þér, med sonarligri audmýkt, djörfúngu og kærleika. O ad eg gæti heyrt þig, minn Guð, eins og eg óska, þú viljir mig heyra. Æ ad eg fengi lesid þitt ord med gaumgæfni og ánægju, og ad mín sála gæti lagad sig þar eptir, og ad eg fengi geymt þad í mínu hjarta, svo eg syndgadi ecki móti þér! Æ látu mig af þeim kroptugu ástædum, sem ord þitt brýnir fyrir mér, verda svo upptendradan, ad eg á hvörjum morgni, í nafni þíns elskuliga Sonar Jesú Krists, offurselji mig þér ad nýu, og lát mig, fyrir hans sakir, odlast nýa krapta og nýa hjálp af þínum blessada heil. Anda, sem upplifgad fái mína máttþrota sálu; og þegar eg svoleidis undirbúinn er, þá leid þú mig, ó Drottinn! sjálfur þér vid hönd, til ad æfa mín skylduverk, og til ad mæta öllu því, er fyrir mig kann ad koma, á hvörjum degi! Lát mig standa í mínu kalli, sem eg er í settur, og ecki vera latan, þar sem á ydni er þörf, heldur lát mig vera brennandi í anda, til ad þjóna þér! Lát mig þeckja, hvörsu dýrmætur tíminn er, og lát mig ætíd, med stærstu forsjálni, nota mér hann, til ad æfa þau skylduverk, sem þú hefir skipad mér, hvörsu lítilvæg, ellegar mædusöm, sem þau kynnu mér ad sýnast! O Drottinn! lát mig framkvæma mitt líkamliga erfidi þér til dýrdar! já, til þinnar dýrdar lát mig leita minnar sinnis ánægju! Lát dýrd þína, hvort heldur eg et eda dreck, eda hvad sem eg adhefst, vera mitt einasta augnamid, og unn mér sídan ad géta því nád! og veit, ad sérhvör endurnæring, sérhvör frítími, þéni mér til, ad gjora mig þess færari til ad þjóna þér, med dugnadi og djörfúngu! Lát mín augu géfa grant gætur ad þeim velgjörníngum, sem frá þér koma, og lát mig, med þacklátsemi, finna, ad þín hönd meddeilir mér þeim, til þess ad eg finni þess sætari ylman og smeck í þeim öllum! og þegar þjáníngar yfir mig falla, sem eg í þvílíkri veröldu, sem þessi er, má sifeldt vidbúast, þá lát mig hugsa til þess, ad þær koma einúngis frá þér, og lát mig vera fullkomliga ánægdan yfir þeim, sökum þess ad eg hafi þá vissu trú, ad þinn sami kærleiki, sem veitir oss vort dagligt braud, ákvardar

líka svo vorn daglíga kross, hvern eg hlýt ad læra ad taka uppá mig, til þess eg géti eptirfylgt mínum dýrmæta Frelsara med þvílíku sinnislagi, er hann sjálfur sýndi, þegar hann fyrir mínar sakir átti ad stíga uppá Golgata fjall; segjandi sem hann: skal eg ecki drecka þann kaleik, sem minn Fadir hefir mér géfid? Og — þegar eg rata í freistingar, þá lát mig segja: ó Drottinn, frelsa mig frá illu! Æ eg bid þig, lát mig finna til míns vanmættis, svo mitt hjarta géti upplypt sér til þín, til ad ødlast frá þér naudsýnliga hjálp og adstod! Láttu mig æskja og umsorgun fyrir bera, þegar eg er í samkvæmi med ødrum, ad eg géti gjørt gott og eptirfylgt því, svo mjøg sem møguligt er! Lát mig jafnan ástunda ad svara til þess mikilvæga augnamids, hvers vegna eg lifi; nefniliga til ad heidra þig, og adstoda til annara sonnu upplýsíngar og lucku í heiminum? Og þegar eg er einsamall, þá lát mig muna til þess, ad þú minn himneski Fadir, er þó hjá mér! Lát mig skémta mér vid þína nálægd, og finna hennar lifgandi krapt í sálu minni, sem upptendrad fái hjá mér inniliga laungun eptir, ad þenkja og gjøra allt hvad eg adhefst, sem fyrir þinu augliti! Lát mig svoleidis eyda mínum æfidøgum, og alltíd enda hvern þeirra í þínum ótta, og med þeirri fullvissu, ad þú sért mér nálægur í nád þinni. Kom þú til med mér, ó Drottinn! þegar eg er í einrúmi ad kvøldi dags! Lát mig útvelja þá hentugustu tíd þar til! Lát mig kostgæfiliga gæta ad því, hvad eg les og bid; og þegar eg fer ad ransaka hegdun mína, þá láttu mig gjøra þad med hreinskilni! Lát einga sjálfselsku fegra hana med følskum litum; heldur lát mig dæma sjálfan mig, sem sá, er býst vid af þér sídar meir dæmdur ad verda; og óskar hjartanliga, ad ødlast þá nádugan dóm, af þér, sem ransakar hjørtun, og ecki gleymir mínum athøfnum! Lát mínar bænir dagliga fyrir þig koma, sem reykelsis offur, og lát upplyptíngu minna handa vera sem kvøld-offur! Lát mig svo ofurgéfa minnar sálar og líkams krapta, til ad hvílast í sætri kyrd og rósemi, fullvissan um, ad eg brúkad hafi þann og þann dag þér til dýrdar; svo eg hafi þá gledi-

ríku sannfæríngu, að eg sé þér þóknanligur í Jesú Kristó mínum Herra, og í auðmýkt megi vona til náðar þinnar sökum hans; hvört sem mínir dagar hér á jörðu verða skulu margir eður fáir. Skuli þá dauðinn — þegar hann kémur — koma með laungum aðdraganda, æ lát hann þá fyrirhitta mig vel viðbúinn; en komi hann hastarliga yfir mig, þá lát minn síðasta æfidag og stundir hafa eptir framanskrifuðum reglum brúkaðar verið, til þess, að mín reisa héðan frá þessa lífs þénustum, til þúsund eðalligri athafna í eylífðinni, verði mér yndæl og auðveld! Þessa beiði eg þig, heil. Faðir! sakir hans, hver meðan hann hér á jörðu var, var hin allraðæiligasta fyrirmind og dæmi allslags dygðar og náðar, og sem nú lifir og ríkir ásamt þér, og gétur fullkomliga gjört alla þá sáluhólpna, sem, fyrir hans fulltíngi, til þín koma. Já til hans sný eg mér og flý, eptir að eg gjört hefi allt hvað eg best megna, og auðmjúkliga viðurkénni, að eg er ónýtur þjón. Honum sé — ásamt þér — dýrð frá eylífð til eylífðar! Amen!

---

## 21ti Kapítuli.

**Aðvörun móti ýmsum freistíngum, af hvörjum, sá nýliga umvendtur er, gétur afvegaleiddur orðið, frá þeim lifnaðarhætti, sem áður er fyrir sjónir settur.**

§. 1. Þær afmálanir og upporfanir, sem eg, kæri lesari! hér að framan gjört hefi, í tilliti þeirrar ánægju og ábata, sem af rétt-gudligu líferni og samkvæmi með Guði flotið gétur, vona eg, hafi vakið hjá þér ásetníng þann, að gjöra tilraun til, að fá þar hlutdeild í! En, þegar eg grant hugsa um þessa efnis náttúru og ásigkomulag, þá blasir það bert fyrir augum, að þú, auk þeirrar almenniligu mótstöðu, er eg áður hefi gétið um, sem í fyrstu byrjun guðligs lifnaðarmáta mætir þér — og þó þú gétir þá sömu lukkuliga yfirunnið — muntu vár verða margra ýmisligra hluta, sem hindra vilja þig frá sönnum Guðs

ótta, og margar hindranir munu dagliga koma í veg fyrir þig, þegar þú af alvoru tekur til að æfa sanngudligt og dygdugt liferni. Og jafnvel þó það géti skéð, að þú oruggliga hrakið fáir þá fyrstaslags óvini frá þér, þá munu þeir þó alltíð ráðast að þér að nýu, svo þú hlýtur að áfram halda, í sifeldum straungum bardaga móti þeim. Leyfðu mér nú þessvegna, að eg sérílagi aðvari þig móti þeim skæðustu þessara óvina. Eru þeir þá þessir: fyrst dofinleiki sinnisins; þarnæst ofmikil fýsn til sansaligs eptirlætis, til fáfengiligs og þarflauss selskapar og til alltof mikillrar heimsligrar umsorgunar og áhyggju. Sérhvað þessara gétur dregið manneskjur — einkum þá úngu, sem eg nú einkanliga tilmiða — í snorur hrosunarinnar.

§. 2. Það fyrsta, sem eg þessvegna vil biðja þig að varast, er dofi og tilfinníngarleysi sinnisins. Elska til makinda, gétur undir ýmisligum afbotunum svo auðvelt smeigt sér inn í vor hjortu, að vér géfum henni rúm, þó grófari synda freistíngar vinni ecki svig á oss. Jafnvel kann forsjálum og frómum monnum sýnast ei mikið í það varið, að eyða litlum tíma til ónýtis, en slíkt kann þó opt að olla stórs skaða á eptir, þar það tælir þá opt til að sóa nockru af þeim tíma, sem regluliga á að brúkast til þeirra andaktar, og til að skjóta þeim athofnum á frest, frá einum degi til annars, sem strax ættu að gjorast, svo þær loksins vanrækjast með ollu. Hvorsvegna að þjónusta sú, sem þeir hér í lífi afkasta áttu, verður að minsta kosti minni enn ella, og þessvegna umbunin í eylífðinni líka svo minni. Eg vil ecki tala um það, hvorsu slíkt er vant að steypa sálunni í nýar freistíngar, í hvorjum hún því heldur hrasa kann, sem hún er dofnari og ydjulausari. Vakta þig þessvegna, vinur! undireins og þú merkir, að nockuð þesshattar nálægir sig þér. Hugsa til þess, að sála mannsins er einslags verkandi vera, og hlýtur því að hafa ánægju af, að vera í sífeldri hræríngu. Gyrð þessvegna þínar hugskots lendar! (1 Pét. 1, 13.) Leitastu við, að hafa alltíð nockuð það að ydja sem gott er. Hirdtu vel þann tíma, sem þú ákvarðað hefir þér, til að birtast

fyrir Gudi. Birztu fyrir honum snemma morguns, og seg ecki med þeim lata: eg vil ennnú lítid eitt sofa, og dotta nockud (Ordskv. 6, 10). Þín eigin skynsemi og forsjálni gétur sagt þér, hvörsu mikilli tíd þú eyda mátt, til ad slá þér í selskap og adrar lystisemdir, en þá sú tíd er úti — og ef þar koma þá ecki nein óforvarandis og mikilvæg tilfelli í veiginn — þá stattu strax upp, og gakk í burtu. Skil þig vid selskapinn og þína allrakærustu vini, og far til þinna embættis sýslana, hvört sem þær eru á morkinni úti, í þinni krambúd, þinni verksmidju edur bókydkana stofu. Því undireins og vér breytum móti því, sem samvizkan heimugliga segir oss, ad best væri fyrir oss á þeim edur þeim tíma ad vinna, jafnvel þad værl ei nema hálf stund, sem vér létum þá til ónýtis eydast, þá værum vér þó í vissri troppu straffs makligir, og kynnum þar á ofan ad komast á þann vana, sem dragi lángt verri afleidslur eptir sér. Yfirvega því, hvad fyrir skyldur þú hefir ad æfa, og ber umhyggju fyrir, ad þú gétir framkvæmt þær á réttum tíma. Set þér vissar reglur og ræd í þeirra æfingu, og fylg svo þeim sömu, þad besta þú gétur, nema svo til beri, ad eitt edur annad ófyrirséd tilfelli mæti þér, af hvörju þú álykta kunnir, ad skylda þín sé, ad hafast nockud annad ad, sem víst kann vid ad bera. En vilji þad til, ad þú þessvegna vanrækja þurfir nockud þad, sem þú ásettir þér í dag ad gjöra, þá gjör þad, ef þér møguligt er, á morgun, og lát þad gánga undan øllu ødru, nema þú álykta kunnir fyrir víst, ad þú framkvæmir annad, ecki ad eins af því, ad þad er ánægjuligra, heldur af því þad er meir áridandi. Hugsa þú og sífelt þarhjá til þess, ad sérhvörjum sannkristnum manni ber alltíd ad hafa þad augnamid, ad hann vid þvílík tækifæri breyti svoleidis, eins og hann vildi í Guds augliti breytt hafa.

§. 3. Vakta þú þig, þarnæst, vid allt of stórri elsku til sanfaligs eptirlætis, þar slíkt mun stórkostliga hindra þig í þeim framgángi Gudhrædslunnar, sem eg áminni þig til. Þú veizt þad vel, ad sjálfur Kristur hefir sagt oss: ad hvør sem vilji

vera sinn lærisveinn, hann skuli afneita sjálfum sér, taka sinn kross á sig dagliga, og fylgja sér eptir (Lúc. 9, 23). Kristur, Sonur Guds, sem er Skapari og Erfingi allra hluta, gédjadist ecki sjálfum sér (Róm. 15, 3), heldur undirkastadi sig neyd og þjáníngum, já, sumar þær leid hann á hæstu troppu, fyrir sakir Guds dýrdar og mannanna sáluhjálpar. Á þessum vegi hljótum vér ad eptirfylgja honum; og þar vér ecki vitum, hve brádliga vér kunnum ad verda kalladir til ad mótistanda, jafnvel allt til blódsins, til ad strída á móti syndinni (Ebr. 12, 4), þá er þad vissuliga best, ad vér venjum oss vid slíkar lídanir, sem vér moguliga kynnum verda kalladir til ad þola, jafnvel á strángasta hátt. Nædisfullur makinda lifnadur gétur gjort oss freistíngarnar enn ordugri og þýngri, sem þó hægliga kynni yfirvinnast af þeim, sem vanid hefdi sig vid ad líða íllt, sem gódur Jesú Krists strídsmadur (2 Tím. 2, 3). Líka svo gétur slíkur lifnadarmáti ollad því, ad madur festir ofmjog hjarta sitt vid heim þennan, svo madur naudugur vill vid hann skilja; hvad illa sæmir þeim, sem eru géstir og framandi hér á jørdu, og sem brádliga vænta, ad verda kalladir heim til síns sanna Fødurlands, eptir hvørju þeir játa sig ad leita (Ebr. 11, 13. 16). Hérvid bætist ennnú þetta, ad þad sem heimurinn kallar yndisligan lifnad, er optastnær kostnadarfullur lifnadur, sem máské steypir manni — einsog hann hefir morgum odrum gjort — sem gengid hafa út fyrir takmork Guds forsjónar — eptir skammvinna ánægju, í armód og vesæld. Og þó menn í odrum tilfellum, eigi ad kénna í brjósti um þá fátæku; þá er, þvert á móti, þesshattar fátækdómur, makliga forøktunarverdur, vegna þess hann er ávoxtur manns eigin dármennsku; og þegar slík fátækt fellur yfir einn, sem hervopnadur madur (Ordskv. 6, 11), þá finnur hann ecki adeins, ad sig brestur þau efni — sem hann hefdi gétad haft — til ad audsýna þvílík kærleiksverk á odrum, er prýda svo vel sannan Gudsótta; heldur gétur skéd, ad hann rati í sterka freistíngu, til ad nota sér einhvør óleyfilig úrrædi, og á ósæmiligan hátt leitast vid, ad gédjast odrum sér

til hags, sem er ærid óvidurkvæmiligt og hættuligt hreinskilnum kristnum manni, svo hann kann ad tapa þar vid allri sannri virdíngu, bædi hjá Gudi og mönnum. Er því margfaldt betra ad ætla sér ecki ofhátt, og hafa hóf á öllu. Því hendi slíkt óráð þann mann, sem annars er álitinn sannkristinn ad vera, verdur þad ecki til all-lítillrar vanvirdu trúarbrøgdunum; svo einn ærligur madur mætti heldur kjósa ad lifa af vatni og braudi, jafnvel ad deya af sulti, enn ad géfa tilefni og orsök til þvílíks nockurs.

§. 4. Eg bid þig þessvegna, ad þú vaktir þig vid öllu því, sem þetta orsakad gétur, med því ad vera ydjusamur í þínu standi, og brúka bædi forsjálni og sparsemi í þínum útgiftum; hvaraf, næst Guds blessun, fljóta mun, ad fyrirtektir þínar fá luckuligan framgáng, og þú sjálfur odlast því betri heilsu og krapta, ásamt róligu sinnislagi. En þetta gétur ecki skéd, nema þú vakir dyggiliga yfir sjálfum þér, og setjir þig med makt móti öllu því, sem uggleysi og holdligar girndir vilja locka þig til, undir því yfirskini, ad þad sé lítid í þad varid, sem þig fýsir til. Varadu þig þessvegna, ad þú farir ecki ad rádi þínu, sem foreldrar þeir, sem elska børn sín um of; því þegar þeir láta eptir þeim smávegis þad sem þau girnast, gjøra þeir þau meir og meir heimtufrekari, og loksins rétt blygdunarlaus í krøfum sínum; hvarmed þeir steypa þeim í þá ólucku, sem þau hefdu gétad ella hjákomist. Hugleid þessvegna og yfirvega þú vel þá ágætu varúdarreglu, sem stadfest er af skada þúsund margra, er henni gleymt hafa: "þeim sem forsmáir lítilvæga hluti, er smámsaman hætt búinn, ad líða tjón á ødrum mikilvægari."

§. 5. Leyf mér þarfyrir, ennú framar, minn kæri lesari! ad bidja þig alvarliga og inniliga, ad taka þér vara fyrir þeim snørum, sem hégómligur selskapur leggur í veg fyrir þig. Eg meina þó ecki hér, sem ádur, til þess selskapar, sem berliga er illur og ógudligur; því eg vona ad sinnislagi þínu sé nú svoleidis háttad ordid, ad þú hafir á þeim selskap andstygd og forakt. En eg bid þú adgætir, ad þeir selskapsbrædur kunna þó

ad verda þér mjøg hættuligir, sem þú máské í fyrstu alls eckert uggdir. Eg meina til þvílíkra, hvorjir jafnvel ecki séu opinberir óvinir sannra trúarbragda, né mjøg ofurseldir løstum og ósid-semi, hafa þó, ad svo miklu leiti ráda má af umgengni þeirra og hegdun, einga sanna Guds ótta tilfinníngu í hjarta sér. Þú hlýtur opt af naudsýn ad vera í bland þvílíks fólks, og kristilig trúarbrøgd leyfa þad ecki ad eins, heldur útheimta líka svo, ad þú vid sérhvørt tækifæri skulir audsýna þeim vidfeldni og virdíngu. En vel þó slíka menn ecki fyrir þína handgegn-ustu vini, og leitastu ecki vid, ad eyda því mesta af frítímum þínum medal þeirra; því slíkra umgengni midar mjøg svo til ad draga sálu þína frá Gudi, og gjøra hana óhæfa til andligs samneytis med honum. Til ad sannfæra þig hér um, þá ad-gæt þína eigin reynslu, ad þegar þú á vissum tímum hefir verid í hóp med þesshátttar fólki; hefir þú þá ecki á eptir fundid þig óhæfari, enn ella, til andagtugra athafna? finst þér ecki, ad hjarta þitt hafi meir og meir óformerkt ordid hneigt til ad líki-ast heiminum, og ad þad fengid hafi í sig heimugligan leida á þeim hlutum og athøfnum, sem skynsemin sýnir þó ad vera hinar edalligustu og bestu? Gaumgæf vel þessi fyrstu merki, og vakta þig í tíma vid snørunni. Leitastu þessvegna vid, ad inngánga þann vinskap, sem bygdur er á Guds ótta, og stad-festur af þeim sama. Gef þig í selskap þeirra sem óttast Gud, og halda bodord hans (Sálm. 119, 63); því þú veizt vel, ad í Guds augum eru þessir hinir dýrdligu á jørd-unni; lát þessvegna umgengni þeirra vera þitt yndi (Sálm. 16, 3); og til þess ad þau sérligu not, sem þú af vináttu þeirra hast gétur, tapist þér ecki, þá leitastu vid, sem best mátt, ad hagnýta þér þann tíma, sem þú eydir hjá þeim. Sá vitrasti medal mannanna rádlagdi, ad þegar ráð í eins manns hjarta væri sem djúpt vatn, þad er: þegar þad lægi þar hulid, skyldi skynsamur madur draga þad upp (Ordskv. 20, 5), þad er: ad vita hvad hann meinti. Leitastu þessvegna, vid øll tækifæri, vid — ad svo miklu leiti sómasemin leyfir — ad hefja

það samtal, sem þig og aðra uppbyggt getur; og þegar nytsamligt og vigtugt efni er í tali, þar sem þú viðstaddur ert, þá slepptu því ecki of fljótt, heldur skaltu nota þér tækifærið að tala um það með fleirum orðum, svo að þú í því tilliti getir látið **Krists orð búa hjá þér ríkugliga** (Col. 3, 16), og það ætíð geti verið **þinn ráðgjafi** (Sálm. 119, 24).

§. 6. Sé nú svoleiðis ástadt fyrir þér, þá ert þú ecki aðeins óhultur fyrir snörum þeim, sem yðjuleysi og óhof leggur í veg fyrir þig, heldur ogsvo fyrir öllum vondum og slæmum eptirdæmum. Já, þú ert þá ogsvo fær um, að vakta þig við allt of stórri umsorgun og hugsýki fyrir þínum jarðneskum sýslunum, sem annars mundu taka alla þína tíð og þáuka burtu, og þarmeð **kæfa það góða Guðsorð, svo það að miklu leiti, ef ecki öldúngis, yrði ávaxtarlaust** (Matth. 13, 22). Ungar manneskjur eru optast djarfar og voga mikið, af því þær hafa, hjá því sem aðrir, litla reynslu þeirrar mæðu og erfiðismuna, er oss mæta hér í lífi. Þær setja því slíkt lítið á sig, og ímynda sér, að þær með skynsemi sinni, yðni og drift, séu færar um að sigra alla torveldni og hindranír. En útfallið sýnir opt allt annað. Leyf mér þessvegna að biðja þig og aðvara, að þú varist að taka ecki fleiri sýslanir fyrir þig, enn þú ert fær um að afkasta, og sem stadist getur með þeirri umsorgun, sem þú hafa átt fyrir sálu þinni og fyrir því að þjóna Guði, sem enganveginn má vanrækjast. Já, þess er vissuliga þörf, að gefa þvílíka aðvörun, í tilliti nákvæmrar umsorgunar fyrir voru tímanliga gagni og ábata; þar það er opinbert sérhvörjum, sem grant vill aðgá, að ótalmargir hafa ratað í ógæfu, af því þeir hafa gripið eptir meiru, enn þeir verið hafa menn til að framkvæma. Það hefir opt skéð, að ámeðan þeir með makt hafa leitast við að verða ríkir, **hafa þeir gjört sjálfum sér margar plágur** (1 Tím. 6, 10), og steypt bæði sér og sínum í margslags neyð og vesöld. Hvert á móti, hefðu þeir látið sér nægja hófligt erfiði og ábata, mundu þeir fengið hafa luckuligan framgáng sýslana sinna, og óhultir, með Guðs blessun, komist til mikillrar og nægrar vel-

lidunar. En þó þú hefdir nú enga hættu ad óttast í sögdu tilliti; þó þú værir eins viss um, ad géta ordid ríkur og voldugur, sem þú ert viss um ad plága sjálfan þig med ad sækjast eptir því, þá bid eg þig samt ad hugleida, hvad háskalig þvílík luckukjer eru. Hugsadu til þess, hvorsu opt ad ríkugligur fordi verdur ad snöru, fyrir sálu manns (Sálm. 69, 22). Gleymdu ecki þeirri stuttu lektiu, sem samin var af þeim ædsta vísdómi: eitt er naudsýnligt! (Luc. 10, 41). Penktu dagliga til þess — medan þeir yndisligu hlutir í heiminum glansa í augum þér, hvorsu brádliga daudinn kann ad koma, og gjöra þig allt í einu fátækan; hvorsu fljótt hann kann ad svipta þig öllu því þú átt, nema því einu, sem þín nakta sála gétur flutt med sér inní eylífdina, þegar hún skilur eptir líkamann í gröfinni. O, eylífd, eylífd, eylífd! láttu hana alltíd sveima fyrir augum þér; og, ef þad er möguligt, þá láttu engan tíma, medan þú lifir, lída svo, án þess þú setjir þér alvarliga fyrir sjónir, ad þú hefir enga þá sýslun edur ábata hér í lífi um ad skeyta, sem ecki géti midad til eylífdarinnar; því allt þad sem strídir þar á móti, áttu hvorki med ad sýsla, né álíta þér nockurn ávinníng vid. Pad er ad vísu satt, ad þú sér ad manneskjurnar yfirhöfud hegda sér svoleidis, einsog þær þenktu, ad þad stóra og mikilvæga verk, sem Gud hér af þeim heimtar, væri falid í ad safna svo miklu, af þessarar veraldar munum, sem þær mest gætu; ad minsta kosti svo miklu, sem þær kynnu, án þess ad fremja lesti og misverk, og án þess ad voga ofmiklu, til ad ávinna nockud. Og til ad réttlæta tilgáng sinn, leitast þeir vid ad telja ödrum, og máské líka sjálfum sér, trú um, ad þeir, med þessu, leiti tækifæris adeins, til ad vera til þess stærri nytsemdar í heiminum. En þeir draga sig víst á talar, því þánkar þeirra horfa á annad meira, enn einskostar ad leita audlegdar í þeim tilgángi ad gagna ödrum; því undireins og þeir eru búnir ad afla hennar, brúka þeir hana ecki ödrum til nota; svo þessi vidbára þeirra er hégómlig og ástædulaus. Nei! tilgángur manna, ad sækjast eptir jardneskum munum er mestpart allur annar; því annadhvert gjöra

þeir það til þess, að njóta þeirrar skammarligu ánægju, að eiga hann og skémta sér við hann, meðan þeir lifa; ellegar vegna þess, þeir þenkja, að það verði þeim til stórrar æru, ef sagt er um þá, þegar þeir dánir eru, að þeir hafi eptir sig látið svo mörg hundruð eður þúsund ríkisdali, með hverju þeir opt leiða sín börn ellegar aðra erfíngja, í sömu snöru, sem þeir sjálfir hafa verið flæktir í; eður og í þriðja lagi, að þeir safna auð til þess, að brúka hann til metnaðar og óhófs, og þarmeð líka sem sökva sér í haf holdligra sælgætínga. Á þennan hátt tapa þeir nærri skynseminni, en Guðsótti allur, og sær eðalligástu ánægjusemdir, sem manneskjanna hjarta notið getur, verða með þessu móti öldúngis niðurþrycktar og kæfðar. Í þessu tilliti sýnist mér því að ríkisfólk sé, yfirhöfuð, verr staðt enn þeir fátæku; því þó að hvorutveggi, sem því miður opt ber við, lifi hér í heimi, án þess að hafa Guð fyrir augum sér, þá misbrúka hinir ríku samt fleiri og stærri gáfur Guðs af því tímanliga, enn hinir, og þessvegna líkligt að þeirra kvalir í öðrum heimi verði þeim mun stærri, enn þeirra fátæku.

§. 2. Og til þess þú ekki þenkja skulir, að þú sért fyrir slíkum háska frí, þá leyf mér, kæri vin! að eg ennnú bæti þessu við: vér höfum stóra orsök til að óttast, að margir séu nú — af áðursagðri orsök — í hörmuligu sálarástandi, sem áður — meðan ágirnd ekki hafði hertekið þá, og þeir voru máské fátækari, höfðu að líkindum sannan Guðsótta í sér; en hafa nú síðan yfirgéfið Guð fyrir Mammons sakir; já, stæra nú sjálfa sig af gyllini-fjötrum þeim, sem að öllum líkindum breitast munu í þá myrkva hlekki, með hverjum þeir að eylífu bundnir verða. Hafi nú auðsafnið þvílíkar háskaligar afleiðslur með sér, æ svo láttu þá ekki hjarta þitt fylgja syndurum! (Orðskv. 23, 17.) og frem ekki þá dármennsku, að girnast það, sem þeir eptir sækja; hvarmeð þú setja kannt sjálfan þig í þann tvöfalda háska, að annaðhvort verði öll þín mæða og ómak til ónýtis, eður ef það luckast þér, að safna auðnum, þá verði hann þér til eylífrar

fortøpunar. Hafdu hóf á girndum þínum, leitaſtu vid ad vera róligur og ánægdur med lítid; og ef Guds forſjón kallar þig til hærri ſtéttar, þá varpa þú þér ad ſønnu í hlýdni undir hans guddómligan vilja; en álít þad þó undireins fyrir þvílíka reynſlu, ſem útkrefur lángt ſtærri náð enn ella, til ad géta þarí hegdad ſér réttiliga. Þú mátt vera viſs um, ad í ſømu tiltølu ſem ſkylduverk þín og ávinníngur fara í vøxt, á ſama hátt hlýtur umſorgun þín, ad gæta ſkyldu þinnar trúliga, og ad varaſt dramb og bilíſi, undireins ad aukaſt.

§. 8. Yfirhøfud ad ſegja, þú hlýtur fyrir Guds náð, ad læra ad deya frá heiminum, og álíta hann fyrir ſlæman og veſælan ſtad, hvar Gud hefir aldrei álýktad ad vera ſkyldi vor ædſta og fullkomna farſæld, edur þad ſem børn hans ſkyldu allrahelſt eptirſækja; hvar vér ad víſu fáum margrar ánægju ad njóta, en þó þvílíkrar, ſem, einsog hún kémur frá Gudi, á hún ad leida oſs aptur til hans, en ecki frá hønum; hvar vér lída hljótum margt med þolinmædi og ſjálfsafneitun; og hvar vér eigum ad æfa oſs í mørgum mikilvægum ſkyldum, og lída, af Gudi, heil. refſíngu, til ad verda hæfir og undirbúnir til eins betra áſtands í ødrum heimi, ſem þú, ſvoſem kriſtinn, æ meir og meir nálgaſt, og til hvørs Gud máſké brádliga kallar þig; og þad án efa á þeim rétta tíma og á beſta hátt, ſvo framarliga þú ſtødugur ſtendur á þeim rétta vegi. Fel hønum þeſsvegna allt þetta á hendur! Láttu alla þína von og ótta, og allt hvad þú æſkir þér í tilliti þeſsa heims, vera í augum þínum ſem minſt metid, ad møguligt er, og þad einúngis ſokum þeſs, þú horfir allt á þad eptirkomanda; já, láttu alla þína þánka ſtefna og ſtadnæmaſt, ſem beſt verdur, vid þennan einaſta midpúnkt og adal-atridi, nefnilíga: hvad er þad ſem Gud heimtar af mér, og á hvørn hátt ſkal eg í nálægum kríngumſtædum ſvoleidis hegda mér, ad eg ordid géti hønum fullkomliga þóknanligur og dýrdligt gjørt hans heilaga nafn?

## Bæn þess, sem nýliga umvendtur er, í hvörri hann bidur um Guds adstod móti þeim háska, sem ádursagdar snörur kunna ad olla hönum.

Æ, þú blessadi Gud! leyf þú mér ad eg midt á milli þeirra tíu þúsund snara, sem innvortis og útvortis umkríngja mig, megi upplypta mínu andliti til þín og bidja þig audmjúkliga, ad þú viljir frelsa mig frá þessum andligu háskasemdum og líta til mín í nád. Þegar dofinleiki og tilfinníngarleysi hjartans vill ásækja mig, uppvek mig þá, af þessum skadligu draumum, og géf mér ad hafa í mér lifandi og hrærandi ímindanir um þá ósýniligu og eylífu veroldu, til hvörrar mitt augnamid stefnir! Lát mér í hug koma, hvörsu óendanliga mikid varid er í þad, ad eg kostgæfiliga noti mér tímann, sem flýgur svo fljótt áfram; hvorn þú hefir þó ákvardad handa mér, til undirbúníngsfrests þeirrar væntanligu eylífdar! Þegar syndarar locka mig, lát mig ecki fallast á þeirra rád! Veit mér, ad heilög umgengni med þér, géti vakid hjá mér vidbjód á ad umgángast þá, sem eru þér fráhverfir, og sem leitast vid ad snúa sálu minni frá þér! Lát mig virda þá sem óttast þig, og af því ad umgángast vitra og gudhrædda menn, græda sjálfur og eflast í vísdómi og gudsótta! Lát mig, ó Drottinn! af þeim verda lífgadan í anda, til þess ad þú kunnir aptur ad nota mig til ad upplífga adra á andligan hátt! Gjör þú mig ad þvílíku farsælu verkfæri, ad eg géti uppkveikt og lífgad gudligan kærleiks loga í þeirra hjörtum, svo eitt hjarta fái upptendrad annad, og þad góda svoleidis hvört augnablik þróist og fái framgáng! Vardveit mig, ó Drottinn! frá allt ofstórri elsku til líkamligra ánægjusemda! Lát mig alvarliga til þess hugsa, ad holdsins sinnislag er daudi. Láttu þér þessvegna þóknast, ad hreinsa og fægja sálu mína, fyrir verkun þíns heil. Anda; ad eg alltíd med stærri og stærri kostgæfni géti umsflúid forbodnar girndir og lystíngar, og ad eg med sparsemi og hófi fái brúkad þá náttúrligu drift, sem þú leyft

hefir, til ad halda vid lidi naudsýnligri reglusemi í øllum hlutum! Lát mig þarhjá ætíd hugleida þann lángt stærri verdugleika, sem hinn andligi og skynsemi gæddi partur veru minnar, hefir, yfir þann holdliga, til ad bera; og ad eg, sem manneskja og kristinn, á ad sækjast eptir allt ødru eptirlæti, enn því jardneska; já, því eptirlæti, sem af sér fædir eylífa farsæld! O, ad mín sála gæti, med heil. hugleidíngum, lypt sér, líka sem med vængjum; upp til þíns ósýniliga dýrdarríkis; og ad eg, med þinnar nádaradstod, fengi leitast vid ad verda svoleidis á mig kominn, ad eg verdi loksins hæfur til ad takast í samfélag hinna engilligu anda, sem lifa fyrir þínu augliti, í því farsæla vanmegni, ad géta notid þvílíkra grófra ánægjusemda, af hverjum andar þeir, sem í holdinu búa, verda svo opt ínetjadir og tældir, og hvaraf þeir svo opt gleyma sínum háleita uppruna, og þeirri edalligu von, sem honum sambýdur. Veit mér, ó Drottinn! ad eg fái lært ad þeckja stand þad, í hvert þú hefir sett mig, og lát mig sløduglilga æfa skyldu mína, sem því tilheyrir! Frelsadu mig þarámóti frá óhófligri áhyggju fyrir þessu jardneska, sem sviptir mig tíma og þaunkum, svo eg þessvegna gleymi því eina naudsýnliga. Lát laungun mína eptir veraldligum eignum vera á lágri troppu, og géf mér ad hugleida, hversu óvissar og ófullnógar þær eru í sinni veru og náttúru! Og á medan adrir eru ad safna sér fjársjódum hér á jørdu, þá lát mig vera í Gudi ríkan. Lát mínar veraldligu sýslanir ecki hindra mig frá ad rækja þad stóra og mikilvæga málefni, sem er á millum þín og sálar minnar! Lát mig ecki kæra mig svo mikid um þad tímanliga, ad eg þessvegna vanræki þad eylífa! Lát mig, svo lengi eg umgengst hér á jørdu, snúa minni von og hjarta til himinsins, og æ sterkara finna til þess kraptar, sem vill inntaka mig og draga til þín, midt í því eg nær og nær kémst til, ad ná því eptirræskta augnamidi; uns þad farsældarfulla augnablik kémur, ad allir jardneskir hlutir hverfa frá augum mér, og þeirrar himnesku veraldar skínandi dýrd mun uppfylla mína upplýstu og styrktu sálarsjón, sem þá mun med gledi og eptirlæti mettud

verda, í stadinn þeirrar sorgar og ángursemdar, sem hún hér í heimi hefir reyna hlotid! Amen.

## 22ar Kapítuli.

**Um ástand þess Kristins manns, sem apturfer í andligu tilliti, og tekur ad verda kaldsinna í gudhrædslunni.**

§. 1. Sé eg nú svo heppinn ordinn ad hafa fengid þig sigradan, med advörunum þeim og áminníngum, sem eg hefi gefid þér, þá muntu ad líkindum, med huggun og ánægju, áfram halda þínum gudhrædslu æfingum, og þinn stigur verda sem skínandi ljós, sem gengur fram og lýsir inn til hádegis (Ordskv. 4, 18); samt þori eg ecki ad smjadra fyrir sjálfum mér, med þeirri von, ad þú tekid hafir svo luckuligum framförum, ad sinni þitt, hegdan og ástand ei muni framar verda nockurslags umbreitíngu undirorpid; einkum þar þeir allra gudhræddustu menn hafa, meir edur minna, hlotid yfir þvílíku ad klaga. Æ eg óttast stórum, ad hvemikid sem hjarta þitt er nú hrært og hvatt ordid, vid þær ávísanir sem eg þér gefid hefi, og hvörsu mjög sem trúar þinnar og vonar stóra augnamid óumbreitt verdur, ad sinni þitt kunni þó med tímanum ad breita sér. Eg er mjög hræddur um, ad þú finna munir, ad sinni þitt taki ad verda þreytt og leidt á ad gánga á Guds góda vegi; já, þú kannské verdur heldur til ad víkja nockur skref frá þeim beina vegi, og verda sídan ad herfángi þeim freistíngum, á hvörjar þú lítur nú med heil. forakti. Hvará eptir líkliga fylgja mun, ad Gud hylur sitt andlit fyrir þér, og hann útrettir sína höndu til ad typta þig, svo þú falla munt í stóra hugarángist, svo gladur sem þú nú ert í Drottni, og svo mjög sem þú fagnandi ert í Gudi þíns hjálprædis (Hab. 3, 18). Eg vona þessvegna, ad ef svoleidis skyldi líka fyrir þér fara, ad þú þá haft gætir mikil not af ad hugleida slíkt ástand fyrirfram nockud greiniliga; og eg bid því af insta rót til Guds, ad hann virdist ad brúka þad,

sem eg vil þér hérum segja, til medals ad hugga þig og styrkja, svofremt hann lída skyldi, ad þú á nockurn hátt frá honum víkir.

§. 2. Látum oss þá fyrst skoda ástand þeirrar manneskju, sem fer aptur edur hnignar í andligu tilliti og kaldlynd verdur í sinni gudhrædslu. En eg óska þó, ad þú viljir þess gæta, ádurenn eg fer lengra, ad eg hér ecki meina til sérhvorrar skérdíngar þess vandlætis í Guds þjónustu, sem einn nýumvendtur finnur til, þegar hann fyrst af eigin reynslu kynnist vid guddómlig efni. Náttúru vorri er svo háttad, ad allt sem nýtt er fyrir augum vorum, vekur stakliga med oss nýtt líf og upperfun; ad eg ecki tali um, hvorsu miklu ákafari tilhneigíngar vorar eru í úngdæminu, enn þegar vér tokum ad eldast. Ad þessu er máske opt oflítid gád. Vér eignum almennt sinnis hræríngum vorum allt ofmikid, svo, þegar tilfinníng þeirra verdur minni, kann sá kristinn madur, sem þó hefir í nádinni þróast, og hefir vel búid sig undir eylífdina, stundum taka til ad kvarta meir yfir innbirludum, enn yfir sonnum dofinleika og kaldlyndi hjá sér, og segja án gildrar ástædu, sem Jób: *gæfi Gud eg væri nú sem á þeim fyrri árum, á þeim døgum, þegar Gud héldt mér vid!* (Jób. 29, 2.) Þarfyrir gétur madur naumast of opt ámálgad þad, ad Guds ótti einkum er innifalinn í ad ofurselja sig ad ollu leiti Guds vilja, med stodugri ástundan ad fordast allt þad, sem vér sannfærdir erum um, ad honum misþóknast; í ad vera kostgæfnir í því kalli, í hvort hann setti oss hér í lífi; og í því ad efla hans dýrd og frama velferd vors náúnga. Þetta er þad, sem vér einkum høfum grant ad adgæta, og ætíd ad stunda til þess, ad þær hrærandi orsakir, af hvorjum athafnir vorar framsljóta, séu einfaldar og hreinskilnar eptir hvorju vér vitum ad Gud, sem hjortun ransakar, helst lítur. Vér hljótum þarhjá ad audmýkja oss fyrir honum, vidurkénna vorn margfalda breiskleika, og taka tilflugt vort til Kristi blóds og Evangelii nádar.

§. 3. Med því eg nú fyrirfram hefi gefid advorun þessa, þá vil eg nockud nákvæmligar afmála ástand þad, sem eg í mín-

um þánka kalla ástand þess Kristins manns, sem hnignar í sonnum Guðs ótta, en fellur þó ekki eiginliga í ásetnings syndir, hvarum eg í nærstfylgjandi kapítula tala vil. Fyrst vil eg þá taka það til greina, að ástand þetta er einkum falið í að gleyma guðligum hlutum, og vanrækja skylduverk þau, til hvorra vér skuldbundum oss, með þeim hátíðliga sattmála, sem vér í upphafi við Guð inngengum. Eins marghattaðar sem nú skuldbindingar þær eru, sem liggja á einum Kristnum eptir sáttmála hans, eins margbreitt eru líka tilfelli þau, sem vanrækt þeirra snerta. Eg vil þá helst víkja á þau sem almennust eru, einkum þar eg veit að menn tíðum verða svo lítt þessara yfirsjóna varir, sem Ephraim sinna gráu hára (Hos. 7, 9).

§. 4. Skyldir þú nú, minn kæri vin! komast í þetta ástand, þá mun það að líkindum sýna sig fyrst í því, að þú tekur að vanrækja skyldu þinnar heimugligu bænagjörðar. Eg vil að vísu ekki géta til að þú fyrst í stað að öllu leiti vanrækir hana; en þú tekur samt að fremja hana með lángt meira kaldlyndi, enn áður. Dofinleiki, og sumar af snörum þeim, sem eg í undanförnum kapítula varaði þig við, munu á þann hátt yfirbuga þig, að jafnvel þó þú kannské vitir að sá rétti tími þinn til að biðjast fyrir, kominn sé, þá lætur þú þó opt sængurhvíld þína á morgnana, og á kvöldin umgengni annarra, eður annað sýsl, hindra þig þar frá, og afbatar þig með því, að þú ekki hafir góðan hentugleika þar til. Eður og máské, þegar þú kémur í hús þitt, verður fyrir þér bók eður bréf, sem þú vilt fyrst lesa nockuð í, eður eitthvað annað, sem þig sýsir fyrst að afljúka. Þetta máske eyðir þá meiri tíma fyrir þér, enn þú hugsaðir, hvers vegna þín heimugliga bænagjörð og biblíu lestur, skéður með deifð og kaldlyndi eður hreint vanrækist. Þú kannske afsakar þig með því, fyrir sjálfum þér, að þetta sé ekki nema einusinni og í það skipti; en þú skalt vita fyrir víst, að svosramt þú leyfir þér þetta í eitt skipti, þá munt þú leyfa þér það í annað og þriðja sinn, og mun þér ætíð veita það léttara, og finnast minna og minna um vanrækt þína. Svo-

leidis bregur þú þá gis ad Gudi, og sviptir sálu þína þeirri andligu fædu, er hennar gudliga lífi skal vidhalda. Guds ord tekur ad verda þér smecklaust, sjálfsprófunina muntu alls undir hofud leggja. Já þér fer ad finnast þín bænagjord vera þér framar þvíngun enn ánægja, svo hún loksins verdur kannské ad tómri ceremoníu, sem þinn Fadir á himnum hefir framar ama á, enn velþóknan.

§. 5. Svoframt þú nú ecki notar þér strax medol þau, sem leidt géta þig frá þessum villustigum, munu þeir brádt breida sig vídara út, jafnvel til þeirrar opinberu Gudsþjónustu. Þú munt þess var verda, bædi í þinni gudsdýrkan heima í húsi þínu, líka þeirri sem í kyrkjunni á ad ské. En ef þú ecki til þess finnur, er þad merki til þess, ad ólucka þín er þeim mun stærri. Ymsir umsveimandi þánkar munu þá líka sem uppsvelgja og eyda allri þinni andakt. Eg veit ad sonnu vel, ad þeir bestu kristnu eru ecki alls fríir frá adsókn þvílíkra þánka. Þú munt líkliga í þessum kríngumstædum finna fáa millitíma, á hvorjum þú gétir vel géfid gaum ad Gudi og því sem hann snertir, sem sú innvortis andakt þó svo stórum útkrefur. Og þegar þú lokid hefir æfing þinni, án þess hjartad hafi neitt, svo telja megi, þarvid hræst, svo máské gætir þú naumast ad, hvorsu lítt ad hún líkadi Gudi, og þénadi til hans dýrdar. Sakrament altarisins sem er svo óvidjafnanliga hentugt ad upporfa sálu manns til andaktar, er máské hin sídarsta gudlig æfíng þín, í hvorri þinn hjartans kuldi lætur sig í ljósi; og hvor gétur þá sagt ad þetta heil. bordhald verdi þér til nota? Hafir þú ad naudsynjalausu svipt þig sjálfan tíma til undirbúníngs til hennar, þá mundu víssuliga til hennar gánga, med lángt minni hjartans andakt, en þér ber og máské misánægja sú, sem þú hefir út af því, ad þánkar þínir voru svo merkiliga tilfinníngar litlir og Gudi fráhverfir, þegar þú sídarst til hennar géckst, olli því, ad þú um tíma bædi verdir hræddur, og hafir jafnvel leida á, ad gánga til hennar aptur, eptir skyldu þinni. Og eptir sem þínir andligu óvinir fá, í þessu efni, meiri makt

yfir þér, er þad efalaust, ad þú fellur dýpra og dýpra; og mótstada þín gégn þeim verdur æ veikari.

§. 6. Undireins þá ad þín elska til vors Guds og Fodurs, og Drottins Jesú Krists fer mínkandi, mun kærleiki þinn til þinna brædra í Kristó ad því skapi réna, og umsorgun þín ad vera ødrum til nota í heiminum, mun á førum verda, einkum í því sem til andligrar uppbyggíngar helst lítur. Þú munt finna eina edur adra afbotun forsómun þinni, ad tala um gudliga hluti; ecki adeins vid nágranna þína og vini, þó þar géfist tækifæri til, heldur ogsvo vid þitt heimilis fólk; og þá, sem þér eru til umsorgunar á hendur falnir, svoframt Guds forsjón hefir þig yfir adra sett.

§. 7. Asamt þessum dofinleika til þess góda, mun girnd þín til líkamligra lystisemda edur og veraldligra sýslana í voxt fara; því sálin verdur ætíd ad hafa eitthvad ad sýsla og skemta sér vid. En eptir því sem hún nú snýr sér til eins edur annars af hlutum þessum, eptir því mun ein edur ønnur freistíng í veg fyrir þig koma. Í sumum tilfellum teigistu máské til ad yfirtroda þær nákvæmustu hóffsemdar og lifnadarreglur, þegar þú sækist ofmjog eptir ad vera í selskap annara, hvar ýmsar ánægjusemdir eru á bódstólum. Í ødrum tilfellum mun eigid gagn verda mikilvægara í augum þínum, enn ádur, og fánga því heldur hjarta þitt: en þarámóti auka þér óró og øfuglyndi, þegar þú veist ad ødrum vegnar miklu betur, enn þér. Og í þessháttar kríngumstædum er þad yfirmáta torsókt ad vardveita gédstillíngu og sálarsakleysi óraskad. Og ef svo tilbæri, ad einhvør Gudsorda þjón edur sannkristinn vinur skyldi verda þessa ástands þíns var, og leitast med hreinskilni vid ad leida þig frá þessum afvegi, mundi máské tilraun hans verda þér yfrid ógédfeld. Sálarinnar sár og kaun — ad eg svo ad ordi komist — þola illa ad láta snerta sig, og þá sízt, þegar mest á því liggur. Og svoleidis gétur þad allra edalsinnasta merki til sjálfsafneitunar og kristiligs vinskapar, ordid tilefni kaldlyndis og misánægju, já máské til fjandskapar.

§. 8. Þegar madur samanleggur nú allt þetta, þá er þad vel moguligt, ad þetta óreyluliga sinnis ástand kunni afvegaleida þig til ýmsra hleyþidóms meininga, gégn þeſsſlags sannleiks ástædum, sem allramest ættu ad þéna til ad frelsa þig úr þeſsum háska; og hvor veit nema þeim stóra óvini sálnanna kunni luckast, ad koma þér til ad trúa því, ad þú ecki tapad hafir hinu minsta af þínum Gudsótta, þegar þú ert þó búinn ad tapa honum nærri ad ollu. Hann kann moguliga tæla þig til ad álykta, ad þinn fyrri Gudsótti hafi ecki verid nema heilagrillur einar og innbirlíngar; og ad þinn áduræfdi heil. lifnadarmáti fyrir Gudi, hafi verid naudsynjalaus strángleiki, sem risid hafi af sinnisóttasemi, af ad gjora sér samvizku af hvorju einu smávegis. Já þú kannt ad falla á þá meiníngu, ad þín skynsemi hafi stórum forbetrast; einkum þegar þú kémst ad því, ad nockrir nýir kénnendur segja: ad þegar ein manneskja umgángist sínar medmanneskjur med sidsemd og kurteysi, og dæmi og forsmái ad eins þá, sem gjori adra óróliga med sínum heimskuligu og vesælu ímindunum (nefnl. í trúarbragdasokum, því slíkum álíta þeir menn valla skylduga til audsýna almenniligan kærleika, enda þó þeir hrósi sjálfum sér af honum), þegar, segi eg, ein manneskja hegdar sér svoleidis, hlýtur hún, ad þeirra meiníngu, fyrir víst ad vera í gódu ástandi í Guds augum; en þó hún ecki svo beint kæri sig um ad hafa umgengni med Gudi med bænum og heil. hugleidíngum, edur vakta sig fyrir ad egna hans reidi yfir sig med vísvitandi syndum.

§. 9. Þetta er tilfelli þad, er eg reikna hina sídurstu troppu til fullkomins fráfalls frá Gudi, af því eg finn þad eiginliga lítur þar til; og eg óttast, ad madur af reynslu meigi finna, ad þad gengur mikid nálægt því ad falla i vitanligar og ásetníngssyndir, sem vér í nærstfylgjandi kapítula viljum gjor hugleida; og þetta því heldur, sem þetta tilfelli midar í rauninni til ad hindra framgánginn í Guds óttanum, sem og not þeirra gódu medala, er madur brúka kann, med því madur gjorir ser þá skadligu ímindun um þau, ad þau ónaudsynlig séu.

Tilfelli þetta er líkt því — megi eg þá samlíkingu brúka — eins og þegar yfirhönd takandi dofinleiki og svefn grípur eina manneskju, hvörju vanaliga á eptirfylgir slag, og loksins fullkominn daudi.

§. 10. Þad er aldeilis ecki ásetníngur minn, ad þessu sinni, ad upptelja, því sídur med mörgum ordum ad útskíra, þær háskaligu meiníngar, sem nú inntaka kunna sinni manns, og verka hjá hönum falskan og táldraganda frid. Í sannleika ad segja, þá eru þau margslags, svo madur fellur opt frá einu kjarstædu til annars. En svoframt Gud uppvekur þig til ad lesa biblíuna med gaumgæfni, og lætur þig, í hjarta þínu, finna til verkana þess Anda, undir hvörs stjórn hún skrifud var, þá mun nærri því hvört blad í henni hræra hjarta þitt, sannfæra þína skynsemi og útbreida í henni þvílíkt ljós, er aldeilis mun þvílíkan myrkra skugga á flótta reka.

§. 11. Mitt ypparsta augnamid med þessum hugleidíngum stefnir, ef mögulígt er, til ad koma þér til, ad þú strax, sem þú var verdur minstu merkja til þessarar fráviknúngar frá Gudi, leitist, svo fljótt sem þú getur, vid, ad hrinda þeim frá þér. Og eg vil minna þig á þad, ad í þeim stad, sem þær fyrstu tildrægur til þessarar ólucku byrjudust! nefnil. í þínu bænahúsi, þar hlýtur þú ogsvo fyrst byrja, ad koma í veg fyrir þá sömu. Taktu þér tíma til ad hugsa þig um, og spyrja þína samvizku rétt alvarliga ad, hvörnig standi á sökunum milli þess blessada Guds og sálar þinnar, hvört því eins varid sé og í fyrstu, þá þú umvendtist, og sem þú æsktir ad væri, ef þú findir daudinn væri fyrir dyrum, og þú samstundis mæta ættir fyrir Guds dómi. Einn einasti alvöru þánki um eylífdina getur gjört til skammar þúsund hégómligar afbatanir, med hvörjum menn svo opt svíkja sálu sína, þegar þeir gleyma eylífdinni. Og þegar þú finnur ad hjarta þitt spáir þér heimugliga eingu gódu í sögdu tilliti, þá leitastu ecki vid ad fegra mál þitt med ástædulausum afbötunum, sem þú med þér sjálfum hlýtur ad finna, hvörsu ógildar eru; heldur fylg í hreinskilni þinni eigin sannfæríngu, og audmýktu þig af öllu hjarta fyrir Gudi. Utheltu sídan

heitum bænum til hans, og bid hann um síns heil. Anda nádar adstod. Taktu svo fyrir þig med stærra vandlæti, enn ádur, ad fremja þína heimugligu bænagjord og sjálfsprófan. Les biblíuna med enn stærri kostgæfni, og einkum þá andríkustu kapítula í henni. Leitastu við, ad hennar ord festi rætur hjá þér, og ad þú reynt fáir, sem best verdur, í sjálfum þér það sama, sem þeir heil. Gudsmenn fundu til þegar þeir hana skrifudu. Opnadu sálu þína í einfeldni fyrir hvorri lekslu, sem Guds ord kénnir, og vakta þig fyrir ollu því, sem þú merkir, ad draga vill hjarta þitt frá sonnum Gudsótta, jafnvel þó þér sýnist, ad það sama sé ecki svo straffsmakligt, í sjálfu sér. Þó það sama kynni, yfir hofud ad tala, leyfiligt vera, enda nytsamligt í vissum tilfellum; samt, undir eins og þú finnur ad það ætlar ad verka það hjá þér, sem ádur er sagt (nefnil. ad draga hjarta þitt frá Gudi), þá vit fyrir víst, ad þeir somu hlutir eru þér ecki nytsamligir né hollir. Í þessum kríngumstædum hlýtur þú yfir allt fram, ad leitast vid ad hafa umgengni med þvílíkum monnum, hvorra framfor í sonnum kristindómi sýnist merkilig ad vera, og sem prýda kall sitt og stétt á elskuverdan hátt. Verdu þig ad fá sama sinni og þánkamáta, sem þeir hafa, og opinbera hjarta þitt og ástand fyrir þeim svo frjálsliga, sem sonn forsjálni leyft gétur. Ástundadu, þegar þú hefir tíma, ad ad lesa þvílíkar uppbyggiligar og andaktugar bækur, í hvorjum þú fundid gétur, ad hofundar þeirra hafa sanngudhræddir verid, og í hvorjum þú smackad gétur þann sanna anda og krapt kristíndómsins. Til álylktunar vil eg ennú segja þér þetta: nota þú þér það fyrsta tækifæri þér géfst, til ad gánga til Gudsbords, og sparadu hvorki tíma né mædu ad tilreida þig, sem best þú gétur, þar til. Endurnýa hér þinn sáttmála vid Gud, og sel sálu þína á ný í Jesú hendur, og berdu þig ad álíta hans forundrunarliga kærleika, sem hann vottadi med því ad deya fyrir þig, á þann hátt, ad þar af kunni aptur ad upptendrast hjá þér sá nærri útkulnadi kærleikseldur til hans, svo þú framveigis ordid gétur stodugri enn ádur, í þeim ásetníngi ad lifa honum

sem fyrir þig dáinn er (2 Cor. 5, 16). Vak síðan yfir hjarta þínu, svo þær góðu hræríngar, sem þú finnur til, géti stöðugar hjá þér verið. Gef þig ekki til friðs, fyrrenn þú kominn ert til þvílíkrar staðfestu í sönnum Guðsótta, sem þú aldrei fyrri komist hefir. Vert ekki róligur, fyrrenn þú tekið hefir lángt stærri framförum í Guðs ótta, enn þú áður tekið hafðir; því hvað lángt sem þú kémst, er þar altíð mikið eptir að ná; og þú hlýtur að neyta allra kappsmuna, ef þú átt að géta frelsast frá þeim háska, að falla frá Gudi aptur að nýu.

§. 12. Ennnú vil eg því við bæta, að þú dragir ekki einum degi lengur undan, að ná aptur því rétta sálar ástandi fyrir Gudi, ella gétur það skéð, að þú fjarlægist Gudi til fulls, fljótara enn þig varir; já að Guð kunni, þér til straffs, að víkja frá þér og láta þig falla í þvílík sérkostlig misverk, sem uppfylla kunna samvizku þína með þvílíkri ángist og skélfíngu; við hverja að pína sú, er líkamligt beinbrot orsakar, kémst í eingan samjöfnuð.

## Bæn fyrir þann, sem fallinn er í andliga svefn-sýki og dofinleika.

O, þú eylífi og ómbreitanligi Jehóva! fullkomleikar þínir og dýrð eru eins ómbreitanligir, sem þín vera. Jesús þinn Sonur er hinn sami í gær og í dag og að eylífu. Sú eylífa veröld, til hverrar eg er nú á flugferð, er altíð jafn mikilvæg; og því framar hún nálægist, því meir þreingir hún að hjartanu, til að uppvekja það til að búa sig, sem best, undir hana. En, æ því miður! mínar tilhneigíngar og bestu áform eru sífeldt eins óstöðugar, sem þessi minn vesæli líkami, sem hvern dag og hverja stundu breitist í ástandi sínu og kríngumstæðum. Æ, Drottinn hvaðan kémur þessi hörmugligi óstöðugleiki, sem eg í hjartalagi mínu, í tilliti til þín, verð var við? Af hverju sprettur þessi fráviknîng sálar minnar frá þér? Því gét eg nú ekki komið fram fyrir þig með sama sonarligum kærleika, sem áður. Hví er eg svo hirðulaus að þjóna þér, að eg er nú rétt sem búinn

ad hætta því? Hvarfyrir finst mér nú þín þjónusta svo þúng byrdi, þar hún ádur var mér svo stórt eptirlæti! Æ, minn Gud! hvar er nú sæla sú, er eg ádur fann til og taladi um? Þá var mín gledi í þér, himneski Fadir! svo bersýnilig, ad adrir gátu séd hana á mér og merkt; og þá blossadi þvílíkur kærleiks eldur til þín í hjarta mínu, og eg var fullur af svo stóru vandlæti fyrir dýrd þinni, ad eg, þegar skylda mín og forsjálni útheimtu þad, hlaut ad afneita sjálfum mér, til ad takmarka og tempra þær sterku hræríngar, sem frambrjótast vildu í sálu minni? O Drottinn! hvörsu hörmuliga er nú ástadt fyrir mér? Þín augu sjá mig ad sönnu ennnú, en ecki í sama ástandi, sem ádur. Hvörsu kaldur og tilfinníngarlaus er eg nú, svo eg hlýt mikiliga ad skammast mín, þá eg yfirvega þad. Þú sem í leyndum sér, sér mig nú máské opt skémta mér vid léttvæga hluti, á þeim tíma, sem eg ádur vanur var ad brúka til þinnar þjónustu. Þú sér, hvörsu eg hlýt nú ad þvínga mig til ad nálgast þig; og þegar eg stend fyrir þínu augliti, hvörsu sinni mitt er þá sundurdreift, svo eg valla veit, hvad eg skal vid þig tala, jafnvel þó þú sért sjálfur Gud, vid hvörn eg hefi ad sýsla; og á eingum hlut rídi svo mikid í lífi þessu, sem ad vidhalda audmjúkri og andaktugri umgeingni med þér. Æ hörsu kaldsinna og fráhverfur er eg, þegar eg vil vid þig tala! Öll mín andakt er máské ecki nema innbirlíng ein, og varabuldur; en hvar eru nú þær sterku hræríngar og innvortis laungun eptir Gudi, sem eg ádur fyrri hjá mér fann? Hvar er nú sú yndislega rósemi í þér, sem eg ádur reyndi, þá eg hafdi mína hvíld í þér, minn Gud! og mér fanst þad sælgæti ad nálgast þig; svo eg ásetti mér, ad láta aldrei, ef möguligt væri, skilja mig þar frá? En, ó hvörsu lángt er eg nú ordinn frá þér skilinn? Þegar þessi mín stutta andakt — ef annars andakt kallast má — er á enda, hvörsu fljótt gleymi eg þér þá aptur, og bad máské leugi, svo eg sýnist ad vera svo lítt lífgadur af þinni elsku, og svo lítt hneigdur til ad þjóna þér, ad adrir máské megi umgángast mig lengi, án þess ad verda varir þess

minsta merkis í fari mínu til þess, ad nockur sannur Guds ótti hafi búid, edur búi hjá mer. Þú kallar mig ad vísu, ó Drottinn! til húss þíns á heilögum dögum, en hjarta mitt gétur þá ecki fylgt med þinni þjónustu, svo eg offra þér þá ecki nema tómum daudum líkama. Þánkar mínir og tilhneigíngar eru ofurseldir ödrum hlutum, medan eg nálægist þig ad eins med munninum, og dýrka þig med vörunum. Þú kallar mig til þíns bords, en hjarta mitt er þá svo frosid, ad þad naumast gétur smelst undir Kristi krossi, og eg valla gét fundid í mér nockurn krapt edur lífgun af Jesú blódi. Ó hvörsu vesæl sképna er eg því ordin! Eg er ómakligur ad kallast þinn lærisveinn; ómakligur ad hafa þann lægsta sess medal barna þinna og heimafólks; já, eg er miklu makligri til ad útsnarast, útskúfast og aldeilis afmást. Er þetta nú sú þjónusta, Drottinn, sem eg einusinni hefi þér heitid, og hvörrar þú, þúsund orsaka vegna, hefir rétt til af mér ad vænta? Er þetta endurgjald þad, sem eg inni þér, fyrir þína umsorgun fyrir mér á hvörjum degi; fyrir fórnfæríngu þíns Sonar; fyrir þíns heil. Anda hjálp og adstod; fyrir minna óteljandi stóru synda fyrirgéfníngu; fyrir þá von — þá oforþéntu og af mér opt forspiltu von — eylífs lífs, sem þú mér gésid hefir? Ó Drottinn! eg skammast mín, ad standa edur krjúpa fyrir þínu augliti. En — eg bid þig: miskuna þig yfir mig, og hjálpa þú mér; því eg er í sannleika vesæl sképna! Mín sála lodir vid duptid; og eg legg mig sjálfan nidur fyrir þér, líkasem í duptinu; æ! en haldtu mér vid lífid eptir ordi þínu! Lát mig ecki lengur tímann vanrækja; því eg stend á hinni yztu brún, eins skélfiliga bratts og háskaligs stadar! Eg hugsa um ástand mitt, æ lénadu mér nád, ad eg snúid fái fótum mínum til þinna vitnisburda, svo eg fái hradad mér og ecki tasid lengur vid ad halda þín bodord! Ransaka mig, Gud, og reyn mitt hjarta! æ, grafdu undir þess sjúkdóms nedstu rætur, sem inntekid hefir gjörvalla sálu mína, og lækna mig af hönum! Eg bid þig, Drottinn! settu mér syndina svoleidis fyrir sjónir, ad eg álíti hana med skélfíngu og vidbjód, og afmáladu Jesúm Krist svo berliga

fyrir mér, ad eg géti séd hann, og ángrast beisktliga; séd hann, og elskad hann inniliga! Lát mig vakna upp af mínum dofa og svefni, í hvørn eg sockinn er, og lát mig fyrir Krists sakir ødlast andligt líf, og verda, á yfirgnæfanligri hátt, ástundunarsamari í því góda, enn eg nockrusinni ádur verid hefi! Lát mig fyrir hans sakir verda svoleidis lífgadan og upphvattan, ad eg ødlist fastari grundvøll á ad standa, enn sá var, sem eg mistan hefi, svo eg tekid géti bædi fljótari og merkiligri framfør í Gudsóttanum, enn eg híngadtil á mínum bestu døgum tekid hefi! Nidursend, ó Drottinn! þinn verduga heil. Anda, og úthell honum yfir mig yfirgnæfanliga! Lát hann búa í mér, sem í því musteri, er hann hafi handa sjálfum sér helgad! svo midt í því, ad hann stjórnar allri minni Gudsdýrkun, ad eg þá ordid géti eitt lifandi, heilagt og Gudi þóknanligt offur! Lát mína bænareykelsis fórn vera stadfasta, og gjør hana ad sætri ylman fyrir þér; já, lát þinn heil. eld aldrei slokna á mínu hjartans altari! Og lát eckért af kérum þess — eg meina, hvørki sálarinnar krapta né líkamans limi — verda vanhelgada, med ad misbrúkast til forbodinnar og vanheilagrar þjónustu! Amen!

---

## 23ji Kapítuli.

### Hvørsu hørmuligt ástand þad sé, ad falla aptur af ásetníngi, í vitanligar syndir, eptir þad madur allareidu hafdi ofurselt sjálfan sig Gudi, og tekid framfør nockra, í sønnum Gudsótta.

§. 1. Þad er víst, ad sú fráviknìng frá Gudi, sem eg í undanfarandi kapítula afmálad hefi, er mjøg yfirkløgunar verd; en álíta mættir þú sjálfan þig, minn kæri lesari! þó luckuligan, svoframt þú aldrei af reynslu vissir né þecktir til annara lángt hørmuligra kríngumstædna. Þegar þú yfirvegar málefni þetta, eptir þeirri ímindun sem þú nú hefir, þá muntu hugsa ad líkindum, ad enginn hlutur í heiminum muni nockrusinni géta

komid þér til, ad hafast nockud það ad, sem stríðir móti því, sem þín eigin samvizka, fyrir Guðs anda, bannar þér nú edur býdur. Nei, þú hugsar, þú vildir fyrr láta lífið, enn giera slíkt. Og þetta er, nú sem stendur, víst þín alvara. En Pétur þenkti líka og taladi svoleidis: "Þó eg ætti að deya með þér, skal eg ecki afneita þér" (Matth. 26, 35); og engu ad sídur féll hann þó. "Vertu því ecki stórhuga, heldur uggandi!" (Róm. 11, 20). Það er ecki alls ómøguligt, að þú falla kunnir í þá somu synd, sem þú hugsar þér óhættast fyrir; edur í þá, sem þú allramest hefir ásett þér móti ad stríða, og útaf hverri þú allareidu hefir beiskliga ángrast og hryggst; já, það er møguligt þú fallir í hana nockrumsinnum. En svoframt það skér, svoframt þú vitanliga og með fullum ásetníngi fellur í hana, adeins í eitt skipti, hvílíks svídanda sárs mun það þá olla í samvizku þinni? Hversu dýrkeypt verdur þér þá ánægiu sú, með hverri freistíngin lockadi þig? Hve lángt mun slíkt ecki skilja þig frá Gudi? já, hvílíkri spillíngu, hvílíkri hrædiligri spillíngu, mun það ecki valda í sálu þinni? Æ, það er hormuligt til þess ad þenkja. Þú kannt máské, í þvílíku ástandi, finna til stærri ángistar og hormúngar í þinni samvizku, þegar þú af alvoru ferd aptur ad hugsa um það, heldur enn þú nockrusinni fannst í fyrstu, þegar þú umvendtist; því synd þín er nú lángtum stærri, enn hún þá var, þegar þú ennnú ecki hugsad hafdir til umvendunar. Eg þecki eina manneskju mikið vel, sem sagdi, ad ángist sú, sem yfirfellur syndarann í hans fyrstu ydrun, sé enganveginn til jafns takandi, vid þá, sem þvílíkur einn finnur til í hjarta sínu, þegar hann hefir á ný frá Gudi fallid, einkum, ef hann mettast skal af sínum vegum (Ordskv. 14, 14).

§. 2. Til þess er sárgrætiligt ad þenkja, hvorsu hrædiliga hjarta þitt mun sært verda, ef þú ad nýu frá Gudi fellur, hvorsu øll þín huggan, allt þitt traust og øll þín von formyrkvast, svo þar verdur ecki eptir hinn minsti trúar edur gledi neisti í sálu þinni. Og ecki adeins mun øll andlig gledi frá þér hverfa,

heldur mun líka svo öll jarðnesk ánægjusemd verða þér bitur og illa smackandi. Bætist nú útvortis mótlætingar þar ofaná, sem líkliga verdur, til að snúa þér aptur á réttan veg, þá mun endurminning synda þinna gjöra pílur þeirra rétt sárbeittar og banvænar. Þá mun óvinur sálar þinnar, sem af falli þínu er enn djarfari orðinn, reisa sig upp gégn þér, með allri sinni makt og slægð, og leitast við að steypa þér í örvæntingu. Hann mun reyna til að innprenta þér, að þín eylíf sortopun sé aldeilis óumflýanlig. Hann mun innskjóta hjá þér þeim þankum, að það sé til einkis, að þú reynir til að umvenda þér á ný; því allt það ómak, og betrunar tilraun, sem þú gjörir, sé ei til annars, enn gjöra sök þína að verri, og til að steypa þér þess dýpra og dýpra niður í helvíti.

§. 3. Á þann hátt mun hann víst leitast við, að hræða þig frá, að nota þér það óhulta hjálparmeðal, sem enn er eptir. Æ en — láttu hann ecki táldraga þig! Það er satt, að ástand þitt er hörmuliga slæmt og háskaligt; en hugsir þú þér að halda áfram í því, verdur það þó lángtum verra. Þarvið mundi hjarta þitt æ meir og meir forherdast, og þú kynnir þá ecki annars að vænta, enn bráðrar og óttaligustu eydileggíngar. En — lofaður veri Guð! þar er þó ennú nockur von eptir. Sár þín lukta að vísu illa, og eru úldin, sökum þinnar dármensku (Sálm. 38, 6). En rotnan þeirra gétur þó ennú læknast. "Þar er ennú balsam til og læknir í Gilead" (Jerem. 8, 22). Nú svo! gjör því ecki ástand þitt verra enn það er, með örvæntíngunni, eður með að segja: öll mín von er gjörtöpuð, "þessvegna vil eg nú elska framandi Guði og gánga eptir þeim" (Jer. 2, 25). Þetta er einúngis fölsk ályktan, fyrir hvörja þú steypir sjálfum þér í versta háska. Leyf mér því að tala til þín, eins og Guð fordum talaði til síns frásnúna fólks, þá það merkti að ástand sitt var líkt þínu, og vildi því grípa til verstu úrræða: komið til mín, og umvendið yður, þér frásnúnu börn, segir Drottinn! (Jer. 3, 1. 14.) Ákalla þessvegna Guð um hans náð, og leitastu við, fyrir hennar

adstod, ad umvenda þér. Hrópa þú med Davíd, þegar hann var í likri fordæmingu: "eg hefi villt farid sem Lamb, þad farist hefir; leita þú þræls þíns, því eg hefi þó ecki gleymt bodum þínum!" (Sálm. 119, 176.) Og eg vona þad sé gott merki, ad þú hefir þeim ei gleymt. En ef þú nockurntíma vilt umvenda þér, þá gjör þad strax! gack ecki einu fótmáli lengra áfram, á þessum háskaliga vegi, sem þú ert kominn á! Hugsa ecki ad bæta einni synd ennnú vid reikninginn, og sídan ad ydrast þeirra allra saman í einu. Nei, sú sídari vilia yrdi þá verri enn sú fyrri, og ein synd mundi fæda af sér adra, uns-þær yrdu óteluligar, en þín forherding og fordæming æ stærri og stærri. Flýt þér þessvegna í Guds nafni ad frelsa sálu þína og lit ecki aptur til baka! (1 Mos. 19, 17), svo Guds reidi falli ecki í hasti yfir þig. Legg þig ecki til hvíldar, fyrrenn syndir þínar eru fyrirgéfnar, og leyf ecki augum þínum ad sofa né augnalokum ad dotta! (Ordskv. 6, 4); því hvad veiztu, nema guddómligt hefndar sverd kunni ad hitta þig, og ecki lofa þér ad lifa til næsta dags, heldur strax á þessari nóttu, hoggva þig upp, og kasta þér í helvítis eld!

§. 4. Umvend þér þessvegna strax á þessu augnabliki; já, leyf mér ad segja meira: umvend þér á allrahátídligasta hátt, því þér ridur á eingum hlut meira. Nockrir gudhræddir kénnendur hafa, um þetta efni, géfid meiningu sína til kynna, á þann hátt, sem géfid gæti orsök til háskaligrar misbrúkunar, þegar þeir áminna manneskjuna, ad, eptir þad hún fallin sé, skuli hún ecki standa vid, og athuga stadinn hvar hún féll, edur hugsa um, hvornig þad vildi til, ad hún svoleidis féll, heldur strax tafarlaust rísa upp og taka til hlaupa (á Guds vegi) aptur. Þetta gétur ad vísa verid allgott rád í léttvægum tilfellum; en, þegar madur med vitanligri ásetníngs og þvermódsku synd, hefir frekliga ofþýngt samvizku sinni (sem madur skyldi vona, ad sjaldan hendi þær manneskjur, sem einusinni hafa annars med hreinskilni tekid ad lifa sann-gudligum lifnadi), þá sé eg eingan-

veginn skilið, að hvert heldur skynsemin eður ritníngin samsinni ráði því, sem umgétnir kénnendur leggja. Einkum gétur það allrasízt átt heima, þegar maður, yfirfallinn af óforvarandi freistíngu, hefir drýgt svo viðurstyggiligt verk, að hann útaf því er fallinn í stærstu skélfíngu og nærfeldt örvæntíngu í sinni sínu. Þvílíkt tilfelli, sem þetta, er svo stórkostliga mikið ívarið, að apturhvarfið hlýtur að lagast þar eptir. Svoframt þá að slíkar hörmuligar kríngumstæður hafa yfirfallið þig, minn lesari! þá aumkast eg yfir þér inniliga og af öllu hjarta, og bið þig, að svo framarliga þú vilt aptur öðlast frið og rósemi, og ef sálu þinni skal hólpið verða, og hún komast til síns fyrra andliga lífs og heilsu aptur, þá mátt þú ekki tefja við eina einustu stundu lengur. Géf þig strax til alvarligra umhugsana. Brjóttu þvert af með allar aðrar sýslanir, undanteknum þeim, sem þú, fyrir samvizkunnar sakir, einga stund mátt undandraga, hvað í þeim tilfellum, sem eg hér gjöri ráð fyrir, mjög sjaldan mun viðbera. Alít þetta það eina nauðsýnliga efni. Byrja það þarfyrir, sem í Guðs nálægð, og heyrðu með þolinmæði og auðmýkt á það, sem samvizka þín hefir að segja þér, svo þú þess betur gétir séð og fundið, "hvörsu vondt og biturt það er, að yfirgéfa Drottinn þinn Guð" (Jer. 2, 19). Yfirvega allar þær kríngumstæður, hvarvið syndir þínar jukust, og hugsaðu sérdeilis um, hvörsu þú misbrúkað hefir Guðs náð og miskunsemi, hvörsu þú ekki einúngis yfirtroðið hefir þær allrahátíðligustu heitstreingíngar Guði gjörðar, heldur jafnvel smánað símindun þá, sem þú hafðir um kærleika þíns Frelsara, hvörn hann innsiglaði með sínu blóði. Er þetta, þenktu, þakklæti það, sem eg honum inna skyldi? Var það ekki nóg, að honum misþyrmt var af óvinum sínum, skyldi hann líka svo vera í hel sleiginn í húsi þeirra, sem hann elskaðu? (Zach. 13, 6.) Er eg til þess frelsaður, að drýgja allar þessar svívirðíngar (Jer. 7, 19). Skyldi sá blessaði Jesús líða kvöl og dauða fyrir mig, til þess að eg syndga skyldi þess þverúðarsamligar, og móðga Guð með þvílíku skammarligu óþakklæti; þar líkligt var, að velgjörðir hans og

elskuverk Jesú, hefdi miklu heldur haldid mér aptur frá ad syndga, og gjört mér rétt ómöguligt ad styggja vísvitandi? Æ hugsa þú og svo til þess, hvörsu stóra orsök og rétt ad Gud hefir til þess, ad kasta þér burt frá sínu augliti. Já, ad hann hefdi rétt til ad gjöra þig ad einu stakligu minnisteikni sinnar reidi og hegníngar. Þeink til þess, hvörsu hjarta þitt, géti stadist og þínar hendur haft styrk á þeim degi, þá Drottinn vill þér endurgjalda (Ezech. 22, 14). O! allt hvad þú af hörmúngu og sálar plágu reynt hefir ádur, kémst í eingan samjöfnud, vid þad, sem þú óttast mátt, ad þér búid sé, þegar þér verdur frá augliti Guds og hans nádar eylífliga burtuskúfad.

§. 5. Lát slíkar hugsanir, sem þessar, festast í hjarta þér! Lát syndir þínar ætíd med audmýkt standa þér fyrir augum, og því vidbjódsligri og plágufullri sem þær verda þér, þess betra hefir þú af því. En þó máttu ecki láta sökina hér vid standa. Allar þessar hugleidíngar eiga ecki ad eins ad mida til ad hryggja þig, heldur og til ad lækna; já, pína sú, sem þær olla þér, á ad þéna þér til heilsubótar. Þú hlýtur ad vísu ad líta til syndariunar, en þó einkanliga, í þeim kríngumstædum, ad líta til Kristum. Æ lít til hans, sem þú med þínum nýu ásetníngs syndum hefir djúpara enn ádur gégnum stúngid, og hrygstu yfir hönum med hreinskilni og vidkvæmni (Zach. 12, 10). Sá Gud, sem þú módgad hefir, hvörs bodord þú hefir yfirtrodid og hvörs réttlæti þú med þinu fráfalli rétt sem fóttrodid hefir, er eingu ad sídur yfirmáta miskunsamur Gud. Þú kannt aldrei ad vera svo reidubúinn til ad umvenda þér, sem hann til ad taka ámóti þér. Já hann ennnú rétt býdur þér (meigi eg svo segja), sættir, med þeim kroptugu og sætu hræríngum, sem hann uppvekur í hjarta þinu. En hugsa til þess, á hvörn hátt sætt þessi gétur skéd. Hún hlýtur ad ské á sama hátt, sem hún skédi, þegar þú í fyrstu nálægdist hann, nefnil. sökum hans allraelskuligasta Sonar Jesú Krists, og fyrir hans nafns sakir. Snúdu þér á ný til Jesúm, svo sála þín meigi líka sem ádreifd verda med hans blódi, þannig hreinsud, og þér þínar syndir

fyrirgéfnar. Sú þín ný drýgða synd, sem sá blessaði Guð sá fyrir, hefir sannliga aukið pínu þíns Frelsara; því hennar vegna hefur hann líkasvo úthellt sínu blóði. Gack því í auðmýkt til hans, og legg þín samvizku sár undir þessa dýrmæta balsams dropa, sem einúngis duga til að lækna hana. Þeim meðaumkunarsama Frelsara er það eptirlæti að hjálpa þér á fætur aptur, þegar þú í auðmýktinni liggur fyrir fótum hans, og sárbiður hann þar um. Já, hann vill, af náð sinni, taka hlutdeild með þér, í öllum þeim friði og ánægju, sem hann þér meðdeilir. Þú hlýtur því, hans vegna, að endurnýja þinn rofna sáttmála við Guð, þann sáttmála, sem að vísu sýnir þér hans stránga réttlæti, hvert þú yfirtroðið hefir, jafnvel þó þú, fyrir náðina, gétir við hann aptur sættur orðið. Og þegar þú hugleiðir á hvorn hátt þú þennan sáttmála yfirtróðst, þá lát það skuldbinda þig til að inngánga hann aptur á ný, og það með lángt stærri sannfæríngu, um þinn eigin breiskleika, enn áður, og með enn inniligara trausti til Guðs náðar, enn þú híngað til haft hefir, svo sáluhjálp þín verði þess vissari. Eg veit, þú munt skammast þín, að koma fram fyrir Guð, ásamt hans börnum í hans helgidómi, einkum við hans heil. borð, með því þú veizt uppá þig svo margar grúaligar syndir. En blygðan þessi hlýtur að sigrast með því meðali, sem forsjón Guðs opnar þér þar til. Auðmýk þig þessvegna fyrir Föður þínum, hvorn þú móðgað hefir. Þar er sannliga einginn hentugri staður til, hvar þú framar kannt auðmýktur að verða, enn þegar þú ert í hans heil. húsi, og eingin innstiptan, sem betur gétur sýnt þér auðvirðiligleika þinn, enn sú, hvar **Jesús Kristur verður þér svo afmálaður, sem hann hefði krossfestur verið fyrir augum þér** (Gal. 3, 1). Það eru alleinasta syndarar, sem þángað hafa erindi. Þær beztu manneskjur koma fram að Drottins borði, sem syndarar. Sem þvílíkur einn gétur þú líka komið þángað, já sem sá allrastærsti syndari, sem sá, er stærri þörf hefir fyrir Kristi blóðs hreinsandi krapt, enn nockur önnur skepna á jörðunni.

§. 6. Leyf mér ennnú að minna þig á einn hlut: hafi þinu fráfalli frá Guði verið svoleiðis háttað, að þú hafir aðra með því hneigslað, þá leitaðu ecki við að dylja það, eður fegra yfirsjón þína, allrasíst að óttast minkun þá, er þú kvíðir fyrir, ef þú hlýtur að auðmýkja þig, þessvegna, fyrir øðrum. Í sannleika er niðran sú og særíng, sem þvílík auðmýkt ollir, ágætur læknisdómur, sem Guð af sinni miklu náð hefir í slíkum kríngumstæðum ákvarðað. Játa syndir þínar í slíkum tilfellum fríviljuglega, sem þú best gétur, og útmála þú þær sjálfur sem svívirðilegastar, og bið þá, sem þú hneigslað hefir, um fyrirgéfníngu og fyrirbón þeirra til Guðs; þá kémst þú aptur til friðar og róligheita, en ecki fyrri. Þú mátt eingan veginn fegra feil þín, eður brúka falskar afbatanir, né kénna því um, að aðrir hafi ei betur við þig breytt. Og ef þér er géfin opinberlig áminníng fyrir synd þína, þá máttu ecki álíta þá alvøru og beiskju, sem í henni vera kann, jafn straffsverða, sem syndin var, sem tilefni gaf til þess, að áminningin hlaut svo beisk eður skorp vera; nei, slíkt sprettur einúngis af hofmóð hja þér og syndugri sjálfselsku. Þetta er líkt þínu þeirri, sem maður finnur til í sári því, sem hefir spillst, svollið um og bólgnað, svo það hlýtur að skérast upp og hreinsast, áður enn það læknað verður. Slíkt gjørir þeirri sálu, sem øldúngis er auðmýkt og sundurknosuð fyrir Guði, og finnur til þess að hún unnið hefir til Guðs stránga dóms; það gjørir henni, segi eg, litla þraut, þó manneskjur lasti hana og fordæmi. Þvílík sála æskir lángt heldur að undirkasta sig makligri smán, til að gjøra Guði dýrð þar með; og hún óttast fyrir, að hún ella kunni að afvegaleiða aðra, til að hafa betri þánka um sig, enn hún veit með sjálfri sér, að hafa tilunnið. Þvílíkt sinnislag géfur Guð þeim syndara, sem af hreinskilni vill betra sig; og með þesshátar meðølum og kríngumstæðum hjálpar hann hønum aptur til álits þess og virðíngar hjá øðrum sem hann ella féck ecki sjálfum sér aflað, sem Guð vill þó, hønum, til huggunar og nota, hann njóta láta; og á annan hátt, enn þennan, sem eg sýnt hefi, er ómøg-

ulígt, eptir mannligri vísu ad tala, ad hann hjálpast géti. En þar er nockud svo hrósverdt í því falid, ad medkénna frjálsliga sínar yfirsjónir og audmýkja sig fyrir þær, ad sérhver, sem þad sér, hlýtur sannarliga ad því ad dádst. Menn aumkast yfir slíkan yfirtrodslumann, hvørs sinnislagi svoleidis varid er, og sýna vidleitni til ad hugga hann og hugsvala honum med því ad láta hann sjá, ecki ad eins merki til síns kærleika til hans, heldur og ad þeir beri virdíngu fyrir honum.

§. 7. Haldtu mér þad nú, kæri vin! til góda, ad eg hefi farid svo morgum ordum um þetta, sem þó ecki á heima, nema í vissum tilfellum; en mundi þó géta átt heima í morgum fleiri, ef nockur regluligur kyrkjuagi væri ennnú vid lídi; því ef þad væri, mundi eingum leyfast ad gánga til Guds bords, svo lengi sem hann færi fram í bersýniliga hneigsllisligu líferni, nema þann fyrst hefdi yfirsjónir sínar og syndir opinberliga vidurkénnt, og géfid ljós merki til þess, ad hann vildi sig betra. En hér fyrir utan kunna morg þau tilfelli og dæmi ad géfast, þá einn ad vísu hefir hormuliga fallid frá Gudi, en synd hans — þó hún í Guds augum sé stór og geisilig — er samt hulin fyrir mannana augum. Í hvilíkum tilfellum skaltu vita þad, ad þú hefir vid hann einúngis ad sýsla, fyrir hvørs augum allir hlutir naktir eru, og sýna sig í þeirra réttu mind. Kasta þér þessvegna nidur fyrir fótum hans, og leitastu vid ad sætta þig vid hann fullkomliga, og géta svo ordid fullviss þarum, fyrir verduga endurminníngu hans Sonar blóds og dauda. Þegar þetta skéd er, þá innbirladu þér samt ecki ad sokum þess þú odlast hefir fullvissu um fyrirgéfníngu synda þinna, ad þú þar fyrir, allt í einu, gleyma megir synd þinni, sem fráfall þitt orsakadi. Einganveginn! hafdu hana sífeldt í minni þér, til advorunar þér framveigis. Barma þér yfir henni fyrir Gudi, svo opt sem þú í einrúmi tilbidur Gud. Athuga med audmýkt or þeirra sára, sem þín eigin dármenska þér ollad hefur, og þad jafnvel allteins, þó þú vitir ad þau fyrir Guds nád fullkomliga aptur læknud séu; því Gud hefir ecki stadfest sáttmála sinn til þess, ad þú

gleyma skulir þínum vidbjóðsligu misverkum, heldur til þess þú skulir minnast þeirra og blygdast, og ecki framar uppljúka þínum munni fyrir þinuar vanvirdu skuld, þegar eg hefi þó fyrirgéfid þér allt þad, sem þú gjört hefir, segir Drottinn Drottinn (Ezech. 16, 63).

§. 8. Og nú í einu ordi: ef þú óskar ad odlast þvílíkt sinnislag, og ad snúa þér aptur til Guds á þennan hátt, þá kastadu þér strax tafarlaust nidur fyrir Guds augliti, og úthell hjarta þínu í hans nálægd, á eptirfylgjandi, edur líkan hátt:

## Bæn fyrir þann, sem fallid hefir í stór syndir, eptir þad hann hafdi tekid fyrir sig og skuldbundid sig, til ad lifa í sönnum Gudsótta.

O, þú heilagasti, heilagasti, allraheilagasti Drottinn Gud! Þegar eg af allri alvöru hugsa um þinn flecklausa heilagleika, og hvorsu þú trúliga og fylgislaust stjórnar öllum hlutum, samt um þinn stóra og almáttuga myndugleika, sem megnar ad framkvæma strax og hindrunarlaust alla þína hjartans þánka, þá hlýt eg í dag makliga ad koma fram fyrir þig med skömm og skélfingu, midt í því sála mín er rétt forvida og frásérnumin. Eg vildi gjarnan á þessum degi, ó minn Gud! á þessum myrkva og sorgliga degi fá mér tækifæri ad líta tilbaka, og hugsa um þann grátliga uppruna til allra vorra synda og hörmúnga, nefnil. um fall vorra fyrstu foreldra, og segja svo med þínum synduga þénara Davíd: sjá, eg er fæddur af syndsamligu sædi, og í syndinni gat mín módir mig. Eg vildi gjarnan á þessum degi klaga yfir öllum þeim óluckuligu afleidslum, sem þetta þeirra fall orsakad hefir. Og — ó hvorsu óteljandi hafa þær ecki verid! Þegar eg hugsa til synda þeirra, sem eg framdi þegar eg var ennnú óumvendtur, sídan til þeirra yfirsjóna og breiskleika, sem hitt hafa mig í frá þeim tíma, hlýt eg med fullum rétti, ad verda til skammar. En hvorsu má þó miklu framar þad ástand mitt, sem nú opid liggur fyrir minni samvizku, og fyrir þínum alskygnu augum, gjöra mig daudskélfdan! Því þú, ó Drottinn!

veizt mína bármensku, og mín sok er ecki hulin fyrir þér. Þú hefir talid minn flótta og mínar afvikníngar frá þínum bodordum. Þú sér og þeckir alla óhlýdni mína og þverskollun móti þér. Þú sér þetta, med ollum þess skélfiligu kríngumstædum, sem eg naumast sæ sjálfur séd, og med morgum fleiri, sem eg aldrei hefi séd né adgætt. Hvornig skal eg þá géta komid fram fyrir þitt auglit, og lypt mínum augum til þín. Eg er fullur af forsmán, og eg finn til heimugligrar skélfíngar í hjarta mínu, þegar eg hugsa til þess, ad vilja leita hjálpar hjá þér. En, ó Drottinn! hvort skal eg þó snúa mér, nema til þín? já til þín, í hvors hendi líf mitt og daudi er; til þín, sem alleinn burtutekid gétur frá mér byrdi minna synda, sem nú þryckja mér í duptid nidur. Þú sem alleinn hjálpad gétur sálu minni, til ad ná aptur sínum fyrra fridi og rósemi, er eg tapad hefi, og er makligur ad tapa eyliffliga. Sjá, Drottinn Gud! eg snara mér nidur fyrir þínum fótum! Sjá! eg áklaga mig sjálfan í þinni náviſt, og játa mig sekan; já, eg kasta mér undir þitt réttlæti, því eg fæ ecki umflúid þad! Eg hefi ecki eitt ord móti ad bera, mér til forsvars, edur þad minsta til ad afbata mig med; því ord eru eins ógild til ad gjora mig saklausan, sem þau eru ónóg til ad útmála fjolda og andstygd synda minna. Þú, ó Drottinn! þú alleinn veizt til fulls, hvorsu stórar og vidbjódsligar þær eru. Þín óendanliga vizka allein gétur ransakad þeirra óendanligu vondsku dýptir. Eg er í morgum tilfellum aldeilis ófær sjálfur til ad gjora þad. Eg gét ecki í huganum gripid edur grundad dýrd þinnar heil. hátignar, hvorrar myndugleika eg forsmád hefi; ei heldur þá óteljanliga gnægd þinna nádarveitínga, móti hvorjum eg syndgad hefi. Eg fæ ecki ímindad mér þad stóra verd, sem blód þíns allraelskuligasta Sonar hefir, hvort eg svo vanþacklátur hefi med fótum trodid, ei heldur verdugleika þíns heil. Anda, hvors nádarkrapti eg hefi, svo mjog sem orkadi, leitast vid móti ad standa, og af ollum kroptum hindrad hans erfidi í sálu minni, og rétt sem med ofbeldi slitid upp rætur hans nádar úr hjarta mér, hvorjar eg hefdi þó átt med

réttu ad vakta sem mitt eigid líf og vökva þær med mínu blódi. O, hvörsu skammar- og smánarlig, já blygdunarlaus hefir min breytni verid? Ad eg svoleidis skuli líka sem hafa rifid upp sár sálar minnar, af hvörjum eg hefdi fyrir laungu eylífum dauda dáinn verid, hefdi ecki þín eigin hönd um þau bundid, og þinn einasti Sonur ecki úthellt sínu blódi fyrir mig. Æ, ad eg svoleidis hefi yfirtrodid þann sáttmála, sem eg hefi vid þig gjört, fyrir eitt offur, já, þvílíkt offur, sem er endurminníng míns Drottins Jesú, svo eg er sekur ordinn vid hans líkama og blód. Æ, ad eg svoleidis skuli hafa smánad og vanvirdt þann sanna Gudsótta med ósæmanda lifnadi, og svoleidis opnad munn þeirra sem hann hata, sem, útaf minni breytni, taka sér tilefni, ad draga spott ad honum, og innprenta mörgum þvílíkar meiníngar um hann, sem géta steypt þeim í eylífa fortöpun. Eg forundra mig, Drottinn minn Gud, ad eg ennnú er hér, og gét vidurkénnt allt þetta. Eg forundra mig ad þú ecki, fyrir laungu sídan, hefir allareidu í þinni brennandi reidi, sem med ödru þrumuslagi kastad mér nidur til helvítis, og gjört mig þar til skélfíngar, svovel sjálfum mér, sem öllum ödrum þar umkríng mig; já, til spegils uppá hefnd þína og reidi, svo menn hefdu kunnad ad sjá þar mismun á mér og ödrum, í tilliti mér uppá lagdra þýngri kvala, svosem stærsta syndara, jafnvel þó allir plágist þar á sinn hátt, af ángist og örvæntíngu. O Gud, þín þolinmædi er forundrunarlig, en þín nád er ennþá forundrunarligri, sem, ad öllu þessu óögtudu, býdur mér nú til sín ad koma. Medan eg stend nú hér, og afsegi dóminn yfir sjálfum mér, ad eg sé dauda makligur, já eylífs dauda, sendir þú mér þitt eylífa lífsins ord, og kallar mig, sem frásnúid barn, ad eg skuli mér til þín snúa. Sjá þarfyrir, ó Drottinn! ad eg kém, eptir þínu nádar tilbodi í ordi þínu; og jafnvel mínar yfirtrodslur stórar séu, bid eg þig þó audmjúkliga, ad þú virdist mér þær ad fyrirgéfa; því eg veit, ad jafnvel þó mínar syndir nái til himins, já, upp til hinna efstu skýa, þá er miskunsemi þín þó miklu hærri enn himininn er. Utbreid þessvegna, ó þú himneski Fadir!

þessa þína miskunsemi yfir mig, og gef mér þarmed ljósa rok-semd um ríkdóm nádar þinnar, og þíns Sonar blóds óendan-liga krapt. Því vissuliga, ef þvílíkar purpuraraudar syndir, sem mínar eru, géta ordid hvítar sem snjór; og ef þvílíkur yfir-trodslumadur, sem eg er, gétur odlast eylífa sælu, þá hlýtur jördin — svo vída sem þad kunnugt verdur, fyllast med for-undrun og himininn med lofsaung; og sérhver stórsyndari, má med djörfúngu leita sínna synda fyrirgéfníngar, svoframt eg, sem er hinn stærsti af öllum syndurum, gét odlast nád. Æ! ad þú vildir þó, eptir þad þú hefir látid mig, svo lengi, sem Þér þóknast, liggja í tárum, og líkasem í blódi, fyrir fótum þér, loksins lækna mína aumu sálu, sem móti Þér syndgad hefir! Géf mér prýdi fyrir öskuna, gledinnar olíu fyrir hrygdina, og fagran skrúda fyrir sorgfullan anda! Æ, ad þú aptur vildir leida mig til yndisligs hjálpraedis, láta mig heyra fögnud og gledi, svo þau beinin mættu styrkjast, er þú sundurknosad hefir! Þegar eg þá finn, ad þinn kærleiki er úthelltur í mitt hjarta, og ad mín sála gétur gladt sig vid þína raustu, af því hún bodar mér fyrirgéfníngu synda minna, þá vil eg kunngjöra þína nád og miskun aptur, fyrir ödrum; já, þá vil eg kénna yfir-trodslumönnum þína vegi, svo syndararnir munu þá snúa sér til til þín. Þeir sem frá þér horfid hafa, munu þá, útaf þeirri nádarreynslu, sem á mér ræzt hefir, upphvetjast til ad leita þín, því eg vil med gledi, þér til dýrdar, segja frá því, sem fram vid mig komid hefir, enda þó eg sjálfs míns vegna megi skammast mín ad opinbera þad. O, láttu þessa gledi, frá sjálfum þér, vera minn styrkleika, svo eg í honum framvegis géti þjónad þér, med þvílíkri alvorugéfni og vandlæti, sem yfirgengur allt þad, sem eg híngad til þekt og vitad hefi! Um þetta vil eg, í hjart-ans audmýkt og ofurgéfníngu undir þinn vilja, bidja þig, því eg vogast ecki til ad krefjast neins af þér. En skyldi þad þókn-ast þér, ad þú, ödrum til vidvörunar, vildir dæma mig til ad gánga alla mína lífstíd í myrkri freistínganna, og loksins til ad láta mitt líf í þeim sama sorgardymmu skugga; æ, þá verdi

þinn vilji! En, æ minn Gud! láttu þó, fyrir þíns Sonar sakir, þessa mína synduga sálu loksins odlast náð; og unnu mér svo eins stadar í þínu dýrdar ríki, þó það verda ætti til fóta allra annara þjóna þinna. O, leiddu mig því ad lyktum — þó það verda ætti ígégnum svo djúpan og svartan sorgadal, sem aldrei hefdi neinn annar ádur þurft ad gánga — inní þá blessudu veroldu, hvar eg aldrei framar mun frá þér, minn Gud, skilinn verda, og hvar eg aldrei framar mun mína samvizku særa, edur þitt heil. nafn vanheidra. Þar skal túnga mín, hvorsu lengi jafnvel sem hún hér hefir, undir syndarinnar skømm og skélfingu, bundin verid, verda fullkomliga laus og lidug, og med ódaudligum loffaung vegsama það sigurríka blód, sem endurleyst hefir þvílíkan einn blygdunarlausan syndaþræl, sem eg játa mig sjálfan ad vera, og sem leidt hefir mig út af þeirri synda dýblissu, í hvorja eg svo opt og djúpt fallid hafdi, til ad njóta sama verdugleika og heilagleika sem þeir, hvorjir ad eru kóngar og prestar fyrir Gudi. Amen!

---

## 24di Kapítuli.

### Ástand þess kristins manns, fyrir hvørjum Gud hefir hulid sitt auglit.

§. 1. Þar er til eitt það ástand, sem opt mætir í lífi og lifnadi eins kristins manns, sem þeir, er æft hafa sig í sönnum Gudsótta, plaga ad kalla: **ad Gud hylji sitt andlit.** Þetta er talsháttur, sem dreginn er af Gudsordi, og þarfyrir vona eg, ad enginn muni forsmá haun sem hann heyrir. Það skal þá vera augnamid mitt í þessum kapítula, ad útmála það svo greiniliga sem eg gét, og géfa lesaranum undir eins nockrar ávísanir, hvornig hann sér hegda skuli, svoframt hann í þvílíkt ástand rata kann; sem audveldlega skéd gétur, fyrrenn hann fullendad hefir reisu sína, gégnum þessa villugjörnu veroldu.

§. 2. Meiníng þessara orda gétur ad nockruleiti upplýstst

af ødrum gagnstødum tálshætti Ritníngarinnar, þegar sagt verdur: "ad Gud láti sitt andlit lýsa yfir menn, edur upplypti sins auglitis ljósi yfir þá". Þetta sýnist ad líta til þess blída og hýra yfirbragds, sem vart verdur á eins vinar andliti, einkum ef hann er af háu standi, þegar hann umgengst í vinsemd þann, sem hann elskar og hefir gédþocka til. Svoleidis segir Jób, þegar hann talar um þá stóru virdíngu, sem þeir, ed hjá honum voru, høfdu audsýnt honum: "ef eg brosti vid þeim, trúdu þeir því ecki, og þeir høfdust eckért ad, svo mitt andlitis ljós félli" (Jób 29, 24). Þad er, þeir báru umhyggju fyrir því, ad þeir ecki fremdu neitt þad, sem mér mislikad gæti. Og þegar Davíd vildi til kynna géfa, hvorsu innilíga hann þrádi eptir Guds nádar opinberun, segir hann: "Drottinn, upplyptu ljósi þíns andlitis yfir oss!" Og því næst útmálar hann þá verkun, sem þaraf flaut: "þú gafst minu hjarta gledi, stærri enn þá, sem þeir hafa, hvørra korn og vín er yfirgnæfanligt" (Sálm. 4, 7. 8). Nú gétur þad vel verid, ad Davíd, med talshætti þessum, midi til þess ljóss, sem ský- og elds-stólpinn gaf frá sér; sem var þesshátter glans, er lét sjá sig í einu ský, til sýniligrar rokssemdar um nálægd Guds hjá Israelsfólki. Því svoleidis þóknadist Gudi á þeim tímum, ad opinbera sig á stakligan hátt, til merkis um sína nádar nálægd. Þvert á móti, þegar sagt verdur: ad Gud hylji sitt andlit, þá gétur madur ecki annad skilid þar med meint, enn ad Gud apturhaldi merkjum nádar sinnar fyrir oss, sem er teikn hans óvildar; því svoleidis kémst Esajas ad ordi: "ydar misverk gjøra adskilnad milli ydar og ydar Guds, og ydar syndir ollu því, ad hann byrgir sitt andlit fyrir ydur og heyrir ydur ecki" (Es. 59, 2); og aptur segir hann: "þú huldir andlit þitt fyrir oss, og lézt oss vanmegnast undir þúnga vorra misgjørnínga" (Es. 64, 7). Og þegar þar stendur: "ad Gud hylji auglit sitt frá vorum syndum" (Sálm. 51, 11), þá þýdir þad, ad hann umberi þær og fyrirgéfi. Sømu þýdíngu hefir þad líka á ødrum stødum í Rit-

íngunni, þá sagt verdur: "ad Gud hylji sín augu" (Es. 1, 15) frá þeim, hvorra lifnadur honum er svo ógédfeldur, ad hann ecki vill adeins vid þeim líta, þegar þeir frambera fyrir hann sínar bænir. Þessi er nú berlig meiníng Ritníngarinnar undir þess-háttar tálsháttum. Og nú á tímum nota kristnir sér optliga þá sömu, og géfa þarmed til kynna hluti þá, sem sýnast vera merki til Guds reidi og styggdar yfir þeim.

§. 3. Framar er þad athugandi, ad þvílíkir hlutir, sem vér álítum fyrir auglýsíngu Guds nádar og velþoknunar til vor eru ecki einúngis og sérdeilis líkamligrar tegundar, edur þess-háttar, sem adeins snerta þær blessanir, er fylgja þessu jardneska lífi. Og jafnvel þó fyrirheit Guds, í gamla Testamentinu, midi líka svo ætíd til slíkra hluta, hafdi Davíd þó lært ad líta lengra fram, og afmálar hann þessvegna þær blessanir, sem kristnir í vændum eiga, lángt ypparligri, og gjörir því merkiligan mismun millum slíkra og þeirra, sem falnar eru í "gnægd korns og víns" (Sálm. 4, 8). Og ef þér, vid hvörja eg nú tala, ecki þeckid mismun þennan, þá er þad berligt merki þess, ad þér erud öldúngis fáfródir í þessu efni, sem vér nú tölum um, og þér hafid vissuliga mestu þorf á ad læra þá fyrstu upphafs stafi í sönnum Gudsótta. Allt þad sem Davíd segir, áhrærandi "ad skoda Drottins dýrdligleika" (Sálm. 27, 4); edur um "ad mettast af merg og af feiti, þegar hann hugsar til hans í sínu legurúmi" (Sálm. 63, 6. 7), sem og um "ad mettast af gædum hans húss, og af þeim heil. hlutum hans mustéris" (Sálm. 65, 5), þad hlýtur ad takast í hinni sömu meiníngu, og þarf litillrar útskíríngar vid, fyrir þeirri sálu, sem komin er ad vissri raun um slíka hluti. En þeir sem "Guds andlitis ljós og skin" þeckt hafa, géta audveldt, eptir þeirri þeckíngu, sem þeir hafa, gjört sér ímyndun um þessa talshætti: "ad Gud hylji sitt andlit" edur burtutaki þvílík teikn, sem hann géfid hefir fólki sínu, til sinnar nádarnálægdar, sem margopt gjörir oss farsæld vora í heiminum mjög bitra og ógédfelda, en þarámóti þegar vér í lífinu njótum hans nádarmerkja, þá sikra

þau oss svo mjøg allan mótgáng og hrygd, og burtsvipta øllum þeirra krapti, ad vér naumast til þeirra finnum.

§. 4. Leyf mér nú, minn kristiligi vin! (því undir þessu nafni vil eg nú ávarpa þig, minn lesari), ad minna þig á, hvörsu fljótt þad skéd getur, ad Gud svipti sinnar elsku og nádar merkjum frá þér, svo þú ecki finnir framar til þeirra. Og jafnvel þó þú nú njótir þess eptirlætis, ad sjá ljós Drottins yfir þig skína, og þó þér jafnvel, sem stendur, finnist sem sólskin og heidbjartur dagur sé í sálu þinni, þá gétur þad skéd, ad þú missir þessar allrayndisligustu skodanir Guds nádar og dýrdar frá þér, af hvörjum þú hefir nú svo stóra innvortis gledi og ánægju, þegar þú slíkt fyrir þér virdir. Pad gétur skéd, ad þó þú virdir í þaunkunum fyrir þér Guds stóru eiginligleika, til dæmis hans vísdóm og makt, miskunsemi og réttlæti, heilagleika og sannleika, ad þú samt einga huggun og gledi gétir haft af því í sálu þinni; já, ad þad ecki taki meira á hana, enn umhugsan hvörs annars almenniligs hlutar. Pér gétur fundist, einsog þú mist hafir alla háa ímindun um þessi mikilvægu ord, sem þó ádur, þegar þú hugsadir um þau, uppvöktu í sálu þinni þvílíka gledi, ad hún vard rétt, sem frá sér numin af forundrun og elsku; og svoleidis kanutu ad gjørtapa allri sætri tilfinníngu Guds nádar. Já, hvad meira er, þú kannt ad komast í hørmuligan efa og óvissu um þad, hvört þú í rauninni áhángir Gudi nockud edur eckért, og heilags Anda verkanir kunna svoleidis ad formyrkvast í sálu þinni, ad þau sérligu kénnimerki, af hvörjum madur þeckt gétur, hvört heil. Andi í sér búi edur ecki, géta rétt ad segja, ad øllu leiti frá þér horfid. Pú kannské fallir á þá meiníngu, ad þú hafir eckért nema táldregid þig ádur í von þinni. Parmed kannské fylgir ogsvo þad, ad øll medøl nádarinnar, sem þú ádur gladdir þig vid, gjøri þér nú enga huggun, og þad jafnvel midt í því, ad þig þó af alvøru lángar eptir, ad sameinast Gudi, fyrir brúkun þeirra. Pad er møguligt, ad þú heyra kunnir þau allraynndisligustu sannindi Evangelii útlistud fyrir þér; þú kannt ad vera áheyrandi, hvörsu þad dýrdliga Guds barna frelsi er fyrir

sjónir sett, á þann hátt, sem mest gétur hrært hjartað, og verða þó ecki hið minsta var þess, að þú í þeim nockurn þátt eður hlutdeild eigir. Og kaldlyndi þetta og tilfinníngarleysi kann að leiða þig til þess þánka, að þú hafir ecki það allraminsta að sýsla með slíka hluti: "þá mun hjarta þitt verða fullt af skélfíngu einni" (Es. 33, 18). Þú munt þá álíta allar þínar kærustu unaðsemdir — sem þú áður naust — ei nema til að auka hörmúngu þá sem á þér liggur, og gjöra hana þér því pínufyllri, þegar þú hugsar til þess, hvílíkan smeck þú áður fanst í þvílíkum hlutum, en sem þér nú er allursaman gjör tapaður. Já, þú munt kannské iminda þér, að þeir sem aldrei hafa neinar guðligar hræríngar haft, séu lángt farsælari enn þú, eður að minsta kosti ecki eins vesælir. Þú kannt máské midt í þessari sinnisveiki efast um, að þú nockurntíma réttiliga hafir ákallað Guð, og að allt það sem þú álitið hefir fyrir umgengni með honum, hafi ecki verið nema tómur táldráttur og sjálf ánægju innbirlíng, sem sá stóri óvinur sálar þinnar hafi hjá þér verkað, til að láta þig trúa því, að ástand þitt gott væri, svo hann þess auðveldligar gæti gjört þig að sínu herfángi.

§. 5. Í þessu ástandi kanntu nú að verða staddur lángan tíma, og nota þér öll náðarinnar meðöl til ónýtis, svo þér loksins sýnist það til einkis, að leitast við að komast í samfélag Guðs með brúkun þeirra. Þú kannt maské að úthella hjarta þínu heimugliga fyrir Guði, og þaraðauki koma til þeirrar opinberu Guðsþjónustu, og þó finna sára litla ánægju og uppbyggíngu af hvorutveggju, heldur hljóta að klaga með Davíð: "minn Guð! eg hrópa á daginn, og þú svarar mér ecki, og á nóttunni, og eg hefi (samt) enga ró" (Sálm. 22, 3), eður með Jób, segjandi: "sjá! þó eg gángi áfram, þá er hann ecki þar; þó eg snúi tilbaka; finn eg hann ecki að heldur; gjöri hann nockuð mér á vinstri hlið, þá sæ eg ecki séð hann; feli hann sig til hægri hliðar, þá gét eg (heldur) ecki fundið hann" (Jób. 23, 8. 9). Svo að allt það sem þú

í þínum þaunkum álítur fyrir Guðsótta, mun þér finnast vera orðið að tómri sorg, ótta, ángist og hugarpínu, sem þú finnur til út af þínum eigin vonðungleika. Þessvegna muntu jafnvel ecki vogast til að upplypta augum þínum til Guðs, já, nærfeldt munt skammast þín að koma fram í opinberum söfnuði kristinna, sem þú álítur Guðs börn að vera. Eg hefi orðið þvílíks ástands var meðal kristinna í hærri tröppu, sem þó gjört höfðu merkiligan framgáng í sönnum Guðsótta, og hvörja Guð sæmt hafði náð framar öðrum þeirra meðbræðrum, með því sem hann gjört hafði þeirra vegna, og framkvæmt fyrir þeirra hönd. Leyf mér þessvegna, þar eg þetta hörmuliga ástand afmálað hefi, að leggja þér nockur þénanlig ráð þarámóti; og álít ecki þetta sem hugarburð minn einn og rángar innbirlíngar, þar sem það þvert á móti sprettur af virkiligri reynslu í þeim hlutum, sem optliga skéð hafa, og sumpart af hreinskilinni og inniligri laungun, að hjálpa einu frómu og særðu hjarta, sem í slíku eymda ástandi er, til rétta aptur. Að minsta kosti er eg víss um, að sá mikli hirðir sauðanna forsmáir ecki tilraunina, né mislíkar hún, því hann hefir skipað oss að "hugga þá ístöðulitlu" (1 Thess. 5, 14).

§. 6. Ráð þau, sem eg vil þá leggja þér, eru skír og augljós. Þau eru bygð á hreinni skynsemi; og eg vona þau framar munu hvetja þig til að fylgja þeim enn forkasta, vegna þess þau augljós eru. Nú, svo þá! Leitastu í þvílíkum sorgligum kríngumstæðum að vera auðmjúkur og þolinmóður. Þú hlýtur að viðurkénna, að "Drottinn er réttlátur, en þú hefir mótstríðugur verið hans munni" (H. grát. 1, 18). "Eyru Drottins eru (að vísu) ecki þúngheyrð, svo hann ecki heyrt géti; en yðar misgjörðir gjöra aðskilnað millum yðar og yðar Guðs, og yðar syndir olla því, að hann hylur sitt auglit fyrir yður, og vill yður ecki heyra" (Es. 59, 1. 2). Kasta þér þessvegna í duptið niður fyrir honum, og viðurkénn, að þú hefir unnið til þess allssaman; já, ecki aðeins unnið til, að þín sól formyrkvist um sinn, heldur að hún gángi ofdúngls undir, og komi aldrei upp aptur, og að sála þín píníst í eylífri

formyrkvun. Vertu samt ecki óþolinmódur, svolengi skýid vidvarir, lát ecki "reidi þína uppæsast, heldur bíd þú eptir Drottni" (Sálm. 37, 8. 34). Lát sálu þína standa stöduga í heilagri kyrd og hógværd. Vertu reidubúinn og fús til ad bída eptir hans tíma og bera hans reidi í þeirri audmjúku von: "ad hann vilji þó aptur koma og miskuna sig yfir þig" (Jer. 12, 15). "Gud hefir ecki öldúngis gleymt nádugur ad vera, ei heldur hefir hann tilbyrgt sína miskunsemi fyrir reidi sakir" (Sálm. 77, 30). "Því Drottinn mun ecki burtusnara eylífliga; og, ef hann hryggir, þá mun hann miskuna sig (sídar), eptir sinni miklu miskunsemi" (H. gr. 3, 31). Þegar madur tala vill í samlíkíngu, "þá er þad adeins um litid augnablik, sem hann hefir þig yfirgéfid", en þú mátt í audmýkt vona, "ad hann vilji aptur samansafna þér, med stórri medaumkun" (Es. 54, 2). Þessi ord — sem svo vel eiga hér vid — eru ecki mín, heldur Drottins ord, og hafa þessa merkíngu í sér, ad sála sú, sem Gud hylur sitt andlit fyrir, kann þó ad lyktum komast aptur í hans nádar samfélag, og ad Gud vill úthella yfir þvílíka sálu straumum sinnar eylífu miskunar.

§. 7. En ámedan, svo lengi formyrkvanin yfirstendur, hlýtur þú ad halda vid veginn ad æfa þína skyldu. Haldtu áfram ad nota þér öll nádarinnar medöl og stiptanir. Lestu kostgæfiliga Gudsord, og yfirvega vel hvad þú les. Bid Gud, já lofa hann og vegsama med andligum saungvum, jafnvel þó þú verdir ad gjöra þad þúngu hjarta. "Gack út á slódir saudanna" (Lofkv. 1, 8); máské þú med því móti fáir ad mæta hirdir sálnanna. Settu þig, ad minsta kosti, í veg fyrir hann. Þad er mögugligt, ad þú á þann hátt getir fengid vinsamligt tillit af honum; og eitt hans tillit til þín, einn einasti þánki, sem hann lætur þér í hug smjúga, getur allt í einu líkasem gjört himininn heidbjartan fyrir þinni sálu. Gack þú til Gudsbords; og þó þú finnir enga innvortis gledi þarvid, þá gacktu samt

þángað hryggur. Gack þángað og klagaðu nauð þína fyrir þínum Frelsara, "hvørn þú hefir með þínum syndum í gégnum stúngið" (Zach. 12, 10). Gack þú þángað, segi eg, og barmaðu þér yfir því, að þú hafir yfirtroðið þann sáttmála, sem þú hefir þar svo tíðt og opt lofað að halda. Máské Kristur kunni að opinbera sig þar fyrir þér við brauðsins brotníngu, eins og forðum (Lúc. 24, 35); og þú kannské finnur þá, til þinnar stærstu furðu, að hann hefir verið nær þér enn þú þenktir, já þenktir hann væri lángt í burtu, og að hann hefði snarað þér burt frá sínu augliti. Leita þér huggunar í þvílíkum atsofnum sem þessum, en ecki í heimsins hégómligu ánægjusemdum, og sansaligu skémtunum. Eg gleymi aldrei þeim hjartahrærandi orðum, sem eg er fullviss um, að komu frá sannfrómu og guðhræddu hjarta, sem nærstum því ætlaði að géfast upp, og søckva til botns, undir byrði þvílíkrar sorgar og sálarángistar, sem eg útmálað hefi. Orðin voru þessi: "æ Drottinn, ef eg fæ ecki að hafa þig, þá láttu mig ecki hafa neitt annað, heldur láttu mig fylgja þér með ángist eptir allt niður í grøfina!" já eg forundraði mig yfir að heyra, að undir eins og orð þessi voru úthellt fyrir Guði í bæninni, varð byrði hjartans strax øll í burtu numin, og Guðs Anda endurlifgandi gleði géfin þessarl somu sálu.

§. 8. Einasta einni ráðleggíngu vil eg hér við bæta; og hún er þessi, að þú á ný leitir eptir hjálp í Jesú blóði, sem verkað hefir friðþægíngu millum Guðs og þinnar sálar. "Hann er sá sem er vor friður, og vér, sem forðum vorum fjarlægir, erum nú, fyrir Krists blóð, nálægir orðnir" (Eph. 2, 13) þessi er sá elskuligi, á hvørjum Guð hefir velþóknun (Matth. 3, 17). Og hann er sá, í hvørjum Guð hefir oss til náðar tekið, til lofs sinni dýrðarligu náð (Eph. 1, 6). Gack þessvegna, þú kristin sála, og snú þér í trúnni til þess krossfesta Frelsara; far þú og leitaðu hjálpar hjá honum, sem miskunsömum æðsta presti, fyrir hvers augliti þú skalt birta nauð þína. Opinbera þú fyrir honum ángist sálar

þinnar; því hann, sem siálfur — þó í hærsta máta furdanligt væri — hlaut, framar öllum, þá harma klögun ad framberà: "Gud minn, hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig!" (Matth. 27, 46) veit best hvad þú hefir ad lída. Leita þú hiálpar og miskunar hiá hönum, sem siálfur leid, og ecki einúngis siálfur var freistadur, heldur og, eptir öllu útvortis áliti, vard aldeilis yfirgéfinn. Hann veit því ad koma þeim til hiálpar, sem í þvílíku sorgligu ástandi eru; og hann er bædi reidubúinn og máttugur til ad hjálpa þeim sem freistadur er (Ebr. 2, 18); hann er Immanúel, Gud med oss (Matth. 1, 23); og þad er hans vegna einúngis, ad Fadirinn lætur þá allramildustu geisla nádar sinnar og miskunar yfir oss skína. Lát þú þad vera þvl þína allrastærstu umsorgun, ad þú endurnýir vinskap þinn vid hann. Yfirvega þú líf hans og dauda. Heyrdu hans ord, hugleiddu hans verk; og, þegar þú þetta gjörir, muntu víssuliga finna, ad heilagur sætleiki tekur ad útbreida sig yfir sálu þína. Þú munt þá komast til róligs og sælurîks sinnislags, í hvörju trú og kærleiki mun kroptugliga verka; og Gud mun ad líkindum láta þig heyra þá mildu raustu síns hugganda Anda, uns sála þín brýzt fram med inniligri lofgjörd, svo "þú munt gledja þig, eptir þá daga, á hvörjum þú hefir hörmúngina lidid" (Sálm. 90, 15). Annars kannt þú ad brúka, fyrir Gudi, þvílíkt tal, sem eptirfylgjandi bæn inniheldur.

## Audmjúk bæn fyrir þann mann, fyrir hvörjum ad Gud hylur sitt auglit.

O, þú blessadi Gud! hjá þér einum er uppspretta lífsins og farsældarinnar. Eg heidra þitt heilaga nafn, fyrir þad eg nockrusinni hefi fengid ad smacka þína nádarstrauma, og adfinna til þeirrar sérligu ánægju, sem ljós þíns andlitis, og þinn brennandi kærleiki upptendrad hefir í sálu minni. En, æ! þessir yndistímar eru mér nú hreint horfnir. Eg minnist þessara hluta, og sála mín harmar sér þúngliga. Eg vil gjarnan til þín koma, sem ádur skédi, og kalla þig med sama kærleika og

og björfúngu minn Guð og Föður, sem fyrri; en æ! eg veit ekki hvornig eg á að því að fara. Blygðan og ótti yfirfalla mig og hindra mig frá að brúka þessi yndisligu orð. Eg leita eptir þér, ó Drottinn! en eg hlýt að leita forgéfins. Eg vil gjarnan tilbiðja þig; en varir mínar eru sem apturlæstar. Eg vildi gjarnan lesa þitt orð, en öll þess fyrirheit eru hulin fyrir augum mínum. Eg að sönnu brúka þínar heilögu innstiptanir, sem áður svo yfirgnæfanliga endurnærðu og hugguðu sálu mína, en nú eru þær mér ekki nema sem skuggi eintómur; allt það verulíga er í burtu. Sá lifandi Andi, er hvorfinn, en allt það sem eptir er, er mindin tóm, af því sem eg áður áleit það, og héldt að vera. Æ, Drottinn! ætlar þú þá að burtusnara mér eylífliga, og ekki halda áfram að auðsýna mér náð þína framar? Hefir þú þá dæmt þann skélfiliga dóm yfir mér, að sála mín vera skuli sem í eylífu myrkri og í þvílíku ástandi, sem er hörmulig fyrirmind þeirrar eylífu kvala formyrkvunar. Eg viðurkénni, ó Drottinn! að eg er makligur að burtusnarast með forsmán frá þínu augliti, og að niðursökkvast dýpra, já lángtum dýpra enn eg sokkinn er. Eg er makligur þess, að skuggi dauðans liggi yfir mínum augnalokum, og að eg umkríngður sé þykkri þoku, rokinni úr fángelsi helvítis. En, æ minn Guð! hefir þú þó ekki upplýpt aptur ótal mörgum, sem eins og eg, hafa unnið til að steypast niður til helvítis í myrkranna hlekkjum, og unnt þeim að skoða þína dýrð, hvar aldrei gétur neinn skugga dregið millum þín og þeirra gleðifullu sálna? Æ, Drottinn! vertu mér náðugur, vertu mér náðugur; og jafnvel þó mínar misgjörðir hafi géfið þér rettláta orsök til að hylja auglit þitt fyrir mér, samt láttu það nú, eptir þetta, framar þóknast þér, eptir þíns orðs náðugu fyrirheitum, að hylja andlit þitt fyrir syndum mínum, og afmá allar mínar misgjörðir. Gjör þú hjarta mitt glaðvært, með því að láta mig sjá, að þú hafir aptur auðsýnt mér náð og miskunsemi; og seg þú til sálar minnar: eg er þitt frelsi! Æ minstu, Drottinn Guð! minstu þess skélfiliga dags, á hvörjum þinn dýrmæti Sonur Jesús

Kristur hlaut ad lída þad, sem eg, med mínum syndum, tilunnid hafdi. Minstu þeirrar ángistar og pínu, midt í hverri hann úthellti sinni sálu fyrir þér, og sagdi: Gud minn, Gud minn, hvarfyrir hefir þú yfirgéfid mig! Hlaut hann ecki, ó Drottinn, allt ad lída þetta, til þess ad audmjúkir og ydrandi syndarar fengju, fyrir hans sakir, til þín ad leidast, og meiga med fögnudi sjá þig og skoda, sem sinn forlíktan Gud og Födur? Svoleidis óska eg nú líka, ad mega koma til þín, minn blessadi Gud og Frelsari! Ertu ecki settur til ad géfa þeim sorgfullu í Zíon prýdi fyrir ösku, gledinnar olíu fyrir sorgina; og helgidags skrúda fyrir syndarmarinn Anda? Æ afþerra þú líka svo mín tár! Smyr höfud mitt med fagnadarins olíu, og klæd mig í skrúda hjálprædisins. O ad eg vissi adeins, hvar eg ætti ad finna þig! Æ ad eg vissi hvad þad er, sem knúd hefir þig til ad víkja frá mér. Eg vil rannsaka mína vegi og grandskoda þá. Æ ad þú vildir prófa hjarta mitt og mína þánka, og ef þú finnur mig á ógudligra vegi, ad þú þá virdist ad vísa mér á þann eylífa veg; þvílíkan veg, á hvörjum eg fundid géti rósemi fyrir mína sálu, og formerkt opinberun þíns kærleika í Kristo. O Gud! þú sem baudst ljósinu ad skína fram af myrkrinu, seg ad eins eitt ord, svo verdur þar strax bjartur dagur í minni sálu! Drottinn! opna þú minar varir, svo minn munnur kunngjöri þitt lof; þá vil eg brjótast út med fagnadar saung, og tala um þad yndi og eptirlæti, sem finst í sonnum Guds ótta, einkum vid þá, sem mín nærverandi sinnisveiki hefir gjört hrædda og efasama. En samt, ó Drottinn! undirkasta eg mig ad öllu leiti vilja þínum í þessu tilliti. Sé þad þessvegna vilji þinn, ad mín trú framar reynast skuli med því, ad eg um eptirkomandi daga, mánudi og ár skuli rása í myrkrinu, þá vil eg vera ánægdur, hvörsu lengi sem þad vara skal. Og jafnvel þú sért sá Gud, sem hylur þig sjálfan, þá vil eg samt tilbidja þig, sem Israels Gud og Frelsara. Já, eg vil reida mig á nafn Drottins, og treysta fastliga á minn Gud; og þó hann slái mig í hel, vil eg samt vona á hann og bída eptir honum, eins

og þeir sem morgunsins vænta; já framar en þeir, sem morgunsins bíða, því það getur skéð, að ljósið komi líka að kvöldi dags. Eg veit til þess, að þú stundum hefir opinberað náð þína og miskun fyrir þínum þjónum, sem leigið hafa fyrir dauðanum; svo, þegar þeirra náttúrligu kraptar hafa verið rétt að þrotum komnir og fjaraðir út, hefir þú yfirstreymt þá með fullu flóði þinnar guðdómligu dýrðar, og svoleiðis gjört myrkrið að ljósi, fyrir þeirra augum. Æ láttu það þá eins vera þér þóknanligt, að láta þíns andlitis ljós framskína fyrir mér í dauðans skuggadal, þegar eg skal í gégnum hann reika, og útréttu þá þinn vönd og staf, til að hugga mig, að eg ecki framar plágist af ótta og skélfingu, heldur géti lofað þig og vegsamað með þeim gleðisaung, sem gefið fái frá sér bergmál, midt í sjálfu myrkrinu. En sé það þinn fortakslaus vilji að eg skuli í myrkri og ángist vera, inn til míns síðarsta andartaks, og þar til mín lífæð slær í síðarsta sinni, æ svo láttu það samt enda taka, þá líf mitt enda tekur, og leið mig þá til þess ljóss og til þeirrar gleði, sem sáð er fyrir þá réttlátu og hreinhjortuðu; já til þeirra óformyrkvuðu bústaða, hvar eylíf dýrð og fögnuður er, og hvar þinn Andi mun útheltur verða yfir allt þitt fólk, og þú aldrei framar hylja munt auglit þitt fyrir nockrum þeirra. O Drottinn! þetta er sáluhjálp sú, sem eg bið eptir; og svo lengi sem eg finn, að mín sála æskir hennar og girnist, svo lengi vil eg ecki heldur efast um, að eg loksins muni öðlast hana. Lát þarfyrir þá mína ósk ætíð staðfasta vera og í vöxt fara, og uppfyll hana svo loksins, framar enn eg veit að girnast og umbiðja; og það fyrir sakir þíns náðarríkdóms í Kristo Jesú! Amen!

---

## 25ti Kapítuli.

**Um ástand þess kristna, sem liggur undir hörðum og þúngum þreyngingum og sorgum.**

§. 1. Þar, sem manneskjan er til mæðunnar fædd,

eins og neistarnir fljúga í loptið upp (Jób. 5, 7), og þareð Adam hefir eptirskilið öllum niðjum sínum þann forgliga erfðahluta, að þeir, á veginum til dauðans, eru umkríngdir með margslags hörmúngum og ógæfu tilfellum, svo er það vísðuliga forsjálligt og nauðsýnligt, að vér allir kappkostum að vera viðbúnir að mæta ýmsum reynslum og mótgángi; og þessvegna skalt þú, minn lesari! hvor helst sem þu ert, ástunda að vera íklæddur þínum hertýgum, og reiðubúinn til mótstöðu að veita öllum þeim reynslum, sem, eptir Guðs ráði, í þinn hlut koma kunna, svosem manneskju, og svo sem þess sem kristinn er. Búðu þig þessvegna út að taka á móti þínum krossi og mótgángi, og bera hann svoleiðis, sem einni manneskju og kristnum sómir. Þegar þú sér aðra liggja undir byrðinni, þá þenktu, hvorsu mögnligt það sé, að þú kunnir ogsvo kallaður verða til líkra þjáninga, sem þeir bera, eður annara þýngri; og settu svo sálu þína í þeirra stað. Hugsaðu um, hvorsu þú fáir þolað þá byrði, sem þeir undir liggja; leitastu því við að hugga þá, og undireins styrkja þitt eigið hjarta. Eður, réttara sagt, bið þú Guð um, að hann vilji gjöra það. Þenktu þar hjá, hve mikilli sorg og ángist þú í þessu dauðligu lífi undirorpinn ert, og ályktaðu þaraf, við hvorju þú máské hér í heimi búast megir. Lát þánka þína síðan hærra stíga, og ímynda þú þér þvílíkar farsældir, sem alleina eru að finna í þeirri veröldu, hvar eingin umskipti orðið géta. En miðt í þessu hefir þú orsök að þacka Guði, að hann híngaðtil hefir látið alla hluti svovel luckast þér, og þackaðu það hans stakligu forsjón, að þú ennnú, og það í svo lángan tíma, ert ósærður, þar þó svo margar þúsund pílur hafa flogið allt í kríngum þig, fyrir hvorjum svomikill fjöldi annara fallið hefir, bæði þér til hægri og til vinstri handar.

§. 2. Þegar þá loksins þinn tími er kominn, sem vísðuliga skéður, þá sjá til, að þú í frá fyrstu stundu, sem kross og hörmúng yfirfellur þig, gétir viðurkénnt, að Guðs hönd er þar í verki, og að hún hefir slíkt á þig lagt. Lát þessa þánka ætíð þér fyrir augum vera, og eignaðu slíkt ecki neinni annari orsök,

sem annars kynni hafa gefid tækifæri þar til. Lát þína fyrstu umsorgun vera þá, ad audmýkja sjálfan þig undir Guds volduga hønd, svo hann upphefji þig á sínum tíma (1 Pét. 5, 6); medkénn ad hann réttlátur er, í øllu því sem hann lætur yfir þig koma (Neh. 9, 33); og ad hann hefir þyrmt þínum misgjørdum, og ecki straffad þig, eptir sem þú tilunnid hefir (Esr. 9, 13). Tilreid þig til ad finna til hans typtunar med þolíyndi, og gjørdu nafn hans dýrdligt med því ad varpa þér undir hans vilja. Vertu ánægdur med þad nádsuga augnamid hans vitjana, og væntu afdrifanna, hvor sem þau svo verda, med þogn og þolinmædi.

§. 3. En til þess ad þolinmædin géti fullkomin ordid (Jac. 1, 4) þá yfirvega þú opt þinn eiginn óverdugleika og synduga ástand. Hugleid, hvorsu tidt þú spillt hefir sérhvorri nád, sem Gud þér veitta hefir, og unnid til sérhvors straffs, sem þú lídur. Hugsadu þar hjá, hvorsú lengi þolinmædi Guds hefir sparad þig, og hvorsu básamliga hann ennnú audsýnir þér hana; já hvorsu þú ecki ad eins reynt hefir hans þolinmædi, heldur ogsvo gædsku hans og miskunsemi. Þú sem virkiliga liggur undir sorganna byrdi (því nú tala eg ad eins til þín sem þess, sem þvílíkur er), gæt ad og yfirvega nád þá, sem þér ennnú tilbýdst, og lát hana uppvekja þacklætisfulla tilfinníngu hjá þér. Iminda þú þér, ad ef þú værir sviptur því, sem þú ennnú hefir; ef Gud skyldi útrétta sína hondu móti þér, og bæta fátækt ofaná sjúkdóm, edur sjúkdómi ofaná fátækt, ellegar ástvina missir ofan á hvorutveggja þetta, hvorsu pínufullt mundi þá ecki þitt mótlætis sár verda? Þacka þú þarfyrir gædsku hans og tilbid hana, ad svoleidis er þó ennnú ecki mótlæti þínu varid; og vara þig vid því, ad óþacklátsemi þín uppegni hann ecki, til ad gjøra mótlætíngar þínar þýngri. Þenk líka svo um þad, hve naudsýnlig ad refsíng Guds sé þér, og hvorsu ágætur læknisdómur hún sé fyrir sálu þína, og hvorsu nádarfullt augnamid vor himneski Fadir hefir í ollum þeim typtunum, sem hann lætur fram vid sín børn koma.

§. 4. Eg vil enn nú segja meira, að maður í tilliti allra þessara hugleiðínga kann mikið vel að vænta þess, að þú einúngis munir með þollyndi kasta þér undir þær mótlætíngar, sem þér mæta, svosem þann hlut, er þú ekki umflúið fær, heldur og að þú sért ánægður með þær og látir þér þær vel lynda; að þú ekki alleinasta viljir réttlæta Guð, fyrir það hann sendir þér þær, heldur og vegsama hann þar fyrir, já að þú vegsamir hann bæði með þínu hjarta og þínum vörum. Hugsa ekki, að það óviðurkvæmiligt sé, að vegsama Guð í slíkum tilfellum. Hugsaðu ekki heldur, að það sé að eins tilhlýðiligt að vegsama hann fyrir þá huggun, sem hann í mótlæti þínu veitir þér; nei, þú skalt vita, að það er þín skylda ekki að eins að vera þakklátur undir mótlætíngunum, heldur ogsvo að vera þakklátur fyrir þær.

§. 5. Guð segir sjálfur: verið þakklátir í öllum hlutum (1 Thess. 5, 18); hann hefir ogsvo kennt sínum þénurum að segja: vér hrósum oss jafnvel af þjáníngunum (Róm. 5, 3). Því er og vissuliga svoleiðis varið, að þeir sanntrúuðu eru sem speiglar guddómligrar náðar; því hvørn Guð elskar, þann agar hann, og hvørn Son sem hann strýkir, þann tekur hann að sér (Ebr. 12, 6) með stakligum og merkilegum kærleika. Álittu nú þínar yfirstandandi sorgir og mótlætíngar á þennan hátt, sem aðrar kærleiks aganir, og láttu svo hjarta þitt segja þér, hvort þessi kærleiki skuldbindi þig ekki til að lofa Guð og vegsama. Þenk með sjálfum þér: svoleiðis gjörir Guð mig líkan sínum eingetna Syni, og á þennan hátt uppmentar hann mig til fullkominnar dýrðar. Þannveg eydileggur hann alla mína spillíngu; þannveg styrkir hann mig í sinni náð; og þannveg kémur hann því vísdómsliga til vegar, að hann fái leidt mig æ nær og nær sér, og gjört mig hæfiligan til eylífrar sælu. Skuli það svo vera, að eg um lítinn tíma hryggist í ýmisligum freistíngum (1 Pet. 1, 6), þá veit hann vissuliga, til hvers þessi hrygð þénar mér, betur enn eg sjálfur fæ skilið. Hann veit í hvørju tilliti þessi þjáníng á best við minn nærverandi ófullkomleika, og er þénanlig til að afla mér þeirra sér-

ligu gæda, sem hann med slíkri þjáningu hefir í huga, ad med-deila mér. Þessi þjáning skal verka þolinmædi, þolinmædin reynslu, og reynslan óhulta von, já, þvílíka von, er ei lætur til skammar verda, vegna þess Guds kærleiki er úthellt-ur í vor hjörtu (Róm. 5, 3. 4. 5). Og hann skín ígégnum mínar blessanir med tárum, einsog sólin skín ígégnum skúrafullt ský, og kastar sínum geislum ígégnum myrkrid.

§. 6. Lát þad því vera þína alvarliga umsorgun, medan þú horfir á og virdir fyrir þér hörmúngar þínar, (hvers slags sem þær vera kunna), sem þann hlut, er frá Guds höndu kom-inn sé, ad þú notir þær og brúkir í þeim tilgángi, sem þær þér sendar eru. Og til þess þú þannveg fáir notad þær, þá sorga fyrst fyrir, ad þeckja, hvor þessi tilgángur sé. Safna þú öllum þínum sálarkroptum saman til ad hlýda vendinum og þeim hann sendan hefir (Mich. 6, 9), og bid inniliga, ad þú skilid fáir hans raustu. Rannsaka og skoda líf þitt og lifnad, þín ord og þitt hjarta, og bid Gud ad hann svaleidis styrki þína ransókn og leidbeini henni, ad þú fáir snúid þér til **Drottins Zebaóth**, sem slær þig (Es. 9, 13). Og til þess þú gétir þessu því audveldar til vegar komid, þá kalla þú (ef audid er) þér til adstodar annan gudhræddan vin, einkum hrein-skilin kénnifödur. Bid þá ecki einúngis ad bidja fyrir þér til Guds, heldur og ad géfa þér gód rád, til ad vita, hvor Guds tilgángur, í þér álögdum þjáníngum, vera muni, og upphvettu þá til ad segja þér frítt út, allt þad sem þeim hugkvæmist í sögdu tilliti. Og þó þeir med því móti hljóti ad koma vid kaun þinna ávirdínga tilliti sinnislags þíns og hegdunar, þá álíttu þad sem stórt merki þeirra vinskapar, og taktu ámót því ecki ad-eins med þolinmædi, heldur og med þacklæti. Þad sæmir sér ætíd mjög illa fyrir einn kristinn, ad verda reidur, þegar adrir straffa hann og áminna, en miklu ósæmilígra er honum þó ad reidast, þegar hans himneski Fadir typtar hann og agar. Ætti hann ecki miklu heldur í slíkum kríngumstædum ad elska áminn-

íngar, og óneyddur opna sín sár, svo þau læknuð verði af hreinskilinni og reyndri hendi?

§. 7. Þegar þú nú, á einn eður annan hátt, hefir upplýsíngu fengið um þetta efni, og veizt til hvers þær þjáníngar, sem Guð hefir á þig lagt, miða, þá vara þú þig, að þú ecki, með neitt slag, forherðir þig, og breytir þverúðarsamliga móti Guði (3 Mos. 26, 27). Þegar vér þeckjum og vitum augnamið Guðs, hvarfyrir hann með typtun vitjar vor og bendir oss, ef vér þá sýnum oss þverúðarfulla móti honum, þá móðgum vér hann ósegjanliga mikið. Byrja þessvegna strax að betra allt það, sem þú finnur lastverdt og vansafullt í fari þínu. Leitastu við að læra þá almenniligu reglu, að kasta þér undir Guðs vilja, vera róligur og ecki allt of hugsjúkur fyrir heimi þessum, líka að hafa sem nákvæmasta umgengni með Guði, og kostgæfiligar, enn áður, að líta til þeirrar eptirkomandi ósýniligu veraldar. Og þegar þú merkir, að þar er nockur sérlig samlíking millum einhverra þinna mótgángs kríngumstæðna og þinna fornu yfirtroðslna, hlýtur þú allramest að ástunda, að hegða þér svoleiðis, sem typtunarinnar hrís bendir þér til, og álíta slíkt sem skakliga Guðs raust til þín, sem þér ber gaum að gefa. Þá kannské þú finnir brádt stóra orsök til að segja: það var mér gott, að eg varð vesæll (Sálm. 119, 71); og þú kannt þá með mørgum ótal øðrum að læra að telja tíma þinna freistínga og hørðustu mótlætínga, meðal þeirra sætustu og yndisligustu tíma, sem þú á þinni æfi lifað hefir. Lát þarfyrir andagtugar bænagjørðir vera þína ydugligustu athøfn og úthelltu tídt og opt í kærleika og einfeldni fyrir Guði þvílíkum hjartans andvørpunum — þó það ecki sé með aldeilis somu orðum — sem þessar eptirfylgjandi eru.

## Auðmjúk bæn til Guðs, fyrir þann sem liggur undir hardra hørmúnga og þjáninga byrði.

Ó, þú allrahæsti, allraréttlátasti og allranáðugasti stjórnari heilu veraldarinnar! hvorsu vesæll og auðvirdiligur sem þessi litli

partur þíns stóra og mikla maktarveldis kann ad vera fyrir þínum augum, þá forsmáir þú samt ecki jerdu þessa; ne hennar innbúa; heldur gefir þú gaum ad þorf þeirra, og álitur hana í náð og miskunsemi. Þú stjórnar, og jerdin gledst, já, margar eyar mega makliga gledja sig. Eg trúi á þína almenniligu forsjón og umsorgun, já, eg trúi stadfastliga, ad þín vísdómsfulla, góda og heilaga stjórn er falin í ellum þeim hlutum, sem snerta mig og þær kríngumstædur, í hverjar eg settur er í heimi þessum. Eg vil gánga fram hjá ellum edrum litilvægum hlutum, og einúngis horfa uppá þig, sem tilbýr ljósid og skapar myrkrid, sem gjörir fridinn og skapar ógæfuna; já, á þig, ó Drottinn! sem eptir þinni vild umbreitt getur einu í annad, getur umbreitt því bjartasta middegi í midnætti, og aptur því myrkvasta midnætti í middegi. O, þú alvísi og nádugi yfirdrottnari þessarar veraldar! eg hefi opt sagt: verdi þinn vilji! og nú er þinn vilji mér rétt óþolanligur og pínufullur; en skal eg þá þessvegna kalla þad aptur, sem eg svo opt sagt hefi? Forbjódi þad Gud! eg skal heldur snara mér nidur fyrir fótum þínum og ofurselja mig, med frjálsri og fullkominni audmýkt, í þinn allraheilagasta vilja, ó Drottinn! sem réttvís ert og réttlátur í ellum hlutum. Eg vidurkénni í þinni hátignarligu og stóru nærveru, ad eg hefi unnid til alls þessa, sem eg líd, og til annars þúsundfaldt þýngra. Eg vidurkénni ad þad er þinni miklu miskun ad þacka, ad eg er ecki eldúngis til grunna genginn, og ad þar ennnú er minsta huggun eptir handa mér. O, Drottinn! eg játa þad fúsliga, ad eg med þeim syndum, sem eg adeins einn einasta dag framid hefi, hefi unnid til allra þessara refsínga; og hver dagur er sá burtulidinn á allri æfi minni, ad eg ecki hafi meira edur minna móti þér syndgad? Sládu mig því adeins, þú réttláti Gud! eg vil samt sem ádur tilbidja þig og þacka þér, ad þú ístadinn fyrir hrísid ecki hefir gripid til sverdsins, og breytt vid mig eptir þínu stránga réttlæti, því þá hefdi mitt blód mátt vera úthellt fyrir þínu augliti. En má eg þá ecki ávarpa þig med neinu edru nafni, enn ad kalla þig minn

Dómara? Æ Drottinn! þú hefir þó kénnt mér eitt annad lángtum yndisligra nafn. Þú leyfir mér, ad kalla þig minn Fodur, og refsíngar þínar kærleiks merki. Æ, hvorsu velkomnar mega mér þá þessar þjáníngar vera, sem eg álít sem teikn til þíns fodurliga kærleika, og merki þess, ad þú hafir gjört mig ad þínu barni! Þú veizt hvor refsíng mér hentugast er. Þú sér, ó Drottinn! dármennsku þá, sem finst í þíns kaldlynda og athugalitla barns hjarta, og þú veizt, hvad slags hrís, og hvad mörg slög þurfa til ad útdrífa hana. Þessvegna vil eg í allri audmýkt leggja mig, þú andanna Fadir! undir þína refsíngu, sem er mér til lífs og nota. Eg vil þola slög þín, ecki einúngis vegna þess, eg ecki fæ varist þeim, heldur og vegna þess eg elska þig, og reidi mig uppá þig. Eg vil bera mig med rósemi ad vera ánægdur med þinn vilja, og varpa mér undir hann; og eg vil segja med Ezechía (2 Kóng. 20, 19): "Það er gott, það er Drottins orð". Eg óska, ad ecki einúngis mínar varir, heldur allt mitt hjarta og sála gæti verid ánægt þaryfir. Æ já, Drottinn, eg vil vegsama þig, ad þú vilt álíta mig verdugan, ad brúka slík hjálparmedöl til ad lækna minn sálar sjúkdóm, og ad þú ber svo ástúdliga umsorgun fyrir, ad uppala mig til þinnar eylífu dýrdar. Eg hefi eckért ad mæla á móti þessum þjáníngum; og ei heldur grem eg mig yfir þeim stakliga máta sem þú brúkar; eda skal eg ecki drecka þann kaleik, sem þú, minn Fadir, hefir géfid mér? Æ jú, fyrir þína hjálp og adstod, vil eg fúsliga drecka hann. O Drottinn, lát þad adeins þóknast þér, ad veita mér adstod, og líttu stundum nidur til mín, med nádugu auga, midt í mínum þjáníngum! Eg bid þig, styrk þú mína sála med þinni huggun, og blandadu þjáníngar mínar med hugsvölun. Þá vil eg hrósa mér af þessum hörmúngum, sem þú svoleidis temprad hefir og gjört mér bæriligar! Þetta hafa margir fengid ad reyna, sem med ánægdu sínni hafa hugsad um sinn vitjunar tíma, og þeir hafa játad, ad þeirra huggan hafi verid lángtum stærri, enn þeirra hörmúng, og hin hafi líka sem uppsvelgt þessa. Og hafir þú gjört svo stóra hluti vid adra,

hvi skyldi þá þinnar miskunar og medaumkunar flód halda sér til baka frá mér? Er þín hönd stutt ordin? Eda gétur þú ecki audsýnt þá sömu nád vid mig? Sé mitt hjarta ecki svo vidkvæmt, ecki svo hrært, sem það á ad vera, þá gétur þú fljótt rádid bót á þeim bresti, og notad þessa hörmúngu, sem medal þar til. Æ, láttu það svo ské, og frelsadu mig svo loksins á þeim tíma og med þeim hætti, sem þér best líkar. Audsýndu dásamliga miskunsemi þína, þú sem ert þeirra Frelsari sem á þig vona, og hjálpa mér med þinni hægri hendi; því eg er viss um það, ad hvörsu dymm sem þessi sorga nótt gétur jafnvel sýnst ad vera, ad, undireins og þú segir: verdi ljós! þá verdur strax bjartur dagur. Þó vil eg ecki bidja um neitt fyrr enn sú tíd kémur, sem þín guddómliga speki og gæska ákvarka vill. Mér er framar annt um ad mínar þjáníngar forbetri mig, enn ad þær verdi frá mér teknar. Lát mig verda í tölu þeirra farsælu, sem þú, ó Drottinn! reffar og lætur þeckja þitt lögmál! Eg bid þig, láttu mig vita hvad það er, sem þér mest mislíkar vid mig, og hreinsadu mig í þínum eldi, hvörsu pínufullur sem hann finst mér, medan eg á gégnum hann ad gánga. Eda reffar þú ecki þínum börnum í þeim tilgángi, ad þau verdi hluttakandi þíns heilagleika? Þú veizt, minn Gud! ad það er það einasta sem sálu mína lángar eptir, midt í því, ad eg hvörn dag og hvört augnablik tek, alla mína lífdaga, hlutdeild í gædsku þinni. Eg tek ad vísu hlutdeild í þínu heil. Evangelíó, og eg vona, ad eg á vissan hátt taki ogsvo hlutdeild í þess nád, sem í hjarta mínu verkar. Æ! láttu það verka meira og meira, ad eg kunni ogsvo ríkugliga hlutdeild ad taka í þínum heilagleika, og mitt sinnislag verda þér meir og meir líkt. Ó, þú blessadi Gud! þú sem ert hinn allraskærasti spegill þess rétta fullkomligleika, lát sálu mína verda rétt sem í ofni smelta; og jafnvel þó það hljóti ad ské vid þann skarpasta hita, þá vil eg samt ánægdur vera, ef eg þarvid gét adeins umsteypptur ordid eptir formi þíns heil. Evangelíí, og svo odlast þína heilögu og elskuverdu mind og líkíngu. Ó Drottinn! mína sálu lángar eptir þér; hún hrópar

eptir þér, þú lifandi Guð! Eg megna, og er fús til að þola alla hluti með þinni guðdómligri hjálp og kærleika, svo framt eg adeins gét þess þóknanligri orðið í þínum augum, og þess betur hæfur til þíns ríkis. Mínir hörmúngadagar fá þó loksins enda, og sá tími mun að lyktum koma, að þú afþurka munt öll tár af mínum augum. Og þó þú tefjir við, vil eg samt bíða eptir þér. Mínu ramspilltu hjarta vill þó, miðt undir öllum þessum reynslum, vera hætt við að loda við heiminn, svo táldragandi og fánýtur sem hann er. En þú, ó Drottinn! höndla eptir náð og miskun við mig, þared þú (með mótlætinu) sundurbrýtur þá hlekki, sem vilja halda mér föstum við hann. O, lát sálu mína lypta sér upp og rétt sem útbreiða sína vængi í von um þann farsæla tíma, þegar hún loksins fríast skal frá allri sinni sorg og ángist og sljúga, með óendanligum fögnuði, til þess lands, hvar frelsi, frið og gleði er að finna eylífliga! Amen!

---

## 26ti Kapítuli.

**Avísan um það, hvörnig einn Kristinn skal ransaka, hvört hönum fer fram í náðinni.**

§. 1. Svo framarliga sem þú fyrir Guðs náð ert orðinn endurfæddur, ecki af forgengiligu, heldur óforgengiligu sæði, sem er orðið Guðs það lifanda, hvört æfinliga blífur (1 Pét. 1, 23), einkanliga í sálunni, í hvörja því sáð er, þá munt þú, sem nýfædt barn, girnast þá skynsamligu ósvíknu mjólk, svo þú af henni fáir vaxið og þróast (1 Pét. 2, 2), og hvörsu mikið sem oss hér á jörðu hefir framfarið í sönnum Guðsótta, þá erum vér samt beru í líkíngu við það, sem vér vonum að verða, þegar vér á himnum verða skulum fulltíðamenn, eptir fullkomnum Kristi aldursmáta (Eph. 4, 13). En á meðan hljótum vér þó að æfa og brúka vora helgudu

skynsemi, og alltíd leitast vid, ad vér, sem börn, er vel dafna, gétum í henni varid og þróast. Og þú, minn lesari, svo framt þú annars smackad hefir, hvad Drottinn er gódur (1 Pét. 2, 3.), munt þú án efa finna inniliga laungun til ad keppast eptir þessu. Eg vil þessvegna reyna til ad hjálpa þér til ad ransaka þad, hvort sála þín hefir framforum tekid í sönnum Gudsótta, edur ecki. Og vil eg þá fyrst vara þig vid nockrum fölskum merkjum í þessu tilliti, og þvínæst sýna þér önnur, sem þú mátt reida þig á, ad eru vel grundud og ótáldræg. Í sögdu tilliti vil eg géta þess, ad þú ecki mátt mæla framfor þína í nádinni einúngis edur einkum, eptir þeirri framfor, sem þú tekur í þeckíngu edur í vandlæti edur í nockurri annari sterkri sinnishræríngu; ei heldur mátt þú dæma þarum, eptir ákafa andaktar, þinnar, heldur eptir stödugri og vel æfdri ofurgéfníngu undir Guds vilja, í því falinni, ad þú sifeldt sért reidubúinn ad hlýda hans skipunum, og varpa þér undir allt þad sem hann tilskickar, samt til ad framkvæma hans vísdómsfullu augnamid í þessum heimi.

§. 2. Ad vísu er þad satt, ad madur hefir orsök til ad óska sér og girnast, ad ödlast þeckíngu og kappsmuni í sönnum Gudsótta; því án þess madur hafi til ad bera þad fyrra, nefnil. þeckínguna, gétur Gudsótti manns ecki skynsamligur verid; en skorti mann þad sídara, nefnil. fylgi og kapp í því góda, hefir madur orsök ad halda, ad sinn Gudsótti sé þá ecki hreinskilinn, ad því leiti sem edli náttúru vorrar sambýdur. Engu ad sídur gétur þar verid víst til mikil þecking í heilanum, og einslags flug-andagt og ákafi í sinninu, hvar þó enginn sannur Gudsótti er fyrir; og þessvegna gétur madur ecki af sliku ályktad um, ad hann gjört hafi framgáng og þróast í Gudsóttanum. Ein manneskja kann ad hafa æft skynsemi sína, lært vel Gudsord og ad miklu leiti skilja Ritníngarinnar innihald, og engu ad sídur vera þó mjög ógudlig manneskja; já, madur kann ad fylla hofud sitt med þeim bestu réttrar trúar lærdómum, jafnvel þó ecki eitt einasta ord þeirra hafi nockursinni komid eiginliga vid hans hjarta.

Paramóti kann líffull útmálan Kristi pínu, svovel sem um dómsdags skélfíngar, líkasvo um útvaldra farsæld og fordæmdra hormúngu, hafa krapt til ad hræra hjarta þeirrar manneskju, sem trúir þó litlu af ollu þessu; vidlíkt einsog vér fínnum til sterkra gédshrærínga þegar vér heyrum velsamdar dæmisögur, enda þó vér undireins vitum fyrir víst, ad þær séu eintómur diktur og heilaspuni. Sinnislags art manneskjunnar, edur þvílík tilfelli — sem hér er ecki verdugt á ad minnast — géta opt komid augunum til ad fella tár, nærri því vid hvert eitt þad tækifæri, sem fyrst mætir manni. Einn dramblátur madur, sem ecki gétur þolad mótmæli — og sinnislag hvørs er gagnstædt anda hógværdar þeirrar, er hjá sannkristnum finst — kann ad verda innvortis rétt fokreidur, þegar einhver opinberliga setur sig á móti þeim meiníngum hans, er hann lengi haft hefir, og einkum þeim sem hann ádur hefir kroptugliga í forsvar tekid. Slíkt gétur mogúliga komid þvílíkri stoltri manneskju til ad brúka frek ord, og verda rétt sem frá sér numin af inabirludu vandlæti Guds vegna, alltsaman af þeirri folsku ímindun, ad Gud, sem sannleikans Gud, hljóti ad vilja láta verja þá lærdóma, hvørra glæsiliga útvortis álit sú vesæla manneskja hefir máské látid sjálfa sig á tálar draga. Þegar nú ásamt þessum innbirlíngum, og sterku sinnishræríngum ad enginn sannur Gudsótti finnst hjá manni, þá er art þeirra þess slæmri og lakari. Eg ósta þarfyrir, ad leida þig, minn kæri vin! til háleitari þánka, og sýna þér onnur lángt áreidanligri kénniteikn Gudhrædslunnar. Eg vil í því tilliti byggja uppá annara gudhræddra kénnifedra, en einkum sjálfs Guds, eigin ord til ad sannfæra þig um gildi slíkra merkja. Eg vil því bidja þú látir hjarta þitt — líkasem í Guds augliti — svara uppá eptirfylgjandi spursmál.

§. 3. Finnur þú til þess, (spyr eg þig þá), ad kærleikurinn til Guds fer einkum í voxt í sálu þinni? Finnur þú æ betur og betur til þess, ad Gud er þér nálægur, og ert þú yfir því sama framar ánægdur, enn til forna? Gétur þú jafnvel,

þegar þínir náttúrligu kraptar eru svo veikir og niðurslegnir, að þú ecki gétur fundið (undir þinni bænagjörð) til neinnar brennandi andaktar í hjarta þínu, gétur þú þó samt fundið til einslags ánægjusamrar hvíldar og rósemdar hjá þér, af að þenkja til þess, að Guð er þér nálægur, og sér þína innstu og heimuglignstu þánka? Gétur þú, miðt í því þú ert líka sem að klifra upp eptir fjalli, með hjartans laungun mænt augunum eptir honum, jafnvel þó þú ecki gétir hrósað þér af nockrum merkiligum samfélagskap með honum? Er þér ljúft og gédfeldt að uppljúka fyrir honum hjarta þínu, svo að hann fái ransakað það, og viltu gjöra það bert fyrir honum, án allrar hræsni, og segja með Davíð: Þú, Drottinn! þeckir þinn þénara? (2 Sam. 7, 20). Finnur þú til þess, að þú ber æ meiri og meiri virðingu fyrir Guðs heil. lögmáli og boðorðum, fyrir það að þau sýna hvað heilagur og réttlátur hann er? Þeckir þú og sér ecki einúngis hve nauðsýnligt, heldur og hvörsu sanngirniligt og yndisligt sé, að vera hans skipunum hlýðinn; og verður þú þess var að forakt þeirra hluta, sem rænt géta þig sakleysi þínu, eða freistað þín til að gjöra það nockuð, við hvað þú setur í vogun að tapa náð Guðs og vináttu, fer í vöxt hjá þér? Finnur þú hjá þér inniliga laungun til að þóknast Guði, ecki aðeins af því hann er svo máttugur og hefir ráð á, bæði að gjöra þér gott, og að straffa þig eptir vild sinni, heldur og af því, að þú ber svo mikla virðingu fyrir hans heilögu náttúru, og elskuverðu eiginligleikum? Og finnur þú til þess, að hjarta þitt er jafnan ánægt með að undirkasta sig hans vilja í auðmyktinni, bæði í tilliti þess sem hann skipar þér að gjöra og forðast, og þess sem hann lætur fram við þig koma? Merkir þú það þá með þér, að þinn eiginn vilji er fúsari, og í öllum kríngumstæðum hæfari, enn áður, að bera það ok, sem Guð hefir ályktað á þig að leggja, svo þú gétur því eignast sálu þína í þolinmæði? (Lúc. 21, 19). Gétur þú við líði hjá þér haldið stöðugri rósemi og verið ánægður, þegar Guð sviptir þig öllum þínum yndisligustu ánægjusemdum hér í heimi, og breytir við þig þvertámóti þínu

tímanligu gagni, þínum náttúrligu tilhneigíngum, girndum og óskum. Svo framarliga þú gétur þetta, þá er það víst, óhult og ypparligt kénniteikn þess, að náðin hefir kroptugliga og í hárri troppu hjá þér aukist og varið.

§. 4. Prófaðu líka sjálfan þig í tilliti þess, hvørnig hjartalagi þínu er varið í tilliti þinna meðmanneskja, bæði þeirra sem þér kunnugir eru, og svo í tilliti mannkynsins yfirhøfuð! Finnur þú til þess, að hjarta þitt er fullt af falslausri og ótakmarkaðri góðfýsi til allra? Finnur þú og merkir nú, enn framar enn áður, þau margfoldu kærleiksbond, sem sameina allar manneskjur innbyrðis, en þó sérílagi alla kristna, og gjøra þá að samborgurum eins ríkis, og þó enn framar að bræðrum og systrum, í eins og sama føðurshúsi? Deya því og burtuvísna úr sálu þinni meir og meir allar elskusnauðar sinnishræríngar, en þaramóti vex hjá þér kærleiki og vinsemd til allra, sem þú umgéngst með eður hefir kynni af? Og jafnvel þó sjálfselska hafi ecki verið drottnandi tilhneigíng hjá þér, síðan þú gjørðist sannkristinn, þó samt, af því að leifar eður rætur hennar í þinni náttúru, eru yfrið fljótar til að brjóta sig út, einkum við staklig og óforvarandis tilfelli, verður þú þess var hjá þér, að þú gétur yfirunnið þetta og dempað það með þér, æ betur og betur? Álítur þú sjálfan þig, sem einn á meðal ótal margra á hvørs eigin gagni og ábata lítið ríður, hjá því sem á allra yfirhøfuð; hvørs vegna þú ert æ fúsari, að setja þín eigin hlunnindi til síðu, ef almennings gagn gétur þarvið eflst og aukist.

§. 5. Einkum yfirvega þú, hvørsu þú sinnaður ert í tilliti þeirra, sem ómvendt sál kynni ímynda sér, að hafa rétta orsok til að útilykja úr tølu þeirra, sem hún elska eigi, og hefir þessvegna á þeim heimugligan ama, eður að minsta kosti enga velvild til þeirra, sem ecki hafa somu trúarmeiníngar og æfíngar sem þú? Ecki er sú samt meiníng mín, að sá kristiligi kærleiki heimti, að þú halda skulir sérhvørn villudóm fyrir skaðlausan. Nei! lángt frá! Ecki heldur að það sé merki til skorts á kærleika til vinar síns, þó maður í vissum tilfellum sé hræddur

um, ad hans villudómar kunni ad olla honum stærra tjóns, enn hann sjálfur meinar. Nei! sá rótgrónasti vinskapur kann stundum ad auka þessa hrædslu hjá oss. En ad hata manneskjur, fyrir það madur hugsar þær séu á raungum vegi; eda sordæma þær fyrir það, þó þar sé einhvor mismunur hjá þeim frá oss í vissum meiníngum, sem trúarbrøgdunum áhángandi eru, en ecki undirstødu þeirra, allrahelst þegar mismunurinn er mestur í tilliti útvortis kyrkjusida og setnínga, það er aldeilis mótstrídandi þeim sanna kærleika, og sem eydileggur allt kristiligt samneyti, og hindrar sanna uppbyggíngu. Nei, madur er skyldugur til ad elska mind Kristi hjá hvørri manneskju, sem madur verdur var vid, ad þjónar Gudi og dýrkar hann, eptir bestu vitund og samvizku, þó adserdin hid ytra kunni ad vera nockud ødruvisi, enn madur sjálfur brúkar. Gétur þú elsku til þvílíkra hjá þér fundid? Enn framar spyr eg þig: gétur þú virdt það og elskad, sem í rauninni elskuverdugt og ágætt er, hjá þeim mønnum, sem þó eru annars í morgu ófullkomnir, og hjá hvørjum drottnar hjátrú bløndud med einfeldni, sem kémur þeim máské til ad forsmá þig, jafnvel atyrda og lasta? Gétur þú elskad þá sem Krists lærisveina og þénara, sem af blindu vandlæti eru útbúnir til ad skúsa þínu nafni sem vondu (Lúc. 6, 22), og vara adra vid þér, einsog þú værir háskalig manneskja? Gétir þú þetta, er það sannliga ei all-lítill sigur, sem þú, í tilliti kærleikans, unnid hefir, og undireins merkilig røksemd þess, ad þú í Gudsóttanum hafir stórum framførum tekid.

§. 6. En framar skaltu, í tilliti þessa atridis, athuga, med hvørju skaplyndi þú gétur óréttinn þolad. Hvad þetta snertir, þá er þartil einslags það stødugl yndi í sálunni, sem berliga sannar, ad dygd og Gudsótti hafi hjá manni stórum framførum tekid. Því spyr eg þig: ef þér er sýndur óréttur, æsir það þá og ertir géd þitt svo upp, ad þú strax fer ad hugsa þig um, hvørnig þú fáir hefnt þín, edur ad minsta kosti gjørt þeim minkun, sem þér órétt sýndi? Edur læturdu slíka meidandi breytni eckért á þig fá? Gétur þú snúid þaunkum þínum til annara

hluta, og þegar þér kémur i hug, hvorsu vid þig breytt var, gétur þú þá stilt þig svo, ad þú adeins aumkir þann, og bidjir Gud fyrir honum, sem af tómri illsku og ásetníngi leitadist vid ad gjora þér ofbeldi og órétt? Þetta er sannarliga þvilíkt sinni, sem Krists sinni líkt er, og sem hann ekalaust vill þannig álíta; hvorsvegna hann vill þá játa þig ad vera einn af sínum duguligustu stridsmonnum, og reikna þig medal sinna mestu kappa; einkum þegar þad kémst svo lángt, ad þú ecki adeins ecki sigrast af því vonda, heldur jafnvel yfirvinnur þad vonda med gódu (Róm. 12, 21). Vaktu þessvegna yfir þaunkum þínum og ordum, þegar einhvor gjorir þér rángt til, og gæt ad, hvort þad tekur svo mikid á þig, ad þú jafnvel setur þér þad fyrir sjónir verra enn þad er í sjálfu sér, kvartar yfir því vid adra, og útmálar þad svo illt og vidurstyggiligt, sem þú mest gétur; ellegar þarámóti, ad þú ert reidubúinn, ad svo miklu leiti þú med sannsýni gétur, ad afsaka þad, og taka allt upp í þeirri mildustu og bestu meiníngu; svo, þó þér hafi á smánarligasta hátt verid misbodid, þá viltu samt fyrirgéfa þad af hjarta, og þad jafnvel ádurenn sá, sem gjordi á hluta þinn, hefir audmýkt sig og bedid þig forláts; og ef þú þá til ad sanna, ad þér alvara sé ad fyrirgéfa honum, leitast vid ad gjora þeim sem módgadi þig, allt þad gott, sem þú gétur, til þess ad snúa honum á betri þánka.

§. 7. Ransaka enn framar, í tilliti annara ógæfu tilfella og mótlætínga, hvornig þú gétur látid þér þær lynda. Finst þér ad sálu þinni hafi í því tilliti framfarid? og styrkur hennar aukist? Ber þú nú minni kvídboga, enn ádur, fyrir því mótlæti, sem þú mátt þó uggandi vera ad yfir þig kunni í þessum heimi ad falla? Gétur þú med stærri gledi og ánægju, enn ádur fyrri, sett traust þitt á visdóm Guds og gæzku, ad hann muni greida sem best, fyrir þér, úr ollu, sem þér mæta kann? Finnur þú þig ad eiga hægra med, enn fyrri, ad halda þaunkum þínum í stilli, til ad yfirvega þínar nærverandi kríngumstædur, og gæta skyldu þinnar, jafnvel þó þú ecki vitir, hvad Gud vill láta á

þína daga hér á eptir drífa, og hvad hann hefir þér ákvardad, ad líða. Og þegar þú finnur, ad þjáníng og hermíng legst á þig, lætur þú þér þá litid til þess finnast, og er þér slíkt þá þolanligra, enn ádur? Er þér nú audveldara ordid, ad snúa hjarta þínu til himneskra og guddómligra hluta, þegar þú ert í naudum staddur, án þess ad vera hugsjúkur um, hvornig þú frá þinni naudabyrdi frelsast gétir, ef þú adeins fær, med því móti, tekid framför í helganinni og sameiníngu med Gudi, og ordid svo þess hæfiligri til dýrdarinnar á sídan.

§. 8. Rannsaka þú ogsvo, hvert þér fer fram í audmýktinni. Dygd sú er ad vísu kyrlát, en þó næsta ypparlig; og þeir allraimest af henni hafa, eru Gudi þóknanligastir og hinir hæfustu til ad njóta hans samfélagsskapar. Finnur þú nú til þess, ad hjarta þitt meir og meir hreinsist frá öllum drambs- og sérþótta-fullum innbirlíngum? Er þad ecki, eins sem ádur, hneigt til ad líta til baka á þína eigin forþénustu, svosem fram fyrir þig á þær skyldur, sem þér æfa ber, og undireins ad hugsa til þess ófullkomligleika, sem ennnú býr í þínu hjarta og vid þig lodir. Sér þú nú og finnur til af eigin reynslu, betur enn ádur, hvílikum vansa og veikleika þú dagliga undirorpinn ert; og ertu nú fljótur til ad ángrast yfir slíku og ydrast þess fyrir Gudi, sem þú máské áleizt ádur litid í varid; en finnur nú, þegar þú yfirvegar þesshátttar fyrir Guds augliti, ad þad ecki er svo saklaust og óstraffsverdt, sem margur meinar? Finnur þú til, ad í hjarta þínu djúpt innþryckt sé þvílik ímindan, um þess blessada Guds guddómligu hátign, og þá dýrd sem hans náttúrligu og sidaligu fullkomligleikar í sér geyma, ad þú þar út af sjáir, hvorsu ad þú, þegar þú ber þig saman vid hann, **verdur sem ad engu, og líka sem hverfur burtu til ad verda minna enn þad sem eckért er og í eydi liggur** (Es. 40, 17); sértu svoleidis sinnadur, þá vill Gud álíta þig med stakligri nád, og meddeila þér meira edur minna af hennar blessunum.

§. 9. En þar er ennnú til önnur lángt stærri verkan, sem af kristiligri audmýkt flýtur, og þad væri straffsmaklig yfirsjón

ef madur skyldi vanrækja hana. Leyf mér því ad spyrja þig enn framar: endurnýar þú ydugliga þitt traust til Kristi blóds og réttlætis, þar þú veizt vel, hvorsu ómakligur þú ert til ad koma fram fyrir Guds auglit, án þess þad skéi fyrir hans sakir? Og — jafnvel þó þitt óreglnliga liferni sé ad miklu leiti betrad, audmýkir samt spilling sú, sem eptir er í hjarta þinu, þig fyrir honum? Ert þú fullur af alvarligri og inniligri laungun eptir ad ødlast lifandi verkanir þess heil. Anda? Og kénnir þú svo sárt til þins eigin vanmáttar, ad þad knýi þig til, í øllu því góda, sem þú gjørir, ad reida þig einúngis ad ollu leiti, uppá náð hans, ad hann koma muni breiskleika þinum til hjálpar? (Róm. 8, 26.) Gétur þú vid endalykt þeirra daga þins lífs, á hvørjum þú lifad hefir gudligasta og hrósverdasta líferni, skammast þín fyrir Gudi og barmad þér af hjarta, yfir vansa og ógyldi verka þinna, midt í því ad adrir máské hrósa þeim og hæla mikiliga? Og eptir þad þú þannig hefir géfid Gudi dýrdina fyrir allt þad góda, sem þú gjørt hefir, og þackad hans nád, sem þig styrkt hefir, fyrir þad alltsaman, kémur þú þá, ad því búnu, til ádreifingar blódsins, til þess ad hreinsast af þeim mørgu syndum, sem ennnú blandadar eru med þinum bestu verkum? Lærir þú ad þiggja gáfur Guds forsjónar, ei alleinasta med þacklæti, af því þær frá Gudi koma, heldur ogsvo med skammfeilni og blygdun, þar þú veizt, ad þú ecki einúngis ecki vinnur til þeirra, heldur jafnvel spillir þeim og misbrúkar? Vegsamar þú Guds réttlæti midt í þinum þrengingum og mótlæti, jafnvel þó þú sjáir ad margir adrir í kríngum þig, sem þó lifa í fleirum vitanligum og opinberum yfirtrodslum enn þú, njóta bestu lucku og velgengnis.

§. 10. Fer þér — spyr eg þig ennnú — ogsvo fram í kostgæfni og vandlæti í ad þjóna Gudi, og efla gagn þins náúnga? Sýnir kærleiki þinn sig stodugan og hreinskilinn í gódum verkum, sem af honum fljóta? Alítur þú annara naud med hjartanligri medaumkun og hugsar þú um, hvornig þú best gétir henni af þeim létt? Finnur þú í hjarta þínu fúsan vilja til

ad géfa góð ráð og auðsýna örlæti, svo þú ert reiðubúinn, ad láta þinn eiginn ábata og ánægju í skurðinn gánga, til þess ad géta öðrum hjálpað? Merkir þú ad finni þitt, augnamið og ályktanir miða til ad frama Kristi dýrð og hans ríki í heiminum, með því ad útbreiða hans heilaga Evangelíum, og þar með efla andliga velferð þíns náúnga? Biður þú ekki einúngis Guð ad gjöra þetta, heldur og sjálfur kostar kapps um, ad verka þar til svoleiðis, ad sjáanligt er, ad bæn þín kémur fram af hjartans grunni, þar eð þú ætíð ert reiðubúinn til ad gjöra það lítið þú gétur til ad styrkja til Guðsríkis útbreiðslu með útlátum og aðburðum, jafnvel þó aðrir, sem miklu meiri efni hafa, skeyti ecki um neinu þar til ad kosta.

§. 11. Og til þess, ad eg ecki verði oflángorður um þetta annars í sjálfu sér víðtgrípanda efni, þá bið eg þig ennú yfirhöfuð ad yfirvega, hvörnig sinni þínu varið er, í tilliti þessarar og eptirkomandi veraldar? Ertu þá fullkomliga og af reynslu sannfærður um, ad þeir sýniligu og stundligu hlutir eru forgeingiligir? (2 Cor. 4, 18.) Formerkir þú ad elska þín og traust til þeirra fer minkandi? Viltu ad vísu gjarnan dvelja hér í heimi, svolengi sem þínum himneska Föður þóknast, því það er rétt og tilhlýðiligt; en finnur þú samt undireins til, ad þú ert þó svo lítt við heiminn bundinn, ad þú af öllu hjarta ert fús og viljugur til ad yfirgéfa hann, og það jafnvel þó Guði þóknaðist ad kalla þig héðan í burtu í hasti, og það miðt í þínum ánægjusemdum, sýslunum og eptirvæntíngum; svo þú vildir ecki, þó þú kost á ættir, biðja Guð, ad lofa þér ad lifa nockuð lengur, til ad njóta hér einnar eður annarar ánægju, eður til ad fullkomna eitt eður annað verk? Gétur þú verið róligur og af hjarta ánægður, svo framt það væri Guðs vilji, ad þú ecki skyldir framar vakna af svefni, þegar þú leggur þig til sængur, ellegar ecki koma lifandi heim aptur, þegar þú fer frá heimili þínu? Framar spyr eg þig: ertu fús til ad bera þína mótlætis byrði hér í lífi, hvörsu þúng sem hún er, í auðmjúkri undirgéfni undir vilja þíns himneska Föðurs, og þó það

vara ætti í morg eptirkomandi ár, og leggiast lángtum þýngra á þig, enn nockrusinni ádur? Gétur þú med rósemi og stödugl yndi — enda ecki med svo yfirgnæfandi ofurgéfníngu sem þú æskir — sagt: siá þinn þjón, þitt barn er í hendi þinni, gjör þú vid mig, þad sem þér gott sýnist! (2 Sam. 15, 26) minn vilji skal vera þínum vilja aldeilis undirgéfinn, hvort sem þú leidir mig út edur inn, híngad edur þángad, í þessar edur adrar kríngumstædur, rétt eptir sem þér þóknast og best svarar til þíns stóra og háleita augnamids, sem betra er, enn eg og allir einglar á himnum géta skilid.

§. 12. Þessi eru nú, ad svo miklu leiti eg skilid fæ, þau allravíssustu kénniteikn til þinnar framfarar og stödugleika í sonnum Guds ótta. Ransaka þig nú eptir þessu; og ef þú merkir ad þú finnur þau hjá þér, þá þackadu Gudi og vegsama hann þarfyrir, og legg dagliga ástundan á, ad þú, fyrir Guds adstod, gétir í þessu vagsandi farid. Hvar til eg af hjarta óska þér til Guds nádar, og bid þig, ad þú af hjarta leggir þar ástundun á.

## Inniligt andvarp kristins manns til Guds, um ad géta vagsid og þróast í nádinni.

O, þú eylífi blessadi uppruni til hins náttúrliga og andliga lífs! Eg þacka þér fyrir þad, ad eg lifi og hefi fengid ad þeckja æfíngu og ánægju þá, sem heyrir til sanngudligu liferni. Eg þacka þér, ad þú hefir hjá mér innblásid þínum eigin lifanda Anda, þá eg daudur var í yfirtrodslum og syndum, svo ad eg, á þann hátt, sem sérílagi heyrir til þínum eigin bornum, er ordinn ad lifandi sálu. Sú er því mín hjartanlig ósk, ad eg ecki einúngis lifi, heldur ogsvo vagsi og þróist í míns Drottins og Frelsara Jesú Krists nád og þeckíngu, undir hvorju mín framfor í Guds óttanum fullkomliga komin-er! Eg bid þig í djúpustu audmýkt, ad þú í mitt hjarta innþryckja virdist réttri ímindun um sannan Guds ótta, svo eg ecki dæmi um nádina eptir raungum og folskum meiníngum, edur mæli

framfor mína í honum, eptir þvílíkum hlutum, sem ad eins eru verkanir náttúrunnar, og þad máské, ad því leiti, sem hún spillt er! Lát mig leitast eptir ad aukast í gudligum kærleika til þín, minn Gud og Fadir í Kristo; í stadfastri ofurgéfníngu undir þinn vísdómsfulla og heilaga vilja, og í kærleika til míns náúnga yfirhofud! Láttu sálu mína vagsa og vidgáng taka í þolinmædi og krapti, í audmýkt og vandlæti, og í andligu og himnesku sinnislagi, og í umsorgun fyrir því, ad hvort sem eg er heima edur framandi, ad eg géti verid þér þóknanligur; já, hvort sem eg lifi edur dey, ad þad skéd géti til þinnar dýrdar! Í einu ordi! þú veizt mig húngrar og þyrstir eptir réttlætinu; gjørdu þessvegna vid mig, hvad þér best líkar. Drag sálu mína eptir þér, fyrir þíns heil. Anda verkun, svo ad, þú himneski Fadir! gétir med velþóknan séd og álitid, ad hvert mitt spor stefnir í þá átt ad líkjast þér, og mind þíns heilagleika. Eg veit, ó Drottinn! vel, ad eg ecki ennuá hafi hondlad þad, edur er ordinn fullkominn, og sála mín er mjøg órólig í mér, þegar eg hugsa til, hvørsu lángt eg á til takmarksins; en þetta er þó þad einasta sem eg (eptir þíns postula, stóra, já eptir hans meistara ennnú lángt stærra, dæmi) vil kappkosta ad ná, nefniliga ad gleyma þeim hlutum, sem til baka eru, en sækja eptir þeim sem fyrir framan eru. Æ ad þú vildir fæda mína sálu med þínu ordi og Anda, svo ad eg, sem audmjúkliga vona og trúi, ad eg endurfæddur sé, ecki af forgengiligu heldur óforgengiligu sædi, nefniliga ordi Guds lifanda, sem æfinliga blífur, géti, sem nýfædt barn, girnst þíns ords skynsamligu og ósviknu mjólk, svo eg þaraf géti framforum tekid; til þess ad mín framfor géti opinber ordid medal allra, uns eg lokfins verd ad fullkomnum manni, eptir Krists algjørda aldursmáta. Svo eptir þad eg notid hefi allrar þeirrar ánægju, sem þeir njóta, sem ágætliga blómgast hér nidri í þínum forgardi, ad eg þá lokfins megi í þá himnesku Paradís upphafinn verda! Þessa bid eg þig og vona af þér vegna hans, af hvors fyllíngu vér allir fengid

hofum náð fyrir náð. Honum og þér veri dýrð nú og að eylífu! Amen.

## 27di Kapítuli.

Sá kristni, sem í Guðs ótta framförum tekið hefir, verður áminntur að minnast Guðs náðar og miskunar, og upphvattur til að yðka sig í sífeldum kærleika til Guðs og til gleði í hönum.

§. 1. Eg vil nú íminda mér, að lesarinn, með að rannsaka sitt andliga ástand, hafi fundið sig að hafa framförum og viðgángi tekið í náðinni. Ef þú nú æskir og girnist, að þessi þín framfor megi bæði í vøgst fara og þeckjast, þá lát þú sálu þína upporfast til að æfa sig, sem inniligast þú gétur, í kærleika til Guðs og gleði í honum; því þetta er sonn prýði nafni og sinnisfari þess Kristins manns, sem í Guðs óttanum vagsið og þróast hefir. Þetta bið eg þig að álíta, ecki að eins sem nockuð það, sem þú, ef vilt, hefir frelsi til; heldur sem skyldu þá, er á þér liggur. Kærleikurinn er sú allraæðsta og eðalligasta hjartans hræríng til að sýna Guði sanna og honum þacknæma hlýðni. Og þegar kærleikurinn hefir svo góða og tryggva rót í sálunni fest, svo Guð og sálin innbyrðis elskast, þá fylgir kærleikanum á náttúrligan hátt, þvílík gleði, sem honum jafnstór er. Sú manneskja, sem sér réttiliga fyrir sjónir setur kristindómsins andligu veru, gétur haft stóra orsok til að gremjast yfir því, þegar hún sér, hvorsu jafnvel hreinskilnir Kristnir menn eru á lágri troppu í þessu tilliti. Gleðjið yður í Drottni þér réttlátu! segir Davíð (Sálm. 97, 12), þackið hönum og prísið hans heilagleika, já alla aðra þá dýrðarligu fullkomligleika, sem í þessu hátignarfulla, þessu forundranliga og þessu ylmsæta nafni: Drottinn þinn Guð, innifaldir eru. Brúkaðu ecki þína heilogu tíma, að eins til bænar og yðrunar (jafnvel þó þér beri það ogsvo dagliga að gjora), heldur brúka þá

nockurn, já mikinn part þeirra, til að fremja þá himnesku og eingilligu athöfn, að lofa Gud, þacka honum og vegsama hann. Já, leitast þú við, að þú ætíð þvílíkt hjartalag haft gétir, sem fullt sé af slíkum sinnishræringum, og upptendrað af slíkum kærleiksloga.

§. 2. Seg mér! útbreidir ecki ljóssins og kærleikans mikli Fadir nógsamliga sína geisla, til þess sífelt að upptendra þvílíkan kærleiksloga í hjarta þínu? kom þá, minn kristiligi vin og bródir? kom og hugleid þú ásamt mér gædskugnægd vors himneska Födurs! Æ að hann vildi láta mig reyna og finna til þessa svoleidis innvortis med sjálfum mér, að eg gæti útmálad það fyrir ödrum tilhlýdiliga, og að á medan eg þeinki þarum, að mitt hjarta gæti í mínu lífi heitt ordid (Sálm. 39, 4), og að eg fengi svo meddeilt þann hita, út frá mér, til annara! O að hann mætti fylgja med þessum línum, sem eg skrifa, frá einni sálu til annarar, og uppvekja í hvörs kristins hjarta, sem þær les, þvílíka hræringu, sem Guds börnum og erfingjum himnaríkis verdug er, sem á sídan eyda skulu sínum tíma í eylífdinni, med þvílíkum heilögum æfingum, til hvörra eg nú vil leitast vid að upphvetja þig.

§. 3. Hefir þú ecki orsök til að brúka þessi Davíds ord, og segja: ó Gud, hvörsu dýrmætir eru þínir þánkar fyrir mér, hvörsu er fjöldi þeirra mikill, hvörnig fæ eg talid þá, þar þeir eru sandkornum fleiri? (Sálm. 139, 17). Þú veist sannarliga, minn vin! hvar þú þessa hugleidingu byrja skalt, því Guds nád og miskun hefir verid med þér, í frá þínu fyrsta fædingar augnabliki. Minstu þess þar fyrir med þacklátu hjarta, að þau augu, sem sáu þig, þegar þú enn þá varst óskapadur, báru þó allareidu umsorgun fyrir þér, og hafa (sídan sífeldt) vakad yfir þér, sídan þú varst mindadur í leyni (Sálm. 139, 15. 16). Já að hans hönd, sem fyrst tilbjó limu þína, þá eínginn þeirra tilvar, hefir ecki einúngis ágætliga sett þá saman, heldur jafnvel í frá þeim tíma ætíd med umhyggju vardveitt öll þín bein, svo eckert þeirra

brotnad hefir (Sálm. 34, 21) svo þú mátt vísſuliga þacka honum einum þad, ad þú ennuú heldur lifi. Lít tilbaka yfir þann veg, sem þú gengid hefir, í frá þeim degi, ad Guds hönd leiddi þig útaf módur lífi, og segdu svo, hvört þér má allur sá vegur ecki sýnast alsettur kénniteiknum hans guddómligrar gædsku. Hugsadu til þeirra stada hvar þú verid hefir, og til þeirra manneskja, sem þú hefir umgengist med, sem bestu vinum, og yfirvegadu þá nád sem fram vid þig komid hefir í hvörjum tíma og af hvörri persónu, sem Gud brúkad hefir sem verkfæri sinnar guddómligu gædsku og umsorgunar fyrir þér. Iminda þú þér þær háskasemdir, sem þig umkríngt hafa, og hvörnig Gud hefir dásamliga vardveitt þig fyrir þeim, edur frelsad þig út af þeim. Peink til þess, hvörsu opt þar ecki hefir verid nema eitt fótmál millum þín og daudans, og hvörsu brádliga ad Gud hefir hjálpad þér og gjört þig óhultan, ádurenn þú vissir af, ad háski nockur fyrir höndum væri. Lát þig reka minni til, ad hafirdu einhvörn tíma sjúkur leigid, svo þú og adrir sáu ecki annad fyrir, enn dauda þinn, hvörsu þú máské þeinktir þá sem Ezechías kóngur: mínir dagar eru afhöggnir, og eg hlýt ad fara í gröfina; eg hefi mist mín ár, þegar eg hugsadi þó lengur ad lifa (Es. 38, 10); en nú hefir Gud máské sídan bætt mörgum árum vid þitt líf, og þú veist ecki hvad mörg þú kannt enn ólifud eptir ad eiga, né hvörsu mikid gott og hvad stóra luckú Gud vill, á hvörju ári, ennnú veita þér. Yfirvega líka kríngumstædur þínar hér í heimi, ad því leiti þú sameinadur ert í félagi med ödrum. Hvörsu marga hreinskilna vini hefir þú máské dagliga allt í kríngum þig, sem med alúd ástunda ad efla farsæld þína, eptir sem þeir best megna. Hugsadu til þeirra markverdu kríngumstædna í því tilliti, hvörsu ad Guds forsjón hefir stundum hagad því svo, ad slíkra sumra hvörra vinskapur, hefir þér — næst vinskap sálar þinnar vid sjálfan Gud — verid til bestu lucku og uppbyggingar. Gleym ecki heldur, hafi þad tilborid, ad þessara þinna dýrmætu vina líf, sem máské hafi þér kærara verid enn þitt eigid, hafi verid í

hættu stadt, en Gud hefir þó géfid þér þá aptur lífs og heila, og þarmed bætt nýrri gledi og ánægju vid þín kjör, af ad mega lengur njóta þeirra kærleiksfullu og uppbyggiligu umgengni. Gleym ecki heldur, hvörsu nádarsamliga adstod hann sumum veitt hefir, á þeirra sídurstu lífstundum, svo þeir hafa eptirskilid sæta ylman gudhrædslunnar, hvor, eins og annad balsam, hefir þeirra endurminníngu hjá þér upplífgad, þegar þú af sorg og ángist ætladir nærfeldt sem ad uppgéfast í fyrstunni, þegar þú mistir þeirra návist, en nú er tilhugsan dauda þeirra þér mikid ánægjufull, þá þú ert svo fullviss um þeirra eylífu velferd.

§. 4. En nú er mál komid, eg leidi þánka þína til ad skoda þá márgfoldu andligu velgjörnínga, sem Gud hefir veitt þér. Lít til þess hellubjargs, af hvörju þú úthöggvinn ert; og til þess bruunsins, af hvörjum þú ert útgrafinn (Es. 51, 1). Hugsadu alvarliga um ástand þad, í hvörju þú varst, þegar Guds nád vitjadi þín. Ó hvörsu skélfiligri synda skuld til Guds réttlætis stódstu þá ecki! Med hvílikum synda saur varstu þá þakinn! Hvílikur háski og skélfing vofdi þá yfir þér! Þeinktu til þess, hvad þarak mundi ad lyktum flotid hafa, já flotid eylífliga. Guds allt sjáandi auga sá, ad þú sorgadir þá einúngis fyrir léttvægum jardneskum hlutum, og holdligu eptirlæti, og þú breyttir rétt eins og þú ylti fyrrtur værir, og hefdir fyrir eingri sálu ad sjá. Gud sá þig þannig standa á barmi glotunarinnar og kénndi í brjósti um þig. Hann sá, ad þú innanskamms tíma, mundir einn verda í hóp þeirra hjálparlausu skepna, sem dánar eru útaf í sínu ydrunarleysi, og med ósegjanligri skélfingu hafa nú heyrt sinn dóm, til ad lída eylífa ángist, skömm og pínu. Þetta sama Guds réttlætis þrumuslag vofdi nú þá og þegar yfir þér. Þetta sá Gud, segi eg, og aumkadist yfir þig, og þessvegna svo sem hann af sinni miskun hafdi sendt þessari syndugu veroldu sinn eingetinn Son, hvorn hann lét til endurlausnar mannkynlnu úthella sínu blódi, sem svo óendanliga dýrmætt er; svo sendi hann og svo sinn heil. Anda til ad verka hjá þér, ef þú honum ecki móti-

stædir, sanna ydrun og trú, ad hann þannig gæti leidt þig frá myrkrunum til ljósins, svo þú yrdir ljós í Drottni (Eph. 5, 8). Þar sem þú nú gafst hans heil. Anda rúm, svo hefir hann, fyrir hans verkun, úthellt sínum kærleika í þitt hjarta (Róm. 5, 5), hver eg vona ad enn meir, enn ádur, sé nú upptendradur hjá þér, vid þær rádleggingar sem eg þér gefid hefi, svo hann brenni nú heitara í brjósti þér, enn fyrri. Svoleidis hefir þá Gud fyrir sitt ord og anda styrkt þig í þínum kristindómi, svo þú fyrir hans hjálp stendur allt inn til þessa dags, (Gjorn. b. 26, 22); og hann hefir ecki adeins blessad sjálfan þig med nád sinni, heldur og gjört þig ad blessun fyrir adra (1 Mós. 12, 2). Og jafnvel þó þú ecki hafir verid til svo stórrar nytsemdar fyrir adra, sem þitt helgada sinnislag, er hann sjálfur hefir verkad, eiginliga útheimtir, þá hefir þú samt gjört nockud gott í þeirri stétt, sem hann hefir þig í sett. Nockrum af brædrum þínum, medal manneskjanna, hefir þú til hjálpar komid; já, máské, og nockrar tilfinningarlausar sálir hafi fyrir þína adstod, med Guds nád, umvendst og ordid sonn Guds born. Nockrir sem enn eru á veginum til himins, lofa máské Gud og vegsama fyrir þad þú varst þess ollandi, ad þeir komnir eru á veg þennan. Og máské séu nockrir allareidu heimkomnir til fodurhúsanna, sem bídi þar eptir komu þinni, til ad þacka þér á edalligasta hátt fyrir þá velgjorninga sem þú þeim audsýnt hefir, hvorra mikilvægi þeir nú fyrst algjorliga þeckja og skilja, þó þeir gætu þad aldrei vel, medan þeir hér á jordunni voru.

§. 5. Kæra sál, líttu allt í kríngum þig, og athuga þú þær ótoluliga margslags blessanir Guds, sem umkríngja þig rétt á allar sídur; en skygnstu þó med augum þínum enn þá lengra, til ad sjá hvad þad er, sem trúin opinberar þér, á bak vid fortjaldid. Ímínda þú þér þá fagnadarsælu, sem þér ennnú ókunnug er, þegar fullkomliga verdur allri bols- og synda-byrdi af þér létt í grofinni, en þinn ódaudligi andi mun í daudanum

forklárađur, heilagur og farsæll flytjast upp til Guđs, sem er hans skapari og hjálpari; til Guđs, sem er uppruni allra hluta og alls hellagleika; til Jesúm, sem afrekađ hefir þér alla þessa náđar velgjörnínga, og ákvarđađ handa þér hásætl nálægt sínum eigin tróni, til þess þú ađ eylífu fáir ađ skođa hans dýrđ og njóta hennar. Hugsa um þann ofriđ stóra fögnuđ, sem þér veitast mun, þegar þú á degi upprisunnar verđur nálægur hans sigurhrósi og þegar hann umbreita mun þessum þínum vesæla og visnađa líkama og gjöra hann forklárađan eptir sínni eigin dýrđar mind, og þenk síđan: þessa von hefi eckí einúngis eg, heldur eru margar þúsundir, já milliónir, sem vona þessa hins sama. Já, margir, sem eg reikna međal minna allrakærustu vina hér á jörđu, eru þađ, sem gledja sig, ásamt mér, vid þessar sætu ímindanir. Og Guđ lætur mig stundum sjá og gledi svip þessarar auđmjúku vonar á þeirra andliti, sem geislar fram af þeirra augum, og skín ígégnum þau tár, sem þeir međ innilegri þacklátsemi úthella; en þađ er þó næsta litiđ af þeirri innvortis gledi, sem hjá þeim er, sem eg heyri, þar þeir géta eckí međ túngunni útlistađ hana. Já ótal fleiri, sem áđur voru mér eins kærir sem þessir, lifa nú hjá Guđi, jafnvel þó eg međ sorg hafi fylgt þeim til grafarinnar. Já, þeir lifa í ósegjanligum fögnuđi, og drecka lífsins vatn, sem eylífliga framstreymir til Guđs hægri handar.

§. 6. Æ allrakærasta sála! þú ert ennnú, þótt á jörđunni sért, eingu ađ síđur í nákvæmustu sameiníngu međ þessum. Dauđinn fær eckí slítiđ þađ vinskapar band, sem svoleiđis samanknýtt er, og hann má eckí gjöra þig tilfinníngarlausan í tilliti farsældar þeirra vina þinna, hvörra þú minnist međ svo makligri virđíngu. Þeir lifa hjá Guđi, sem hans þénarar, er þjóna hönum og sjá hans augliti (Opb. 22, 34) og þó eru þessir sá minsti hluti af þessum dýrđliga sofnuđi. Þar eru heilar milliónir, sem eins og þeir, makligir eru þess, ađ þú virđir þá og elskir, þar þeir búa í þessum sælunnar og dýrđarinnar bústođ-

um. Eda viltu ecki taka hlutdeild i þeirra gledi? viltu ecki dýrka þessa heilagleikans og sælunnar eylífu uppsprettu, út af hvørri allir þessir straumar fljóta? Já, eg vil ennnú þessu vidbæta: viltu ecki líkasvo gledjast yfir sælu heil. Engla; þared þeir med stórum kærleika til þín, hafa vakt á þér og þjóna þér, já rétt sem bera þig á høndum sér, sem þann, er sálu-hjálpina átt ad erfa? (Ebr. 1, 14). Og viltu þá ecki til-bidja þann Gud, sem veitir þeim svo stóra dýrd, svarandi þeirra háleitu náttúru edli, og géfur þeim þvílíkt himnaríki, sem fylgir þeim og fyllir þá med sælu, midt í því þeir sýnast ad yfirgéfa þad, til þess ad vakta þig hér og vardveita.

§. 7. Þetta og óendanligt fleira sannar berliga, hvørsu stór Gud hefir verid, er og verdur eylífliga. Þeir blessudu andar, sem umkríngja hans trón, og sæla sú, sem þér, kæra sál, ætlud er, er ódaudlig. Þessi himnesku ljós munu leyptra med óforgengiligum ljóma, og þú munt sjálf leyptra og skína midt á medal þeirra, eptir þad sól og stjørnur útslocknadar eru. Ljóssins ómbreitanligi Fadir mun útbreida sína geisla yfir þá, og sá dýrdarglans og ljómi, sem þeir af honum edlast, samt farsæld þeirra í honum mun ecki einúngis vara eylífliga, heldur sífelt meir og meir í vøgst fara. Kasta þú þér þá nidur, þú Gudsbarn, þú erfíngi himnaríkis, fyrir hans augliti; og lát allt hvad í þér er, sameina sig til þacklætisfullrar kærleiks æfingar; já lát allt þad, sem umkríng þig er, allt þad, sem þú fyrir augum hefir — þegar þú ert ad hugleida þá takmarkslausu eylífd — sameina sig til ad upplypta og líkasem burturycksja þinni sálu í heil. andakt, til þess þú, ad því leiti møguligt er, gétir sem best byrjad hér strax þetta himneska erfidi, med því ad falla nidur fyrir Guds augliti, og opna hjarta þitt hans nádarverkunum; og med því ad úthella fyrir honum þvílíkum lofsaung og dýrkun, sem nálægd hans og kærleiki einúngis gétur hjá þér verkad, og sem hann af nád vill láta sér svo yndæla og þóknanliga vera, ad hún nockurnveginn kann ad tak-

ast í líkíngu vid þann lofsaung, sem honum í hans eylífu Paradís goldinn verdur.

Ein þacklát sála gledur sig yfir blessun Guds forsjónar, bædi í tilliti þess líkamliga og andliga, og úthellir sínu hjarta, med lyst og fögnudi, fyrir Gudi, til ad lofa hann og vegsama.

O, minn Gud! þad er nóg, eg hefi svo inniliga um þína gædsku þenkt, ad mínir þánkar eru rétt sem upptendradir af heil. eldi! En æ! hvornig á eg þá ad láta logann brjóstast fram? Hvad gét eg annad sagt, enn segja: mitt hjarta er fullt af forundrun yfir þér, og eg tilbid þig og elska þig? mitt litla kér er svo fullt, ad þad ecki gétur innibyrgt meira; og öllu þessu vildi eg þó géta úthellt fyrir þínu augliti, svo þad gæti hæst ordid til ad taka ámóti meiru og meiru. Þú ert mín von og minn skjoldur; þú ert mín dýrd, og sá, sem mínu hofdi upplyptir. Mitt hjarta fagnar yfir þínu hjálprædi. Og þegar eg ofursel sjálfan mig verkunum þíns góda heil. Anda, til ad hafa umgengni med þér, þá uppvakna allt í einu þúsund yndisligir þánkar, og þúsund gledi uppspréttur streyma þá inní sálu mína med þvílíkum fögnudi og endurnæríngu, ad sérhvort augnablik virdist ad innilykja í sér heillra daga, vikna, já, mánada farsæld. Eg þacka þér, ó Gud! ad þú skapad hefir sálu mína, og til þess hún nád géti þeirri allrastærstu farsæld, kénnt henni ad spyrja: hvar er sá Gud, sem gjordi mig? Eg þacka þér fyrir þá þeckíngu, sem þú hefir gædt hana med. Eg þacka þér fyrir þá nád, med hvorri eg áreidanliga — þó í audmjúkri forundrun — gét sagt, ad þú helgad hafir sálu mína, jafnvel þó sú heilaga rót plöntud sé í ófrjóssamri jordu, og blómgist ecki, í svo hárri troppu, sem eg gjarnan óska vildi. Eg þacka þér ogsvo fyrir þann líkama, sem þú mér géfid hefir, hvorjum þú ennnú vidheldur med heilsu og kroptum, svo hann ecki einúngis er hæfur til ad njóta þeirra útvortis ánægjusemda, sem þú honum veitir, heldur ogsvo (hvad eg, í tilliti hans eiginn gagns,

met ennnú meira ívarid) gétur sýnt sig otulan og kostgæfinn í þiuni þjónustu. Eg þacka þér fyrir þad, hvad mér hægt og létt veitir ad hræra mína límu, til ad hlýda því, sem sálin, eptir þíns Anda leidsøgn, vill brúka þá til. Eg þacka þér, ad vaktararnir í húsinu eru ennú ecki teknir ad bísast, og ecki þeir hraustu menn um koll ad falla; ei heldur þeir sem í gégnum gluggana líta ad formyrkrast, né allar saungsins dætur ad krympa sig. Eg þacka þér, Gud míns lífs, ad silfursnúran er ennþá ecki farin ad bresta, og ad gullskálin er enn ecki sundurbrotin; því þad er þín hend, sem enn þá sambindur minar sinar, og þinn óendanligi vísdómur, sem tilreidir þann anda, hvørn eg svo frjáls ag óhindradur dreg, og þad lopt, sem eg svo fljótt og ysirgnæfanliga í mig dreck, med hvørjum andardrætti. Eg vegsama þig fyrir þá konúngligu gædsku, med hvørri þú dagliga forsorgar manneskjur ysirhofud og mig sérílagi; fyrir þad matbord sem þú, á ýmsan hátt, tilreidir handa mér, og þann fleytifulla bikar, sem þú setur fyrir míg. Eg þacka þér, ad þær guddómligu gódu gáfur forsjónar þinnar ecki þéna mér til óhófs og misbrúkunar. Eg lofa og vegsama þig fyrir þad, ad eg ecki et minn munnbita einúngis sjálfur, heldur meddeili eg þar af mørgum gódum vinum, svo vér, vid vorar dagligu sameiginligu máltídir, smeckum ecki ad eins yndæli náttúrligs heldur og borgaraligs lifnadarmáta. Eg þacka þér fyrir þau mørgu skyldmenni sem eg á heima, og þá mørgu gódu vini sem eg á annarstadar, sem bædi hafa efni til ad þéna mér vid ýmislig tækifæri, og líka skyldu tilfinníngu og fúsleika til ad gjøra þad eptir efnum. Eg vil ei heldur gleyma ad hrósa þínum velgjørdum vid mig, á þann hátt, ad þú hefir gjørt mig færan til ad þéna ødrum, og hefir vid mørg tilfelli látid mig reyna, ad þad er lángt sællra, ad géfa enn ad þiggja. Eg þacka þér, ad þú hefir géfid mér þvílíkt hjartalag, sem finnur til mótgángs þeirra naudlídandi, og þad sinni, sem í tíma sorgar fyrir og hefir ánægju af ad hjálpa þeim, eptir minni litlu formegan; því slíkt allt kémur frá þér, þú Drottinn Zebaóth, sem uppruni

ert til sérhvorrar gódrar tilhneigíngar, sérhvors forsjálligs áforms og sérhverrar lucculigrar tilraunar, ad efla og auka, vid oll géfin tækifæri, vorra medbrædra farsæld, ellegar og stundum, þegar þad verdur, ad bæta úr boli þeirra og hormúngum. Og sannarliga, ó Drottinn, ef eg svoleidis gét játad þad eptirlæti, sem eg hefi af því, ad taka, af medaumkun, hlutdelld í sorg þeirra mótlættu, hvorsu miklu framar hefi eg þá orsok ad þacka þér, fyrir þá sætu ánægju, sem eg nýt ásamt þeim, yfir hvorra mótgángi eg ádur samhrygdist, en eru nú ordnir fullkomliga lucculigir. Eg lofa þig og vegsama fyrir vatnsstrauma þá, med hvorjum þú vokvar Paradís, og vidheldur henni í eylífliga blómstrandi og eylífliga í voxt farandi fegurd og farsæld. Eg vegsama þig, fyrir þá rósemi, þann fognud og yfirmáta miklu sælu, sem þú nú veitir morgum þeim, er ádur voru mínir kærustu vinir hér á jordunni; úr hvorra sorgum eg leitadist vid ad mýkja, og hvorra fognud — einkum í þér — eg med stærstu hjartans ánægju koppkostadi ad vekja og efla. Eg vegsama þig fyrir þá sælu, sem hver einn Eingill og hver einn sáluhólpinn nýtur, sem á himnum uppi umkríngja þinn trón; já eg vegsama þig, med óútsegjanligri gledi, fyrir þá lifanda von, er þú í mínu hjarta plantad hefir, um þad ad eg innanskamms tíma skuli berliga fá ad sjá, og eylífliga ad reyna, í hvorju þessi þeirra sæla fólgin er, hvorja eg nú ad eins sé sem áleingdar, og líkasem grilli til, í gégnum trúarinnar skuggsjá. Já eg finn nú jafnvel, fyrir þína nád, til þess, hvorsu ad eg verd af þínum máttuga armlegg, rétt sem fluttur nær og nær þessum sælunnar bústodum. Já, ó Drottinn! eg jafnvel bíd nú eptir þessari þinni sáluhjálp, á adra sídu, med þeirri inniligu laungun, sem hennar yfirmáta stóra dýrd hlýtur ad uppvekja í sanntrúudu hjarta, og á hina sídu, med þeirri róligu ofurgéfníngu, sem þín ótáldrægu fyrirheit verkad og stadfest hafa, í minni sálu. Og nú, minn Gud! hvad skal eg framar segja? hvad annad enn þetta: ad eg elska þig yfir alla hluti fram, já meira enn nockur túnga megnar ad úttala! ad eg elska þig, fyrir þad þú

audsýnir þig svo dýrdligan vid þínar sképnur, sem eptir þeirra ýmisliga edli og ástandi hafa sína veru, þeckíngu og farsæld frá þér, í lángt stærri gnægd og hærri troppu, enn mín takmarkada litla skynsemi gripid gétur. En æ! eg elska þig þó og tilbid enn lángt framar fyrir þad, sem þú í sjálfum þér ert, fyrir þá ómælanliga stóru fullkomleika sem þú í þér hefir, hvorjir vid skopunina eckert skérdst hafa, og sem aldrei géta úttæmst vid allar þær óteluligu gáfur, sem þú meddeilir ollum þínum sképnum. Þinn óendanligi fullkomligleiki, sem ollar þinni eigin farsæld og er edli veru þinnar, hann er verdugur ad elskast og tilbidjast, þó jafnvel oll onnur dýrd og farsæld gleymist. O þú fyrsti! þú stærsti! þú fegursti allra hluta! Þú sem alleina einn ert stór, þú sem alleina einn ert fagur, inntak þú gjorvalla mína sálu! og sannarliga, þú hefir ogsvo allareidu inntekid hana. Því á medan eg formerki ad þinn heil. Andi verkar í hjarta mínu, og uppvekur þennan kærleika til þín, gét eg ecki framar efast um þína nádar íbúd í sálu minni, enn um þad, ad eg virkiliga sjálfur til sé, og ad eg hafi náttúrligan líkama, svo lengi eg brúka hann til sinna athafna og finn til hans hrærínga. Já sannarliga, hafi eg nockurntíma fundid til þess hvad þad er ad húngra, þá húngrar nú mína sálu eptir réttlætinu, og hana lángar inniliga eptir ad líkjast þinni allrafarsælustu veru, og þínum allraheilagasta vilja. Hafi mig nockurntíma þyrst, þá þyrstir nú sálu mína eptir Gudi, eptir þeim lifanda Gudi, og eg hrópa, af sárri laungun, eptir hans yfirgnæfanligu nád. Hafi þessi minn líkami, þegar hann hefir þreyttur verid af erfidi edur ordugu ferdalagi, nockrusinni æskt ad géta fengid endurnæríngu og hvíld í sænginni, og njóta rósemdar, þá finnur nú sála mín, ó þú minn himneski Fadir! med sætri ofurgéfníngu hvíld í þínu nádarskauti, og hefir fundid sanna rósemd í þínum elsku fadmi, sem gjort hefir svo vel vid hana. Já, hafi eg nockurntíma séd andlit eins gódsvinar med gledi og ánægju, þá gled eg mig nú, ó Drottinn, enn framar yfir því, ad sjá, med augum trúarinnar, þitt andlit í Kristo Jesú, og mega því kalla

þig minn Fødur í houum; því þad ert þú vissuliga, og vilt vera það, frá því nú er og til eylífðar. Hvad hefi eg þá framar ad gjøra, enn ad fela mig sjálfan þér á hendur, bædi nú og eylífliga? hvad annad enn ad gefa þér á vald ad útvelja mér mína arfleifd, og halda mínu málefni til figurs min vegna, mitt í því ad mitt einasta fyrirtæki og áform er ad þeckja þig, og øll mín ánægja er í því falin, ad lofa þig og vegsama. Æ min sála þreyir eptir þér, minn Gud, því þín hægri hønd heldur mér vid. O láttu hana halda mér vid framvegis, svo eg fullkomligi geti nálægst þig, allt til þess, allar mínar óskir fá sína uppfyllíngu hjá þér, í eylifri sælu og gledi! Amen!

## 28di Kapítuli.

Sannkristinn madur verdur áminntur til ad audsýna sig uppbyggiligan ødrum, hér í þessum heimi.

§. 1. Eg vona nú, minn kæri vin! ad sála þín sífelt vilji æfa sig fyrir Gudi, í þvílíkum athøfnum, sem eg í undanfarandi kapítula útmálad hefi. Svoleidis mun kærleiki þinn og þacklátsemi frambrjótast fyrir Guds augliti; og, vegna Jesú Krists, þess stóra Medalgángara, koma fram sem reykelsis offur, og gefa sætan ilm frá sér. En þú hlýtur þar hjá ad muna til þess; ad þetta á ecki ad vera sá einasti ávøxtur af kærleika þínum til Guds, hvørn eg leitast hefi vid ad upptendra í hjarta þínu. Svo framarliga sem hann hreinskilinn er, sýnir hann sig ecki ad eins í ordum, heldur og svo í verkunum, svo hann frambera mun sína réttskickudu ávexti, í falslausum kærleika til náúnga síns, og óaflátanligri girnd og vidleitni, ad gjøra honum sífeldliga gott.

§. 2. Þú munt segja med sjálfum þér: hafi hann, sem er nádarinnar eylífi Fadir, álítid mig í sinni miskun, og ecki ad eins fyrirgefid mér mínar tíu þúsund punda syndir, heldur og svo líka audgad mig med svo mørgum og ýmisligum velgjørn-

íngum, æ hvörsu fæ eg þá endurgoldið þetta alltsaman! Ó! kénnið mér það, þér, sem vitið þann eylífa sannleika! kénnið mér, þér elðstu bræður af míns Föðurs húsi og ættkvísl! Já, yfir allt fram, kénn þú mér, þú vísdómsins og kærleikans andi, hvað mér möguligt er að gjöra, til að láta í ljósi minn kærleika til þeirrar stóru og eylífu kærleikans uppsprettu, og hvörsu eg auðsýnda fái mína hreinskilni og trúskap við hann, sem alláreiðu hefir gjört svo mikið til að gjöra mig sér trúfastan, og hefir svo mikið eptirlæti af að þeckja og umbúna minn ófullkomna trúskap og hreinskilni.

§. 3. Þetta, kristin sál! er það boðorð, sem vér höfum frá upphafi heyrt, og sem eylífliga viðvarir, án þess að tapa hinu allraminsta af sínu gildi: að hvør sem elskar Guð, hann skal og elska sinn bróður (1 Jóh. 4, 21), og hann skal auðsýna sinn kærleika, ecki aðeins með orðum eður túngu, heldur í verki og sannleika (1 Jóh. 3, 18). Þú skalt því elska náúnga þinn sem sjálfan þig, og leitast við að efla annara farsæld, að svo miklu leiti efni þín leyfa.

§. 4. Já, munt þú, minn vin, segja: eg elska allar manneskjur nær og fjær. Eg finn, hvörsu að Guðs föðurligi kjærleiki, einsog einsslag gullkeðja vefur sig um oss alla saman, bindur oss fast hvørn við annan, og gjörir oss rétt sem að einum líkama, já, einsog meðdeilir öllum eina sálu og einn anda. Æ, mín hjartans ósk er sú: að blessan og farsæld — sönn og háleit, eylífliga varandi og sífeldt í voxt farandi farsæld — mætti drottna yfir og í gjörvallri veröldunni, ámeðal allra Guðs skynsömu og hlýðnu sképna, á himni og á jörðu! Ó, að öllum þeim þvermóðskufullu sképnum, sem ennþá er möguligt að frelsast og géta orðið umvendtar, yrði til hlýðni snúið! Já! ó að sá óendanligi vísdómur og kærleiki til almennings besta mætti mega meira, enn þeirra óumflýanliga straff, sem ei vilja umvendast láta!

§. 5. Þessir eru að vísu þeir réttu þánkar, og ef þú, minn lesari, í raun og veru þeinkir svoleiðis í hjarta þínu — og sért

þetta ecki tóm tilgjørdar og hégóma ord, þá sannast þad, ad þú munt alvarliga leitast vid, ad laga þínar athafnir þar eptir, og med fullri hlýdni hegda þér, ad svo miklu leiti þín efni tilhreckva, eptir þvi stóra augnamidi Guds forsjónar. Þessir þánkar munu koma þér til ad yfirvega þínar staklígu kríngumstædur í lifnadi þínum og háttsemi, svo þú séd gétir, hvør þau tilfelli mæti, sem gési þér tækifæri ad stoda til almennings besta, og hvørnig þú þin somu skulir þér nota, og kosta elgnum þínum þartil. Taktu þessvegna slíka ransók fyrir þig, en vara þú þig samt, ad þú gjørir þad án alls sjálfstrausts og stærilætis med sjálfum þér, svo þú sem þegid hefir, hrósir þér ecki einsog sá ecki þegid hefdi (1 Cor. 4, 7). Heldur verdur þú ad brepta med hreinskilni fyrir augliti þess stóra Eigindómsherra, hvørs rádsmadur þú ert, og sem þér hefir trúad fyrir visšu pundi svovel skynsemdar sem fémuna, sem þú átt þó ad brúka ecki sídur náúnga þínum, enn þér sjálfum, til gagns. Og, søkum þess vér høfum ýmisligar nádargáfur þegid, eptir þeirri nád sem oss veitt er (Róm. 12, 6), svo látum oss fylgislaust skoda og ákvarda þad góda sem af oss heimtast; sem í sannleika er allt þad, sem vér gétum uppþenkt og framkvæmt til almennings besta, bædi í andligan og líkamligan máta. En hvørsu sjaldan gjøra menn reikníng þennan med hreinskilni, og hvílíkan skada, bædi til sálar og líkama, lída ecki adrir svovel sem sjálfir vér, af skorti hreinskilninnar, í þessu tilliti.

§. 6. Hafi Gud gésid þér skynsemi og lærdóm, þá hefir tilgángur hans þarí ecki verid sá, ad þú skyldir brúka slíkt þér til dægrastyttíngar edur til frægdar, því þá er einsog þú skyldir kveikja ljós, til ad láta adra stara á þig, og þó úndir eins gjøra þá blinda. Heldur hefir hans augnamid verid, ad þú med søgdum gáfum þér veittum, gétir leidt adra, svovel sem sjálfan þig, til hans, sem er Fadir ljósanna. Og þessvegna er þad þín skylda, eptir þeirri nád og menta gáfu, sem þér sérilagi veitt er, ad leitast vid ad brúka skynsemi þína og lærdóm, annadhvørt til ad forbetra og prýda annara þánkamáta og hugvit med, ellegar á

nákvæmari og betri hátt ad brúka þessar gáfur til andligra hluta, til ad efla trúarbragdanna framgáng, bædi med ad forsvara þeirra sannleika móti villudómum, og efla sanna Gudhrædslu medal fólks; og þarmed hindra menn frá þvílíkum vegum, sem eru Gudi til vanheidurs og þeim sjálfum til skada; en þarámóti af ítrustu kroptum, med kærleiksfullu adfylgi, leitast vid ad leida þá á dygdar og farsældar gøtu.

§. 7. Hafi Gud veitt þér manna forrád, hvert heldur yfir fleirum edur færri, þá hugleid ad hann hefir þá makt géfid þér til sinnar eigin dýrdar, og til ad þeir, sem undir þinni umsjón eru, hvert heldur adeins heima í þínu húsi, ellegar opinberliga, sem embættismanns, géti lukkuligir ordid. Ver þessvegna umsorgun fyrir, ad hvert heldur þad er adeins hrísid, svo sem húsfodur, edur sverdid, sem yfirvaldi, sem þér á hendur falid er, ad þú ekki berir þad forgéfins (Róm. 13, 4). Sértu þvílík yfirvaldspersóna, sem tekur þátt í þeim mikilvægu athofnum ad útgéfa løg og tilskipanir, þá sýndu audmýkt þína fyrir þeim allrahæsta løggjafara, sem allar manneskjur hefir undir sinni umsjón. Kom þú aldrei þeim løgum á lopt, edur samþykk neina þá tilskipun, sem þú ekki í þinni eigin samvizku álitir, í nálægum kríngumstædum, ad vera eptir Guds vilja, og vit, ad þó þú hafir ad setja monnum løg, þá ertu samt Guds undirsáti, og skyldugur ad hlýda hans løgum. Hafir þú þad embætti ad halda vid makt laganna hlýdni, og framkvæma straff fyrir þeirra yfirtrodslu, á ødrum, þá framkvæm þad øruggliga og nákvæmd, eptir því sem svarar eiginligleika embættis þess, sem þú á høndum hefir. Lát þér aldrei nægjast med embættisins tóma nafn, en ~~seg~~ vera rétt sem þig sæki svefn, þegar þú átt ad dæma eptir løgum og rétti. Vertu snarrádur og árvakur, og gæt vel ad hvørsu tilgengur í kríngum þig. Verndadu þá sem rétt hafa og saklausir eru. Sundurbrjót makt þeirra sem adra undiroka. Uppgøtvadu slægdarrád þeirra óhlutvøndu. Gjørdu til skammar og útryd, ef þú gétur, þeim hrekkvísu, sem misbrúka skynsemi sína til ad fegra og forsvara þad sem rángt og ógudligt er, sem

þeim hefdi lángt heldur borid ad ákæra og opinbera, svo þad straffad og afmád yrdi.

§. 8. Sértu adeins rádandi yfir litlu húsfélagi; þá stjórna þú því Gudi til dýrdar. Haga þú þér í þessu litla herradæmi þínu, eptir sömu reglum, í sama augnamidi, sem eg rádlagdi ad ské skyldi í tilliti þeirra stóru og voldugu, svo framt þad annars af hendingu skéd gæti, ad einhvor þeirra læsi, þad sem ádur þarum skrifad er. Börn þín og þjónustufólk eru þínir undirsátar af náttúrunni. Haldtu þessvegna gódri reglusemi, med hæfiligum húsaga, vid á medal þeirra. Sorga fyrir ad þeir vel uppfræddir verdi í trúarbragdanna höfudlærdómum og undirstödu, svo þeir vitad og skilid fái, hvorsu sanngjarn og naudsýnligur, ad gudligur húsagi sé, og lát þá svo venjast vid, ad laga sig þar eptir. Þú gétur ad vísu ecki umbreytt hjartalagi þeirra, en mikil rád hefir þú samt yfir þeirra útvortis hegdun, svo þú gétur frelsad þá frá morgum snorum, og studt mikid til þess, ad þeir verdi gódir medlimir í því manneskjuliga félagi, og enda leidt þá svo á Gudsveg, ad hans nád fái greidari inngáng í hjarta þeirra, enn ella. Sparadu enga mædu til ad leitast vid ad fá þá sannfærda um naudsýn Guds umvendandi og helgandi nádar, og ad vekja hjá þeim laungun eptir henni, og sýn þeim ofaná, hvorsu hún sé þúsundsinnum dýrmætari enn allir adrir hlutir í heiminum.

§. 9. Enn framar hafi Gudi þóknast ad hefja þig til æru og verdugleika medal medborgara þinna, svo rád þín gildi mikid, og séu í áliti og metum hjá mörgum, (sem skéd gétur þó hvorki hafir þú hátt embætti, né mikla audlegd í heiminum); vilji adrir menn gjarnan vera í þínu samfélagi og þú hafir almennings hylli á þér, svo menn ecki adeins útleggi ord þín á besta hátt, heldur og gángi fram hjá þeim yfirsjónum, sem þú hjá sjálfum þér finnur, og útleggi allar athafnir þínar vel, þá ber þér ad álíta þetta ecki adeins sem velgjörd Guds vid þig, heldur uppörfun til ad idka skylduverk þín framvegis í öllum greinum med eptirlæti; en einkum sem tækifæri, er Gud gefur þér, ad vera til

enn stærri og almennari nytsemdar, enn þú annars, í þínum nærverandi kríngumstædum, hefdir gétad. Sé þitt nafn þannveg í áliti í heiminum, þá varastu alvarliga ad stæra þig þaraf, heldur vertu þess audmjúkari fyrir Gudi. Kappkosta ad halda vid lídi dygd og Gudsótta hjá odrum, og hjálpadu þeim upp — sem forsmádir og undirþryktir eru, — ef þú þeckir þá í raunsinní dygduga ad vera; og þó þeirra dygdir, ef í ljós leiddust, yrdu fegurri álits enn þínar eigin, þá hjálpa þú þeim engu ad sídur upp fyrir þad. Vertu talsmadur sannleikans, rádgjafi til fridar, fyrirmynd uppá hreinskilni, og verkadu, allt hvad þú megnar, til ad sameina hjortu gódra manna, jafnvel þó þánkamáti þeirra og meiníngar kunni ad vera adgreindar í heim hlutum, sem gódum monnum kémur ecki alltíd saman um. En láttu hegdan þína þó alltíd, hvad mikid sem allir adrir halda af þér, vera prýdda mestu forsjálni og audmýkt, einkum þegar þú heimugliga ávitar þær manneskjur, sem athugalitlar en þó stoltar eru, jafnvel þó þær af engu hafi sig ad stæra; og þó þær hefdu, og gáfur þeirra væru aldrei svo stórar, vinna þó til ad vera forsmádar, þar þær ecki brúka gáfur sínar til sannra almenníngs nota, svolengi gáleysi þeirra og sérþókti ecki verdur dempadur. Vera kann nú, ad hatur, ofund og baktal mæti þér, þegar þú svoleidis breytir — einkum þegar þú finnur ad vid adra — lát þad samt aldeilis ecki hindra þig frá ad gánga þennan løgliga og lofsverdasta veg. Lát augnamid þitt altíd vera alþýdu sanna gagn, og vertu stødugur í því fyrirtæki ad efla þad bædi á líkamliga og andliga visu, hvornig sem adrir leggja þad út fyrir þér. Ofurseldu þitt góda nafn og rykti í Guds forsjón, og vit, ad hann gétur frelsad þig og vardveitt frá haturs og ofundar lognum ákærum, sem opt, án þess madur hafi þar neitt tilstudt, reka sig sjálfar, sér til skammar, tilbaka, og olla heim, sem þeirra adilar voru, spotts og forsmánar, og þad jafnvel í stærri mælir, enn medaumkunarsemi þín gæti leyft þér ad óska.

§. 10. Ennnú set eg þad tilfeili: hafi Gud blessad þig

med audlegð, og sèit þig í þær kríngumstædur, að þú hefir meira fyrir hendi, enn þú þarft við, til uppheldis sjálfum þér og heimilis fólki þínu, þá hugsa til þess reikníngskapar, sem þú átt Guði að standa. Þenk til þeirra hindrana sem þessir hlutir optliga setja í veg fyrir sáluhjálp manna, og hvörsu tíðum það sannast, sem Frelsarinn berliga sagði, að audlegðin gjörir manni eins torsókt að komast í himnaríki, sem úlfaldanum að gánga í gégnum nálar augað (Matth. 19, 24). Lát það þessvegna vera þína dagligu, inniligu og alvarligu bæn, að ríkdómurinn ecki verði þér (sem hann flestum verður) að snoru, og að forsmán í Guðs augum. Eg bið þig þessvegna, géf þú vissan part af eignum þínum og inntektum til að hjálpa þarmeð fátækum og nauðlíðandi, og bæt meiru og meiru þar við eptir sem tækifærin leyfa og eptir sem Guð blessar þig, og eykur megun þína. Á þennan hátt gétur þú alltíð fyrir hendi haft efni til kærleiks- og miskunarverka, hvörjum þú efalaust munt verða því fúsari til að meðbýta oðrum, sem þú álítur það framar — er þú svoleiðis hefir lagt affsíðis — ecki sem þína eign, heldur í raun og veru fátækum géfið, jafnvel þó þú ecki hafir enn þá ákvarðað, handa hvörri persónu, eða til hvörrar stiptunar, það brúkast skuli. Eg er að vísu ecki hæfur til að segja, hvörsu mikið eður lítið þú géfa skulir. Því fyrir þá, sem hafa stórar inntektir og eingin born, kynni máské þriðjúngur eður helmíngur vera allt of lítið tiltekið. Þarámóti fyrir þá, sem hafa litlar inntektir en stórar útgiftir, þó þeir samt hafi nockuð meira, en þeir nauðsýnliga viðþurfa, gæti mogulíga, einn tíundi partur verið ofmikið. Bið þessvegna Guð af hjarta um að stjórna sinni þinu til þess sem honum þóknanligast er; og reyndu svo til fyrst eitt ár, á þann hátt sem samvizka þín hugsar, í hans augum réttast vera. Géf vel gætur að, hvað lángt efni þín hreckva muni til þess sama eptirfylgjandi ár, og hugsa til þess undireins, að Guð heimtar fyrst réttvísi og þarnæst olmusugjafir; en þó aldrei framar, enn með réttvísinni staðist gétur. En vakta þig undireins við þeirri forræðisfullu og

tálbragandi ímindun, ad skylda réttlætisins vid þína eigin ná-
tengdu og born, heimti þad, ad þú eptirskiljir þeim audæfi; hvad
máské tídum kostad hefir þesshattar ágjarnra og nídskra foreldra
kæruslu born tímanliga og eylífa velferd, handa hvorjum þeir
samandrógu þann skérf sem fátækum skyldi géfast; og Gud alleinn
veit hvílíka óhamíngju, ad hans misþocki á slíkum samdrætti
leidir yfir þá sem eptir lifa, sem eg af hjarta óska ad hvorki
þú, minn vin, né þínir reyna hlytu.

§. 11. En uppá þad hjarta þitt megi þessheldur opnast
og þín olmussa brúkast á þann besta hátt, þá leyf mér ad minn-
ast á ýmislig góð tækifæri, sem þvílíkar manneskjur, er Gud
hefir odrum framar veitt formegun til ad gjora gott, géta notad
sér í því tilliti. Skygnst umkríng í nágrenni þínu, hvar þú
heima átt, og athuga hvad margar ærligar og ydnar — og eg
vona líka ad mega segja um sumar — gudhræddar manneskjur
þar finnast, sem med boli og bágindum framdraga líf sitt og
sinna. Hugsa til þess hvad stóra hjálp og endurnæríngu þvílíkir
haft gætu af þeim munum, sem þú, án þíns minsta skada gætir
af þeirri gnægd, sem Gud þér meddeilt hefir, látid þeim í té.
Gæt líka ad, hvar staklig tilfelli frambjódast til ad audsýna misk-
unarverk, einkum þau sem þéna til almennings nota; þvílík
skaltu framkvæma med eptirdæmi þínu og eignum; og máské
eptirdæmi þitt géti komid odrum til ad gjora gott, svo hofud-
stóllinn verdi lángt stærri, enn þad sem þú sjálfur géfid hefir.
Láttu munn þinn tala eins máli þeirra naudlídandi med hrein-
skilni, einsog hond þín styrkir þá og hjálpar þeim; og leitastu
vid ad gjora til skammar þær afbatanir, sem ágirndin færir sér
opt í nyt, og med kænsku gjorir í annara augum fagrar og álit-
ligar, jafnvel þó, þegar ad er gád, hægt sé ad sjá, hvorsu slæm-
ur og foraktsverdur ad grundvollur þeirra sé. Settu þér einkum
fyrir sjónir, hve morg born og úngar manneskjur uppalast —
bædi vegna fátæktar og vanræktar foreldranna — midur enn vera
skyldi, svo þad lítur út, ad þau ecki adeins fái engan smeck sann-
arligs Gudsótta í sálir sínar, heldur ad þau med aldrinum verda

kunni lasta og glæpa þý, Gudi og kristindóminum til vanæru, en ödrum útífrá til skada og hnelrlis. Verdu þig ad upphugsa gott ráð til ad frelsa þessa aumíngja frá eylífri glötun, og upphvettu ogsvo adra velmégandi til þess samaz því í sannleika, vildu menn alúð á leggja, mætti miklu framar enn skédur koma í veg fyrir slíka ólucku; og ad spara þartil hvorki efni né adburdi, sýna þessi Jesú orð: hvør hann medtekur eitt þvílíkt barn, í mínu nafni, sá medtekur mig (Matth. 18, 5); sé sannarligt kærleiksverk. Lít ogsvo til þeirra, sem veikir og sjúkir eru, og leitastu vid ad vera þeim til hjálpar, hvad þér møguligt er; med gódum rádum og læknis=medølum, svovel sem annari naudsýnligri umhirdíngu og forsorgun. Hugsa þú somuleidis, og þad ecki sízt, til manneskjanna andliga skorts og naudþurftar. Til ad ráda nockra bót þar á, vil eg sérílagi rádleggja þér; ad ef þú þeckir nockurn þann úngling, sem hefir bædi gódar gáfur og Gudsótta, ad þú — ef ríkur ert, en hann fátækur — veitir honum styrk til ad komast til þeirra menta, ad hann géti ordid kénnimadur í Guds søfnudi, þaraf slíkum er ad vænta bestu uppbyggingar fyrir adra, sem sjálfir eru af Guds Anda leiddir. Vertu ogsvo mikid fús yfirhøfud til ad styrkja þína eigin kénnifedur, einkum þá sem trúliga rækja sitt heilaga embætti, og vit ad þeir hafa mikinn rétt til ad njóta góds af þínum líkamligu munum, sem útsá (þér til sálarnota) því andliga (1 Cor. 9, 11). En þú skalt ecki adeins hugsa til þeirra Guds ords þjóna, sem heima í þínu fødurlandi erfida í Guds kyrkju víngardi; láttu ogsvo kærleika þinn útbreida sig til þeirra, sem búa í lángt burtuliggjandi heidnum løndum, og med stórri mædu, opt midt í lífs háska, útbreida Evangelíum medal heidíngjanna, til ad leida þá á lífsins veg. Géf þú og greid til þvílíkra stiptana fús og viljugur. Þessi upptalin, eru þá nockur sáein af þeim mikilvægustu kærleiksverkum, til hvørra æfingar eg sérdeilisllga vil þá upphvetja, sem forsjón Guds merkillga audgad hefir. Eckért gjørir gullid dýrmætara, enn þegar þad brúkast til slíkra hluta; en eigir þú hvorki gull né silfur, þá géf þó, eptir efnum þínum, eitt

edur fleiri fiskvyrdi, og mun Gud hafa eins miklar mætur á því sem ødru meira, þegar það adeins kémur fram af hreinskilnu og kærleiksríku hjarta (Marc. 12, 42). Legg þína gáfu sem í Guds hønd, og mun Gud þér gódu launa.

§. 12. Og til þess þú, vid svo mørg tækifæri, hvar kærleiks og miskunsemda skyldur útheimtast, gétir verid í þess betra standi til ad æfa þær, þá adgættu rétt fyrir álvøru lifnadarmáta þinn. Ecki seigi eg, ad Gud heimti, ad þú skulir siálfur verda eins fátækur, sem einn þeirra, er af inntektum þínum adstod þyggja. Það manneskjuliga félag, svoleidis sem það nú er lagad, leyfir ecki adeins, heldur ogsvo útkrefur, ad sumar manneskjur lifa skuli í hærri stétt og vid stærri og betri hagsmuni hér í heimi, enn adrir. Med þessu mótí verdur ótalmørgum fátækum húsflockum uppheldi veitt, og þeir géta lifad med lángtum stærri ánægju og reglusemi, samt med stærri hlunnindum, hvad þá siálfa snertir, og meiri óhultleika fyrir alþýdu, enn þeir annars gætu, ef erfidis laun þeirra, og það sem þeir undir høndum hafa, væri gefid þeim, svosem ønnur ølmusa. Eg gét ei heldur ímindad mér, ad það géti verid Gudi þóknanligt, ad menn forkasti gáfum hans, og álíti þær framar fyrir snørur og hefndargjøf, enn velgjørnínga oss veitta. Þetta væri ad kollkasta og umhverfa því góda augnamidi, sem Fadir miskunsemdanna hefir til ad efla vort besta; og vilji madur dæma um það mjøg nákvæmliga, þá væri það svo gott, sem ad gjøra sig sekan í geysiligu svikrædi edur uppreist gégn gjørvallrar náttúrunnar samstemmanda edli. Nei! látum oss brúka það sem Guds forsjón oss géfid hefir; en gæta þó ad því undireins, ad brúka það hófsamliga og forsjálliga; ella kann það fyrir dármennsku vora audveldt ad ské, ad það sem átti ad þéna oss til besta, verdi oss ad fótakéfli. Lát þarfyrir, kæri lesari! þína eigin samvizku segja þér, hversu mikid af þeim gódu hlutum, sem þinn himneski Fadir hefir þér géfid, þú brúka mátt handa siálfum þér, og hversu mikid þaraf þú eigir ad meddeila ødrum þínum brædrum. Lifdu

ecki svoleidis, hvad ríkur sem þú ert, einsog þú eingan meðbródur hefdir, og einsog þú einúngis værir kominn í heiminn, til ad lifa í allslags prakt og bílífi. Hvorutveggja er jafnstór synd móti sjálfum sér, ad lifa í óhófi yfir efni fram, og ad vera svídíngur sjálfs síns. Rannsaka þessvegna útgiftir þínar og berdu þær saman vid þínar inntektir. Þad gétur verid skammarlig eydsla og sóun fyrir þig, sem ecki adeins gétur verid leyfiligt, heldur og hrósverdt fyrir hann, sem stærri inntektir hefir enn þú. Ecki ertu heldur viss um, ad þú ei gángir út yfir þau réttu takmork, þó þú ecki steypir þér í skuldir, edur ecki gjörir þig sjálfan ófæran til ad draga nockud saman handa þínum. Því svoframt þú sekum þíns óhofs og bílífis hindrar þig sjálfan frá ad hjálpa og þéna þeim fátæku, eptir þínu standi í heiminum, þá gétur þvílík hegdan aldeilis ecki Gudi þóknast, og þú hlýtur sjálfsagt, ad takmarka þinn lifnadarmáta, ef þú ætlar ad géta forsvarad þad fyrir honum. Og jafnvel þó Gud án efa vilji sýna miskunsémi sína ogsvo á þeim, í hvorjum annars býr hreinskilin trú á Kristum og falslaus kærleiki til Guds og manna, og jafnvel þó ecki verki hann í svo hárri troppu, og audsýni sig gódgjordasaman í svo stórum fullkomligleika, sem manni hefdi þó máské gétad audnast ad ná, engu ad sídur máttu þó vera viss um þad, ad Gud sem launar einum og sérhvorjum eptir hans verkum, mun med stærstu nærgætni útbýta þeim eylífu launum í somu troppu, sem þú hefir hér í heimi sýnt þig af hreinu gédi gódgjordasaman; svo ad hvort þad tækifæri, sem þú forsómad hefir þad gott ad gjora, sem þú gazt, dregur óbætanligan skada eptir sig, sem fylgja mun þér inn í eylífdina. Eg vil enn nú bæta þessu hér vid: því framar madur vanrækir skyldu sína, og setur hana til sídu, því framar verdur sinni manns dofid og tilfinníngarlaust, og þessvegna því framar óhæft til ad ná því aptur sem madur misst hefir, enda til ad halda vid lídi því, sem madur ádur hafdi.

§. 13. Klagadu nú ecki, minn vin! yfir því, ad eg med þessum reglum leggi þér ofþúngt ok á herdar. Eg vil þvert á

móti med þessu adeins kénna þér, hvornig þú, á edalligasta hátt, leita skulir ánægju þinnar; því sannarliga mun sparsemi sú, sem af þvílíkri gjafmildi flýtur, lángt framar afla þér góds nafns og mannords medal allra skynsamra og gódra manna, enn ad hún spilli því. En þú hefir þó adrar hrærandi orsakir þar til, sem ennþá ypparligri eru, enn þær sem til manneskjanna líta. Eg tala vid þig, sem þann er Guds barn sé og Krists medlimur; sem vid þann, er stendur í hinni allranánustu sameiníngu med þeim allrasátækustu, sem annars eru sanntrúadir. Eg tala til þín, sem til þess, sem stendur til ad verda erfíngi eylífrar dýrdar, og þessvegna á ad hafa svo stóra og háleita þánka, er sambjóda verdugleika þess erfdahluta, sem þú í vændum átt.

§. 14. Yfirvega þarfyrir í þaunkum þínum, allt þad góda, sem þú ert skyldugur til ad gjøra, og allt þad, sem þú megnar ad gjøra, annadhvert vid sjálfan þig, edur vid adra, og gjør þad med frjálsu og glødu gedi í Guds nafni, og líka sem í hans nálægd. Og þar Drottinn er sá sem vísdóminn gésur, og frá hvørjum kémur þecking og skynsemi (Ordskv. 2, 6), þá gack þú í anda ad fótskør hans tróns, og beidstu þar slíkrar leidsagnar og nádar, sem þér í søgdum kríngumstædum naudsynlig er, og sem styrki þig til ad frambera þá réttu helgunar og kærleiks ávexti, til þess stærri dýrdar hans guddómliga nafni, og þess stærri æru kristiligrar trúar vidurkénníngu.

## Sannkristinn madur andvarpar til Guds um ad géta verid til alþýdligrar uppbyggíngar og nota hér í heiminum.

Allramiskunsamasti og mildasti Fadir, þú hinn fyrsti uppruni til allra gódra andligra og líkamligra gáfna! Eg lofa þig og vegsama fyrir þær ýmisligu gáfur, sem þú audgad hefir mig, þína óverdugu sképnu, med. Já, eg medkénni fyrir þér, ad eg er þeirra aldeilis óverdugur. Mín sála fellur nidur fyrir þér, full af stærstu hrædslu, þegar eg hugsa um þad, til hvørsu lítilfra nota eg brúkad hefi þessar þínar gáfur. Æ, hvad hefi eg

gjört þess, sem jafnast kunni vid þad, sem þú eptir sannsýni hefdir vænta mátt, ad eg gjört hefdi, med þeim náttúrligu gáfum, sem þú mér géfid hefir; med því ástandi, sem þú hefir sett mig í; med þeim tíma, med því jardneska gótsi, og med þeirri makt yfir ödrum, sem þú mér veitt og tillagt hefir! Æ! þegar eg lít til baka, ígégnum minnar bármennsku og forsómunar ský, þá sé eg eina ávaxtarlausa eydimörku þar, sem hefdi mátt vera ávaxtaríkt land og gledilig uppskéra. Ó, eg hefi med réttu unnid til ad missa allt hvad eg hefi, og án dvalar ad standa reikníngsskap af því öllu saman, já, ad verda fordæmdur, sem sá, er í mörgu tilliti hefi verid ótrúr vid þig, minn Gud! vid heiminn og vid mína eigin sálu, og þessvegna hefdi átt ad útsnarast í yztu myrkur. En þú, ó Drottinn! hefir af nád fyrirgéfid mér og kvittad mína skélfiligu tíu þúsund punda skuld. Eylíf lofgjörd og vegsemd sé þínu allraheilagasta nafni fyrir þad! Tak nú, ó Drottinn, tak nú á móti mér; eg ofursel mig sjálfan ad nýu, med öllu því eg hefi, til þinnar þjónustu! Eg játa, ad þad er allt saman þín eign, sem eg læzt géfa þér. Eg bid þig, gjördu mig ad trúlyndum og hreinskilnum rádsmanni fyrir þínu augliti, og lát mig ecki þeinkja til ad hafa neinn þann ávinníng, sem mótstrídir þínum rétti. Ó, þú nádarinnar Gud! eg tilbid þig og dýrdka, vegna þess, ad á medan eg tala vid þig, finn eg í minni sálu uppstíga kærleika til þín, og undireins til allra minna medbrædra medal manneskjanna, hvörja eg rétt sem umfadma í mínu hjarta. Ó, gjör þú mig ad hreinlyndum adstodarmanni hinna fátæku, til þess ad eg útbýti þeim öllu því, sem þú hefir ætlast til ad eg medbýti, af því gótsi, sem þú hefir mér tiltrúad. Lát mig í þessu tilliti, eptir sem mér ber, halda metaskálunum jöfnum, í því ad dæma fylgislaust millum mín og þeirra voludu. Lát mig med þakklæti taka á móti þeirri hlutdeild, sem þú hefir ályktad handa mér og þeim, sem mér áhángandi eru; en útbýta med vísdómi, hreinlyndi og ánægju, þeim þurftugu, af því sem afgángs er. Stýr þú minni hendi, eylífi miskunsemdanna Fadir! ad eg, midt í því þú gjörir mig

verdugan til ad vera þitt verkfæri, ad meddeilá fáeinum fátækum af gáfum þínum, ad eg, segi eg, hitti á ad géfa þær þeim, sem þeirra eru mest þurfandi, og hvar þær nótadar verda til besta augnamids. Og sé þad þinn nádugi vilji, þá ávaxta þú þad sædi, er svoleidis útsád verdur. Lát mínar veraldligu sýslanir luckast og blessast; svo eg géti haft nockud til ad útbýta þeim naudlídandi, og leid mig svo loksins til þeirra eylífu bústada; hvar gnægdar fylling gædsku þinnar drottnar ad eylífu! Og sé þad þinn allraheilagasti vilji, þa unn mér ad mæta þar mörgum, sem eg hér á jördunni hafi til góda gjört; já mörgum, sem eg verid hafi medal til, ad leida á veg til eylífrar sælu! Lát oss svo allasaman lofa þig og prísa um tíma og eylífd fyrir Jesú Krists sakir; fyrir hvörs fótum eg nú varpa mér nidur, og fyrir hvörs fótum eg loksins óska mér ad deya, med sömu audmýkt, sem eg hafa vildi og þyrfti á minni daudastundu; ef eg þá afleggja skyldi þau fyrstu kénnimerki trúar minnar, og einsog eg aldrei hefdi haft fyrri neitt tækifæri, ad audsýna hreinskilni hennar med hlýdni og þacklátsemi, og med ad vera ödrum til nota og uppbyggingar hér í heimi.

---

## 29di Kapítuli.

### Sannkristinn madur gledur sig af ad hugsa um daudann og þann sídasta dag.

§. 1. Merkiligt er þad, ad á þeim tíma, þegar opinberanir þær, sem Drottinn vor lét sinn elskuliga lærisvein Jóhannes fá á eyunni Pathmus fordum, tóku enda, og þegar hann, nefnil. Jesús, þad trúfasta og sanna vitni, endadi þær med þessum líffullu og mikilvægu ordum: Hann sem vitnar þessa hluti, segir: sjá eg kém snarliga! þá svaradi Jóhannes þar uppá med þeim stærstá fúsleika og ánægju: Amen, já kom, Jesú! (Opb. 20, 22); já kom, einsog þú sagt hefir, vissuliga og fljótliga! Hugsá nú, kristin sála! hvör sem þú ert, sem

þessi orð les, að þinn himneski Faðir talar þau sömu til þín: já, eg kém snarliga, segir hann. Já, mjög snarliga mun hann koma, til þess, fyrir dauðans hönd, að snúa lyklinum við, að að opna fyrir þér grafarinnar dyr, til að leiða þig þar inn, en undireins til að flytja sálu þína gégnum dauðans dal, inn í þá ósýniligu og þér ennþá ókunnugu veröldu. Ei heldur mun þess lengi að bíða, að **Dómarinn stendur fyrir dyrum** (Jac. 5, 9), þá hann koma mun til að halda sinn allsherjar dóm. Og jafnvel þó máské frá þessu nálæga augnabliki, þartil þetta skéður, liði nokkur hundruð ára, þá er slíkt lítill tími fyrir honum, sem allt í einu lítur yfir þá heilu óendanligu, bæði umliðnu og eptirkomandi, eylífð. **Einn dagur er fyrir Drottni sem þúsund ár, og þúsund ár sem einn dagur** (2 Pét. 3, 8). Þessvegna kémur hann snarliga; og eg hefi þá ímindun, að þú svarað gétir þar til með glediligu Amen; og að þessi aðvörun sé ekki skélfilig né ógéðfeld fyrir þínum eyrum; heldur hitt, að hans tilkoma — hans vissa og tafarlausa tilkoma — sé það ypparsta augnamið þinnar ánægjufullu vonar og inniligu eptirlaungunar.

§. 2. Já, fullviss er eg um, að það er sanngirniligt, að þessu sé svoleiðis varið fyrir þér. Engu að síður gétur náttúran, sem lífið elskar, og nauðug skilja vill bústað þann, sem hún svo lengi hefir kynnst við, til að gánga inni það ástand, sem henni er öldúngis ókunnugt, hún gétur skélfst, segi eg, þegar hún hugsar til dauðans, og setur sér fyrir sjónir dómadag, og heimsins eyðileggingu. Þessvegna, minn allrakærasti bróðir í Drottni! (því fyrir þvílíkan einn vil eg nú álíta þig), leif mér að tala við þig nockuð um efni þetta, og biðja þig, að þú með athygli hugleiðir þessa hluti, sem eg vona að verði þér því síður ógéðfeldir, sem þeir verða þér framar kunnugri. Já, eg vona, að þú í stað þess að forðast umhugsun þeirra, munir miklu heldur renna með þaunkum þínum móti þeim, og mæta þeim með gleði og fögnuði.

§. 3. Hugsa til þess, kristinn maður! að þegar Kristur kémur til að kalla þig héðan fyrir dauðann, þá kémur hann til

ad frelsa þig frá þessa lífs sorg og ángist, og það sem mest er í varið, frá öllum leyfum spillíngarinnar og syndarinnar, en til að njóta þar fullkominnar dýrðar og gleði, því þá átt þú að flytja þig frá líkamanum og heim til Drottins (2 Cor. 4, 8). Já, hann mun þá í sannleika kalla þig frá þessum heimi; og, hvað er þessi heimur þess, að þú elskar hann svo mjög, og sért honum svo frekt innlífaður? Hvörsu lítilsverdt er allt hans eptirlæti, og hvörsu margfaldt andstreymi böl og snörur er í honum að finna? Og jafnvel þó þú viðurkénna hljótir, að þér á þinni lífsvegferðar reisu hafi alla þína æfidaga fylgt gæðska (Guðs) og miskunsemi (Sálm. 23, 6), hefir þó hin sama miskunsemi plantað þyrna á vegi þínum, og á ýmsan skynsamligan og nauðsýnligan, en þó ógéðfeldan hátt, látið þig skilja: að hér væri ekki (sú rétta) hvíld fyrir þig (Mich. 2, 10). Hugleiddu, hvað nú eptir er af þinni fáfengiligu heims gleði og því sem þín von hefir ginnst á; er það annað enn sorgfull endurminníng þess í hjarta þínu? Athuga grafirnar, sem uppsvelgt hafa svo marga af þínum allrabestu og kærustu vinum, máské á þeirra blómliga aldursskeiði, og þegar þú hafðir sem mest yndi og not af umgengni þeirra. Hugleið, að þó þú lifir nockur ár leingur, mun þó dauðinn samt koma, og endurnýa sinn sigur með þínum skaða, og svipta þig þeim allrabestu, sem ennnú eptir lifa. En settu þér fyrir sjónir svovel þá lifendu, sem dauðu. Yfirvega ástand mannligrar náttúru, sem sýnir svo margföld merki þess, hvörsu hún er Guði frásnúin, og segðu svo, hvört nockur skynsom og góð manneskja géti (af alvöru) æskt sér, að hafa hér æfinliga vistarveru? Mér virðist, að þó eg sjálfur væri óhultur og frí, fyrir þeim pílum, sem fljúga allt í kríngum mig, svo þær ecki gætu mig hitt, þá hlyti eg samt, engu að síður, að ángrast yfir því, að sjá uppá, að svo margir verða af þeim særðir; já, að heyra andvörp og harmakvein þeirra, sem fyrir skeytum dauðans falla hljóta, mætti mig inniliga sárt taka. Manneskjurnar eru svo mörgum sjúkdómum og ógæfu tilfellum undirorpnar, og (það sem allrahörmuligast er), að sjúkdómar

sálarinnar, eru svo ýmisligir og háskaligir, ad heimur þessi má sýnast nærfeldt sem annad sjúkra hús; svo ad hvør sú manneskja sem hefir vidkæmt og medaumkunarfullt hjarta, gétur ei annars enn uppfyllst af sárri gremju, þegar hún reikar í gégnum heiminn, og virdir fyrir sér þetta hørmuliga skodunarspil; einkum, þegar hún sér, hvørsu litt hún orkar ad hjálpa þeim, sem hún kénnir þó í brjósti um. Sértu sannkristinn, skyldi þá ecki hjarta þitt komast vid ad sjá, hve djúpt ad mannlig náttúra er nidursockin í skømm og lesti? ad sjá uppá, med hvílíkri skélfísligri frekju og blygdunarleysi ad margir sýna sig opinberliga ógudliga, og hvørsu margir smána kristid nafn, sem þó kalla sig sjálfir kristna? ad sjá uppá þad ógudliga athæfi og lastalifnad, sem gudlausar manneskjur æfa, og líka svo þann breiskleika og óreglusemi sem finnst í fari þeirra, er madur þó hafa skyldi betri vonir um? Þegar þú sér þetta, muntu þá ecki óska þér, ad géta slúid í burtu úr þeim heimi, hvar ein réttlát og medaumkunarfull sál hlýtur ad pínast dag frá degi, af þeim ránglætis athøfnum, sem hún sér og heyrir (2 Pét. 2, 8).

§. 5. Já, til þess ad koma þér ennþá nær, vil eg spyrja: finnur þú ecki nockud þad innvortis hjá sjálfum þér, sem þú gjarnan vildir vera frí frá, já, sem mundi gjøra sjálfa paradís þér beiska? nockud þad, sem, ef þad altíd fylgdi þér, mundi ángra þig og óróligan gjøra, þó þú kominn værir midt í hóp þeirra útvøldu? Finnur þú ecki til, ad þar er enn þá innvortis synd eptir hjá þér, sem er sorglig afleidsla þess fyrsta fráfalls náttúru vorrar frá Gudi? Hlýtur þú ecki dagliga ad stríða vid þína innvortis spillingu, edur ad minsta kosti kvarta og ángrast yfir þeim breiskleika, sem hjá þér finnst, í því ad æfa trúliga skyldur þínar? Finst þér ecki, sem sálarkraptar þínir séu opt máttvana og dofnir, þegar þú æskir þó ad géta brúkad þá til ad þjóna Gudi med stærstu andakt og fjøri? Þykir þér ecki hjarta þitt vera allt of opt tilfinningarlaust vid þau ríkugligustu merki hans guddómliga kærleika og þinn andi ofurveikur til ad þjóna honum, þó viljinn vid þig lodi? Sýnist þér ecki líf og

lifnadur þinn, jafnvel á þeim dögum og tímum sem þú hefir best lifad, vera rétt ónýtur hlutur, þegar hann berast skal saman vid þad sem hann ætti vera; og vid þad, sem þú æskir hann gæti verid? Utbreidir þú ecki opt og tídum rétt sem vængi sálar þinnar, og segir: O, ad eg hefdi vængi, sem önnur dúfa, þá skyldi eg fljúga til ad vera einhvörstadar? (Sálm. 55, 7).

§. 6. Æ, skyldir þú ecki gledjast yfir því, ad hugsa til þess, ad Jesús kémur, til ad frelsa þig frá öllu þessu böli og umkvortunum? Ad hann kémur, til ad uppfylla ósk þína, og þína inniligustu hjartans laungun; þá laungun, sem hann sjálfur í þér verkad hefir? Ad hann kémur til ad uppljúka þeirri veröldu fyrir þér, sem eins er full af heilagleika sem af sælu, og hvar þú munt þjóna honum fullkomliga og án afláts?

§. 7. O, þú trúada sál! hvörsu opt hefir þú snúid hugskots augum þínum til þessa farsældar lands, og æskt þér ad fara yfir þad haf, þad ókyrra, ógédfellda og hættuliga haf, sem þig frá því skilur? Þegar þinn himneski Fadir, í sínum heilögu innstiptunum hér á jördunni, hefir um sinn sakir vitjad þín í sinni nád, hvörsu farsælan hefir þú ecki þá metid bædi tímann og stadinn, hvar þér slík gledi audnast hefir, og hefir þér þá ecki fundist — jafnvel midt undir margslags mótgángi — sem þú findir þar port himinsins? (1 Mós. 28, 17.) En sé þad þá svo yndisligt ad skoda portid, hvörsu miklu stærri gledi mun þá madur finna, þegar hann algjörliga er inngenginn í sjálfa höllina? Sé þad svo stór fögnudur ad hafa Jesúm eina stundu hjá sér, hvörsu óendanliga stærri hlýtur hann þá ad vera, þegar madur fær hjá Jesú ad búa eilífliga? Þú mátt því vel segja: ó Drottinn! þegar eg fæ hjá þér ad búa, þá bý eg í heilagleikanum, því þú ert heilagleikurinn; þá bý eg í kærleikanum, því þú ert sjálfur kærleikurinn; þá bý eg í gledinni, því þú ert sjálf gledinnar uppspretta, einsog þú ert í Födurnum og Fadirinn í þér (Jóh. 17, 21). Lát tilkomu hans þessvegna vera þér velkomna, og lát hann uppfylla þína ósk og sín fyrirheit, í hvörjum sála þín svo opt fundid hefir himneska rósemi og ánægju:

Fadir! (segir hann) eg vil ad þeir sem þú hefir gefid mér, skuli vera hjá mér, hvar sem eg er, og ad þeir sjá skuli þessa mína dýrd (Jóh. 17, 24).

§. 8. Í eptirþánka af þessu, gétur þú í sannleika sagt, því fyr Kristur kémur, því betra er þad! Hvorr skadi er þér ad því, þó þú verdir hédan burtu tekinn midt í þínum dogum? Hvad er í þad varid, þó þú skiljir hér vid margar ánægjusemdir lífsins, sem þú ecki smackad hefir, og vid morg fyritæki og áform, sem þú ecki gatst fullkomnad? Nægir þad ecki, ad þú verdur burtu tekinn frá því lífi sem daudligt er, og fluttur inní eylífa sælu; og ad þú færd ad eyda þeim árum og dogum í Krists návíst og þjónustu í himnaríki, sem þú annars hefdir hlotid ad eyda hér í lífi, med honum og vegna hans, midt í ófullkominni gledi, og med mikillri mædu.

§. 9. En þitt augnamid, minn kæri! skal ecki adeins líta til daudans, heldur og til eylífdarinnar, sem honum fylgir; því þessi Krists ord: já, eg kém snarliga! líta til hans sídustu tilkomu til dómsins. Því þad má og mun sýnast oss hafa verid stuttur tími, þegar ord hans eru tekin í þeirri meiníngu, sem eg ádur útlistad hefi, og þegar madur samanlíkir þessari millibils-tíd, vid þá sælu eylífd, sem þar á eptir fylgir; já, og þó ad vér líkjum henni vid þá tíd, sem allareidu lidin er, sídan sólin fyrst byrjadi ad afmæla jordunni hennar daga og árstídir. Og viltu þá ecki, minn vin! somuleidis fyrir þína persónu, taka undir þessi Jesú ord med fognudi, sýngja og segja: Amen! O, Jesú, kom og ei vid tef, innleid í sælu þá! O Jesú, kom og gledi géf, Gudshúsum lát oss ná! ó Jesú, þig fyrir utan ef, um eylífd géf oss ad sjá!

§. 10. Þad er ad vísu satt, kristin sála, ad þessi dagur er dagur skélfínganna; dagur, á hvorjum oll náttúran mun falla í þvílíkt eydileggjandi umrót, sem enginn gétur nú ímyndad sér. Enginn jardskjálfti, eckert brak né dunur úr eldgjósandi fjollum, eckert eldsbál, sem eydileggur heilar borgir, eckert vatnsflód, sem yfirsveimir heil lond og ríki, géta géfid nockra fullnægjandi sam-

líkíngu uppá þennan skélfiliga dag, á hvørjum himnarnir munu með stórbrestum forgánga, og jørdin og þau verk sem á henni eru, munu uppbrenna (2 Pét. 3, 10). Þegar heila náttúran mun flýa, fyrir augliti þess stóra Dómara (Opb. 20, 4). Og þá mun verda á gángi lángt stærra óp og vein enn í Egyptalandi fordum, hvar þó ecki var eitt hús, hvar ecki findist einhvørr daudur inni (2 Mós. 12, 20). Það er satt, að þitt hold má við þessa hugleidíngu skélfast, en þinn andi má samt gledjast í Gudi þínum Heilsugjafara (Lúc. 1, 47). Þú kannt þessvegna með fullum rétti að segja: Lát Drottinn, þennan dýrdliga dag adeins koma, jafnvel með øllum sínum skélfíngum! já, þú getur, einsog þeir kristnu, sem Postulinn talar um (2 Pét. 3, 12), eptirbedið og skundað að þessa skélfiliga dags tilkomu, á hverjum Gud halda mun sinn allsherjar dóm. Á þeim degi mun Drottinn koma til að forsvara sína réttlætisfullu adferd í sinni hússtjórn, sem í mørgum tilfellum hefir verið miklu myrkri umvafin; og vegna þess hún hefir svo verið, hefir hún mætt lasti og verið skammarliga hædd. Hann mun þá koma af himnum ofan með hrópi, og með høfudengilsins raustu og Guds básúnu (1 Thess. 4, 19), og taka sér sess á einum tróni, sem øllum jardneskum, jafnvel himneskum trónum, óendanliga dýrdligri verdur; hann mun þá sinni eigin og Fødursins dýrd (Lúc. 9, 26) skrýddur verda, já, verda dýrdligur í sínum heiløgum, og dásamligur í øllum þeim sem trúa (2 Thess. 1, 20). Hans óvinir munu þá líka svo dragast fram til að gjøra sigurhrós hans sem dýrdligast. Høggormurinn mun velta sér í moldinni fyrir allra augum, og trodast undir hans og allra hans þénara fætur. Þeir sem fordum dæmdu hann til dauda, munu skjálfa og titra fyrir hans tilkomu, og þeir sem með spotti og hædni beigdu sín kné fyrir honum, munu þá, í ángist og ørvæntíngu, hrópa til fjallanna og klettanna: fallið yfir oss, og hyljið oss fyrir hans augliti, sem á stólnum situr og fyrir reidi Lambsins (Opb. 6, 16), hvort þeir þó fordum, á svo grimdarligan hátt, aflífudu.

§. 11. O, þú kæra sála! má ecki þitt hreinskilna hjarta rétt sem dansa í brjósti þér af fögnudi yfir slíkum þaunkum? Máttu ecki nú, medan þú les línur þessar, vera rétt stadbúin ad byrja þad gledirika sigurróp, er þú á sídan munt hefja? Hann, þinn Frelsari, kann med sannsýni ad vænta, ad þú nú strax upphefjir þína þánka, og verdir líka sem af gledi frá þér numin; þegar þú hugsar um þetta hans sigurhrós; og hann leysir þér líka, ad hugsa um þá hlutdeild, sem þú, fyrir þína persónu, taka munt í þess dags dýrd og fögnudi. Já, hans augnamid er nú þad einasta, hvörsu hann med sinni makt og kærleika géti gjört sáluhjálp þína fullvissa og fullkomna. Og hvad er þad, sem hann ei gjora vilji, fyrir þínar sakir? Hann mun koma og brjóta daudans lás frá þinni gröf, og géfa þinni sofandi ösku líf ad nýu. Þad er ad vísu satt, ad þinn líkami skal verda ad jordu og moldu og leggjast í gröfina, til vitnisburdar um, hvílíka andstygd Gud á syndinni hafi; já, á þeirri fyrstu og stærstu synd, sem nockru sinni hefir drýgd verid, og frá hvörrar sorgligu afleidslum jafnvel ecki hans allrabestu born géta útilukt verid. Þá munt þú hafa þau eyru, sem heyra Guds Sonar raustu, og þau augu sem sjá og skoda fegurd og hátign hans tilkomu. Þú munt þá skína sem sólin (Matth. 13, 43), sem frambrunar á þeim bjarta himni, og gengur út sem brúdgumi af sinn herbergi (Sálm. 19, 6). Sála þín mun þá klædd verda med dýrdligu skrauti, til þess ad vera nálæg þessu stóra hátidarhaldi, og þá mun hún ei lengur bera á sér daudligleikans tötra, því Drottinn mun umbreita þínum vesæla líkama, til ad verda samlíkur hans dýrdarfulla líkama (Phil. 3, 21). Þegar þú nú svoleidis verdur konúngligum skrúda skrýddur, mun hann veita þér og öllu sínu fólki konúngligan heidur, í augsýn alls heimsins samansöfnudu þjóda. Nú gétur þad skéd, ad þú hér í lífi verdir fyrir skömm og spotti; þitt nafn kann hér ad vera hædt og forsmád, og menn kunna ad skulda þig fyrir þvílíka hluti og fyrirtæki, sem sála þín hefir mestu andstygd á, en þá mun Drottinn framleida réttlæti þitt, sem

ljósid (Sálm. 37, 6); og þitt hjálpræði sem brennanda blis (Es. 62, 1). Jafnvel þó mennirnir hafi vanvirdt þig, mun Gud þó samt kannast vid þig, og jafnvel þó þú álitinn sért sem skarn í heimsins augum og skóvisk allra manna (1 Cor. 4, 13), þá mun hann samt meta þig, sem sinn fjársjód, á þeim degi, þegar hann vill gjöra þig ad sínum stakliga eiginsdómi (Mal. 3, 17), og þegar hann burtsnara vill öllum ógudligum á jördunni, sem afskúmi (Sálm. 119, 119). Þá mun hann vidurkénna þig fyrir öllum söfnudinum, sem réttlátan; og jafnvel þó þú í rauninni hafir Guds bodord yfirtrodid, og ættir med réttu fordæmdur ad verda, engu ad sídur, þar þú klæddur ert med réttlæti þess mikla mannkynsins Frelsara, sem er þad réttlæti, er af Gudi trúnni tilreiknast (Phil. 3, 9), þá mun sjálft réttlætid frikénna þig, og sameina sig med nádinni, til meddeila þér réttlætisins kórónu (2 Tím. 4, 8). Þá mun Kristur játa þig fyrir mönnum og Guds einglum, ad vera sinn (Lúc. 12, 8); hann mun þá kalla þig sinn fróma og trúlynda þjón, og bjóda þér ad gánga inní þíns Herra fögnud (Matth. 25, 21); hann mun þá ávarpa þig eins ástúdsliga, sem sína brædur, og mun álita allt þad góda, sem þér hefir audsýndt verid, einsog hann sjálfur, í eigin persónu þad þegid hefdi (Matth. 25, 40). Já, þá muntu, ó þú trúada sála, þú sem máské setid hefir nedst í þessu voru samkunduhúsi, og sem kannské þeir stóru og ríku hér á jordunni, ecki hafa viljad líta til edur tala vid ord, þú munt þá sitja med Kristó á hans dómstóli, og ásamt med honum uppsegja dóminn yfir öllum ógudligum manneskjum og vondum einglum.

§. 12. Þetta dýrdarfulla sigurhrós mun þó ecki vara adeins einn dag, heldur, undireins og Dómarinn rís á fætur og fer upp til tróns edur hásstóls síns Födurs, þá munu ogsvo allir útvaldir fara upp í hóp med sínum Frelsara, til hans Födurs og þeirra Födurs, til hans Guds og þeirra Guds. Þá munt þú inngánga þá nýu Jerúsalem, og þar sýna á þér

þá nýu skínanda dýrdarmind, sem þú oðlast hefir, hvorri án efa fylgja mun henni sambodin sinnis-umbreyting hjá þér og forklárun. Þar munt þú taka þér eylífa vistarvern í yfirgnæfanda sögnudi, med hvorjúm þú uppfyllast munt, hjá Guds hægri hendi eylífliga (Sálm. 16, 11). Þar munt þú njóta þeirrar farsældar, sem þeir heilögu hafa hér á jördu æskt sér og eptir þráð. Þá munt þú yfirgéfa veroldina, sem eydilögd er, en fara inní nýan himin og nýa jördu, í hvörri ad réttlætid eylífliga býr (2 Pét. 3, 13). Þar mun tala allra Guds útvaldra uppfyllt verda, og sérhvörs farsæld fullkomin. Sá gjörvalli útvaldra söfnudur mun þá leiddur verda fram fyrir Gud, einsog brúdurin sem er lambsins hústrú (Opinb. 21, 9). Hvorja augu þess himneska brúdguma munu álíta med ósegjanligri gledi, og vidurkénna, ad hún ecki hafi fleck né hrucku edur nockud þvílíkt (Eph. 5, 27). Ásigkomulag og ástand hennar mun þá aldeilis þvílíkt vera, sem hann í frá upphafi, ályktad hafdi ad þad vera skuli, þegar hann í fyrstu skuldbatt sig til ad kaupa oss Gudi til handa med sínu blódi (Op. b. 5, 9). Svoleidis munum vér þá ætíd vera hvörr med ödrum og med drottni sjálfum (1 Thess. 4, 17); og eylíf og óþrjótandi tíd mun svo framlida, ad vér reynum alls einga umbreytingu, heldur mun farsæld þín ætíd verda sömu tegundar, og sömuleidis sá smeckur og ánægja, sem þú í henni finnur. Já enda mun þó þetta hvorutveggja sífelt þróast eptir því, sem sála þín nálægir sig meir og meir honum, sem er uppsprettta allrar farsældar og midpúntur allra óendanligra fullkomligleika.

§. 13. Lít nú umkríng þig á jördunni, og leitadu hvort þú fundid gétur nockra þá vonar ánægju og gledi, fyrir hvorrar sakir þú segja vildir: Drottinn, komdu ecki strax! edur vegna hvorrar ad þú, um eitt augnablik vildir hugsa þig um, hvort þú skulir géfa þína laungun eptir drottins tilkomu til vitundar med ad segja: já kom Drottinn Jesú, kom snarliga!

Hugleidíngar og bæn þess kristinns manns, hvørs hjarta, af framsettum íminduunm er upptendrad ordid.

O, þú blessadi Gud! sála mín er upptendrud af þessum hugleidíngum, og, sem í brennandi loga, uppstígur til þín í himininn; þú hefir sagt, ad þú munir koma snarliga, hvar til eg med gledi segi: Amen! Já, kom Herra Jesú! kom, því mig lángar eptir ad skiljast vid þetta vesæla líf, og verda laus vid þess byrdi, vid þess sorg og vid þess snorur! kom! því mig lángar eptir ad fara upp til þín og vera í þinni návist, og sjá þína dyrd, sem þú þar opinberar! Blessadi Jesú! Daudinn fær allt annad útlit, þegar eg skoda hann í þessu ljósi. Þessi skelfíngar kóngur sýnist þá ecki framar ad vera svo ógnarligur þegar madur verdur svo nálægur nádarinnar og dýrdarinnar konúngi. O eg heyri med gledi, sem til fótataks þíns, ad þú nálgast meir og meir. Drag ad eins fortjaldid til sídu, hvenær sem þér þóknast! Brjóttu lásana frá mínu fángelsi, svo ad sála mín, sem svo inniliga lángar eptir þér, fái stockid út á móti þér, og varpad sér nidur fyrir þínum fótum; já fyrir Jesú Krists fótum, hvorn eg ecki hefi séd, enn elska þó, og á hvorn, jafnvel þó eg nú ecki sjái hann, eg samt trúi, og gled mig med ósegjanligri og dýrdarligri gledi! Þú Drottinn munt lífsins vegu mér kunna gjora, og þín hønd mun leidbeina mér til þeirra lístiligu bústada, hvar ad er gnægd fagnadaríns til þinnar hægri handar ad eylífu. Þú munt vísa mér á bústad medal þinna trúlyndu þénara, hvorra vid líkamina adskildu sálir nú hjá þér lifa, midt í því ad líkamir þeirra hvílast í moldinni. Margir þeirra hafa verid hluttakarar med mér í þínu stóra erfidi, og í þjáníngunum og í ríkinu og í þolinmædinni, og þeir hafa verid mínir allrakærustu vinir og brædur. Æ sýn mér, þú blessadi Frelsari! hvørsu dýrdliga og farsæla þú hefir nú gjort þá! Sýn mér, hvílíkt þad nýa ástand er, sem þú hefir sett þá í, og til hvørsu betra lífs þú hefir leidt þá, sem vér dauda køllum! til hvørsu edalligri og fullkomnari þjónustu, þú hefir þá kallad! til þess ad eg géti lofad þig og vegsamad betur fyrir alla þá góð-

semd, sem þú hefir þeim audsýnt, helburenn ad eg er nú fær til ad gjöra! Æ veit mér ad taka hlutdeild í þeirra farsæld og í þeirra þjónustu, og lát mig af þakklætisfullum kærleika sýngja þér hvílíkan lofsaung, sem þeir nú sýngja fyrir þínu augliti! O, þú blessadi Frelsari! jafnvel þar, medal þeirra, mun sála mín upphefja sig til lángt edalligri og dýrdligri vonar (enn eg nú haft gét), og af þessari, enn nú mér óþecktu, dýrd og farsæld, mun eg hafa orsök til ad óska og lánga eptir þinnar sídustu tilkomu degi. Þar mun eg med enn stærri laungun, enn eg nú hefi, inniliga girnast ad sjá þína dóma af réttlætinu stadfesta, og þitt sigurhrós opinberad. Þar mun eg sjá, ad moldir þinna þénara skulu verda aptur endurlífgadar, og ad daudinn, sem er þinn og þeirra sídarsti óvinur, verdur í sigur svelgdur. Æ eg þrái eptir þeirri stóru dýrd, sem þú mér fyrirhugad hefir, og þeirri fullkomnu farsæld, er þú meddeila vilt öllum þínum útvöldum. Kom, Herra Jesú, kom snarliga! þessi ósk mun opt blandast þar saman vid Paradísar lofsaungva, og þær þúsund þúsundir heilagra, sem þú hefir plantad þar, munu látu þá somu rödd og ósk af sér heyra. En ámedan, ó minn himneski Fadir! þá taktu á móti þessari minni audmjúku tilbeidslu, sem framkémur af þakklætisfúsu hjarta, og skédur sokum þeirrar dýrdligu vonar, sem eg innvortis hjá mér finn, og hverja þú sjálfur mér géfid hefir! Þú ert sá, sem uppvakid hefir þessa gledi í mér, og upplýpt sálu minni til þessarar heilögu ærugirndar; þar hjarta mitt hefdi annars ofurselt verid þeim allraaudvirdiligustu hlutum, og med skélfíngu mátt hugsa til og vænta þess tíma, sem nú er mitt ypparsta augnamid og inniligasta ósk. Æ vertu hjá mér æfinliga, uns eg fullenda þetta mitt daudliga líf! og géf mér, ad á medan eg vænti eptir þínu hjálpræði, ad eg fái vardveitt þín bodord! Lát mínar lendar vera umgyrdtar, og mitt ljós logandi! Lát mín eyru ætíd vakandi vera til ad heyra þad blessada teikn þinnar tilkomu; svo ad mín sála, brennandi af kærleikanum til þín, géti, sem dansandi af gledi, stockid fram til ad mæta þér, og, fyrir daudann,

ordid styrkt, til ad géta afborid þessar byrdarligu opinberanir, sem daudligar manneskjur hér í heimi eru allt ofveikar af sér til ad géta þolad, og hlytu því ad deya, ef slikir hlutir kæmu fram vid þær!

---

## 30ti Kapítuli.

### Hvörsu sannkristinn madur heidrar Gud med hegdun sinni á sinni daudastundu.

§. 1. Svoleidis, minn kæri lesari! hefi eg þá leitast vid ad leida þig ígégnum margar og ýmisligar kringumstædur, sem hvörki eru uppdiktadar né innbirladar; heldur þvílíkar, sem virkiliga mæta í manneskjuligu og kristiligu lífi og lifnadi. Og eg kann med sannleika og ánægju ad segja, ad eg hefi vísad þér þann sama veg, á hvörjum eg sjálfur gengid hefi, og á hvörjum eg ósska sífeldliga ad géta framhaldid. Eg hefi vogad ad byggja mína eigin sálarvelferd yfir þann sama grundvöll, sem eg hefi vísad þér til, ad voga ad byggja þína eigin yfir. Þad sem eg hefi rádlagt þér, sem þad allramikilvægasta hér í þessu lífi, skal ogsvo vera mín sjálfs allranaudsýnligasta athöfn. Og þær allrastærstu og mikilvægustu ánægjusemdir, sem eg æski mér og vænti, medan eg eydi mínum ólifudu pílagríms- dögum hér á jördunni, eru allar þær sömu, sem eg hefi bendt þér til ad leita eptir, og sem eg hefi borid mig ad styrkja þig til ad ná. Þvílíkur kærleikur til Guds, þvílíkir stadfastir kappsmunir í hans þjónustu, þvílíkar yndisligar ímindanir um þad, sem fylgir eptir daudann, sýnist mér (Gud er mitt vitni þar til), ad vera slík farsæld, sem á allan hátt hefir yfirburdi yfir alla adra hluti, sem tilhneiging vor og girnd gétur eptirsókst. Og eg vildi ecki fyrir tíu þúsund veraldir, géfa þann part í burtu, sem eg þarí á; ellegar lída ad ánægja sú, sem hann ollir mér, medan eg þó enn nú er í útlegd hér á jördunni, skuli nockud skérdast.

§. 2. Eg vil nú í audmýkt gjøra mér þá von, ad tímar þeir, sem þú nú eydt hefir med ad hugleida þeſsa greiniligu og einføldu hluti, hafi, fyrir Guds nád, eydst þér til nockurs gagns og nota; og ad þú, í krapti þeſs sem þú lesid hefir, sért annadhvørt leiddur á veg lífs og fridar (hafir þú ecki á honum ádur verid), edur og sért enn upporfadri ordinn, til ad gjøra á honum gódan og øtulan framgáng. Hvørsu hjartanliga skyldi þad nú gledja mig, ef eg enn framar gæti verid þér til gagns, já, allt inn til þíns sídasta æfi-augnabliks! Einn hlutur er ennþá eptir, einn hlutur, sem þú óumflýanliga ert neyddur til gégnum ad gánga, og hvørred hefir nockud svo óttaligt med sér, ad eg endiliga hlýt ad reyna til ad hjálpa þér nockud í því tilliti. Eg meina: daudans djúpi og myrkvi dalur. Eg vildi inniliga óska, ad þú í tilliti þinnar trúar vidurkénningar, þinnar sálar hugsunar og þinna eptirþreyandi vina gledi og uppbyggíngar, mættir deya, ei adeins sáluhjálpligum heldur ogsvo lofsverdum dauda, og þeſsvegna vil eg, ádur enn vid skiljumst ad, géfa þér nockur gód rád. Eg veit vel, ad Forsjón Guds kann ad ákvarda svoleidis kríngumstædur þíns dauda, ad þú eckért tækifæri gétir haft, til ad fylgja þeim ávísunum, er eg nú vil géfa þér. Eitt edur annad óforvarandis tilfelli, annadhvørt innvortis edur útvortis, kann rétt sem kyppa þér í burtu til himins upp, fyrr enn þú veizt af, og þú kannt ad komast þángad svo óforvarandis, ad þér kann ad virdast þad framar burtnumníng enn daudi. Þad er líka møguligt ad sjúkdómur þinn kunni verda svo sterkur, og hann svipti þig svoleidis rænunni, ad þú ecki vitir sjálfur í hvørjum kríngumstædum þú ert, svo ad þín burtulausn (hvørsu bersýnilig, sem hún fyrir annara augum er) géti þér virdst ad hafa komid eins hastarliga ad, einsog þér hefdi, midt í fullkominni heilsu, burtukypt verid.

§. 3. En þar sem þad þó helst af øllu sýnist líkligt, ad þú verdir þeſs var þegar þú flytjast skalt úr tímanum inní eylífdina; og þar sem í ýmsu tilliti er mikid undir því komid, hvørnig þú hegdar þér á þinni daudastundu, þá leyfdu mér ad meddeila

þér fáeinar greiniligar ávísanir, eptir hvorjum þú skalt laga þig, ef Gud gefur þér tækifæri til ad minnast þeirra. Pad væri ecki ógagnligt fyrir þig svoframt hættuligur sjúkdómur yfirfélli þig, ad þú yfirvegadir aptur þann næstundanfarna 29da kap. Og eg hefi því stærri von um, ad þad, sem eg vil nú segja þér, verdi þér ad notum, þar mér finst, ad eg géti talad vid þig um þad, med svo innirligri vidkvæmni, sem þeirri er madur finnur til, þegar hann sér vin sinn liggja fyrir daudanum, og hann hugsar þad verdi í sídasta sinni, sem hann vid hann talar; því þá úthellir hjarta manns sér, í hvorju ordi, sem hann talar.

§. 4. Eg ræd þér þá fyrst, ad þú svo fljótt sem moguligt er, leitist vid ad kasta hreint frá þér allri veraldligri áhyggju og umsorg, med ad ljúka því ollu, sem þar ad lýtur, af í tíma, og gjora þad á kristiligan hátt, sem þú best gétur. Eg óska því, ad eckért þesshåttar géti gjort sinni þitt órótt, þegar þú ert allrasízt fær um ad bera þad, og ad þad ecki olli neinnar þrætu edur ósamþyckis milli þeirra, sem eptir þig lifa. Gjor þad, sem þú, fyrir Guds augliti, hugsar ad sé þad besta og sannsýniligasta, og sem þú heldur, ad honum sé þóknanligast. Gjor þad á svo forsjálligan og greiniligan hátt, sem þú gétur. Alítt svo loksins veroldina einsog stad þann, med hvorn þú hafir eckért framar ad sýsla, og hans umsvif sem nockud þad, sem eckért komi þér meir vid, enn þú virkiliga daudur værir; nema þad væri eitthvad þesslags sem þú gjort gætir hennar innbyggendum til besta, svo lengi þú enn nú ert einn á medal þeirra, og medan þú, vid eitt edur annad tækifæri, gétur med þínum seinustu ordum edur verkum i lífinu, ordid þeim til blessunar, sem verid hafa vinir þínir og reisubrædur, medan þú ennþá reikadir á þeim vegi, ad hvors endatakmarki þú nú kominn ert.

§. 5. Og til þess þú haft gétir því betra tækifæri ad tilreida þig hér til, þá yfirvega þú af allri alvoru kríngumstædur þínar, og leitastu vid ad setja sálu þína i svo gott ástand, sem moguligt er, svo hún mætt géti fyrir Guds augliti; því þad er

i sannleika mikilvægur og merkiligur hlutur, ad koma fram fyrri Gud, og eiga ad standa, ecki fyrir hans nádartróni, til ad bidja sér miskunar, heldur fyrir hans dómstóli, sem einn frá líkamanum skilinn Andi, hvørs reynslu-tíd er á enda, og hvørs eylífa ástand á, í sama augnabliki, óraskanliga ad ákvardast. Lát sálu þína á ný audmýkja sig fyrir Guds augliti, útaf brestum þínum og vansa, jafnvel þó þú hafir af alvøru ofurgéfid þig til hans þjónustu. Endurnýa trúnadartraust þitt til Guds miskunar hvørri hann þér heitid hefir í nádarinnar sáttmála, fyrir Kristi blóds sakir, í hvørju hún, sem í ødrum blessudar straumi, til þín flýtur. Ofurseldu þig þessvegna øldúngis undir Guds makt og vilja, sem sá, er reidubúinn sé til ad þjóna Gudi, hvørt heldur í þessari edur hinni verøldu, rétt eins og hønum best þóknast. Og þar sem þú á adra sídu sannfærdur ert um margfjølda synda þinna, en á hina, um Guds stóra vísdóm og gædsku, svo neyttu allra þinna sálarkrapta sameinadra, til ad þola sem best þú gétur, allt þad, sem hans typtandi hønd vill framvegis á þig leggja; og tak á móti hans sídarsta slagi, eins og þeim ber, sem standa vill stødugur í allrafullkomnustu undirgéfni vid andanna mikla og miskunsama Fødur.

§. 6. Hvad helst sem þú þessvegna líða skalt, þá leitastu vid ad audsýna þig sem eptirdæmi þolinmædinnar. Lát þessa elskuverdu dygd **komast í fullkomid verk** (Jak. 1, 4). Og þegar þú lokssins ecki gétur sýnt hana øllu lengur, þá lát endalok hennar vera edallig og lofsverd! Lát eckért møglunar ord heyrast af þínum munni; en, svoframt þú freistast til slíks, þá vak þú yfir sérhvørjum misánægju þánka, sem hjá þér uppkémur. Lít í trúnni til þíns krossfesta Frelsara, og spyr þitt eigid hjarta og samvizku svoleidis: mun ecki hans kross hafa lángtum kvalasyllri verid, en sæng sú sem eg ligg á? Var ecki ástand hans, midt á millum hans blódþyrstu fjandmanna, óendanliga skélfiligra enn mitt, midt undir høndum minna elskufullu og hiúkrandi vina? Mun ecki byrdi synda minna hafa nidurþryckt hønum á lángt skélfiligri hátt, enn mínar þjáníngar og

eymdir þrycfja mér? og þó umbar hann þad allsaman eins og lamb, sem leidt er til ad slátrast (Es. 53, 3). Lát minningu hans písla verda medal til ad sykra þínar lídanir; já, lát þad orsaka þér gledi, þegar þú kalladur ert til ad bera krossinn litinn tíma, ádurenn þú kémur til ad bera kórónuna. Haldtu þad fyrir stærstu gledi þína, ad þú enn nú einusinni fær tækifæri til ad heidra Gud med þinni þolinmædi, sem nú (á þinni banasæng) á ad gjøra sína sídurstu skyldu, og sem innan fárra daga, já máské innan fárra stunda, á til lykta ad leidast, med eylífri sælu. Eg vona þessvegna, ad þú í þessu tilliti ecki einúngis nidurþrycfja munir hjá þér øllum frekum harmatølum, heldur og ad munnur þinn muni uppfylltur verda med sætum lofsaung, Gudi til dýrdar, og ad þú munir tala til þeirra, sem kríngum sæng þína standa, og kunngjøra þeim ecki einúngis Guds réttlæti, heldur ogsvo hans gædsku. Á þennan hátt gétur þú ordid fær um ad géfa þína innvortis gledi til kynna, svo hún verdi eitt lifandi og uppbyggiligt eptirdæmi uppá þessi Postulans ord, þegar hann segir: **ad þjáníngar verki þolinmædi, þolinmædin reynslu, en reynslan von; en voninn láti ecki til skammar verda, af því Guds kærleikur sé úthelltur í vor hjørtu fyrir heil. Anda, sem oss er géfinn.**

§. 7. Og nú, minn allrakærasti vin! nú er sá tími, sem menn sérdeilisliga meiga þess vænta, ad þú afleggir hrósverdan vitnisburd trúarbrøgdunum til æru. Segdu því, svo vel sem þú gétur (því þú ert aldrei fær um ad gjøra þad svo vel sem skyldi), segdu þeim, sem nálægir eru, hvílíka huggun og krapt þú hafir í þeim fundid. Seg þeim, hvørsu þau hafi uppbyrt fyrir þér, þær allradimmustu kríngumstædur í lífi þínu og lífnadi. Seg þeim, hvørsu róligan þau nú gjøri þig, þegar þú sér daudann þér fyrir augum. Ord þín munu á þvílíkum tíma gjøra stakliga verkun hjá þeim. Jafnvel midt undir vanmegni því, sem sjúkdómurinn á þig leggur, mun þar heyrast einslags mælska í ordum þínum, þegar þú ert ad géfa þetta til kynna, og sérhvørr einn mun hlýda á tal þitt, med gaumgæfni, med-

aumkun og samþyckí. Þarfyrir, þegar þinn burtferdartími nálgast, þá lát gledi þína, svoframt, sem eg vona ad verdi, ad þú til hennar finnur, í ljósi, eg meina þína gledi og ánægju í Gudi; og gjör þad med óþvíngudu frjálsrædi. Géf þinn innvortis frid og rósemi til kynna, svoframt þú finnur rósemi og frid í sálu þinni. Adrir munu þá víst taka eptir þessu, og upporvast til ad feta í þín fótspor, sem leida ad svo luckuligu takmarki. Segdu þeim frá hvad þér finst í tilliti þess hvad veroldin fáfeingilig sé, til þess þeir géti lært því betur ad meta hana minna. Segdu þeim, hvad þú reynir og formerkir í sálu þinni í tilliti Evangelii sannleiks kraptar, til þess þeir lært géti ad vyrda þad þess meira. Því þad meiga þeir vita, ad loksins muni ad því koma fyrir sér, sem þér, ad leggjast í sóttarsængina, og þá mun þeim verda full þorf á allri þeirri hjálp, sem Evangelium sjálft gétur þeim í té látid.

§. 8. Og til þess ad innprentu þeim sannfæringu þessa því betur, þá áminntu þá, sem hjá þér eru, ad ofurselja allt sitt líf og líferni til ad þjóna Gudi, og til ad fylgja trúarbragdanna sanna grundvelli. Minstu á þad, ad Jósúa, Davíd og adrir frómir menn, hafa svoleidis breytt, þegar þeir merktu, ad þeirra daudadagur nálægdist. Þú veist ecki, hvilíka verkan ad vorra vina og foreldra áminníngar, þegar þeir liggja fyrir daudanum, kunna ad hafa hjá þeim, sem annars skeyttu því nærsta litid, sem þú og adrir ádur hofdu sagt þeim. Ad minsta kosti reyndu til þess hvad þú gétur. Leitastu á þinni daudastundu vid, ad gjöra Gud dýrdligan og ad frelsa annara sálir, og þannig ad útbreida dygdar og farsældar sædi í þeirri veroldu, af hvorju þú ecki framar gétur þó vænt ad uppskéra sjálfur hér í heimi nockurn ávoxt. Máské þar af spretta kunni enn nú ríkugligur gródi, þegar líkami þinn liggur jordu hulinn: en svoframt þad ecki skédur, mun þó tilraun þín þóknast Gudi mikid vel, og einglarnir, sem standa hjá sæng þinni, og bída eptir ad taka á móti þínum ferdbúna anda, munu, ad eg svo tali, líta hvorr uppá annan, med gledimerkjum í andlitum sínum, og vidurkénna,

ad þetta sé sú rétta adferd ad deya sem sannkristinn og ad færa sér daudann ypparliga til nota.

§. 9. Og í þessu þínu sídarsta tali, sem þú heldur fyrir þínum daudligu medbrædrum, hvorjir sem þeir vera kunna, sem Guds forsjón leidir til þín á þinni sóttarsæng, þá seg þeim yfir allt fram; hvorsu fastliga og med hvílíkri gledi, þú sett hafir von þína og þitt traust, á þessum þínum sídurstu tímum, ecki til þinnar eigin forþénustu og hlýdni, heldur til þess, sem hinn mikli mannkynsins Frelsari, hefir gjørt og lidid, syndugra manna vegna. Láttu þá sjá, ad þú deyir, rétt eins og undir sjálfum krossi Jesú. Eckert gétur géfid sjálfum þér stærri huggun, og eckert betur uppbygt adra. Láttu ~~þad~~ þessvegna þad allraheilagasta Jesú nafn vera í munni þínum, svo leingi þú málid hefir; og þegar þú gétur ecki leingur talad, þá láttu þad samt vera í hjarta þínu, og kappkosta þú, ad þad sídarsta verk sálar þinnar, svo leingi hún enn þá í líkamanum er, sé falid í audmjúkri trú og trausti til Kristum. Kom þó til Guds ad eins í hans nafni. Gack þú inní þad allraheilagasta gégnum fortjaldid, sem sá, er nýliga ádreifdur er med Jesú blódi. Fyrir þvílíkan syndara, sem þú, kæra kristin sála ert, og hlýtur sjálf (hvad margar dygdir sem adrir máské hafa þókst hjá þér finna), ad játa þig vera fyrir Gudi, er þad skélfiligur hlutur, ad standa fyrir augliti einnar óendanliga hreinnar og heilagrar veru, sem séd hefir alla vegu þína og allt þitt hjarta, og hefir fullkomna þeckíngu um sérhvorn ófullkomligleika, sem blandast hefir enda inn í þínar bestu athafnir. En vogastu samt til, ad fara á þennan veg, og muntu komast ad raun um, ad hann er bædi óhultur og yndisligur.

§. 10. Loksins til ad hughreysta þig á þinni daudastundu, og stydja þín vanmegna fótmál, medan þú geingur í gégnum þennan myrkva og mædufulla veg, þá tak þú Guds ord, sem annan staf, í hond þér. Lát gudligar bækur og vini þína veita þér þá sídurstu þénustu. Lát, ef þú gétur komid því vid, einn edur annan velreyndan kristinn, sem sjálfur fundid hefir krapt

Guds ords í sínu eigin hjarta, koma til þín; og lát hann síðan taka biblíuna, og lesa fyrir þér nockur af þeim ypparligu fyrirheitum, sem verid hafa hans eigin sálu til gledi og endurnæringar. Í þessu tilliti vil eg framkvæma, ad því leiti mér mögulígt er, þá skyldu mína og gódu þénustu, sem eg hefi undirgengist, og vil þessvegna meddeila þér sam-safn af nockrum þvílíkum ágætum rítníngargreinum, af hverjum sérhvor ein er óendanliga dýrmætari, enn þúsund stycki gulls. Og til ad sannfæra þig um þad, hvorsu hátt ad eg sjálfur met þær, þá ætki eg — ad svoframt Gud gefur tækifæri þar til — ad þær lesnar yrdu fyrir mér, þegar eg ligg á miuni sóttarsæng; og þad á þann hátt, ad lesarinn vid hverja grein útlesna, hætti litla stund, til þess ad eg gæti rétt yfirvegad hverja útaf fyrir sig, og þannig uppvakid á ný hjá sjálfum mér nockud af þeim yndælis smeck, sem eg (lofadur veri Gud!) hefi optliga ádur í þeim fundid. O ad þín og mín sála, kærasti vin! gæti fundid hjá sér einslags heilaga kyrd og stillíngu (hvad mikil umbrot af sjúkdómi sem annars kynnu í kroppnum ad vera), á medan Guds raust talar til ockar med þeim sömu ordum, sem hann fordum taladi med til sinna þénara; edur og þá hann kendi þeim, hvornig þeir skyldu vid sig tala, þegar þeir í ýtrustu naud staddir væru.

§. 11. Þessar eru þá þær ritníngargreinir, fullar af ædstu huggun, er eg meina til: Hjá Esajam (41, 10) segir Drottinn: óttast þú ecki, því eg er med þér; vík þú ecki, því eg er þinn Gud; eg hefi styrkt þig med hægri hendi míns réttlætis. Móses segir (2 B. 23, 19) um Gud: Gud er ecki sem manneskja, ad hann ljúgi, né heldur sem manneskju barn, ad hann ydrist eptir nockru; þad sem hann hefir sagt þad gjörir hann, og þad sem hann hefir talad, þad efnir hann. Davíd segir (S. 27, 1): Drottinn er mitt ljós og mitt hjálpræði, fyrir hvörjum skyldi eg hræddur vera? Drottinn er kraptur míns lífs, hvöru skyldi eg óttast? Í ödrum stad segir Davíd (48, 15): Þessi Gud er vor Gud ætíd og eylífliga, hann mun allt inn

til dauðans leiðbeina oss. Aptur segir hann (S. 23, 4): Þessvegna, þó eg gángi í gégnum dauðans skuggadal, vil eg fyrir engu íllu hræddur vera; því þú ert með mér, þinn vøndur og þinn stafur hugga mig. Jakob forfaðir sagði (1 Mósb. 49, 18): Drottinn, eg bið eptir þínu hjálpræði. Enn framar seigir Davíð (S. 36, 10. 11): Snú þinni miskunsemi til þeirra, sem þig þekkja, og þínu réttlæti til þeirra hreinhjørtuðu! Því hjá þér er lífsins uppspretta, og í þínu ljósi sjáum vér ljósið. Aptur segir hann (S. 16, 11): Kunnan munt þú gjøra mér lífsins stig. Hjá þér er gnægð gleðinnar, og yndislig vistarvera hjá þinni hægri hendi eylífliga. Enn aptur segir hann svo (S. 17, 15): En eg mun skoða auglit þitt í réttlætinu, og eg verð mettur, þá eg uppvakna eptir þinni mynd. Postulinn Páll (2 Tím. 1, 12) segir: Eg veit á hvørn eg trúað hefi, og er viss um, að hann er máttugur til að varðveita það. Aptur segir Davíð (S. 16, 9): Þarfyrir gleður sig hjarta mitt, og mín dýrð fagnar, já, mitt hold skal hvílast trygguliga. Páll segir enn framar (1 Thess. 4, 14): Því ef vér trúum að Jesús dáður sé og upprisinn, þá mun og Guð einnig þá sem sofnaðir eru fyrir Jesúm með hønum framleiða. Jesús, sá góði hyrðir, sagði sjálfur (Jóh. 10, 28): Eg géf mínum sauðum eylíft líf, og þeir skulu aldrei fortapast, og enginn skal slíta þá af minni hendi. Aptur segir Jesús (Jóh. 6, 40): En það er hans vilji, sem sendi mig, að hvørr sem Soninn sér og trúir á hann, skal hafa eylíft líf, og eg mun uppvekja hann á yzta degi. Enn framar segir hann (Jóh. 14, 2): Yðar hjarta skélfist ekki, trúið á Guð, þá trúið þér á mig. Í míns Føðurs húsi eru margar vistarverur; ef það ekki væri svo, þá hefði eg sagt yður það. Eg fer héðan að tilreiða yður stað, og, þegar eg er burtu farinn, og hefi tilreidt yður stað, þá kém eg aptur, og vil taka yður til mín, svo að, hvar eg er, þar skuluð þér líka svo vera. Í øðrum stað segir Jesús (Jóh. 20, 17): Farið til bræðra

minna og segid þeim: eg fer upp til míns Födurs og ydvars Födurs, og til míns Guds og ydar Guds. Enn nú í ødrum stad segir hann (Jóh. 17, 24—26): Fadir, eg vil ad þeir, sem þú hefir géfid mér, skuli vera hjá mér, þar sem eg er, svo þeir sjái þessa mína dýrd, sem þú hefir géfid mér; ad sá kærleikur, med hvörjum þú elskar mig, skuli vera í þeim, og eg í þeim. Í Opinb. bók (22, 20) segir Jesús: hann sem vitnar um þessa hluti, segir: Já, eg kém snarliga. Amen: já, kom Herra Jesú. Loksins eru þessi Postulans Páls ord minnisverd (1 Cor. 15, 55—57): Daudi, hvar er þinn broddur? helvíti, hvar er þinn sigur? þackir sén Gudi, sem oss hefir siguriun géfid, fyrir Drottinn vorn Jesúm Kristum. Þessar eru nú þær blessudu Ritníngargreinir, sem eg, í ádursøgdu tilliti set fram, þér til hugvekju og eptirþánka á deianda degi.

§. 12. Svoleidis kann Gud, sá sem þeckir sálarnaud barna sinna, og fyrir hvørs augum daudi hans heilagra dýrmætur er, ad styrkja þig og mig, og vidhalda ockur í ockar sídustu neyd. O, ad hann gæti safnad ockur í hóp med þeim sæla fjølda, sem í dauda sínum hafa audsýnt sig meira enn sigrandi. Æ, ad hann léni ockur adstod síns heil. Anda, til ad styrkja ockur, og giøra þess megnandi, ad úthella vorum burtureisandi sálum, med þvíliku innvortis sinnislagi, sem eg hefi nú viljad leitast vid ad uppvekja; og þad jafnvel þó vid ecki gætum framfært eitt ord sjálfir, edur skilid adra, sem læsu nockud fyrir oss! Látum oss nú, ad minsta kosti, hugsa um þetta af allri alvøru, og búa oss enn nú til eina bæn, sem vér kynnum ad nota oss, á því skélfiliga daudans augnabliki! O, ad þessi bænarord, sem øll onnur er vér framborid høfum í sama augnamidi, mættu verda í minni løgd af lifanda Gudi!

## Bæn og hugleidíng, løgud eptir þess kristins manns ástandi, sem fyrir daudanum liggur.

O, þú allrahæsti Yfirdrottnari þeirrar sýniligu og ósýniligu

veraldar! Þú Herra líffins og dauðans, jarðríkis og himnaríkis! Blessað veri nafn þitt fyrir það, að mér svo opt hefir boðið verið að leita þín! Og nú úthelli eg sálu minni, sem skiljast á við minn líkama, enn nú einusinni fyrir þér. Æ, hneig þitt náðuga eyra niður til mín. Æ, minn Guð! láttu mitt hróp koma fyrir þig, með velþóknun! Tími sá er kominn, að þú vilt taka mig úr þessum heimi, hvörn eg svo lengi hefi kynnst við, og flytja mig inní annan, sem mér er öldúngis ókunnugur. Æ, eg bið þig, léna mér nú styrk, að eg géti þessi skipti gjört svoleiðis, sem einu Abrahams barni sæmir; hvörr eð var hlýðugur, þegar hann kallaður var að gánga út frá sínu föðurhúsi, til þess staðar, sem hann átti að erfðum að taka, og vissi þó ecki, hvar og hvílíkur var. Eður og, sem sómir einu Guðsbarni, sem veit fyrir hans náð, að það er sínum Föður þóknanligt, að géfa sér ríkið. Eg viðurkénni, ó Drottinn! þinn réttferðuga dóm, eptir hvörjum eg er makligur að deya. Eg viðurkénni ogsvo vísdóm þinn og gæðsku, að þú ákvarðað hefir mína reisu í gégnum þennan myrkradal, sem opinn stendur nú fyrir mér. Hjálpa þú mér, að eg noti mér þetta farsæla tækifæri til þinnar dýrðar, og til sóma minni heil. trú! Svo vil eg þá hrósa dauðans pínandi aðförum fyrir það, að þær géfa mér tækifæri til að efla dýrð þína, þegar þessi dauðligi og syndugi partur veru minnar tekur að blikna og nálgast sinni forrotnun. Náðugi Faðir! eg vil ecki yfirgéfa þetta þitt jarðríki, og þetta moldarhreisi líkamans, í hvörju eg búið hefi svo lengi, sem eg hefi hér á jörðunni dvalið, án þess eg láti í ljósi fyrir þér mína þacklátsemi, fyrir þau yfirgnæfanligu (líkamlig og andlig) gæði, sem þú mér í té látið hefir. Minn síðasti andardráttur skal vitna um þína trúfostu umsorgun fyrir mér; því eg hefi ecki haft skort á neinu góðu, sem mér sannnauðsýnligt verið hefir. Eg þacka þér, minn Guð, að þú svo lengi sparað hefir þetta mitt synduga, seka, ónýta og fortöpunarverða líf; og að þú sífeldt hefir fyrir ríkdóm þinnar yfirgnæfandi gæðsku, haldið því við líði. Eg þacka þér, að þú gjörðir uppbyrjan tilveru minnar

hér á jordu, mér svo ánægjusamliga. Eg þacka þér fyrir þá nád, sem þú hefir audsýnt mér allar þær nætur og daga, mánudi og ár, sem eg hér lifad hefi, en nú eru á enda kljád. Eg þacka þér fyrir þá nád, sem þú audsýndir mér, svo vel á mínum ýngri árum, sem fullordins aldri; fyrir þá morgu gódu og mætu vini, bædi nú lifandi og dauda, sem þú hefir géfid mér á þessari minni pilagrímsreisu; fyrir alla þá hjálp, sem eg hefi af odrum þegid, og fyrir oll þau tækifæri, sem þú hefir géfid mér til ad vera odrum mínum medbrædrum til adstodar, á líkamliga og andliga vísu. Já vissuliga, hefir (þín) gædska og miskunsemi fylgt mér alla mína æfidaga, og eg hefi orsok til, ad standa upp frá þinu matbordi, sem þacklátur géstur, fyrir þá morgu gódu og hollu rétti, sem þú hefir fyrir mig á bord borid. Eg hefi samt enga orsok, til ad vera misánægdur og sorgandi út af því, ad eg á nú hérvid ad skiljast. Eda, mun þín gædska, minn Gud! úttæmd vera? Æ nei! eg veit hún er þad aldeilis ecki. Eg vil ecki gjora gædsku þinni og trúfesti þann stóra órétt, ad eg ímindi mér, ad vegna þess ad eg yfirgéfa hlýt þetta jardríki, ad eg fyrir þad yfirgéfi alla farsæld. Eg þacka þinni miskunsemi, ad þú fyrir Jesúm Krist þinn Son, hefir kénnt mér ad fá adra betri þeckingu og edalligri þánka. Eg vegsama þig af ollu minu hjarta, ad eg nockrusinni fengid hefi ad heyra talad um hans blessada nafn og hans dauda. Æ, hvorsu gjarnan vildi eg audsýna mína þacklætisfullu audmýkt med stærri alvorugéfni, enn eg í þessu mínu vesæla ástandi megna. Samt sem ádur vil eg þó, þad eg gét, vegsama þitt nafn, fyrir þinn nádarríkdóm, sem þú hefir mér í Kristó opinberad; fyrir hans lærdóm og eptirdæmi; fyrir hans blód og réttlæti og fyrir þinn blessada Anda, sem þú hefir géfid mér til ad umvenda mínu syndugu hjarta til þín, og til ad leida mig í samfélag þins sáttmálaß; þess sáttmála, sem er eylifur, og frá þinni sídu stadfastur og óbifanligur; svo daudinn, þó hann nú skilji sálu mína frá mínum líkama, gétur samt aldrei ónýtt þennan sáttmála, og ad engu gjort. Eg lofa og vegsama þig, ó Drottinn! ad

eg ekki gef upp anda minn, í óendurfæddu og óbetrudu ástandi heldur ad þú hefir svo nádarfamliga uppvakid og fannfært mig, ad þú hefir endurnýad og helgad mitt hjarta, og ad þú hefir í sálu minni, fyrir krapt þíns góda Anda, verkad falslausa trú, sanna betrun og uppbyrjun til heilags og gudligs lífernis. Eg þakka þér fyrir þénara þíns ords og fyrir þínar heil. innstiptanir. Eg þakka þér fyrir þína hvíldardaga, einkum þá, á hverjum eg þitt heil. Sakrament medtekid hefi. Eg þakka þér fyrir þá ypparligu huggun og endurnæringu, sem eg af því haft hefi. Eg þakka þér fyrir þá ávexti Canaans lands, sem þú hefir mér sendt híngad í eydimorkina, og sendir mér á þessu augnabliki, þá eg stend sem á yzta hlunni þessa jardneska lífs. Eg þakka þér fyrir þitt heil. ord, og oll þess yfirmáta stóru og ypparligu fyrirheit, sem nú liggja á mínu kalda hjarta, sem styrkjandi medol til ad lifga þad og hressa á þessum annars skélfiliga tíma; já, hvilik fyrirheit sem styrkja mig í daudanum, heita mér dyrd og sælu eptir daudann og upprisu líkama míns, á sídasta degi, til eylífs lífs. O, minn Gud! eg trúi þeim ollum saman og reidi mig á þau, hversu stór og forundrunarlig sem þau eru, og eg bid eptir uppfyllingu þeirra fyrir Jesúm Krist, í hverjum þau oll eru já og amen. Þeinktu til þess ords, sem þú talad hefir til þíns þénara, og med hverju þú hefir hughreyst mig. Eg sambi vid þig, minn Gud! einn sáttmála, ekki í þeim tilgángi, ad þú mér veita skyldir heimsliga gledi og eptirlæti, því þinn kærleiki hefir kénnt mér, ad forsmá slíkt, heldur til þess, ad odlast eylíft líf, sem þína fría nádargáfu í Jesú Kristo, mínum Herra. Leyf mér nú, ad eg í hans nafni géti audmjúkliga hrópad mig uppá þennan sáttmála! Leyf mér, ad fela minn anda í þínar hendur; því þú hefir endurleyst mig, Drottinn, þú sannarligi Gud! Eg er þinn eigindómur, frelsa þú mig og gjordu mig sáluhólpinn! En, má eg vogast til ad segja: eg er þinn eigindómur. Æ, minn Gud! nú stend eg á þelm yzta midpúnkti, hvar bádar veraldirnar mætast; og nú álít eg alla hluti, einsog þad væri frammi fyrir þínu augliti og í sjálfri

eylífdinni; og hvörsú óverdugan finn eg mig til ad mega takast í vistar=samfélag med þínum einglum og útvoldum í eylífri dýrd! Æ, eg hefi orsok, med stærstu audmýkt, ad líta tilbaka til míns lidins lífernis, ecki einúngis sem vesæls, heldur sem ónýts og syndafulls, þar eg á hvörjum degi hefi unnid til ad snarast í helvíti. En eg hefi samt þá stóru huggun, ad eg veit mig hafa flúid ad Kristi krossi, og þessvegna tek eg nú, aptur ad nýu, mitt tilflugt til hans í fullu trausti, um nádarsamliga vidtokn; því ad hugsa til þess, ad eg géti komid fram fyrir Gud, med hvíliku ófullkomnu réttlæti, sem mitt eigid er, væri þúsundsinnum verra, enn sjálfur daudinn. Æ nei! Drottinn! eg kém fram fyrir þig, sem annar syndari, en þó sem hvílikur syndari, sem í trúnni reidt hefir sig á þinn Son, og fyrir hans sakir, vonar ad ødlast syndanna fyrirgéfníngu og eylíft líf. Eg fell nidur fyrir þínu augliti, sem annar syndugur, óhreinn og vesæll ormur; en þú hefir gjort þinn Son, handa þínu fólki, til vísdóms, réttlætis, helgunar og endurlausnar. Æ, láttu mig njóta míns hlutskiptis med ødrum Jesú eptirfylgjurum! Gjør þú vid mig. einsog þú gjørir vid þá, sem eru þíns Sonar vinir og brædur? Því þú veizt, ad mín sála hefir elskad hann, og reidt sig á hann, og sett sitt trúnadartraust til hans heil. Evangelium. Og eg veit, á hvorn eg trúad hefi. Pad helvizka ljón má reyna til, sem þad vill, ad ásækja mig og skelfa, midt í því eg ferdast gégnum daudáns óttaliga dal; en eg gled mig vid þad, ad eg er í hendi þess góda hyrdirs, og þessvegna býd eg øllum mínum andligu óvinum trás, og þad í glediligu trausti til hans trúfostu umsorgunar. Eg upplypti því mínum augum og hjarta til hans, sem daudur var, en endurlifnadi aptur, já, lifir eylífliga og hefir helvítis og daudans lyklavald. Blessadi Jesú! eg dey í þínum høndum, og hefi því enga orsok hræddur ad vera fyrir neinu illu, þegar eg dey midt í høndum míns Frelsara! Eg óttast ecki daudann, þar hann er mér ákvardadur af mínum dýrmæta Endurlausnara, sem

sjálfur bó til þess ad gjöra mér hann léttan og sáluhjálpligan. Eg kém þessvegna til þín, ó Drottinn! eg kém, ecki adeins med fúsu, heldur og med gladværu hjarta. Eg þacka þér, ad þú sundurbrýtur hlecki minna fjötra, og kallar mig til Gudsbarna dýrdliga frelsis. Eg þacka þér, ad þú ecki vilt lengur líða það, ad eg skuli vera svo lángt frá þínum fadmi; heldur vilt þú, eptir svo lánga fjærveru, hafa mig heim til þín, já, heim til þín eylífliga. Mín veika manns-náttúra fellur rétt í dauda dá vid þá dýrd sem nú uppreunur yfir mér. En þú veist, miskunsami Herra! ráð til ad venja sálu mína til ad afbera slíkt, svo þinn kraptur fullkomnast þá í hennar breiskleika.

Loksins og ad sídustu vil eg þó renna augum mínum til þeirrar vesælu veraldar, sem eg á nú vid ad skilja, og midt í mínum dauda óska henni góds, og bidja fyrir hennar velferd, en þó einkum fyrir þinni kyrkju, sem í þessari veröldu er. Eg hefi, Drottinn minn! sem annar lifandi limur á kyrkjunnar líkama elskad hana, og eg elska hana enn nú, og allt til míns sídasta. Eg bid þig þessvegna audmjúkliga, ad þú virdist ad vernda hana, hreinsa hana, og sameina hennar limi innbyrdis æ meir og meir, og med sjálfum þér! Send þinn verduga heil. Anda, þinn vísdóms og kærleiks Anda, nidur til hennar; inn til þess eydimörkin á sínum tíma verda skal Drottins jurtagardur, og allt hold fá ad sjá Guds hjálpræði. Nú svo flyttu mig þá, minn himneski Fadir! á þínum eylífu kærleiks vængjum, já, flyt þú mig til þess fridarfulla, heilaga og glediliga bústadar, sem miskunsemi þín hefir tilreidt mér, og sem míns Frelsara blód mér afrekad hefir! Flyt þú mig til samkundu og safnadar hinna frumgétnu, til marg-þúsunda heilagra eingla, og til andanna þeirra fullkomliga réttlátu. Og hvad sem þú vilt ad eg framar hér í holdinu lída skuli, þá láttu samt sálu mína stödugliga í voninni halda sér fastri vid þá dýrd, sem hún nú, líka sem med vængjum trúarinnar lyptir sér upp til. Lát mína trú fremja sitt sídasta skylduverk á lofsverdan hátt!

Láttu mig brúka þau síðustu augnablik, sem eg hér á jørðu ólifuð á, til þinnar dýrðar! Lát mig síðan fara til himins upp fullan af kærleikanum í mínu hjarta, vegsamandi þig með minni stamandi túngu; uns eg kém í þá veroldu, hvar kærleiki og lofsaungur kémst á fullkomna troppu! Lát þetta vera minn síðasta saung hér á jørðunni, sem eg nú strax mun taka til að sýngja á himnum: Hønum, sem á stólnum situr og Lambinu, sé lofgjørð, heiður og vegsemd, og dýrð og kraptur, frá eylífð til eylífðar! Amen!

Af því það ypparlíga Engelska Félag til útbreidslu gudligra ritgjørda, hefir lagt mikilvægan styrk til útgáfu þessarar gódu bókar, þá er það vilji útleggjarans: ad andvirdi hennar géti ordid ad rentuberandi sjód fyrir það íslenzka evangeliska Smá-bóka-Félag; svo ad hvørr sá sem bók þessa kaupir, fyrir það besta verd sem møguligt er, skal þá — einsog hann sjálfur andvirdid ætti — uppbera af því rentu árliga, í smáritum, nefnil. 4 rbsk. af hvørju 1 Rkb.dals virdi, sem verdur hérumbil 1 ark prentad; og sá sem svo vel gjørir, ad leggja þar fyrir utan meira edur minna til Félagsins, skal fá sømu rentu, eptir tiltølu, ad tillagi sínu, med løgrentu, og upplagskostnadur heldst vid það sama, sem nú er.

